# HUGVEKJUR

TIL KVÖLDLESTRA,

FRÁ VETURNÓTTUM TIL LANGAFÖSTU,

EPTIR

DR. P. PJETURSSON.

Landsbókasafn

---

ÚTGEFANDI:

EGILL JÓNSSON Í REYKJAVÍK.

1858.

# 1. hugvekja.

## Á síðasta sumardag.

Sálm. 74., 17. „Þú, Drottinn! settir öll takmörk jarðarinnar; sumar og vetur myndaðir þú."

Já, þannig er þessu varið. Sá Guð, sem gaf oss vorið, sumarið og haustið, hefir nú líka flutt oss fram að nýjum vetri, svo alltaf rætist þetta hans orð: „meðan jörðin er við lýði skal hvorki linna sumar nè vetur." Sá sami Guð, sem gaf oss lífið og ól föðurlega önn fyrir oss allt frá móðurlífi, hefir einnig á þessu útlíðanda sumri veitt oss margfalda líkamlega blessun; hann hefir ávaxtað vinnu vora og bjargræðisútvegu, gætt vor og viðhaldið lífi voru fram á þenna dag. Sá sami Guð, sem gaf sinn eingetinn son í dauðann fyrir oss, sem tók oss að sèr eins og ómálga börn, veitti oss inntöku í sitt ríki og gjörði oss að erfíngjum eilífs lífs, hann hefir einnig á þessu útlíðanda sumri veitt oss margfalda andlega blessun; hann hefir gefið oss kost á að heyra sitt sáluhjálplega orð; fyrirgefið oss vorar mörgu syndir, þegar vèr höfum beðið hann af hjarta, og með sínum anda leitazt við að snúa oss til sín, leitazt við að vekja guðrækilegar tilfinníngar og einlæg betrunaráform

í sálum vorum og verja oss hrösun. Æ, Drottinn! hver getur talið allar þær hinar óteljandi velgjörðir, sem þú hefir auðsýnt oss allt fram á þenna dag; hvern morgun, já, hvert augnablik, var þín náð ný og fersk yfir oss, og þetta útlíðanda sumar var, eins og allt vort umliðna líf, vitjunartími þinnar náðar og vottur um þína eilífu miskunsemi. Er það þá ekki tilhlýðilegt, að vèr á þessu síðasta sumarkvöldi verjum fáeinum augnablikum til að lofa Guð og þakka honum? Ættum vèr ekki hver og einn af innsta grunni hjartans að taka undir með Davíð og segja: „lofa þú Drottin, sála mín! og allt hvað í mèr er hans heilaga nafn! Lofa þú Drottin, sála mín! og gleym ekki öllum hans velgjörðum: hans, sem fyrirgefur þèr þína synd og læknar þína veiki, sem leysir líf þitt frá gröfinni og krýnir þig með náð og miskun?" (Sálm. 103., 1.—3.) En um leið og vèr þannig snúum hjörtum vorum til Drottins og sendum vort veika bænarkvak upp í hæðirnar til hans með lofgjörð og þakklæti, um leið og vèr þannig endurminnumst hans ástgjafa og náðarríku velgjörða við oss á þessu sumri, getum vèr ekki hjá því komizt einnig að renna huganum til sjálfra vor og spyrja sjálfa oss, hvernig vèr höfum varið þessum nýja náðartíma og hverja ávexti hann hafi borið oss? Höfum vèr þá, kærir bræður! hver í sinni stètt og stöðu rækilega gegnt vorri tímanlegu köllun á þessu útlíðanda sumri, svo vèr ekki einúngis höfum unnið dyggilega

og kappsamlega það sem oss bar að vinna, heldur og öllu fremur unnið í Guðs ótta, og jafnan beðið hann að vera í verki með oss og blessa vor verk með sinni mildiríku hjálp og aðstoð? Höfum vèr þá líka á þessu útlíðanda sumri rækilega gegnt vorri andlegu köllun og leitazt við að efla vora sáluhjálp með ótta og andvara? Hefir þessi sumartími, sem er svo talsverður hluti vorra fáu hèrvistardaga, gjört oss guðhræddari og betri, eins og hann hefir gjört oss eldri? Hefir hann flutt oss nær himninum eins og hann hefir flutt oss nær gröfinni, nær dauða, eilífð og dómi? Hafa þær velgjörðir, sem vèr höfum þegið af Drottni í andlegum og tímanlegum efnum, gjört oss þakklátari við hann, glætt hjá oss elsku til hans og gjört oss fúsari á að hlýða hans heilögu boðum? Höfum vèr gefið nógan gaum að hans föðurlegu bendíngum og áminníngum? Höfum vèr látið þær aptra oss frá að brjóta hans boðorð; látið þær kenna oss sjálfsafneitun og að stjórna girndum vorum og tilhneigíngum? Eða hefir Guðs gæzka nú eins og fyrri orðið til ónýtis á oss? Höfum vèr varið þessu sumri í áhyggjum og sorgum þessa lífs og látið þær kæfa hjá oss allar andlegar hugsanir, allar góðar og guðrækilegar tilfinníngar? Höfum vèr unnið vor líkamlegu verk án bænar, þegið Guðs velgjörðir í hugsunarleysi og án þakklætis við gjafarann allra góðra hluta? Höfum vèr látið allar hans aðvaranir, bendíngar og

áminníngar eins og vind um eyrun þjóta og iðrunarlaust bætt synd á synd ofan? Höfum vèr burt sóað þessum sumartíma, þessum nýja náðartíma, án þess að hugleiða, hvað til vors friðar heyrir? Hefir hann einúngis aukið vora syndasekt, í stað þess að auðga oss að kristilegum dyggðum; einúngis leitt oss nær gröf og glötun, í stað þess að flytja oss nær himninum og vorum himneska föður? Þú einn, Drottinn! þekkir oss alla bezt; þú skynjar vorar hugrenníngar álengdar; þèr einum er kunnugast vort sanna sálarástand og hvort oss hefir farið fram eður aptur þetta sumar á helgunarinnar vegi. Æ, kenn þú oss einnig, himneski faðir! að þekkja sjálfa oss, því þekkíng á sjálfum oss er skilyrði fyrir því, að vèr getum lagað vora bresti og lagt stund á vora betrun og fullkomnun. Þegar vèr lítum á náttúruna umhverfis oss, sjáum vèr, að fegurð sumarsins er hvorfin, blóm og grös liggja visnuð og fölnuð og frost og kuldi fara í hönd; æ! er þetta sorgleg líkíng vors innra manns? Er vor trú dauð og dofin? Eru trúarinnar ávextir visnir og skrælnaðir í hjörtum vorum? Eru þau köld og kærleikslaus? Eða látum vèr útlit náttúrunnar minna oss, eins og vera ber, á óstöðugleika þessa lífs og dauða sjálfra vor? Látum vèr hið fallna gras og hin fölnuðu blómin minna oss á, að „mannsins dagar eru sem gras, að hann blómgast eins og blómið á vellinum; en þegar vindurinn fer þar yfir, þá er það ei framar

til og þess staður kannast ei framar við það" (Sálm. 103., 15.—16.)? Látum vèr snjóinn minna oss á líkblæju vora, og kulda loptsins á kulda grafarinnar og dauðans? Guð gæfi, að slíkar hugleiðíngar jafnan væru lifandi í sálum vorum, svo vèr ætíð hefðum það hugfast, að vèr höfum hèr engan varanlegan samastað, heldur erum hèr útlendir og vegfarendur, sem erum að keppa til vors rètta föðurlands á himnum; þá mundum vèr ekki festa hjörtun of mjög við þetta fallvalta og hverfula líf; þá mundum vèr ekki einúngis bera umhyggju fyrir voru líkamlega lífi og safna oss vetrarforða fyrir það, heldur öllu fremur leggja stund á að auðga vorn ódauðlega anda að kristilegum dyggðum, og safna oss þeim himnesku fjársjóðum, sem hvorki mölur nè ryð fær grandað; þá mundi trúarlíf vort þróast og vaxa mitt í vetrarhörkunum, elska vor til Guðs og manna verða heitari og innilegri mitt í frostum og kulda hinnar ytri náttúru; þá mundi kristileg von og traust á Guði veita oss sanna sálarrósemi mitt í vetrarstormunum; þá mundi guðsorð vera ljós á vorum vegum og lampi vorra fóta mitt í næturmyrkrum og skammdegi vetrarins; þá mundum vèr, þegar sólargangurinn er sem stytztur, jafnan mæna augum trúar og vonar upp til eilífðarinnar himins, og láta Guðs náðarsól með ylgeislum sínum lífga og verma vor dauðu og köldu hjörtu; já, þá mundi vor innri maður endurnýjast daglega, þó vor ytri maður hrörnaði, og vèr mundum

hafa vora umgengni á himnum. Fyrirgef þú oss, Drottinn! í Jesú nafni allt vanþakklæti vort við þig, allt hirðuleysi vort í að færa oss þínar bendíngar rèttilega í nyt á þessu sumri og allri vorri umliðnu æfi. Ó, Guð! vèr getum ekki annað en viðurkennt vorn óverðugleik og auðmýkt oss fyrir þèr. Þó vèr sèum þín vanþakklát og brotleg börn, dyrfumst vèr enn að biðja þína eilífu föðurgæzku að útskúfa oss ekki frá þínu augliti, heldur líta niður til vor í náð og miskunsemi á þeim vetrartíma, sem nú fer í hönd. Vèr felum oss með lífi og sálu þinni forsjón og föðurlegu handleiðslu á hendur. Blessa þú oss, vor hús og heimili, vor störf og fyrirtæki, af ríkdómi þinnar náðar; en umfram allt efl þú og útbreiddu þitt ríki í vorum hjörtum, svo vèr alltaf tökum meiri og meiri framförum í þínum ótta og elskunni til þín og sèum þínir, hvort sem vèr lifum eða deyjum! svo að sèrhvert nýtt fótmál, er vèr stigum á skeiðfleti lífsins, losi hjörtu vor meir og meir við hègóma heimsins og lypti þeim upp yfir breytíngar tímans í hæðirnar til þín, sem ert eilífur og óumbreytanlegur, þangað til vèr algjörlega leysumst hèðan og fáum að flytja til þín á sælunnar land. Bænheyr oss í Jesú nafni! Amen.

---

# 2. hugvekja.

## Á fyrsta vetrardag.

Sálm. 65., 6. „Þú, Drottinn! ert hæli allra þeirra, sem búa við jarðarinnar enda, eða langt í burtu við hafið."

Á þessu vetrarins fyrsta kvöldi lyptum vèr hjörtum vorum upp í hæðirnar til þín, algóði himneski faðir! til að biðja þig í auðmýkt hjartans um náð og liðveizlu, og fela oss af öllu hjarta þinni föðurlegu vernd á hendur á þessum nýbyrjaða vetri. Margvíslegar eru þær hugsanir og tilfinníngar, sem hreifa sèr í hjörtum vorum á þessari stundu; en eins og yfirstandandi tíminn ætíð myndast af sambandi hins umliðna og ókomna tíma, þannig renna og allar hugsanir og tilfinníngar vorar saman í endurminníngu og von: í endurminníngu hins umliðna og von um hið ókomna. Vèr endurminnumst sumarsins blíðu daga og allrar þeirrar fegurðar og prýði, sem náttúran þá var skrýdd, og þessi endurminníng gjörir útlit hennar, eins og það nú er orðið, dapurt og dauflegt í augum vorum, því blóm sumarsins eru fölnuð og hið fagra skraut náttúrunnar hvorfið; en þó yrði þetta útlit hennar ennþá sorglegra, ef sú von ekki byggi innra hjá oss, að það muni aptur breytast með komanda sumri; ef vèr ekki vissum, að veturinn er hvildartími náttúrunnar, og að hún er nú eins og að safna nýjum kröptum fyrir ókomna tímann. En þessi breytilegleiki hinnar ytri náttúru minnir oss

einnig á náttúru sjálfra vor, að hún er sömu breytíngum undirorpin, og að margir, sem byrjuðu hið næstliðna sumar í blóma lífsins, felast nú eins og visin strá í jarðarinnar skauti. Þess vegna segir spámaðurinn um mannlegt líf: „Allt hold er sem gras og allt þess ágæti sem akurblóm. Grasið visnar, blómið fölnar, þegar andi Drottins blæs á það. Í sannleika, mennirnir eru sem gras. Grasið visnar, blómið fölnar, en orð vors Guðs stendur stöðugt eilíflega" (Es. 40., 6.—8.). Dauflegt og sorglegt væri þetta útlit mannlegs lífs, ef vèr ekki hefðum von eilífs lífs, ef vèr ekki vissum, að einnig fyrir vora náttúru, eins og fyrir hina, sem er umhverfis oss, upp rennur sumar á eptri vetri, líf á eptir dauða; því eins og lífsafl hinnar ytri náttúru ekki deyr útaf á veturna, heldur liggur eins og falið meðan það er að undir búa hinar nýju lífsmyndir, sem það ætlar að fram leiða næstkomanda sumar: þannig slokknar ekki heldur andi vor í dauðanum, heldur fer til Guðs, sem gaf hann, þangað til hann á eilífðarinnar vori aptur sameinast þeim líkama, sem Drottinn mun upp vekja úr duptinu. Þessu er oss heitið í guðsorði, og „orð vors Guðs stendur stöðugt eilíflega." Daufleg og jafnvel fyrirkvíðanleg er án efa tilhugsun þessa harðasta tíma ársins fyrir marga meðbræður vora, sem á umliðnu sumri ekki hafa getað aflað nægilegs vetrarforða handa sèr og sínum, eða eiga við einhver bág kjör að búa; en hve miklu sorglegri

væri þó þessi tilhugsun, ef þeir gætu ekki lypt huga sínum upp til hins eilífa alheims stjórnara, ef þeir mættu ekki vona á hann, treysta honum og varpa allri sinni áhyggju upp á hann. Enginn veit, hvað honum kann að mæta á þessum nýbyrjaða vetri, því alvizka Dottins hefir sèð það hentugast, að hylja fyrir oss ókomna tímann; en þessi óvissa getur ekki valdið neinum þeim kvíða nè órósemi, sem með hrærðu og þakklátu hjarta endurminnist þess, hve dásamlega Guð hefir leitt hann allt til þessa, hve föðurlega Guð hefir álið önn fyrir honum á umliðna tímanum og hve óteljandi velgjörðir hann að undanförnu hefir þegið af Drottni. Vèr vitum,. kærir bræður! að án Guðs tilhlutunar getur ekkert skeð, og að hann, sem fæðir fugla loptsins og klæðir liljugrösin, ber einnig umhyggju fyrir oss mönnunum; vèr vitum, „að allra augu vona til Drottins og að hann seður allar lifandi skepnur með sinni blessun." Æ, þetta vitum vèr að vísu, góði himneski faðir! En endurminníng þinna velgjörða við oss, þinnar miskunar og náðar, vekur líka hjá oss endurminníngu vors vanþakklætis við þig, vorra synda og yfirsjóna. Vèr erum oss þess meðvitandi, að vèr erum minni allri þinni miskun og trúfesti og ómaklegir þinnar náðar; vèr finnum með angri til þess, að vèr höfum verið vanþakklát og brotleg börn, að vèr höfum einatt farið illa með þínar gáfur og daufheyrzt við þínum bendíngum og áminníngum. Að sönnu vitum vèr, að þín al-

mættishönd niður raðar og við heldur öllum hlutum og að þín speki stjórnar þeim; en vèr vitum líka, að þú lætur þína sól upp renna eins yfir rangláta sem rèttláta, og að allir hlutir þèna þeim einum til góðs, sem elska þig. Æ! og það er einmitt þessi tilhugsun, sem á þessari stundu fyllir hjörtu vor kvíða, af því að vèr finnum með sjálfum oss, að vèr elskum þig ekki nógu heitt, en að eigingirnin og heimselskan hafa svo mikið vald yfir hjörtum vorum. Fyrirgef þú oss, himneski faðir! þetta vantraust og þetta kærleiksleysi; hjálpa þú oss til að út rýma öllu því úr hjörtum vorum, sem vill kæfa hjá oss trúna og traustið á þinni eilífu miskunsemi; en gróðursettu oss í þínum kærleika, svo vèr getum elskað þig af öllu hjarta og sett alla vora von til þín; svo vèr getum ókvíðnir tekið hverju því, sem þú lætur oss að höndum bera, og í skjóli þinnar verndar fundið hvíld sálum vorum. Eins og vetrartíminn er hvíldartími náttúrunnar, þannig er hann og að nokkru leyti hvíldartími fyrir menn og skepnur; en þó snertir þessi hvíld einkanlega líkama vorn, sem er sama eðlis og hin ytri náttúra. Þar á mót er vetrartíminn einna bezt lagaður hjá oss til andlegrar vinnu, það er að skilja, til að mennta vorn ódauðlega anda, sem ekki er háður sömu lögum og hin skynlausa náttúra, og taka framförum í nytsamlegum fróðleik og þekkíngu. Notum þá einnig þau tækifæri, sem Drottinn gefur oss á þessum vetri, til að safna

oss andlegum fjársjóðum og auðga sálir vorar að öllu því, sem gott er! Hin líkamlega vinna getur orðið þreytandi fyrir menn og skepnur, og sum andleg áreynsla þreytir líka sálarkrapta vora; en það er ein vinna til, sem aldrei þreytir, og það er vort helgunarverk; þetta verk er ólíkt öllum öðrum verkum í því, að því kappsamlegar sem vèr vinnum það, því meir styrkjast vorir siðferðislegu kraptar; því meir sem oss verður ágengt í því, því lèttara veitir oss að sigra sèrhverja freistíngu; því optar sem vèr biðjum Guð, því lèttara og inndælla þykir oss að biðja; því optar sem vèr látum á móti girndum vorum, því hægra veitir oss að stjórna þeim; því optar sem vèr hugsum um Guð, hans hátign, hans óendanlegu fullkomlegleika og hans náðarríku handleiðslu á oss, því dýpri og innilegri verður lotníng vor fyrir honum og því lèttara fellur oss að elska hann. Þetta verk eigum vèr vissulega sífelt að vinna bæði sumar og vetur; en þó er enginn tími betur lagaður en veturinn til guðrækilegra hugleiðínga, því þá höfum vèr bezt næði til þess, og þá er það fæst, sem glepur fyrir. Látum þá, kærir bræður! endurminníng umliðna tímans vekja þær tilfinníngar hjá oss og innræta oss það hugarfar, að vèr ókvíðnir getum rennt augunum til ókomna tímans og af öllu hjarta falið oss Guðs miskun á hendur. Látum endurminníngu Guðs náðarríku velgjörða við oss á liðnu sumri og alla æfi vora vekja hjá oss auðmjúkt þakklæti við hann og inni-

lega elsku til hans; látum endurminníngu vorra synda vekja hjá oss hjartanlega iðrun og helg betrunaráform; látum endurminníngu sumarsins fegurðar minna oss á að lypta hjörtunum upp til hans, sem klæðir blómin og liljugrösin, minna oss á að skoða hans dýrð í vetrarins hátign; látum sjón ens alstirnda himins minna oss á, að himininn er vort rètta föðurland, að vèr eigum að keppa þangað, og að vèr þar um alla eilífð munum verða alsælir af skoðun Guðs óendanlegu dýrðar og dásemdarverka! En þig biðjum vèr, mildiríki himneski faðir! haltu þinni verndarhendi yfir oss þenna vetur og alla ókomna æfi vora; láttu þitt sannleiksorð búa ríkulega meðal vor, í húsum vorum og hjörtum, og bera hjá oss ávöxt til eilífs lífs; láttu oss taka hverju því, sem þú lætur oss að höndum bera, með undirgefni undir þinn blessaða vilja; og þóknist þèr, eilífi faðir! að kalla oss hèðan á þessum vetri, æ, gefðu oss þá sáluhjálplegan dauða og flyttu oss í þínum friðarfaðmi á hið eilífa landið, þar sem engin tímans breytíng framar er til: í þitt himneska dýrðarríki, þar sem allt er friður og fögnuður í þínum anda! Láttu oss, Drottinn! nú og ætíð reyna, að þú ert vort skjól og skjöldur, vort hæli og einkaathvarf; að „þú ert hæli allra þeirra, sem búa við jarðarinnar enda, eða langt í burtu við hafið;" já, að þín miskunsemi nær frá einu heimsskauti til annars og varir frá eilífð til eilífðar. Bænheyr oss í Jesú nafni! Amen.

---

# 3. hugvekja.

Sálm. 22., 11. „Til þín var mèr varpað frá móðurkviði. Þú ert minn Guð frá móðurlífi."

Sèrhver dagur, sem vèr lifum, er nýr vottur um Guðs náð og miskunsemi, og því ættum vèr aldrei að láta svo nokkurn dag hjá líða, að vèr ekki lyptum hjörtum vorum upp til Drottins og endurminnumst hans gæzku með auðmjúkasta þakklæti. Og þegar vèr nú á þessari kvöldstundu rennum huganum yfir vora liðnu æfi og hugsum til þess, hvernig Guð hefir leitt oss fram á þenna dag, megum vèr þá ekki undirtaka með Davíð og segja: „Til þín var mèr varpað frá móðurkviði. Þú ert minn Guð frá móðurlífi", og munu þá ekki tilfinníngar vorar brjótast út með þessum eða þvílíkum orðum: meðan eg enn var ómálga barn og gat sjálfur enga björg mèr veitt, þá ólst þú, Drottinn! önn fyrir mèr. Þín föðurlega forsjón, sem vakir yfir öllum lifandi skepnum, sem fæðir fugla himinsins og klæðir liljugrös akursins, náði einnig til mín, og bjó mèr næríngu við brjóst móður minnar og viðkvæma elsku í hjörtum foreldra minna. „En faðir minn og móðir mín yfirgáfu mig, en Drottinn annaðist mig" (Sálm. 27., 10.). Þú, sem sagðir: „leyfið smábörnunum til mín að koma og bannið þeim það ekki, því að þvílikum heyrir guðsríki til", þú gjörðir mig einnig hluttakandi í þinni heilögu skírn.

þá vissi eg ekkert af því og skildi það ekki; en nú sè eg, að þín eilífa föðurgæzka, sem ætlaði líkama mínum næríngu, svo hann gæti fengið vöxt og viðgang, ól einnig önn fyrir mínum andlegu þörfum og leiddi mig snemma að endurfæðíngarinnar laug, svo að orð þinnar blessunnar yrðu lesin yfir mèr og eg fengi inntöku í þitt ríki. Þú gafst mèr náð til þess að fæðast í kristilegri kirkju og fá kristilega uppfræðíngu. Þú lèzt ljós þinna sannleiksorða upp renna í sálu minni, svo eg lærði að þekkja þig einn sannan Guð og þann sem þú sendir Jesúm Krist. Ó! hve aumur væri eg, ef eg ekki þekkti þig og frelsara minn, ef eg ekki gæti sent mitt bænarkvak upp í hæðirnar til þín; æ! þá væri eg án hjálpar og huggunar í lífi og dauða. En sæll er eg, að eg þekki hann, af hverjum allt faðerni nefnist á himni og jörðu: lífsins eilífa höfund, einn sannan Guð, sem ekki er einúngis almáttugur og rèttlátur, heldur einnig faðir allrar miskunar; sæll er eg, að eg veit, að þó Guð í sinni eilífu dýrð búi í því ljósi, sem enginn fær til komizt, þá hefir hann þó opinberað sjálfan sig í Jesú Kristi, sem er ljómi hans dýrðar og ímynd hans veru, en sem varð mönnunum líkur og bjó meðal vor; sæll er eg, að eg veit, að Guð hefir í Kristi friðþægt heiminn við sjálfan sig, og að eg get flúið að Jesú krossi og fengið þar fyrirgefníngu synda minna og hugsvölun í sèrhverri sorg og mæðu. O! hversu opt hefir það ekki huggað mig, að eg treysti því,

að þú, himneski faðir! ert ekki fjarlægur neinum af oss, að þitt alltsjáanda föðurauga vakir yfir þínum börnum og gætir þeirra í sèrhverri neyð; og hversu opt hefir þú ekki hjálpað mèr í hættunum og hrifið mig úr dauðans kverkum, já, á sèrhverju augnabliki míns umliðna lífs haldið þinni verndarhendi yfir mèr. Æ! og þegar líf mitt og sál ætlaði að vanmegnast, þegar mitt andlega líf ætlaði að slokkna í solli veraldarinnar, þegar mín trúarsjón dapraðist og hjarta mitt ætlaði að verða kalt og kærleikslaust, þá leiddir þú mig inn að þínu náðarborði, svo eg kæmist aptur í samfèlag við þig og frelsara minn, og eg fann, hvernig ylgeislar þinnar náðar streymdu um sálu mína, hvernig þeir aptur lífguðu trúna og tendruðu kærleikann í hjarta mínu; eg fann, hvernig huggun og friður streymdu til mín úr hjarta lausnara míns, svo eg styrktur og endurnærður snèri aptur í baráttu lífsins. Hversu opt hefir þú ekki gefið mèr náð til þess, af heyrn og lestri þinna sáluhjálplegu orða „að styrkjast í mínum innra manni fyrir þinn anda" (Efes. 3., 16.), og vissulega hafði eg þessa þörf. Þegar eg gætti að óstöðugleika þessa lífs og allra stundlegra hluta, þegar eg sá, hvernig allt hið tímanlega byltist og breytist, hvernig allar lifandi skepnur eptir fáein augnablik aptur hníga í dauðans faðm og verða herfang rotnunarinnar og dauðans: æ, þá var eg einatt eins og reir af vindi skekinn og lèt mèr feykja af hverjum kenníngar þyt, þá tók

eg til að fálma í vantrúarinnar og efasemdanna myrkrum; en þú, Drottinn! kveiktir ljós í myrkrinu og upplýstir mig með ljósi þinna sannleiksorða, svo að eilífðarinnar morgunroði rann upp aptur í sálu minni, og eg sá ódauðleikans sól aptur skína í grafarinnar myrkrum, og faðmaði frelsara minn enn fastar og innilegar og treysti því, að hann er upprisan og lífið, og að hver, sem á hann trúir, muni ekki fyrirfarast, heldur hafa eilíft líf. Æ! dásamlega hefir þú leitt mig, Drottinn! á umliðinni æfi, og þó þekki eg ekki alla þá umhyggju, sem þú hefir borið fyrir mèr, allar þær hættur andlegar og líkamlegar, sem þú hefir frelsað mig úr, allar þær syndir, sem þín náð hefir fyrirgefið mèr, allar þær bendíngar, sem þú hefir gefið mér. Lof og dýrð sè þèr fyrir það allt, fyrir alla þína föðurlegu handleiðslu á mèr. En þegar eg nú aptur hugleiði, hvernig eg hefi hagnýtt mèr þína náð, fært mèr þínar bendíngar í nyt og þakkað þínar velgjörðir: æ! hversu má eg þá ekki blygðast mín og játa, að eg er minni allri þinni miskun og trúfesti; hversu má eg þá ekki með angri viðurkenna, að eg hefi verið vanþakklátt barn við svo góðan og gæzkuríkan föður. Hversu opt hefi eg ekki þegið þínar velgjörðir í hugsunarleysi og vanbrúkað þínar gáfur mèr til syndar; hversu opt hefi eg ekki möglað yfir þinni handleiðslu, þegar hún var öðruvísi en hold og blóð girntist; hversu opt hefi eg ekki gleymt þèr og frelsara mínum í syndasolli veraldarinnar;

hversu opt hefi eg ekki daufheyrzt við þínum áminningum og látið þær eins og vind um eyrun þjóta. Hversu opt hefi eg ekki með hugsunum, orðum og verkum afneitað frelsara mínum, og þegar hann þá leit til mín með sínu himneska augnatilliti, eins og forðum til Pèturs lærisveins síns: æ! hve tregur var eg þá ekki til að ganga út og gráta beisklega, tregur til að afneita sjálfum mèr og krossfesta holdið með þess girndum og tilhneigíngum. Eins og sèrhvert augnablik míns lífs er vottur um þína eilífu náð og miskunsemi, eins er það líka vottur um mitt vanþakklæti og mína syndasekt. En mig iðrar nú alls þess af hjarta, sem eg hefi brotið á móti þèr, og bið þig, himneski faðir! að fyrirgefa mèr það allt í Jesú nafni, en gefa mèr krapta til þess eptirleiðis að lifa í þínum ótta þær stundir, sem eg á eptir ólifaðar, hvort sem þær verða margar eða fáar, svo að hvorki hið nálæga nè hið ókomna, hvorki líf nè dauði, geti skilið mig við þig. Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

---

# 4. hugvekja.

Sálm. 25., 16. „Snú þínu augliti til mín, Drottinn! og vertu mèr náðugur, því eg er yfirgefinn og aumur."

Aldrei getum vèr nógsamlega hugleitt nauðsyn og nytsemi bænarinnar, kærir bræður! því

hún er bæði sú æðsta skylda og sú bezta huggunaruppspretta mannsins. Heimurinn, sem vèr lifum í, er fullur af freistíngum. Sèrhver staða, sem vèr erum í, já, allir hlutir umhverfis oss sýnast vera samtaka spillíngu náttúru vorrar í því, að freista vor og leiða oss afvega: auðurinn skemmir oss, örbyrgðin freistar til óánægju, meðlætið til ofmetnaðar, mótlætið til möglunar, vinnan til áhyggju, hvíldin til munaðarlífis; lærdómurinn til stærilætis, fáfræðin til alls konar villu; heilbrigðin æsir girndir vorar, vanheilsan vekur hjá oss óþreyju og leiðindi; og í stuttu máli: oss er búin hrösun og hætta af öllum hlutum, bæði fyrir utan oss og innra hjá sjálfum oss. Hvaða hjálparvon hefði þá maðurinn, Guð minn góður! ef hann ekki gæti úr þessu sínu eymdadjúpi sent bænarandvörp upp að hásæti þinnar miskunar, og beðið þig að koma sèr til hjálpar, beðið þig að styrkja sig til að temja sínar óstýrilátu girndir, senda sèr ljós í myrkrum villunnar, styðja sig í veikleikanum, gefa sèr krapta í freistíngunum og reisa sig fallinn á fætur aptur? Hvað mun þá valda því, kristnir menn! að menn almennt eru svo skeytíngarlausir um þessa mikilvægu og huggunarfullu skyldu? Yfir höfuð að tala veldur spillíng vor því, að vèr erum svo tregir til bænarinnar; vèr hugsum svo mikið um heiminn og vor veraldlegu störf, að vèr gefum oss ekki tómstund til að hugsa til Guðs. Þess vegna heyrum vèr líka opt þá viðbáru, að menn hafi ekki tíma til andlegra

hugleiðínga og kunni ekki heldur að biðja. En auk þess sem slíkar viðbárur lýsa spillíngu vorri, eru þær líka vottur um það, að menn þekkja ekki rètt bænarinnar eðli. Bænin er ekki innifalin í háfleygum hugsunum nè djúpsærri ígrundun guðlegra leyndardóma, heldur er hún innifalin í andaktarfullri hræríngu hjartans. Hún er andvarp þeirrar sálar, sem kemst innilega við af sinni syndaeymd; hún er lifandi tilfinníng þarfar vorrar og veikleika vors, hún er auðmjúkt trúartraust, sem hjartað vottar Drottni sínum til að fá hjá honum líkn og lækníng. Sá sem biður Guð þarf ekki að hafa meiri menntun og fróðleik til að bera en aðrir menn, heldur einúngis trú og löngun eptir að losast við freistíngar og eymdir sínar. Bænin er engin íþrótt eða vísindagrein, sem menn þurfi að læra af öðrum mönnum til að geta beðið eptir vissum reglum. Reglur fyrir bæninni hefir Drottinn sjálfur ritað í vor hjörtu. Trúuð sál, sem er gagntekin af íhugun Guðs hátignar og hrygg af syndasekt sinni, sem ekki getur annað en auðmýkt sig í hans heilögu nálægð, í einfaldleik hjartans viðurkennt Drottins óendanlegu gæzku og náðarríku velgjörðir, gefið sig á vald hans föðurlega vilja og mildiríku handleiðslu, tekið í auðmýkt hverju því, sem hans speki lætur að höndum bera, sem ekki þekkir aðra háleitari bæn, en að mæta frammi fyrir Guði, auðmjúk og sundurkramin af tilfinníngu síns eigin óverðugleika, andvarpa yfir harðúð hjarta síns, og biðja hann

í lifandi trú að snúa sèr og skapa í sèr hreint hjarta og gefa sèr stöðuglyndi í hinu góða. Sú sál, sem þannig er ásigkomin, kann langtum betur að biðja en vitríngar þessa heims. Hún talar við Guð, eins og vinur við vin, eða barn við bezta föður; hún angrast af því, að hafa móðgað hann og brotið á móti honum; hún ásakar sig fyrir þann vanmátt, sem hún enn finnur hjá sèr í því, að geta ekki látið allt á móti sèr til að þóknast honum; hún klæðir ekki bæn sína í mælskubúníng, heldur lætur hún hjarta sitt tala og ofurselur sig kærleika sínum til Drottins, sem hún elskar umfram allt; hún heitir því af hjarta, að reynast honum trú til dauðans, en blygðast sín fyrir hviklyndi sitt og breyskleika sinn og leitar hjá honum fyrirgefníngar og nýrra krapta. Sjáið, kærir bræður! í þessu er bænarinnar eðli innifalið, og því þarf ekki neinn sèrlegan lærdóm eða menntun til að geta beðið Guð. Bænin er ekki sèrstakleg gjöf, sem einúngis sè ætluð einstökum mönnum, heldur er það skylda allra trúaðra að biðja Guð; bænin er nauðsynleg fyrir alla, eins þá fullkomnari sem hina ófullkomnari, eins hina margfróðu og hina fáfróðu, eins fyrir volduga sem vesala, ríka sem fátæka. það er sá æðsti fullkomlegleiki skapaðra skepna, að geta beðið Guð. Allt sem lífsanda dregur, allar skepnur, sem hafa eitthvert hjarta og geta elskað skapara sinn, allar skynsemigæddar verur, sem geta þekkt vanmátt skepnunnar og hátign skaparans,

eiga að tilbiðja hann, þakka honum og flýja til hans, ákalla hann, auðmýkja sig fyrir honum, láta honum sína þörf í ljósi og biðja hann um náð og miskunsemi. Þegar lærisveinarnir beiddu frelsara vorn að kenna sèr að biðja (Lúk. 11., 1.), þá gjörði hann það ekki með því, að auglýsa þeim hæð og dýpt Guðs leyndardóma, heldur með því, að kenna þeim drottinlega bæn, sem er eins einföld og auðskilin, eins og hún er guðdómleg og óviðjafnanleg; hann kenndi þeim, að til þess að biðja Guð þyrfti einúngis að skoða hann sem gæzkuríkan föður, nálgast hann með lotníngarfullri og innilegri auðmýkt, með lotníngar- og kærleiksfullu trúnaðartrausti, tala við hann barnamáli hjartans um breyskleika vorn og eymdir vorar; segja honum frá allri vorri þörf og leita hjá honum hjálpar og aðstoðar; óska þess, að allir menn fengju náð til að geta tilbeðið hann og blessað hans heilaga nafn; biðja þess, að hans ríki mætti eflast og útbreiðast í hjörtum allra manna, að himin og jörð mættu beygja sig undir hans heilaga vilja; að allir syndarar mættu snúa sèr til hans og komast á sáluhjálparinnar veg; að hann fyrirgefi oss vorar skuldir; gæti vor fyrir freistíngunum, og frelsi oss frá öllu illu. Til að geta beðið þannig, þarf ekki annað en finna til þarfar sinnar, og biðja þess, að úr henni verði bætt. Sá, sem því afsakar bænarleysi sitt með vankunnáttu, lýsir því, að hann finnur ekki til sinnar andlegu þarfar. Eða þarf að kenna hinum veika

að leita sèr lækníngar, hinum húngraða að biðja um fæðu, hinum þyrsta að biðja um svaladrykk, eða þeim, sem staddur er í lífshættu, að beiðast hjálpar? Leggur ekki þörfin hinum nauðstadda mál í munn? Æ, kærir bræður! ef vèr fyndum eins til vorrar andlegu eymdar, eins og til hinnar líkamlegu nauðþurftar, ef oss væri eins umhugað um vora eilífu farsæld, eins og um vora tímanlegu velferð: þá værum vèr betur lagaðir til að biðja Guð, þá þyrfti ekki að kenna oss að úthella hjarta voru fyrir honum, þá mundum vèr sjá, að vèr ætíð höfum nóg bænarefni. Já, þó ekki væri annað, þá höfum vèr ætíð orsök til að biðja eins og Davíð: „snú þínu augliti til mín, Drottinn! og vertu mèr náðugur; því eg er yfirgefinn og aumur." Daglega syndgum vèr og daglega þurfum vèr að biðja Guð um fyrirgefníngu vorra synda. Æ! ef vèr elskuðum Guð, þá kynnum vèr líka að biðja og þá værum vèr fúsari á að biðja hann; þá mundum vèr á hverju kvöldi, hverjum morgni og hverri stundu, lypta hjörtunum upp til hans og biðja hann að auðsýna oss náð og miskunsemi í Jesú nafni. Amen.

---

# 5. hugvekja.

Lúk. 13., 6.—9. Jesús sagði: „Maður nokkur, sem hafði plantað fíkjutrè í víngarði sínum, kom og leitaði ávaxta á því og fann ekki; þá sagði hann við víngarðsmanninn: Í þrjú ár hefi eg komið og leitað ávaxta á þessu fíkjutrè og ekki fundið; högg þú það upp; hvers vegna skal það spilla jörðinni? Hinn mælti: leyf þú því, herra! enn nú að standa þetta árið, þar til eg hefi grafið um það og borið að myki, ef vera kynni, að það beri ávöxt; en ef ekki, þá lát þú höggva það upp síðar."

Merkileg og þýðíngarmikil er þessi dæmisaga fyrir oss, kærir bræður! Vèr erum þau fíkjutrè, sem Guð hefir plantað í sínum náðarakri; víngarðsmaðurinn er frelsari vor, sem biður sinn himneska föður fyrir oss, að vèr enn megum standa nokkra stund óupprættir, ef vera kynni, að vèr bærum ávöxt. En þessi ávöxtur, sem Drottinn ætlast til að vèr berum, er sönn guðsþekkíng, sameinuð guðrækilegu hugarfari og helgun lífernisins. Guð hefir gefið oss, kristnum mönnum, kost á að þekkja ljóssins og sannleikans helgidóm; frá blautu barnsbeini erum vèr uppfræddir um hans ráð og vilja til vorrar sáluhjálpar, og hann hefir gefið oss sitt sáluhjálplega orð til þess, að það væri ljós á vorum vegum og lampi vorra fóta, svo vèr ekki skulum villast eða steyta fót vorn við steini á þessari vorri jarðnesku vegferð. En þekkíngin á guðsorði er ekki einhlít til þess að geta borið ávöxt til eilífs lífs; þekkíngarinnar trè verður að gróðursetjast í tilfinn-

íngauna gljúpa jarðvegi; þekkíngin verður að lífgast og vermast af guðrækilegum tilfinníngum. Prófum og rannsökum sjálfa oss, ekki eptir þeirri þekkíngu, sem gjörir mann stærilátan, heldur eptir þeim kærleika, sem betrar. Þú hefir heyrt, kristinn maður! að Guð er alskyggn og alstaðar nálægur, og þú ber, ef til vill, betra skynbragð en margur annar á þessa Guðs eiginlegleika; en finnur þú líka til nálægðar hans í hjarta þínu, verður þú var við hana í dagfari þínu og öllum þínum viðskiptum við aðra menn, í kirkjunni og heimahúsum, á kvöldin, þegar þú leggst til hvíldar, á morgnana, þegar þú rís á fætur, í öllu, sem þèr ber að höndum, í meðlæti og mótlæti? Vakir þessi hugsun hjá þèr á freistínganna tímum: Drottinn sèr til mín, hví skyldi eg gjöra slíka óhæfu og syndga á móti Guði? Þú hefir heyrt, að Jesús hefir liðið og dáið fyrir þínar og allrar veraldarinnar syndir, og þú þekkir, ef til vill, friðþægíngarlærdóminn betur en margur annar; en er þá hjarta þitt gagntekið af þakklæti við frelsara þinn, af innilegri löngun eptir að gjöra þig hæfilegan fyrir hans náðar velgjörðir og af kostgæfilegri viðleitni á að láta það sama hugarfar vera í þèr, sem var í Jesú Kristi? Þú hefir lært, að Guðs forsjón vakir yfir þèr, að hans verndarhönd leiðir þig frá vöggunni til grafarinnar, og að frá honum kemur öll góð og fullkomin gjöf; en hefir nú þessi þekkíng vakið hjá þèr elsku til hans, trúnaðartraust og undirgefni undir hans vilja?

Hefir hún gjört þig þakklátari í meðlætinu og þolinmóðari í mótlætinu? Þú þekkir lærdóminn um eilíft líf og þá himnesku fjársjóði, sem hvorki mölur nè ryð fær grandað. En ert þú þá ekki lengur holdlega og veraldlega sinnaður maður, sem lifir og hrærist einúngis í þessum tímanlegu og hverfulu hlutum, sem treystir „fallvöltum auði", en hirðir ekki um að safna þèr fjársjóði góðra verka, sem fylgja oss til eilífs lífs! Eptir þessu eigum vèr að meta þekkingu vora, hún á að vekja oss og styrkja oss í hinu góða; en því þýngri verður ábyrgðarhluti vor, ef vèr fyrir Guðs náð höfum fengið ljós þekkíngarinnar í andlegum efnum, en látum ekki þetta ljós verma vor hjörtu, nè gjöra oss skylduræknari og fúsari á að hlýða Guðs vilja. Af þeim, sem mikið er lánað, verður mikið heimtað, og hafi þekkíng vor ekki betrandi áhrif á vor hjörtu, þá er hún eins og fíkjutrèð, sem Jesús talar um: kjarnalaus og ófrjófsöm. Sönn guðsþekkíng, samfara guðrækilegu hugarfari, verður að lýsa sèr í helgun lifernisins. En æ, Drottinn minn! ef þú nú krefðir oss til reikníngskapar og spyrðir: hvar er ávöxturinn af yðar þekkingu, af yðar góðu hugarhræríngum og yðar guðræknisiðkunum? Hverju mundum vèr þá geta svarað? Mundum vèr ekki mega játa með blygðun, að vèr erum ófrjófsöm trè í Guðs náðarakri; að vor betrunaráform eru lítið annað en visin blöð og skrælnaðar greinar; að vèr erum næsta hviklyndir og óstöðugir í hinu góða; að vèr aðra

stundina hrösum, en hina stundina hryggjumst af hrösun vorri, svo að líf vort verður eins og reyr af vindi skekinn og á sífeldu reyki milli hrösunar og hryggðar? Mun þetta vera ávöxtur til eilífs lífs? Er Jesú lærdómur veikleikans og vanmáttarins kenníng? Býður hann oss ekki að endurnýjast í anda vors hugskots? Og hefir ekki sjálfur Jesús sagt, að enginn nema sá, sem fæðist að nýju, fái að sjá guðsríki? En fæðíngin er stríð milli lífs og dauða, og til stríðs og baráttu kallar kristindómurinn oss, til stríðs og baráttu fyrst og fremst við vort veika og óstöðuga hjarta, sem er vor hættulegasti óvinur, því þaðan spretta þær hinar syndsamlegu girndir, sem hrjá oss og hrekja, og þar felst orsökin til þeirrar sundurþykktar hjá sjálfum oss, að vèr þrátt fyrir samvizkunnar ásakanir höldum áfram í syndunum. Enn fremur kallar kristindómurinn oss til stríðs og baráttu við spillíngu heimsins, sem vill tæla og lokka oss út á glötunarinnar veg; hann kallar oss til að berjast hinni góðu baráttu trúarinnar, „sem yfirvinnur heiminn", sem kennir oss, að afneita sjálfum oss og fylgja Jesú; sem með þakklátu og kærleiksfullu hjarta umfaðmar Jesú friðþægjandi náð, og leitast af alefli við að reynast honum trúr til dauðans. Ef vèr því viljum bera ávöxt til eilífs lífs, þá förum til Jesú og fylgjum honum; leitum hjá honum að því þekkíngar ljósi, sem vermir vor hjörtu; að þeim guðrækilegu hugarhræríngum, sem lífga og glæða vor betrunaráform; að þeirri stað-

festu og alvörugefni í vorum góðu áformum, sem veitir oss krapta til að sigrast á freistíngunum og sýna sjálfsafneitun. Æ, þú vor himneski frelsari og árnaðarmaður, herra Jesús Kristur! bið þú þinn föður fyrir oss, að hann vegna þinnar friðþægíngar vili náðarsamlega fyrirgefa oss allar vorar syndir og ávirðíngar, að hann enn vili lofa oss að standa nokkra stund óupprættum í sínum náðarakri, svo vèr getum borið ávöxt til eilífs lífs. Æ, taktu þèr bústað í vorum hjörtum, svo vèr getum orðið þèr sameinaðir, svo vèr verðum lifandi greinar á þèr, sem ert hinn sanni vínviður, og berum mikinn ávöxt. Sendu ylgeisla þinnar náðar í vor köldu hjörtu, svo þau verði brennandi í elskunni til þín; vökva þú og mýktu með þínum náðarstraumum vor hörðu og hrjóstrugu hjörtu, svo þar geti sprottið kristilegar dyggðir og vèr orðið sannarleg guðsbörn fyrir trúna á þig! Amen.

---

# 6. hugvekja.

Jóh. 9., 4. „Mèr ber að vinna verk þess, er mig sendi, meðan dagur er; nóttin kemur, þá er enginn getur unnið."

Þannig talaði vor guðdómlegi frelsari, og hann varði öllu sínu lífi til að útbreiða dýrð síns himneska föður og til að afreka oss mönnunum eilífa sáluhjálp; hann stóð árla upp dag hvern og gekk afsíðis til að biðjast fyrir; allan

daginn gekk hann um kríng, gjörði gott og hjálpaði öllum, sem hans leituðu, og marga nótt var hann á bænum til síns himneska föður. Þannig talaði hann, og hans tal var ætíð lifandi og guðdómleg starfsemi, eins og líka allt hans líf var heilagt og guðdómlegt orð. Aldrei hefir neinn talað eins og hann í orði og verki, og þó orð hans og verk sýndust bundin við liðugan þriggja ára tíma, í litlu og lítt þekktu landi, voru þau þó ekki bundin við stund nè stað, af því þau voru eilíf og guðdómleg, og „hljómur þeirra er út genginn til endimarka heimsbyggðarinnar" (Róm. 10., 18.), og kraptur þeirra er sílifandi eina öld eptir aðra og blessun þeirra varir um aldir alda. Það verk, sem Jesús vann, að friðþægja mennina við Guð, að sameina himin og jörð, tíma og eilífð, er það háleitasta og dýrðlegasta verk, sem mannlegur andi getur hugsað sèr, og það hugguuarfyllsta verk fyrir mannlegar sálir, og um það sagði Jesús sjálfur: „Mèr ber að vinna verk þess, er mig sendi, meðan dagur er; nóttin kemur, þá er enginn getur unnið". „Meðan dagur er", segir Jesús, og meinar með því þetta jarðneska líf; „nóttin kemur", segir hann, og meinar með því endi lífsins í dauðanum. Fagrar og lærdómsríkar eru þessar samlíkingar frelsara vors. Lífi voru samlíkir hann við dag; fljótt líður dagurinn; stutt er bilið frá morgni til kvölds, og þegar miður dagur er liðinn, þá fer sólin að lækka á lopti unz hún gengur undir. Þannig er og mannlegu lífi varið. Þó

þeim kunni að finnast tíminn líða seint, sem annaðhvort standa iðjulausir og ekkert þarflegt taka sèr fyrir hendur, eða eru þjáðir af einhverjum krossburði, þá er þó sú almenna umkvörtun um tímans hröðu rás byggð á góðum rökum og hefir lærdómsríkan sannleika að geyma. Mannlegt líf líður skjótt og vèr erum á flugi. Fljótt líða draumar barnæskunnar, glaðværð æskumannsins, störf fullorðinsáranna og hin hrumu elliár; og eins og enginn tími dagsins snýr aptur þegar hann er liðinn, eins verður enginn aldur lífsins aptur kallaður. Sú stund, sem liðin er, fæst aldrei aptur, og vèr getum ekki lifað eitt augnablik af því upp aptur, sem vèr erum búnir að lifa, hversu fegnir sem vèr vildum það; og eins og hver dagur hefir sína þjáníng og sína gleði, sína vinnu og sína hvíld og er sínum breytíngum undirorpinn, eins hefir mannlegt líf þetta allt til að bera. Dagurinn kallar oss með birtu sinni til erfiðis og áreynslu, og eins ætti maðurinn að verja lífi sínu til að vinna Guðs verk, sem hefir sent hann og lætur sitt náðarljós lýsa honum; maðurinn ætti jafnan að hafa það hugfast, að nóttin kemur, þá enginn fær erfiðað. En, því miður, hugsa margir um allt annað, já, þeir hugsa, að lífið sè ekki innifalið í öðru en að eta og drekka og eiga góða daga, og að sá lifi vel, sem gjörir þetta. Ó! hversu ólíkt er líferni þessara manna eptirdæmi vors heilaga frelsara, sem áleit það sinn mat og drykk að gjöra vilja síns himneska föður, og varði

sèrhverju augnabliki lífsins til að útbreiða hans dýrð og efla vora farsæld. Eptir honum eigum vèr að breyta, kærir bræður! Guð hefir einnig sent oss til að vinna sitt verk hèr á jörðunni, og það er enginn af oss svo aumur, að hann hafi ekki þegið sitt pund af Drottni, sem hann á að verja eptir gjafarans tilgangi. Þú hefir fengið útmældan lífstíma, kristinn maður! og ert settur í einhverja lífsstöðu, þú hefir fengið líkama og sálar krapta. Hvernig hagnýtir þú þèr nú þessar gjafir? Gegnir þú skyldum þinnar köllunar með árvekni og samvizkusemi? Ver þú líkamakröptum þínum til að vinna eitthvað þarflegt? Leitast þú í guðsótta við að afla þèr og þínum lífsuppeldis, svo þú sèrt ekki öðrum til þýngsla, heldur getir hjálpað nauðstöddum náúnga þínum? Ver þú sálargáfum þínum til að auðga anda þinn að nytsamlegri þekkíngu, til að leita þèr uppfræðíngar í guðsorði? Ver þú þeim til að stríða við þínar syndsamlegu girndir og taka framförum í helgun lífernisins? Og leitar þú til þessa liðs og krapta hjá Drottni? Hefir þú yndi af því, að út hella hjarta þínu fyrir honum í bæninni og hafa umgengni þína á himnum? Og í stuttu máli: leitast þú við að efla þína sáluhjálp með ótta og andvara? Þetta er það verk, sem þinn himneski faðir fèkk þèr að vinna, þegar hann setti þig í þenna reynslunnar skóla. Þetta er þitt dagsverk, og það er mjög áríðanda fyrir þig að leysa það vel af hendi, því þar undir eru kjör þín í eilífðinni komin.

Hvernig þú nú vinnur þitt ætlunarverk, hvort það er með trúmennsku eða með tregðu og tómlæti, það veit enginn til hlítar nema Guð og samvizka þín, ef hún ekki sefur; en sá tími kemur, að það verður allt í ljós leitt, sem nú er í myrkrunum hulið. En beri samvizkan þèr á brýn, að þú sèrt tómlátur og hirðulaus í þínu helgunarverki, æ! þá snú þú þèr til hans, sem í veikum er máttugur, og bið þú hann að verka í þèr viljann og framkvæmdina; bið þú hann að gefa þèr löngun til hins góða og innræta hjá þèr viðbjóð við syndinni; bið þú hann að styrkja þína veiku krapta, svo þú fáir þrek og djörfúng og framkvæmdarsaman vilja til að vinna það verk, sem hann hefir þèr fyrir sett. Hugsaðu ávalt til þess, „að þèr ber að vinna verk þess, er þig sendi, og að nóttin kemur, þá er enginn fær unnið". Höfum þessi guðdómlegu áminníngarorð jafnan hugföst, kærir bræður! Látum oss sífellt muna til þess, að þetta líf er stutt og stopult, að það hleypur með hraðri rás og hrífur af oss hvaðeina, sem vèr hugsum, tölum eða gjörum; að það flytur oss á hverju augnabliki nær dauðanum og eilífðinni, og er á enda þegar minnst vonum varir. En þegar dauðans nótt upp rennur, þá getum vèr ekki lengur unnið, hvorki Drottins verk, nè myrkranna verk; þá er sá tími liðinn, sem Guð gaf oss til undirbúníngs undir eilífðina. Ó! hversu hræðilegt er það ekki, að deyja með þeirri særandi meðvitund, að hafa sóað æfideginum burt í syndum, en

ekki skeytt um að vinna Drottins verk; að renna augunum yfir hinn liðna dag og verða þar ekki var við neitt, sem hefir gildi í guðsríki. Ó! hversu hræðilegt mun verða til þess að hugsa í eilífðinni, að hafa eytt þessu jarðneska lífi í holdsins og heimsins þjónustu, en fyrirlitið ríkdóm guðs náðar og gæzku. En sælir erum vèr, ef vèr vinnum Drottins verk með alúð og trúmennsku, þá getum vèr ókvíðnir horft á dauðans aðkomu og glaðir lagzt til hvíldar eptir erfiði dagsins; þá getum vèr trúaröruggir beðið og sagt: Drottinn! láttu nú þjón þinn í friði fara! að vísu hefi eg verið ónýtur þjónn og unnið í veikleika, en eg hefi þó leitazt við að vinna þitt verk og borið hita og þúnga dagsins; þess vegna leggst eg nú útaf á mínum grafarbeð í þeirri von og trú, að þú af þinni eilífu náð og miskunsemi telir mig með þínum trúlyndu þjónum og gefir mèr þá sælu, sem þú hefir þínum börnum heitið, og í hjarta voru mun himnesk rödd svara oss og segja: „Þú góði og trúlyndi þjón! þú varst trúr yfir litlu, eg vil setja þig yfir meira; gakk inn í fögnuð herra þíns!" Amen.

---

# 7. hugvekja.

Jerem. 6., 4. „Vei oss! því degi hallar og kvöldskuggarnir lengjast."

Vèr sjáum degi halla og kvöldskuggana lengjast í hvert sinn, sem sólin lækkar á lopti og

gengur undir. Þessi daglega sjón minnir oss á mannlegt líf, því mannlegt líf er líka dagur og kvöld þess kemur fyrr eða síðar með dymmum skuggum, ekki einúngis að því leyti, sem það er háð tímans lögmáli, heldur og að því leyti, sem það er náðarinnar og betrunarinnar dagur. Æfinnar morgun er uppljómaður af sannleikans ljósi og ylgeislum guðlegrar náðar, og sèrhver stund ber vitni um Guðs miskunsemi, sem vill fyrirgefa syndirnar, um hans þolinmæði, sem dregur hegnínguna, og hans langlundargeð, sem kallar oss til betrunar; þess vegna ættu og hinar seinustu stundir æfi vorrar að vera fagurt geislaskin Drottins dýrðar. En þó er þessu, því miður, ekki ætíð þannig varið, því lífsins kvöld er stundum hulið löngum og dymmum skugga, og þessi skuggi er iðrunarleysið. Það er vissulega sorglegt, að sjá æskunni burt sóað í lèttúð, og fullorðinsárunum í syndum og löstum, því á sèrhverjum aldri er syndin eitraður ormur, sem særir hjartað og spýr banvænni ólyfjan í vort andlega líf, og á sèrhverjum aldri fjarlægir hún oss frá Guði og aptrar oss frá að ná þeirri helgun, sem hann heimtar, og þeim friði, sem hann veitir; en þó er það einna hryggilegast, að sjá gamlan og gráhærðan syndara ganga á syndarinnar vegi og gleyma þeim reikníngskap, sem hann innan skamms á að lúka allsvitanda Guði, að sjá hið gráhærða gamalmenni ata sig með æskunnar löstum og seilast með skjálfandi hendi eptir ávöxtum forboðna trèsins, að

sjá hinn ellihruma syndara, rètt að kalla kominn fram að dómstóli hins eilífa, auka sína syndabyrði, sem hann áður naumlega getur risið undir, að sjá hann eyða sínum seinustu kröptum og seinustu náðarstundum til að sækjast eptir hègóma og heimsku jarðneskra hluta, og hníga svo úr syndarinnar faðmi í dauðans faðm. Þessi sjón vekur hryggð á himnum og viðbjóð á jörðu. Alla æfi vora leitast Drottinn við að vekja oss til iðrunar og apturhvarfs. En hví eru þeir svo margir, sem „fyrirlíta ríkdóm hans gæzku, þolinmæði og langlundargeðs, og gæta þess ekki, að hans góðgirni leiðir þá til yfirbótar? Hví draga þeir að snúa sèr til Drottins, og skjóta iðrun sinni á frest? Hvers vegna verður hið óstýriláta barn að lèttúðarfullum únglíngi, hinn lèttúðarfulli æskumaður að spilltum syndara og hinn spillti syndari að iðrunarlausu gamalmenni? Af því þeir gjöra sèr ranga hugmynd um betrunina og skoða hana sem eitthvert leiðinlegt og ógeðfelt verk, sem trufli nautn og gleði lífsins. Æ! þeir gæta þess ekki, að það er einmitt syndin, sem særir og saurgar hjartað og spillir sálarinnar friði; en að helgun lífernisins og kristilegar dyggðir veita sálunni hvíld og sælufulla rósemi. Því lengur sem maðurinn heldur iðrunarlaust áfram í syndunum, og því meir sem æfideginum hallar í þeirra þjónustu, því lengri verða kvöldskuggarnir: því lengri verður syndavaninn, því minni verða kraptarnir og því styttri náðartíminn. Maðurinn verður ekki

allt í einu að þverbrotnum og andvaralausum syndara. Í fyrstunni er hann lèttúðarfullur og breyskur; hann freistast af girndum sínum, eða er tældur af öðrum; hann hrasar og fellur, af því hann gleymir að biðja Guð um náð og krapta til að mótstanda freistíngunum; hann álítur það óþarfa að biðja, örðugt að vaka og stríða við þá vondu anda, sem honum sýnast vera ljóssins englar. Þannig syndgar maðurinn, og sá illgresis vísir, sem felst í hjarta hans, festir nú dýpri rætur og vex meir og meir. Hann syndgar aptur, og smám saman verður syndin að geðþekkum vana og þrældómi, sem hann á næsta erfitt með að losa sig úr, því hún deyfir skynsemina og spillir hjartanu. Ein syndin býður annari heim; af smáum yfirsjónum verða einatt stórglæpir, og vèr getum ekki sèð fyrir, hvar vèr munum lenda, ef vèr ekki í tíma veitum girndunum mótstöðu og stjórnum þeim eptir Guðs og skynseminnar boðum. Syndarinnar vald er voðalegt, því þó menn hafi látið af henni, skilur hún þó girnd eptir í hjartanu, sem vill brjótast út við fyrsta tækifæri, og láti maðurinn sig mótspyrnulaust leiða af henni, fellur hann alltaf dýpra og dýpra; samvizkan hættir að ásaka og þagnar; vinsamlegar áminníngar verða árangurslausar; girndirnar æsast og magnast meir og meir. Hvílíkan Guðsanda krapt þarf þá ekki til að brjóta um þvert langvinnan syndavana og vekja hið kalda og dauða hjarta til nýs andlegs lífs; og hversu óumræðileg er þá ekki Guðs náð, sem enn á

æfinnar kvöldi leitar að syndaranum, þó hann alla æfi hafi hrundið henni frá sèr. En því meir sem æfideginum hallar, því minni verða kraptarnir til að veita freistíngunum mótspyrnu. Það er gæzkuríkt og blessunarfullt lögmál í Guðs andlegu stjórn, að dyggðanna áreynsla þreytir ekki manninn, nè veiklar krapta hans, heldur þvert á mót styrkir þá; Guð er máttugur í veikleika sinna barna, og þó hinn ytri maður þeirra hrörni, endurnýjast þó hinn innri maður dag frá degi. En í guðsríki er líka sú helga regla, að í syndarinnar þjónustu veiklast vorir beztu kraptar og verða dáðlausir, og vèr missum þrek og djörfúng sálarinnar, þrótt og frelsi viljans, rósemi samvizkunnar og traust á Guði. Veikur og vanburða er maðurinn af náttúrunni, en enn þá meir veiklast hann af syndinni; og því lengur sem hann iðrunarlaust heldur áfram í henni, því óhæfilegri verður hann til alls góðs. Því meir sem æfideginum hallar, því styttri verður náðartíminn. Guðs náð fullvissar oss um, að betrunartíminn sè nógu langur fyrir sèrhvern, sem í tíma hugleiðir, hvað til hans friðar heyrir; hann er ekki of stuttur fyrir aðra en þá, sem ekkert hirða um sína sáluhjálp, sem ár eptir ár skjóta iðruninni á frest, þangað til það er orðið of seint. Þeir halda alltaf, að þeir fái betri tíma og hentugleika til þess seinna. En hve nær kemur þessi betri tími og hentugleiki? Er það á æfinnar kvöldi, sem svo opt hefir í för með sèr veikindi og þjáníngar líkamans, máttleysi og

rænuleysi? Nei! vilir þú, kristinn maður! geta átt von á rósamlegu og fögru æfikvöldi — hvort sem líf þitt verður langt eða stutt — vilir þú sjá skugga þess hverfa og ljós upp renna jafnvel í dauðans dymmu myrkrum, þá lif þú svo á hverjum degi, að þú á hverjum degi getir dáið, og leitastu við að gjöra þína útvalníngu vissa. — Vertu hjá oss, Drottinn! því að kvölda tekur og á daginn líður! Láttu sèrhvert kvöld minna oss á vort æfikvöld, og sèrhverja nótt á dauðans nótt, svo að vèr vinnum verk köllunar vorrar í þínum ótta meðan dagur er, og fáum á lífsins kvöldi þau himnesku verðlaun, sem þú hefir þínum trúlyndu þjónum heitið. Bænheyr oss, himneski faðir! í Jesú nafni! Amen.

---

# 8. hugvekja.

Sálm. 58., 12. „Sá Guð er þó til, sem dæmir á jörðu."

Þessa auðmjúku játníngu gjörði Davíð konúngur frammi fyrir hinum alvalda dómara himins og jarðar, og hina sömu játníngu hafa allir Guðs vinir gjört á öllum öldum. Þeir hafa hvarvetna orðið varir við Guðs rèttlætisdóma og það þegar í þessu lífi; því segir Jeremías spámaður (17., 10.): „Drottinn rannsakar hjörtun og prófar nýrun og gefur hverjum einum eptir hans breytni, eptir ávöxtum hans verka". Já, bræður góðir! alltaf birtast dómar Drottins hèr

á jörðunni í mannlegum sálum og í mannlegu lífi. Siðprýði og dyggð eru byggðar á eilífu grundvallarlögmáli, sem aldrei getur haggazt, og þetta lögmál birtist í sálum vorum, og verður því greinilegra, sem skynsemi vor upplýsist meir og tilfinningar vorar verða næmari; en greinilegast er þetta lögmál vorrar andlegu náttúru útskýrt í Jesú lærdómi og hans heilaga líferni. Þetta lögmál getum vèr ekki brotið, án þess það leiði af sèr ásökun og hegníngu, og sá dómstóll, sem vakir yfir uppfyllíngu lögmálsins, er bæði grundvallaður í Guðs heilaga vilja og í innsta eðli mannlegs anda. Þenna dómstól Drottins köllum vèr samvizku vora, og hann er uppreistur í hjarta hvers manns. Fram fyrir þenna dómstól eru allir kallaðir til reikníngskapar: konúngurinn eins og hans lítilmótlegasti þegn, kennendur og tilheyrendur, ríkir og fátækir, rèttlátir og bersyndugir. Hann fylgir oss jafnan, hvar sem vèr erum og hvort sem vèr förum, bæði í fjölmenni og í einveru lífsins. Það er hann, sem í sálum allra, sem ekki eru orðnir gjörspilltir í syndanna þjónustu, viðheldur eilífum aðskilnaði milli hins rètta og hins ranga, milli góðs og ills, milli dyggðar og lasta; það er hann, sem styrkir hin breysku og istöðulitlu hjörtun í freistínganna stríði, sem gefur þeim krapta og djörfúng til að berjast baráttu trúarinnar og vinna sigur yfir syndsamlegum girndum og gynníngum syndumspilltrar veraldar. Og þó manninum takist um stund að svæfa samvizkuna og daufheyrast við hennar

vekjandi og aðvarandi röddu, þá getur hann þó aldrei með öllu umflúið hennar dómsatkvæði. Hún fylgir manninum bæði sem dómari og sem ósýnilegur verndarengill, og jafnvel mitt í myrkranna verkum ónáðar hún einatt hinn þverbrotna og andvaralausa syndara, svo hann finnur til ótta og skelfíngar; og þegar hann hefir aðhafzt hið illa og drýgt einhverja synd, þó það sè í leyndum og hann geti sloppið hjá hegníngu mannlegra laga, þá lætur einatt þrumurödd samvizkunnar til sín heyra innst í sálu syndarans og kveður upp yfir honum hegníngardóminn. En þó hinum lastafulla tækist alla æfi að þagga niður aðvaranir og átölur samvizku sinnar, vitjar hún hans þó á banasænginni og fyllir þá hjarta hans með kvöl og angist og örvæntíngu. Þessi heimulegi kraptur, sem er verkandi innst í mannlegu eðli, hefir ekki jarðneskan uppruna, því þá væri hann viðráðanlegur; þetta ljós, sem skín í myrkrum hugsana og athafna vorra, er ekki geisli mannlegrar speki, því það er bjartara en svo, og þrengir sèr inn þangað, sem engin skarpsýni nær; þessi hátalaða rödd, sem lítillækkar hinn drambláta, sem þrýstir hinum þverbrotna til að blygðast sín, sem aðvarar manninn áður en hann syndgar, ógnar honum meðañ hann er að syndga, og ásakar hann þegar hann er búinn að syndga — það er ekki mannleg rödd, heldur Guðs rödd í manninum. Sá þekkir ekki samvizku sína, sem ekki þekkir Guðs rödd í henni, en heldur, að hún sè bergmál hugsana sinna. Gleði yfir góðri samvizku er í raun

rèttri ekki annað en gleði í Guði, og ótti fyrir dómi samvizkunnar er ekki annað en ótti fyrir Guðs dómi. Lítilsvirðið því ekki þessa rödd, sem lætur til sín heyra í hjörtum yðar, ýmist hugsvalandi og styrkjandi, ýmist aðvarandi og hegnandi. Það er Drottins rödd, rödd hins rèttláta dómara, og ómur hins síðasta lúðurhljóms í hans allsherjardómi; það er Drottinn sjálfur, sem þannig talar til vor í vorum eigin hjörtum, og hans orð „eru lífandi og kröptug og beittari hverju tvíeggjuðu sverði". Hans rödd fylgir oss á öllum vorum vegum, og hans alskyggna auga sèr hin innstu fylgsni sálna vorra. — Æ, „Drottinn! þú rannsakar og þekkir mig. Hvort sem eg sit eða stend, þá veiztu það. Þú skynjar mínar hugrenníngar álengdar. Minn gang og mitt legurúm skoðar þú, og alla mína vegu þekkir þú nákvæmlega. Því þar er ekki eitt orð á minni túngu, að þú, Drottinn! ekki vitir það allt saman ... Hvert get eg farið frá þínum anda? Hvert flúið frá þínu augliti? Fari eg upp í himininn, þá ertu þar; gjöri eg undirdjúpinn að mínu legurúmi, þá ertu þar. Tæki eg vængi morgunroðans og byggi við hið yzta haf, einnig þar mundi þín hönd leiða mig og þín hægri hönd halda mèr föstum" (Sálm. 137., 1.—10.).

En Guðs dómar birtast ekki einúngis í samvizku vorri, heldur og í lífskjörum vorum og viðburðanna rás. Að sönnu getum vèr, skammsýnir menn, lítið þekkt í guðlegri stjórn; en þó treystum vèr því, að með því „ekki

dettur einn smáfugl til jarðar, án vors himneska föðurs vilja", þá muni eins hið minnsta sem hið mesta leika í hans forsjónar hendi, og vèr vitum það yfir höfuð, að hann hefir upp kveðið þann dóm yfir syndinni, að hún skuli vera „lands og lýða tjón". Með blóði og tárum hefir þessi dómur opt verið ritaður á jörðinni, og með blóði og tárum mun hann hèr eptir einnig verða ritaður, þegar Drottinn lætur sína hegningar dóma fara út yfir löndin og vitja þjóðanna. Svo mikið getum vèr sèð af Guðs stjórn, að hann hefir sett órjúfanlegt samband milli syndar og hegníngar, og að hann geldur sèrhverjum eptir hans verkum. Gætið þess því, kristnir menn! að þegar þèr með óþolinmæði möglið yfir kjörum yðar, þá möglið þèr yfir Guðs stjórn. Að vísu eiga margir við bág kjör að búa í veröldinni, og það margir, án þess fremur öðrum að hafa til þess unnið, eptir því sem mannleg augu frekast geta sèð; en þetta er einatt krossburður, sem Drottinn leggur á sín börn, til að æfa þau í þolinmæði og undirbúa þau undir eilífan fögnuð og sælu; því „hvern Drottinn elskar, þann agar hann". Drottinn er sá sem dæmir, og því eigum vèr ekki að taka oss dómsvald yfir öðrum, heldur einúngis yfir sjálfum oss, og megum vèr þá ekki allir játa, að vèr erum sekir í augum hins heilaga og alltsjáanda Guðs? Finnum vèr ekki allir til þess, að vèr ekki fengjum staðizt, ef hann vildi í rèttlætisdóm við oss ganga? Ó! það er opt hulið og heimulegt samband milli synd-

arinnar og hegníngarinnar, sem enginn þekkir nema Guð og syndarinn sjálfur, þegar hann rannsakar sitt sálar ástand; og opt er þetta samband svo augljóst, að lestirnir hafa strax hegnínguna í för með sèr, og þó er það eins áreiðanlegt, að Guðs dómar lýsa sèr í lífskjörum vorum, eins og hitt, að þeir birtast í samvizkum vorum. En það sem enn kann að vera óskýrt og of hátt fyrir mannlegan skilníng í Guðs dómum hèr á jörðinni, það mun á síðan verða opinbert á hinu eilífa ljóssins landi, þegar bækurnar verða opnaðar, og í ljós leidd öll heimuleg og opinber orð og verk, hugsanir og áform. Frammi fyrir þessum dómstóli eigum vèr allir að mæta og standa reikníngskap af voru liðna lífi. Þá rætist það í æðsta skilníngi, að Guð geldur einum og sèrhverjum eptir hans verkum. — Æ, himneski faðir! gefðu oss náð til þess, að færa oss þínar bendíngar og þína dóma rèttilega í nyt hèr í tímanum, svo oss ekki verði útskúfað frá þinu augliti á hinum efsta dómi, heldur megum vèr fara frá dauðanum til lífsins: til eilífs lífs og eilífrar sælu hjá þèr og frelsara vorum, Jesú Kristi! Bænheyr það í hans nafni! Amen.

---

# 9. hugvekja.

Sálm. 92., 2. 3. „það er fagurt að þakka Drottni og sýngja lof þínu nafni, þú æðsti! að kunngjöra þína náð á morgnana og þína trúfesti á næturnar."

Dag og nótt vildi Davíð sýngja Drottni lof og dýrð, og hefir hann með sínu fagra dæmi sýnt oss, hversu mjög vèr eigum að láta oss vera umhugað um að ákalla Guð, vegsama hann og þakka honum, og hversu fúsir vèr eigum að vera til bænariðjunnar. þess gjörist öll þörf, kristnir bræður! jafnaðarlega að íhuga dæmi slíkra guðsmanna, því vèr erum of tregir til að biðja Guð og of kaldir í bænum vorum. það ætti þó að vera vor kærasta iðja, vor unaðarfyllsta gleði, að ákalla vorn himneska föður og út hella hjörtum vorum fyrir honum, að tala við hann í bæninni og frambera fyrir hann alla vora þörf og alla vora hjartans löngun. Svo opt höfum vèr heyrt, að fyrir heita og innilega bæn veitir Drottinn oss sínar náðargjafir, að fyrir hana styrkir hann oss í trúnni, elskunni og þolinmæðinni, veitir oss frið og sálarrósemi, gefur oss krapta til að sigra þær freistíngar, sem oss mæta, allar þær torfærur og tálmanir, sem vilja hindra helgun og guðrækni vora, og í stuttu máli, alla vora sálaróvini. Já, fyrir bænina verðum vèr guðlegrar náðar aðnjótandi, og í bæninni eys sálin huggun og hreysti úr hinum eilífu lindum lífsins. Og þó erum vèr svo tregir til að biðja Guð; þó eru bænir vorar svo kaldar og hálfvelgja hjart-

ans svo mikil; þó höfum vèr opt meiri löngun eptir að tala við alla aðra en Guð almáttugan; og vor gæzkuríki himneski faðir verður opt forgefins að útbreiða sinn náðarfaðm á móti oss; vèr komum ekki, þó hann kalli á oss, heyrum ekki, þó hann áminni oss um að leita sín með heitri og innilegri bæn. Hvernig stendur á því, að vèr skulum heldur vilja hafa umgengni hjartans í heiminum, heldur vilja gjöra hann hluttakandi í vorri gleði, heldur vilja leita huggunar hjá honum, en hjá lifanda Guði og frelsara vorum, Jesú Kristi? Hefir þá veröldin nokkuð áreiðanlegra og betra að bjóða oss? Æ! í veröldinni er ekki annað en tómleiki, ófriður og mæða; en hjá Guði þar á mót er blessun og bót á sèrhverju böli; hjá honum fæst líkn og lækning allra hjartans meina og hvíld fyrir hinar þreyttu og þjáðu sálir; já, óþrjótandi og eilíf huggun langt fram yfir það, sem heimurinn getur gefið eða frá oss tekið. Ó! hvers vegna erum vèr þá svo tregir til að biðja? hvernig getum vèr þá svo lengi verið án þess að tala við Guð? hvers vegna verðum vèr opt eins og að þrýsta sjálfum oss til að leita hans og út hella hjörtum vorum fyrir honum? Lærum af þessu að sjá, í hvílíkt eymdarástand syndin hefir steypt oss; hve ókunnugir vèr erum orðnir vorum himneska föður, og hversu hörð og köld hjörtu vor eru. Æ, Drottinn! fyrirgef þú oss ekki einúngis vorar syndsamlegu hugsanir og vor syndsamlegu orð og verk, heldur einnig tóm-

læti og kaldsinni vort. Út hell þú yfir oss anda bænar og náðar, svo vèr lærum að sjá vora sáru neyð og eymd, og finnum til húngurs og þorsta eptir þèr og þinni miskunsemi; svo vèr hagnýtum oss þann aðgang, sem vèr höfum til þín vegna Jesú Krists, vors frelsara og árnaðarmanns; svo vèr ekki þreytumst að biðja þig, einkum þegar kross mótlætínganna beygir oss, þegar heimurinn freistar vor og vorar eigin girndir rísa upp á móti oss. Verm þú vor köldu hjörtu með þínum ástaryl, svo vèr getum beðið þig heitt og innilega, eins og þínum börnum sæmir, svo vèr eins og Davíð „kunngjörum þína náð á morgnanna og þína trúfesti á næturnar;" já, biðjum þig óaflátanlega, Drottinn vor og Guð! sem veizt, hvers vèr höfum þörf, og „snýrð þínu augliti til bæna hins auma og fyrirlítur ekki hans ákall". Tökum þann staðfasta ásetníng fyrir oss, hèreptir að biðja Guð æ og iðulega, og þá munum vèr reyna, hvilíka blessun bænin hefir í för með sèr, hvernig hún í meðlætinu eykur unað og fögnuð lífsins og gjörir oss hæfilega fyrir Guðs náðarríku velgjörðir, hæfilega til að neyta þeirra með þakklátu og guðrækilegu hugarfari, og til að verja þeim eptir gjafarans gæzkuríka tilgangi, sjálfum oss og öðrum til góðs; þá munum vèr og í mótlætinu fá að reyna, hvernig bænin gjörir oss ánægða með vort hlutskipti, ánægða með Guðs vilja; hvernig hún styrkir vora þolinmæði, vora krapta og vort traust á guðlegri forsjón; þá munum vèr á freistíng-

anna tímum fá að reyna, að bænin er guðlegur verndarengill, sem gætir vor, svo vèr ekki hrösum. Æ! ef vèr í hvert sinn hugsuðum til Guðs, undir eins og oss flýgur eitthvað illt í hug, þá mundum vèr síður falla fyrir áhlaupum freistinganna, þá mundi syndin fá minna ráðrúm og færi á að rótfestast í vorum hjörtum, því umhugsunin um hinn heilaga og alstaðar nálæga og innileg bæn til hans rekur allar óhreinar og saurugar girndir á flótta. Ef vèr, kristnir menn! venjum oss á að hafa umgengni vora á himnum, að hafa hjarta vort hjá Guði, þá mun það hafa blessunarfull og sáluhjálpleg áhrif á allt vort líf, og senda ljós og huggun og himneskan frið niður í sálir vorar. Og þegar dauðans nótt upp rennur og vèr eigum að flytja hèðan, hvað getur þá lètt oss dauðastríðið nema það, að senda bænarandvörp upp í hæðirnar til þín, eilífi himneski faðir! og biðja þig í Jesú nafni að gefa oss vægan og sáluhjálplegan dauða? Það er komið undir þinni náð og miskunsemi, hvort vèr þá höfum sinni og rænu á að biðja þig, hvort vèr þá höfum svo mikið viðþol, að vèr getum af öllu hjarta falið vorn anda í þínar hendur; en ef vèr á heilbrigðu dögunum búum oss undir dauðann með því að umgangast þig í bæninni, þá heyrum vèr þèr til, hvort sem vèr lifum eða deyjum, og þá munt þú eins miskuna oss fyrir það, eins taka oss í þinn náðarfaðm, þó vèr i voru dauðastríði, þegar hjörtu vor eru þjökuð af dauðans angist, ekki

getum sent eins brennandi bænarandvörp upp til þín, eins og nú, meðan vèr erum heilir heilsu. Æ! þó langar oss líka til að geta beðið þig í dauðanum, beðið þig af öllu hjarta; en verði þinn vili í Jesú nafni! Amen.

---

# 10. hugvekja.

Matth. 4., 36. „Hver, sem upp sker, fær laun og safnar ávexti til eilífs lífs."

Í heilagri ritníngu er víða talað um sáning og uppskeru í andlegri merkíngu. Það er einföld, auðskilin og lærdómsrík samlíking, sem stundum er höfð um mannlegar athafnir og afleiðíngar þeirra, stundum um guðsorð og verkanir þess. Þessi jarðneski lífstími vor er útsæði fyrir himininn og eilífðina. Með breytni vorri erum vèr alltaf að sá, alltaf að planta og vökva, en Guð gefur ávöxtinn eptir þeim óumbreytanlegu lögum, að hann geldur einum og sèrhverjum eptir hans verkum. En í heilagri ritníngu er líka talað um útsæði og uppskeru í öðrum skilníngi. Mannlegu hjarta og mannlegu líferni er samlíkt við akur; í það er sáð góðu og himnesku sæði, sem er guðsorð, og sá, sem sáir, er sjálfur Guð. Þetta sæði fellur í ólíka jörð; sumt fellur í lèttúðarfull hjörtu, og verður fótum troðið; sumt í harðsvíruð hjörtu, og skrælnar upp og visnar: sumt í veraldlega sinnuð hjörtu, og kafnar í sorg-

um og áhyggjum þessa lífs; sumt í góð hjörtu, og ber hundraðfaldan ávöxt. Eptir þessu verður uppskeran ólík; hún er opt ekki annað en illgresi, sem sáð er af óvininum, af syndsamlegum girndum og vondri veröldu: illgresi, sem á að brenna, en ekki hveiti nè ávöxtur til eilífs lífs. Áríðandi er sú spurníng fyrir sèrhvern af oss, kærir bræður! hvað hefi eg upp skorið af því guðsorði, sem sáð var í hjarta mitt? Hefir það fallið í hrjóstrugan og grýttan jarðveg eða í góða jörð? Til að lètta fyrir oss úrlausn þessarar spurníngar, viljum vèr láta huga vorn staðnæmast fáein augnablik við þá hugleiðíngu, hvernig þeim ávexti sè varið, sem guðsorð ber til eilífs lífs, þegar það fellur í góða jörð. Að sönnu hefir guðhræðslan fyrirheit einnig fyrir þetta líf, og opt kemur ávöxturinn af guðsorði upp á sýnilegan hátt í tímanlegri blessun; en þó er hann ætíð að nokkru leyti ósýnilegur. Þeir geislar hins eilífa ljóssins, sem fyrir helgar hugleiðíngar upp renna í mannlegum sálum, þær guðrækilegu þakklætis, auðmýktar og iðrunar tilfinníngar, sem vakna hjá manninum, og þau góðu áform, sem guðsorð vekur í hjarta hans: allt þetta snertir mest hinn innra mann og er ósýnilegur ávinníngur. Í djúpi sálarinnar er guðsorði sáð; þar vex það og ber ávöxt til eilífs lífs; inn í hjartans helgidóm verðum vèr að skyggnast, til þess að geta dæmt um blessun Guðs sáluhjálplegu orða. Þegar guðsorð fellur í góða jörð, þá er uppskeran mikil og ávext-

irnir eru margfaldir: sannleiki, vizka, hreint hjarta, trú, kærleiki, von og samvizkufriður. Hver gæði getur heimurinn boðið, sem komist í samjöfnuð við þessi? Hvað eru náttúrunnar auðæfi, sem einúngis endurnæra líkamann, í samanburði við þessa andlegu og himnesku fæðu? Hvað eru allir tímanlegir fjársjóðir, sem mölur og ryð geta grandað, í samanburði við þenna fjársjóð, sem er eilífs og ævaranda eðlis? Sá, sem með alvörugefni íhugar, eða hefir sjálfur reynt, hversu svikul og óáreiðanleg heimsins loforð eru og hans gæði fallvölt, getur bezt þekkt dýrmæti hinna andlegu auðæfa, sem guðsorð veitir; sá, sem þekkir hinar æðstu þarfir sálar sinnar, finnur bezt til þess, í hvílíkt spillíngar og eymda djúp mannkynið mundi sökkva, ef frá oss væri tekið hið lifanda brauð, sem af himnum er komið, og sú guðsorða „lind, sem upp sprettur til eilífs lífs". Engir veraldar munir gætu bætt oss þá andlegu fjársjóði, sem felast í hugsunarinnar skæra ljósi, í samvizkunnar sælufulla friði, í sönnum fögnuði lífsins og hugsvölun á vorri dauðastundu. Margfaldan ávöxt ber guðsorð í góðri jörðu. Margfaldar eru þarfir sálarinnar; en guðsorð fullnægir þeim öllum. Ó! hversu margir hafa ekki leitað sannleikans og fundið hann í Jesú sáluhjálplega orði. Ó! hversu marga hefir ekki Jesú náðarlærdómur vakið af syndanna svefni og sýnt þeim þeirra eymdarfulla ástand. Ó! hversu marga hefir hann ekki uppfrætt um hið eina nauðsynlega,

styrkt þá í freistínganna stríði, huggað í þrautum og þjáníngum, helgað og hólpna gjört! Á hverjum aldri sem maðurinn er, og hvernig sem ástatt er fyrir honum, getur guðsorð borið hjá honum margfaldan ávöxt til eilífs lífs. Undir eins og barnið vaknar til þessa lífs, tekur guðsorð það að sèr og vígir það til hins himneska og eilífa lífsins. Á vegamótum æskunnar og fullorðinsáranna býr það oss undir ókomna tímann með sinni blessun; síðan fylgir það oss alla æfi sem ljós og leiðarstjarna; í því finnur hinn aldurhnigni einka stoð og styttu, og í því leitar hinn deyjandi að vopnum til að sigra með hinn seinasta óvin, svo hann geti sofnað í friði. Já, þú blessar lífsins inngang og útgang, himneska sannleikans og náðarinnar orð! Þú stráir himneskum blómum á vöggur barnanna og grafir framliðinna, og endurnærir alla af þinni fyllíngu. Hversu ólíkir sem mennirnir eru að ytra áliti, þá leiðir þú þá þó alla saman með sömu blessun. Þú kennir hinum ríka að vera ríkur af góðum verkum, og gjörir hinn fátæka ríkan með kristilegri nægjusemi; þú kennir að bera meðlæti og mótlæti rèttilega; þú sendir ljós og sanna huggun niður í þetta vort jarðneska líf, og útbreiðir blessun frá kyni til kyns. Það er því undir sjálfum oss komið, kærir bræður! hvort vèr af guðsorði upp skerum ávexti til eilífs lífs; það er komið undir því, að jarðvegur hjartna vorra sè góður. Hinum andlega heimi er eins varið og þeirri sýnilegu náttúru; í þeim báðum hefir

Guð gjört iðjusemi og trúmennsku að skilyrði fyrir uppskerunni. Sá, sem hefir guðsorð fyrir ljós á sínum vegum, og er ekki einúngis orðsins heyrari, heldur og þess gjörari, safnar sèr ávexti til eilífs lífs: himneskum ávexti trúarinnar, kærleikans og vonarinnar. En sá, sem er hirðulaus um akur hjarta síns, eða lætur þar spretta illgresi syndarinnar, upp sker ávexti eilífrar glötunar og ófarsældar. Sáning og uppskeru, vinnu og verðlaun, hefir Guð sameinað eins í náðarinnar og í náttúrunnar ríki; þess vegna verður líka uppskeran ólík eptir því, sem sáðmennirnir og verkamennirnir eru ólíkir. — Svo hefir þá einu frækorni Guðs heilaga orðs verið sáð í hjörtu vor á þessari kvöldstundu. Mun það hafa fallið í grýtta jörð eða góða? Mun það bera nokkurn ávöxt hjá oss, eða verða kæft og fótum troðið? Ó, Guð! hreinsa þú vor hjörtu, svo vèr getum geymt þitt orð í góðum og siðsömum hjörtum, og það beri hjá oss margfaldan ávöxt til eilífs lífs. Æ! láttu oss aldrei svo útaf sofna, að vèr ekki áður hugsum til þín, biðjum þig og heimfærum til vor huggunargreinir úr þínu orði; láttu oss aldrei svo útaf sofna, að vèr ekki höfum þig í hjartanu: þá mun óvinurinn ekki geta sáð þar illgresi meðan vèr sofum, því þá munt þú vaka yfir oss og vernda oss; og þegar vèr í seinasta sinni útaf sofnum, æ! láttu þá ljós þinna lífsins orða leiða oss út úr dauðans dymmu myrkrum til þín á ljóssins og friðarins land! Bænheyr oss í Jesú nafni! Amen.

---

# II. hugvekja.

Sálm. 14., 3. „Allir eru þeir fallnir frá; allir spilltir orðnir; þar er enginn, sem gjörir gott, ekki einn."

Guðsorð er samdóma reynslunni og meðvitund vorri í því, að vèr sèum allir fallnir frá hlýðni vorri við Guð, sèum allir syndugir og af náttúrunni reiðinnar börn, og að vèr allir þurfum að snúa oss til Guðs með sannri iðrun og lifandi trú, til þess að geta náð aptur barnarètti vorum hjá honum og öðlazt eilíft líf. En þó þessi háleiti sannleiki sè brýndur fyrir oss dag eptir dag, ár eptir ár, allt frá barnæsku vorri, þá er, því miður, eins og hann hafi lítil áhrif á margra hjörtu, af því þeir finna ekki til synda sinna, og finna því ekki, hvílíka þörf þeir hafa á að snúa sèr til Guðs og iðrast þeirra. Eins og Drottinn þekkir alla sína, eins þekkir hann oss líka, kærir bræður! og veit, hvort vèr erum í tölu hans sanniðrandi barna. En þekkjum vèr oss nú sjálfir? og vitum vèr, hve nauðsynlegt það er til vorrar eilífu farsældar, að vèr þekkjum sjálfa oss? Eða vitum vèr, í hverju sönn iðrun er innifalin, svo vèr getum rètt um það dæmt, hvort vèr erum í tölu Guðs sanniðrandi barna? Sanniðrandi maður, segir einn af kirkjufeðrunum, er sá, sem jafnt og stöðugt finnur til þess, hvílíka ógæfu hann áður beið af því, að sleppa og gleyma Guði sínum, sem óaflátanlega hefir syndir sínar fyrir augunum, og endurminnist þeirra með angri og trega. Ef vèr nú, kærir bræður! lítum til

breytni manna yfir höfuð — vèr skulum ekki þar fyrir dæma neinn sèr í lagi — munu þá margir vera sanniðrandi? Vèr tölum hèr ekki um grófa glæpamenn, eða þá, sem lifa í opinberum löstum, heldur um þá, sem eru eins og fólk er flest, og sem ekki gefa af sèr opinbert hneyxli, munu ekki margir þeirra verða að játa, að þeir ekki sèu sanniðrandi? Og ef þèr nú rennið augunum til sjálfra yðar og með hreinskilni rannsakið yðar sálarástand, megið þèr þá ekki gjöra þessa sömu játníngu? Verið getur, að aldurinn og lífsins alvarlegu sýslanir hafi hjá yður útrýmt gáleysi og óstillíngu æskunnar; verið getur, að heilsuleysi, eða annað mótlæti, sem gæzka Guðs hefir látið yður að höndum bera, hafi miðað til að spekja og leggja hapt á tilhneigíngar yðar; verið getur, að tímalengdin og hviklindi hjartans hafi gjört yður leiða á margri synd, sem þèr áður frömduð með geðþekkni. En eruð þèr nú þar fyrir komnir nær skapara yðar en áður? Eruð þèr orðnir betri og guðhræddari? Þó aldurinn hafi gjört yður hyggnari, siðsamari og skylduræknari í heimsins augum, þá er það ekki órækt merki uppá, að þèr sèuð sanniðrandi, að sú breytíng sè komin á hjartalag yðar, sem gjörir yður að nýjum og betra manni. En sè nú þessu þannig varið, þá er ástand yðar mjög hættulegt, og það því hættulegra, ef þèr sjálfir ekki finnið til þess, heldur eruð andvaralausir, því þá hafið þèr ekki iðrazt synda yðar og deyið án þess að þekkja þær. Þegar talað er um iðrun og

kristilegar dyggðir, þá hættir, því miður, mörgum við, í stað þess að prófa sig eptir guðsorði, að láta sèr lynda, að bera sína breytni saman við annara breytni, og þakka síðan Guði fyrir, að þeir sèu ekki verri en aðrir menn. En þeir gæta þess ekki, að sú óregla og ósiðsemi, sem nú er orðin svo almenn í kristninni, og sem því er komin upp í vana, hefði þótt hræðileg og andstyggileg, áður en siðferði kristinna manna spilltist svo mjög; þeir gæta þess ekki, að ekkert, sem í sjálfu sèr er syndsamlegt, getur helgazt af vananum, og að vèr verðum ekki dæmdir eptir vananum, heldur eptir guðsorði, ekki eptir áliti annara manna, heldur eptir áliti hins heilaga og rèttláta Guðs; þeir gæta þess ekki, að við þenna syndsamlega vana hefir trúin kólnað og dofnað í hjörtum kristinna manna, og að vèr ættum að tárast og andvarpa yfir honum, en ekki breyta eptir honum. Þegar menn því afsaka sig með því, að þeir sèu ekki verri en aðrir, og gjöri ekki annað en það, sem aðrir gjöri, þá kveða þeir með því upp yfir sjálfum sèr hegníngardóm, því guðsorð segir oss, að þetta sè hinn breiði vegur, sem til glötunar leiðir, og það tekur oss vara fyrir að laga oss eptir spilltum aldaranda (Róm. 12., 2.); því hinn spillti aldarandi hefir einúngis tillit til þessa lífs; von hans og ótti, áform og fyrirtæki, gleði og sorg lítur einúngis að hinum tímanlegu gæðum, hann skoðar þessa jörð sem sitt föðurland, en eilífðina sem útlegðar stand. Þeir, sem láta sèr stjórna af þessa heims anda,

hafa ekki Krists anda; þeir þekkja ekki Jesúm Krist, eða, þó þeir þekki hann, þá vegsama þeir hann ekki eins og frelsara sinn, heldur hata þeir og fyrirlíta hann með hugarfari sínu og breytni sinni. Þetta er sá spillíngarandi, sem þèr, kristnir menn! eigið að hata og berjast við með því, að laga yður eptir boðum og dæmi frelsara yðar. Ef þèr nú rannsakið yður sjálfa, býr þá hatur til þessa spillíngaranda í hjörtum yðar? Er hans syndsamlega athæfi hneyxli í yðar augum? Andvarpið þèr yfir útlegð yðar í þessum táradal? Hafið þèr umgengni yðar á himnum, og álítið þèr yður það ávinníng, að fara hèðan og vera með Kristi? Til eru þeir menn, sem kvarta yfir heiminum, ásaka hann fyrir rangsleitni, vanþakklæti og hviklyndi sitt, og tala iðulega um vèlar hans og vonzku, en sem engu að síður elska heiminn, fylgja honum og geta ekki fengið af sèr að skilja við hann, eða afneita honum; þeir vilja ekki krossfesta holdið með þess girndum, ekki stjórna sínum syndsamlegu tilhneigíngum, og á meðan geta þeir ekki losað sig við heiminn, ekki snúið sèr til Guðs með sannri iðrun og lifandi trú. „Ekki bið eg, að þú takir þá úr heiminum, heldur að þú geymir þeirra við illu", sagði Jesús í bæninni til síns himneska föður, þegar hann var að biðja fyrir lærisveinum sínum (Jóh. 17., 15.) Þannig er einnig sanniðrandi mönnum varið; þeir lifa í heiminum, meðal heimsins barna, en þeir eru ekki lengur af heiminum, þeir breyta ekki eins og

heimurinn breytir, heldur efla sína sáluhjálp með ótta og andvara. Rannsakið yður nú sjálfa, kærir bræður! hvort þèr eruð sanniðrandi og í tölu Guðs barna; verið strangir í dómi yðar, eins og þèr nú þegar ættuð að mæta fyrir Guðs dómstóli. Já, hver yðar veit, nema hann á þessari nóttu verði krafinn til reikníngskapar? Æ! hvað vitum vèr að kvöldi dags, nema vèr næsta morgun vöknum upp aptur í eilífðarinnar heimkynnum? og þá er það of seint, að fara að halda reikníngskap við sjálfan sig; þá er það heilagur og rèttlátur Guð, sem einn gjörir upp reikníngipn. Æ, Drottinn minn! mín syndaskuld er mikil, svo mikil, að eg get aldrei borgað hana; en eg treysti því, að lausnari minn hafi borgað hana með sinni friðþægíngu, þegar eg með einlægri iðrun legst til hvíldar undir hans krossi, og í þessari von, í þessu trausti til þinnar eilífu miskunar, vil eg á hverju kvöldi útaf sofna og fela líf og sál í þínar föðurhendur, í Jesú nafni! Amen.

---

# 12. hugvekja.

Esaj. 55., 6. „Leitið Drottins, á meðan hann er að finna; ákallið hann, meðan hann er yður nálægur."

Það gegnir furðu, kærir bræður! hve margar lèttúðarfullar viðbárur menn hafa til að skjóta iðrun sinni á frest, þó þeir viti, að þetta líf sè svo stutt og dauðastundin svo óviss; þó

þeir viti, að sèrhvert augnablik sè dýrmætt, og hafi svo mörg dæmi fyrir augunum upp á það, að dauðinn kemur einatt óvart og hittir marga óviðbúna. Þegar lífi voru, eignum eða mannorði, sýnist einhver hætta búin, þá eru menn fljótir til að við hafa allar þær varúðarreglur, sem þeir eiga kost á, til að koma í veg fyrir slík hættutilfelli, en eru skeytíngarlausir um, að afstýra eilífum óförum sálar sinnar. Það lítur svo út, eins og margir haldi, að ætíð sè nógur tími til að búa sig undir eilífðina, og víst er um það, að flestir svæfa sjálfa sig með þeirri von, að þeir einhvern tíma muni geta iðrazt, án þess að hafa mikið fyrir því að taka sinnaskipti og bæta ráð sitt. Flestir játa þó, að það sè þörf á að iðrast, og álíta það hina mestu ógæfu að deyja í syndum sínum, en hafa ætíð einhver undanbrögð til að skjóta iðrun sinni á frest; stundum þykjast þeir vera of úngir til þess; stundum ætla þeir að láta tilhneigíngar sínar sefast, og eru hræddir um, að iðrunin heimti of mikla sjálfsafneitun. Þeir vilja láta æskuárin líða hjá og þeim þykir guðhræðlan vera of alvarleg til þess, að hún geti sameinazt við gleði æskumannsins. En hver gefur yður, kærir bræður! vissu fyrir því, að þèr náið þeim aldri, sem þèr sjálfir setið yður, að dauðinn ekki hitti yður á þeim kafla æfinnar, sem þèr hafið ætlað þjónustu heimsins og girnda yðar? Höfum vèr ekki ótal dæmi fyrir augunum upp á það, að dauðinn vitjar vor eins að morgni og að kvöldi æfidagsins? En þó

yður auðnist að komast til fullorðins ára, hver gefur yður vissu fyrir því, að hjartalag yðar muni breytast með aldrinum, og að þèr þá verðið hæfilegri en nú til að byrja nýtt líf? Verið getur, að þèr með aldrinum leggið af suma bresti, af því meiri stillíng og reynsla gjörir yður varkárari eða leiða á heimsins lystisemdum; en þèr betrizt ekki fyrir það, þèr iðrizt ekki og hjartalag yðar breytist ekki; að vísu verður líferni yðar ekki eins óreglulegt og áður, en þèr verðið eins veraldlega og holdlega sinnaðir, og aðrir lestir koma þá í hinna stað. Árafjöldinn, eptirdæmin og löng vanbrúkun heimsins, gjörir ekki annað en herða samvizku yðar og sljófga þær góðu tilfinníngar, sem í æskunni eru svo bljúgar og viðkvæmar, svo þèr með aldrinum verðið langtum óhæfilegri til sannrar iðrunar og lífernisbetrunar. Og ef þèr, kærir vinir! haldið, að þetta sè ekki byggt á nægum rökum eða reynslu, þá lítið í kríngum yður og gætið að þeim, sem lengi hafa þjónað heiminum og sem ekkert nema ellin aptrar frá að seðja girndir sínar, og munuð þèr sjá, að elska til heimsins er enn óumbreytt í hjörtum þeirra; þeir hugsa enn með geðþekkni til sinna fyrri synda og væru fúsir til að fremja þær á ný, ef aldur leyfði, eða þeir ekki óttuðust, að þær hefðu slæmar afleiðíngar fyrir sína tímanlegu velferð; því með aldrinum verða margir forsjálli og hyggnari, þó þeir ekki verði betri. Hefir ekki Drottinn ætlazt til þess, að vèr eins helguðum

sèr æskuárin og hin efri ár æfi vorrar? Er æskan of dýrmæt til að helga hana honum, sem gaf oss lífið og hèt oss eilífu lífi? Eða ætlum vèr einúngis að geyma honum leifarnar og molana og allt það, sem lakast er af lífi voru? Það er eins og vèr segðum við hann: Drottinn! meðan eg get þjónað heiminum og látið eptir girndum mínum, mátt þú ekki búast við, að eg leiti þín; á meðan heimurinn elskar mig, get eg ekki fengið af mèr að elska þig; en þegar hann fer að gleyma mèr og snúa að mèr bakinu og eg get ekki lengur notið hans, þá ætla eg mèr að snúa mèr til þín og segja: Sjá! hèr er eg; eg bið þig að taka móti hjarta mínu; af því heimurinn vill ekki lengur hafa það, neyðist eg nú til að gefa þèr það; en þangað til máttu búast við, að eg með öllu gleymi þèr; mèr þykir ekki gott að þjóna þèr, fyr en eg sjálfur er orðinn til alls góðs verks óhæfilegur; að minnsta kosti er eg viss um ætíð að geta fundið þig, því þú ert æ hinn sami og óumbreytanlegur, en heimurinn slær hendinni af vinum sínum, þegar þeir fara að eldast; þess vegna verð eg að flýta mèr að neyta hans, áður en hann yfirgefur mig og meðan eg hef tíma til þess. — Ó! hvílík fásinna væri að hugsa eða tala þannig, og þó eru þetta hugsanir þeirra, sem slá iðrun sinni á frest, þó þeir, ef til vill, ekki viti af því. Eða getum vèr haldið, að Guði muni þóknast þvílík fórn: honum, sem ekki vill aðra hlýðni en þá, sem honum er sýnd af fúsum og frjálsum vilja;

honum, sem ekki þarfnast vor, heldur þiggur tilbeiðslu og þjónustu vora af einskærri náð og miskunsemi? Þèr játið það, kærir bræður! að þeir sèu sælir, sem þegar á únga aldri snúi sèr til Drottins og gæti sín í tíma fyrir afvegaleiðslu heimsins og girnda sinna. En þèr segizt ekki vera svo heppnir, heldur segizt þèr hafa fylgt straumnum; straumur heimsins og girndanna hafi hrifið yður með sèr, og nú sem stendur sè svo ástatt fyrir yður, að þèr eigið ekki hægt með að slíta yður lausa; þèr ætlið að bíða eptir betri hentugleikum og forðast að láta aðrar tilhneigíngar fá yfirhönd hjá yður, þegar þessar sèu útkulnaðar, sem þèr nú verðið að þjóna. — En eruð þèr vissir um, að fá betri hentugleika seinna, eða betra færi á að snúa yður til Guðs? Hver hefir sagt yður, hvaða stefnu þessar girndir, sem þèr nú þjónið, muni taka, eða hversu lengi þær muni vara? Hver hefir sett þeim takmark, svo þèr getið sagt við þær: „híngað og ekki lengra"? Vitið þèr, nema þær vari eins lengi og þèr sjálfir? Því meir sem maðurinn flækist í neti girnda sinna, því örðugra veitir honum að losast úr því; vaninn gefur lystina, og þá synd, sem maðurinn fyrst drýgir, hræddur og með mótmælum samvizkunnar, fremur hann síðan hiklaust og með fúsum vilja; þar að auk elur ein girndin aðra og ein synd leiðir til annarar; syndsamleg óregla verður með tímanum að föstum syndavana, og maðurinn verður syndarinnar þræll; áminníngar og aðvaranir sam-

vizkunnar þagna meir og meir, og seinast lætur hún ekki til sín heyra. Æ! leitið því Drottins, bræður góðir! meðan þèr getið fundið hann, bæði meðan þèr eruð hæfilegir til þess og meðan tími náðarinnar yfir stendur. Vantreystið ekki kröptum yðar til að geta betrazt, því ef þèr einlæglega ásetið yður það og leitið Guðs hjálpar til þess, þá vitið þèr, að hann er máttugur í veikleikanum, og sè það örðugt fyrir yður að iðrast nú, þá verður það enn örðugra seinna. Ef þèr einlæglega reynið til að snúa yður til Guðs, þá verið þèr þó, að minnsta kosti, þeim stundum án þess að móðga hann, án þess að þurfa að iðrast þeirra, og fáið rètt til þess, að bera fram fyrir hann þetta bænarandvarp: Drottinn! þú sèr mína hjartans löngun og minn veikleika; æ, að hjarta mitt væri stöðugra í bæninni til þín, Guð minn góður! stöðugra í að aðhyllast þig; æ, að eg væri ekki eins veikur fyrir í stríðinu við freistíngarnar; virðstu að gefa mèr meiri staðfestu og stöðuglyndi og styrkja mína veiku krapta; eg blygðast mín, Guð minn! fyrir breyskleika minn, og þori ekki að koma fyrir þitt auglit og heita þèr stöðugri hlýðni; eg hef svo opt rofið mín heit eptir að eg hafði svarið þèr æfinlega hlýðni. Hjarta mitt hefir svo opt dregið mig á tálar; eg hefi svo opt tárazt af því, að hafa móðgað þig, en aptur og aptur hrasað. Æ! líttu til mín í náð og miskunsemi, og meðan eg enn get tekið á móti áhrifum þinnar náðar, vil eg reyna til að snúa mèr til þín.

þú hefir sjálfur sagt, að þú vilir ekki dauða syndarans, heldur að hann snúi sèr og lifi, að þú vilir ekki brjóta hinn brákaða reir, nè slökkva hinn líttloganda hörkveik, og því vil eg ekki örvænta, heldur fela mig þinni miskun á hendur í Jesú nafni. Amen.

---

# 13. hugvekja.

Jóh. 8., 21. „Þá sagði Jesús aptur til þeirra: eg fer burt, og þèr munuð leita mín og deyja í yðar syndum."

Vèr höfum nýlega hugleitt, kærir bræður! hversu hættulegt það er, að skjóta iðrun sinni á frest. Nú viljum vèr halda þessari hugleiðíngu áfram með því að í huga: hversu erfitt það er, að iðrast á banasænginni. „Eg fer burt, og þèr munuð leita mín og deyja í yðar syndum." þetta eru einhver hin óttalegustu orð, sem framgengin eru af kærleikans og sanleikans munni. þau eru ekki einúngis töluð til Gyðínganna, heldur og til vor allra, ef vort rèttlæti ekki tekur fram þeirra rèttlæti, ef vèr ekki í tíma snúum oss til Drottins með iðrandi hjörtum, og hugleiðum, hvað til vors friðar heyrir. Ef vèr ætlum að skjóta iðrun vorri á frest þangað til á banasænginni, þá er mjög hætt við því, kærir bræður! að vèr eins og Gyðíngarnir, deyjum í syndum vorum, því vèr vitum ekki, hvar eða hvernig búið verður um banasæng vora, hvar eða

hvernig dauða vorn muni að bera. Hver segir oss, hvort dauðinn muni koma til vor hægt og hægt, eða snögglega eins og þjófur á nóttu? hvort hans muni verða langt eða skamt að bíða? Eða hefir Drottinn heitið því nokkurstaðar í sínu orði, að senda engil sinn á undan dauðanum til að gjöra oss aðvart? Nei! Reynslan hefir jafnan sýnt og sannað, að enginn veit sína æfina fyr en öll er. Æ, Guð minn góður! þú einn afskamtar vort æfiskeið; þú einn setur lífi voru takmörk; þú hefir frá upphafi talið vora daga, eins og þú hefir talið vor höfuðhár; þú einn hefir skrifað í lífsins bók vora hèrvistardaga; þú einn sèr, hvort vèr eigum langt eða skamt eptir ófarið af þessari vegferð vorri. Eins og reynslan sýnir, að dauðinn einatt ber snögglega að dyrum og áður en menn komast til elliára, þannig sýnir hún og, að flestir, sem deyja, hugsa, að dauðinn sè enn þá langt burtu, og að dagur Drottins kemur yfir þá þegar þeir sízt ætla. Það er því fyrst og fremst af þessari ástæðu mjög fávíslegt, að ætla sèr að draga iðrun sína þangað til á dauðastundinni. En þó syndarinn leggist veikur og viti dauða sinn fyrir, mun þá sál hans vera vel löguð fyrir guðrækilegar hugleiðingar, þegar líkami hans er þjáður af kvöl og krankleika; þegar hann veinandi hlýtur að segja: „Þar er enginn friður í mínum beinum; mitt hjarta skelfur; minn kraptur hefir yfirgefið mig, og ljósið minna augna daprast daglega" (Sálm. 38., 4., 11.)? Þegar

sál hans er niðurbeygð af þjáníngum líkamans og ásökunum samvizkunnar? þegar hann naumast hefir nóg fjör eptir, til þess enn að við halda lífinu litla stund í hans deyjanda líkama? þegar ráð og ræna fer að mínka, minnið að dofna, tungan loðir föst við góminn og hjartað hættir að slá? Getum vèr ætlazt til þess, að syndarinn, þannig ásigkominn, sè fær um að kanna djúp samvizku sinnar og rannsaka sitt synda ástand, eða þá fyrst algjörlega breyta hugarfari sínu? Getum vèr ímyndað oss, að sál hans, sem þá er hneppt í dauðans fjötur og finnur titrandi til síns undanfarna óguðlega lífernis, geti fyrir alvöru hugsað um að ákalla Guðs miskunsemi, þegar hugleiðíngar hennar eru orðnar eins og draumur og hún ekki getur hugsað öðru vísi en sofandi maður? Hefir Drottins hönd aldrei varpað yður á sóttarsængina, kærir bræður! svo þèr voruð laugt leiddir, en þó aptur leiddir til þessa lífs? Og þegar þèr þannig voruð aðfram komnir og eins og staddir milli heims og helju, var yður þá mest umhugað um yðar eilífu sáluhjálp? Varð yður ekki helzt fyrir að hugsa um veikindi líkamans? Gátuð þèr þá með fullri sálarrósemi snúið yður til Drottins og sent upp til hans brennandi bænarandvörp? Og hefðuð þèr þá verið reiðubúnir að mæta fyrir Guðs dómstóli, ef dauðinn hefði kallað yður burt? Hafið þèr ekki síðan sagt yður sjálfir, að það sè fásinna, að slá iðrun sinni á frest þangað til á banasænginni, og að sèrhver ætti að

gjöra upp reikníngiun við Guð og samvizku sína meðan hann er heill heilsu? Þèr hafið sagt það; en hafið þèr þá líka gjört það? Mundi nú sóttarsængin hitta yður betur undirbúna undir burtförina hèðan? — Að vísu hefir Guð á stundum gefið syndaranum náð til að iðrast á banasænginni, svo hann þá hefir vaknað af sínum syndasvefni og lypt hrærðu hjarta og grátandi augum upp til himins. En eins og þetta er næsta sjaldgæft, eins er það líka víst, að þeir einir geta vænt sèr þessarar miskunar, sem ekki syndga upp á náðina, eða af ásettu ráði skjóta iðrun sinni á frest einúngis í því trausti, að þeir muni fá nægan tíma til að iðrast á dauðastundinni. Fæstir menn eru svo forhertir, að þeir ekki opt og einatt áseti sèr að iðrast og snúa sèr til Guðs; en, því miður, deyja margir áður en þeir framkvæma þenna sinn góða ásetníng, og það er enginn sá guðleysíngi til, sem ekki vili deyja rèttlátra dauða, þó fæstir vili lifa þeirra lífi. Þess vegna sjáum vèr líka marga stórsyndara á sóttarsænginni leita Drottins og láta í ljósi alvarleg iðrunarmerki. En mega oss þá ekki koma til hugar þessi orð frelsarans: „Þèr munuð leita mín og deyja í yðar syndum." Að minnsta kosti má oss virðast slík iðrun mjög ískyggileg; því þegar syndarinn hefir alla æfi iðrunarlaust haldið áfram í syndum sínum, þá er hætt við, að sú iðrun, sem ótti fyrir dauða, eilífð og dómi þrýsta honum til, verði nokkurs konar nauðúngarverk; þegar

hann er búinn að burt sóa lífi sínu í syndum, og hann nú finnur til þess, að öxin er sett til rótar trèsins, þá fer hann fyrst að leita Guðs náðar og lypta augum sínum til himins, þegar hann finnur, að hann ekki lengur fær fóttfestu á jörðinni; hann fer þá fyrst að fá óbeit á lystisemdum heimsins, þegar líkami hans ætlar að fara að rotna og hann svo að segja er farinn að finna nályktina af sjálfum sèr. Ef einhver segði honum, að þessi sótt væri ekki til dauða og hann mundi komast á fætur aptur, mundi þá ekki beiskja iðrunarinnar dofna? Mundi hann þá hafa svo mikla óbeit á að falla aptur til sinna fyrri synda? Það sem gjörir iðrunina á banasænginni ískyggilega er líka það, að hún getur orsakast einúngis af kvíða fyrir gröfinni og eilífri glötun, og að syndarinn einúngis tárist yfir ófarsæld sinni, en ekki yfir syndum sínum, ekki yfir því, að hann hafi syndgað á móti gæzkuríkum Guði. Þá verður iðran hans eigingjörn og mundi fljótt taka enda, ef hann vissi, að hann þyrfti ekki að óttast eilífar ófarir hinu megin grafarinnar. — Æ, Guð almáttugur! þú sem rannsakar hjörtun, hvernig ætti eg að geta villt sjónir fyrir þèr með nokkrum tárum, sem ekki spretta af betruðu hugarfari, heldur af ótta fyrir hegníngunni? Þú mundir fljótt sjá, að syndsamlegar girndarætur eru enn þá lifandi í djúpi sálar minnar, og eg mundi í þínum heilögu augum vera eins holdlega og veraldlega sinnaður og áður. Æ! gefðu mèr því

náð til þess, meðan eg er heill heilsu, meðan eg get prófað sjálfan mig og mitt sanna sálarástand, að snúa mèr til þín af öllu hjarta og uppræta þaðan illgresi syndarinnar, en gróðursetja þar aptur ávexti trúarinnar; og þegar eg þannig leita þín, meðan þú ert mèr nálægur, æ! þá treysti eg því, að eg muni finna þig, þó syndasekt mín sè mikil, og að þú munir vernda mig frá að missa aptur sjónar á þèr, svo eg ekki deyi í syndum mínum, heldur í samfèlagi við þig eins og sanniðrandi syndari. Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

---

## 14. hugvekja.

Sálm. 66., 20. „Lofaður veri Guð, sem ekki burtskúfaði minni bæn og ekki dróg sína miskun í hlè við mig."

Sè nokkur hlutur þakklætisverður, þá er það vissulega það, að Guð hefir leyft oss að mega biðja sig: oss, sem erum syndarar, að mega biðja sig, sem er heilagur; oss, sem erum dupt og aska, að mega biðja sig, sem var og er og verður að eilífu. Þó vèr ekki vitum, hvers biðja ber af þessum tímanlegu hlutum, þá höfum vèr þó ætíð nóg að biðja Guð um. Íhugun vors eymdarfulla ástands og Guðs eilífu miskunsemi gefa oss ávalt nægilegt bænarefni. Þegar vèr nú fyrst hugleiðum, að þetta líf vort er stutt og stopult, að vegur vor hèr er háll og hættulegur og að dauða vorn getur að

borið þegar minnst vonum varir; þegar vèr hugleiðum, að grátandi komum vèr inn í heiminn, að líf vort er einatt vökvað með tárum og trega, og viðskilnaður vor samfara hinu stranga dauðastríði; þegar vèr hugleiðum, að allt, sem hèr sýnist unaðarfullt og girnilegt, er blandað einhverri beiskju, að heimsins glys og gæði draga oss á tálar með gynníngum sínum; þegar vèr hugleiðum alla þá eymd, sem mannkynið er undirorpið, og allar þær hættur, sem vèr sjálfir höfum verið í staddir; þegar vèr hugsum til þess, hversu margar syndir vèr höfum drýgt frá blautu barnsbeini, hve mörg ónytjuorð vèr höfum talað og hve mörg ónytjuverk vèr höfum gjört: hvað getur þá innilegar hvatt oss til að biðja Guð, en slíkar hugleiðíngar? En hvað getur aptur að hinu leytinu betur og kröptuglegar uppörfað oss til bænarinnar, en íhugun þeirrar guðlegu náðar og miskunsemi, sem vèr höfum reynt. Þegar vèr hugsum til þess, hversu margt gott Drottinn hefir veitt oss, og fyrir hve mörgu illu hann hefir verndað oss, hvernig hann hjálpaði oss í neyðinni, gætti vor í hættunum og ól föðurlega önn fyrir oss; hvernig hann alltaf mundi til vor, þó vèr gleymdum honum; hvernig hann aptur kallaði oss til sín, þegar vèr yfirgáfum hann og fórum villir vegar; hvernig hann náðarsamlega tók á móti oss, þegar vèr aptur snèrum til hans; hvernig hann fyrirgaf oss vorar mörgu syndir og yfirsjónir, þegar vèr með einlægri iðrun játuðum þær fyrir honum; hvernig hann studdi

oss, þegar vèr ætluðum að hrasa, og reisti oss á fætur aptur, þegar vèr fèllum; hvernig hann lèt beiska hryggð fylgja brotum vorum, og sendi oss síðan himneska huggun mitt í voru hugarangri: þegar vèr íhugum allt þetta, þá hljóta slíkar hugleiðíngar að kveikja heita bænarlöngun í hjörtum vorum. Og þegar vèr í bæninni erum búnir að læra að þekkja Guðs gæzku og miskunsemi, höfum lært að gleyma sjálfum oss og heiminum við íhugun Guðs eilífu hátignar: þá verða bænarinnar stundir þær unaðarfyllstu og sælustu stundir þessa lífs. Sæll er sá, sem venur sig á að út hella hjarta sínu fyrir Guði í bæninni! Bænin er eins ómissandi fyrir vort andlega og eilífa líf, eins og andardrátturinn fyrir vort líkamlega líf. En það er sitt hvað, að biðja af hjarta og að þylja bænir án þess hugur fylgi máli. Eigi bænin að geta verið Guði velþóknanleg og veitt sjálfum oss sanna huggun, þá verðum vèr að biðja bæði í auðmýkt og með trúnaðartrausti. Vèr getum ekki heimtað neitt með sjálfskyldu af Guði, því vèr erum breyskar og brotlegar mannskepnur, sem daglega vinnum til hegníngar, ef Drottinn vildi í rèttlætisdóm við oss ganga. Þegar vèr því í bæninni komum fram fyrir Guð, þá verðum vèr að vera gagnteknir af tilfinníngu vors eigin óverðugleika og finna innilega til þess, að vèr erum aumir og alls þurfandi; en að Guð, sem vèr nálgumst, er sú heilaga og alfullkomna vera; að vèr erum ekkert, en að hann er sú eilífa hátign, sem

er í öllum hlutum, en er þó öllum hlutum æðri. Hvað getum vèr þá heimtað af honum? Því meir sem vèr auðmýkjum oss fyrir Guði, því innilegra og óbifanlegra verður vort trúnaðartraust; því innilegra og óbifanlegra traustið á hans eilífu náð og miskunsemi og sannfæríngin um, að hann muni bænheyra oss, þegar vèr biðjum um það, sem er eptir hans vilja. Vèr biðjum þá ekki lengur í voru eigin nafni, eða í trausti til vorrar eigin verðskuldunar, heldur í Jesú nafni og í trausti til hans verðskuldunar. Það ætti aldrei að þurfa að minna oss á að biðja Guð; vor eigin þörf ætti daglega að þrýsta oss til þess, og þó eru sumir menn svo blindir og svo hugsunarlausir, að þeir sjaldan eða aldrei biðja Guð. Margir óbótamenn hafa játað, að þegar þeir hættu að biðja Guð, þá leiddust þeir út á lastanna veg, þá slepptu þeir hendinni af sjálfum sèr og ofurseldu sig sínum syndsamlegu tilhneigíngum. Og vissulega getum vèr þekkt vort sálarástand af því, hvernig vèr biðjum Guð og hvernig bænrækni vorri er varið. Sá sem alls ekki biður Guð, hann er enn þá fjarlægur guðsríki; sá sem er tregur til að biðja og biður sjaldan, eða eins og utan við sig og með hálfvelgju, hann er enn ekki snortinn af Guðs helga anda; en sá sem feginn vildi biðja, en finnst hann ekki geta það, hann er staddur í reynslunnar og hreinsunarinnar eldi; en fyrir Guðs náð munu þessir reynslutímar líða hjá og hjarta hans vermast og lífgast til bænarinnar, ef hann

út rýmir þaðan öllu því, sem bæninni er til fyrirstöðu: öllum syndsamlegum og hègómlegum hugsunum, og leitar Drottins af alvöru og án þess að þreytast. Æ, Drottinn! sendu mèr bænarinnar anda, svo eg geti beðið þig heitt og innilega og af öllu hjarta, svo eg finni til þess í sálu minni, að öll sæla og unaðsemd er innifalin í því, að mega nálgast þig og verða þèr sameinaður; gefðu mèr náð til þess að hafa umgengni mína hjá þèr, þangað til eg fæ að koma til þín og frelsara míns á land lifenda! Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

---

# 15. hugvekja.

Sálm. 19., 13. „Hver veit, hve opt honum yfirsèst? Hreinsa þú mig, ó, Guð! af mínum heimulegu brestum!"

Jafnvel heiðíngjar í fornöld fundu til þess, hversu örðugt það er, að þekkja sjálfan sig rèttilega, en sáu þó jafnframt, að sjálfsþekkíngin er skilyrði fyrir allri sannri þekkíngu, og því álitu þeir þetta heilræði: „lærðu að þekkja sjálfan þig!" ómissandi fyrir hvern mann. Og vissulega er þetta svo. En hvernig eigum vèr að læra að þekkja sjálfa oss rèttilega? Það getum vèr, kristnir menn, með engu móti eins vel og með því, að bera hugarfar og háttalag vort saman við Jesú Krists

heilaga líferni. Að sönnu kennir lögmálið oss að þekkja syndina og sýnir oss, hversu hegníngarverðir vèr erum í augum hins heilaga og rèttláta Guðs; en þó er Krists heilaga dæmi bezt af öllu lagað til að beygja, auðmýkja og sundurkremja vor hjörtu og fá oss til að blygðast vor. Þegar eg hugleiði, hvernig frelsari minn í öllum hlutum ekki leitaði sinnar eigin vegsemdar, heldur dýrðar síns himneska föður, æ, hversu má eg þá blygðast mín fyrir mína hègómadýrð og mína virðíngagirni! Þegar eg hugleiði, að hann kom, ekki til þess að láta þjóna sèr, heldur til þess að þjóna öðrum, hversu má eg þá blygðast mín fyrir drambsemi mína og hroka! Þegar eg hugleiði, hve fúslega hann tók við þeim bikar, sem faðirinn rètti að honum, hve fúslega hann tæmdi kvalanna beiska bikar, hversu má eg þá ekki blygðast mín fyrir óhlýðni mína, fyrir óþolinmæði mína í þjáníngunum og tregðu mína i að bera krossinn á eptir lausnara mínum! Þegar eg hugleiði, hvernig hann umbar mótgjörðir, álas og ofsóknir syndugra manna, án þess aptur að hata eða hallmæla, og hvernig hann blessaði, þegar honum var bölvað, og bað fyrir óvinum sínum, hversu má eg þá blygðast mín fyrir mína reiði og óstillíngu, heipt mína og hefndargirni! Og í stuttu máli, enginn hlutur getur haft eins mikil áhrif í hjarta mitt eins og eptirdæmi míns heilaga lausnara; ekkert eins sýnt mèr minn eigin óverðugleik og komið mèr til að blygðast mín; ekkert eins knúið mig til að

biðja með þessum bænarorðum Davíðs: „hver veit, hve opt honum yfirsèst? Hreinsa þú mig, ó, Guð! af mínum heimulegu brestum"! Og þó er eg svo tómlátur í að virða fyrir mèr þetta heilaga dæmi, og þó gjörir það mig ekki betri nè guðræknari. Þegar eg tala við fróða og skynuga menn, þá verð eg af því hyggnari og upplýstari; en af umgengni minni við Krist verð eg ekki kristilegri nè betri. Ó, hve hjarta mitt er hart og illt! Eg gæti dáið af blygðun, ef aðrir menn þekktu allt, sem eg hefi hugsað, talað og gjört, og þó læt eg mèr það liggja í svo lèttu rúmi, að Guðs alskyggna auga ávalt sèr til mín. Ó, hve hjarta mitt er holdlega sinnað! Þegar mèr verður eitthvað illt og eg kenni mèr einhvers meins á líkamanum, þá leita eg mèr strax lækníngar; en um sjúkleika sálar minnar skeyti eg lítið, þó eg finni til hans og þekki græðarann allra meina. Ó, hve hjarta mitt er eigingjarnt! Eg er fús á að prèdika fyrir öðrum um drambsemi, um blindni og spillíngu mannanna, og brýna fyrir þeim, hversu nauðsynlegt það sè, að taka á sig krossinn og deyja frá heiminum; en hitt veitir mèr þýngra að heimfæra þetta upp á sjálfan mig. Eg er fljótur til að sjá ögnina í auga bróður míns, en sè ekki bjálkann í auga sjálfs mín; eg tek hart á öðrum, þegar þeir hrasa, en er vægur við sjálfan mig, þó eg aðhafist hið sama og þeir, eða eitthvað sem ekki er betra. Æ! hvað veit eg, hversu opt mèr yfirsèst. „Hreinsa þú mig, ó,

Guð! af mínum heimulegu brestum"! — Ef vèr rannsökuðum sjálfa oss optar en vèr gjörum og dæmdum hlutdrægnislaust um vort sálarástand, þá mundum vèr betur finna til þess, að vèr allir brjótum margfaldlega, ekki einúngis með því að hugsa, tala og gjöra það, sem Guði er á móti, heldur og með tómlæti í vorri köllun, með hræsni vorri, hálfvelgju og hjartans þverúð, og þá mundum vèr með enn þá innilegri iðrunar tilfinníngum taka undir með Davíð og segja: „Hreinsa þú mig, ó, Guð! af mínum heimulegu brestum!" Látum oss því, kærir bræður! halda reikníngskap við sjálfa oss um hugarfar vort og breytni vora, og berum það saman við Jesú Krists heilaga líferni; látum aldrei nokkurn dag svo hjá líða, að vèr ekki gaumgæfilega hugleiðum, hvernig vèr þann dag höfum lifað, hvort vèr ekki höfum aðhafzt neitt syndsamlegt, eða talað neitt, sem var ósamkvæmt þeirri lotníngu, sem vèr áttum að bera fyrir Guði, eða skaðaði eða meiddi vorn samkristinn náúnga, hvort vèr ekki höfum girnzt eða hugsað neitt, sem Guði var á móti; rannsökum vandlega, hvort vèr höfum neytt allra krapta til að gegna vorum skyldum; hvort vèr ekki höfum vanrækt að gjöra það sem í voru valdi stóð, til að bæta úr annara böli og liðsinna þeim; hvort vèr af alefli höfum leitazt við að laga vora bresti; hvort vèr höfum beðið Guð rækilega og hjartanlega, og í stuttu máli: hvort oss hafi farið fram eða aptur á vorum sáluhjálpar vegi. Ef vèr gjörum

þetta af fullri hjartans alvöru, án þess að hræsna fyrir sjálfum oss, þá munum vèr í fari voru finna marga „heimulega bresti," marga bresti, sem vèr ekki þekkjum, meðan vèr að eins lauslega eða alls ekki rannsökum vort sálarástand. Meðan maðurinn lifir í sínu holdlega andvaraleysi, lætur hann sèr lítið annt um að læra að þekkja sjálfan sig, og þá sjaldan hann virðir fyrir sèr sálarástand sitt, vill hann helzt bera sig saman við aðra sína breisku samkristnu bræður, til þess að geta smjaðrað fyrir drambsemi hjarta síns, og sagt: „Eg þakka þèr, Guð! að eg er ekki eins og aðrir menn". En þegar maðurinn af alvöru og einlægni kallar sjálfan sig fyrir dómstól samvizku sinnar, þá ber hann sig ekki saman við þá, sem eru syndugir eins og hann, heldur við heilagt líferni lausnara síns, sem honum er boðið að breyta eptir, og hann kemst þá að raun um, að hann er stórsyndari í Guðs augum, og endar þessa sjálfsprófun með þessu auðmjúka bænarandvarpi: „Guð vertu mèr syndugum líknsamur!"

Æ, Drottinn! gefðu mèr náð til þess, að geta þekkt sjálfan mig; láttu mig aldrei leitast við að fegra mínar ávirðíngar, eða draga dulur yfir þær; láttu mig aldrei forðast beiskju iðrunarinnar, en hjálpaðu mèr til að geta beðið þig af hjarta: „Hreinsa mig, ó, Guð! af mínum heimulegu brestum" í Jesú nafni! Amen.

---

# 16. hugvekja.

Hebr. 12., 16.—17. „Esaú seldi fyrir einn málsverð sinn frumgetníngarrètt. En þèr vitið, að honum var synjað, þá hann síðan vildi öðlast blessunina, því hans iðrun var árangurslaus, þó hann leitaði þess með tárum."

Þessi frásaga úr heilagri Ritníngu er lærdómsrík fyrir oss, kærir bræður! „Meðal hinna sýnilegu Guðs skepna á jörðinni er maðurinn hin ágætasta"; hann er frumgetníngur þeirra, og Guð hefir sett hann til að ráða yfir öllum öðrum dýrum, og skapað hann í sinni mynd. Þannig hefir vor algóði himneski faðir ætlað manninum tvöfalda arfleifð, aðra hèr á jörðinni, en hina á himnum. Hið jarðneska hlutskiptið og tímanlegu gæðin vilja allir eignast og auka sem mest; á þeim hafa allir miklar mætur; fyrir þau leggja menn lífið í sölurnar og selja fyrir þau, eins og Esaú, sinn veglega frumgetníngarrètt til guðsríkis: sína himnesku eilífu arfleifð. Stutta stund gætti maðurinn síns himneska barnarèttar; hann hvarf frá Guði og missti þá sakleysið og friðinn; hann vildi heldur ráða sèr sjálfur, en gefa sig á vald Guðs föðurlegu handleiðslu; hann fèll frá skapara sínum og fór, eins og hinn glataði sonur, burt í framandi land, og þar heyrði hann ekki lengur Guðs raust, og skeytti ekki lengur hans áminníngum. Í fótspor hinna fyrstu syndara hafa allir niðjar þeirra fetað. En þegar vèr nú aptur viljum „öðlast blessunina og með iðrunartárum

leitum hennar", hvernig eigum vèr þá að því að fara? Að vísu erum vèr börn, sem höfum villzt frá vorum himneska föður; en enn þá eigum vèr þó eptir leifar af hans föðurlegu blessun; enn þá getum vèr aðgreint illt og gott og látið dyggðina sitja í fyrirrúmi; enn þá getum vèr sèð, að það er vor háleita köllun, að elska Guð og hlýða hans vilja. Enn þá eigum vèr skynsemi, samvizku og frjálsræði. En hvað stoða oss þessar dýrmætu náðargjafir Guðs, fyrst elskan til hans er hvorfin, með því hún átti að gæta þess, að þeim væri rètt varið, og fyrst eigingirnin með öllum sínum tilhneigingum er komin í hennar stað og hefir fengið vald yfir oss? Í stað þess að hlýða Guðs boðum, sem vèr þekkjum, en elskum ekki, hrífumst vèr af elsku til heimsins, svo vèr girnumst og gjörum það, sem vèr þó viðurkennum, að sè illt, og verjum skynseminni til að afsaka með henni syndir vorar. En Jesús er kominn til að frelsa það, sem glatað var. Fyrir hann kallar Guð oss til að leita vorrar týndu arfleifðar og komast aptur í sátt og samfèlag við sig, og veginn til að ná aptur vorum himneska barnarètti hefir frelsarinn sýnt oss með þessum orðum: „Hver, sem ekki meðtekur guðsríki eins og barn, mun aldrei þangað koma" (Mark. 10., 15.). Eins og börn verðum vèr aptur að leita vors himneska barnarèttar, það er að skilja: barnslegrar trúar í auðmýkt hjartans og barnanna sakleysis á helgunarinnar vegi. Vor dýrmætasta arfleifð er einfaldleg barnatrú, hrein og helg guð-

ræknis tilfinníng, sem enn er óflekkuð af syndsamlegum girndum, og innilegt trúnaðartraust, sem enn er óveiklað af syndinni. Æ! vèr munum vissulega allir eptir sakleysi voru í barnæskunni. En svo komu aðrir tímar, tímar efasemdanna og vantraustsins, og vèr þóttumst vera ríkir, hafa allsnægtir og einkis þarfnast; hin einfaldlega trú truflaðist af hègómlegum hugsunum og ónytjuspurníngum. Drambsemi skynseminnar er vegurinn til falls og hrösunar; en hið fyrsta stig á veginum til himinsins er það, að játa í auðmýkt, að vèr þurfum æðra ljóss og leiðsögu við. Verðum því aptur auðmjúkir eins og börn; tilbiðjum þá órannsakanlegu speki, sem yfirgengur allan mannlegan skilníng; tilbiðjum þann heilaga kærleika, sem sendi sinn son í heiminn til að endurleysa heiminn; tilbiðjum þá eilífu náð, sem svo dásamlega leiðir oss á lífsins vegi, og sem á æfinnar kvöldi tekur sín trúlyndu börn í sinn himneska föðurfaðm! Leitum barnanna sakleysis á helgunarinnar vegi! Guð hefir sameinað sakleysi og barnæsku, og þetta fylgist að, þangað til spillíng heimsins og fortölur girndanna aðskilja það. Sakleysi æskuáranna er svo elskuvert, að það hlýtur að hræra hvern óspilltan mann og jafnvel hafa áhrif á hinn lastafulla. En „ómögulegt er, að hneyxlanir komi ekki", bæði að innan úr hjartanu, þegar girndirnar vakna, og utanað úr syndugum heimi; en „vei þeim manni, frá hverjum hneyxlanin kemur! „Hver, sem skemmir Guðs musteri — helgidóm sak-

leysisins — honum mun Guð hegna, því Guðs musteri er heilagt" (1. Kor. 3., 17.). En af sorglegri reynslu sjálfra vor og annara vitum vèr þó, að þetta musteri Guðs, þetta hjartans sakleysi, verður fyrr eða síðar vanhelgað af girndum, afvegaleiðslum og vondum eptirdæmum. Það, sem þannig vanhelgast og missist, verður ekki aptur fengið nema á helgunarinnar vegi. Jesús heimtar af oss iðrun og apturhvarf; hann heimtar, að vèr verðum aptur eins og börn og fæðumst að nýju; að vèr hreinsum oss af allri saurgun holdsins og andans; að vèr lærum að stjórna tilhneigíngum vorum og veitum freistíngunum hrausta mótstöðu. Af því vèr á fullorðinsárunum höfum svo mikið saman við veröldina að sælda og þá hluti, sem í henni eru, verður ekki hjá því komizt, að vèr lærum að þekkja freistíngarnar; en þessi þekkíng á að kenna oss að varast þær; þekkíngin á þeirri eymd og glötun, sem þær vilja steypa oss í, á að kenna oss árvekni og viðbjóð við syndinni. Þetta getum vèr lært og þetta eigum vèr að læra af freistíngunum; en getum þó ekki sigrað þær með vorum eigin veiku kröptum, heldur fyrir „hann, sem oss máttuga gjörir." Vèr getum barizt, en sigurinn kemur frá Drottni, og „alla hluti megnum vèr fyrir hann, sem elskaði oss og framseldi sjálfan sig í dauðann vor vegna, svo vèr yrðum hreinir og óstraffanlegir." Æ, biðjum hann því, bræður góðir! að gefa oss náð til þess, að geta unnið sigur í baráttu

trúarinnar og náð aptur vorum himneska barnarètti! Þèr únglíngar! sem enn hafið óspillt hjörtu og eigið þessa arfleifð óflekkaða, gætið hennar vel í Guðs nafni, því hún er yðar dýrmætasti fjársjóður! Og þèr, foreldrar! sem eigið að vaka yfir sakleysi barnanna, gætið þess i Guðs nafni, að láta ekki illt eptirdæmi yðar eða hirðuleysi spilla þeim! — Vèr höfum á þessari kvöldstundu rennt augunum til barnæskunnar og jafnframt til barnæsku sjálfra vor; hún kemur ekki aptur fyrir neinn af oss, nema í endurminníngunni og söknuði hjartans; en við hliðina á henni stendur endurminníng vorra fullorðsinsára og alls þess tíma, sem vèr síðan höfum lifað. Æ! margt illgresi hefir síðan lifnað við og sprottið upp í hjörtum vorum og kæft það hið góða sæði, sem vor himneski faðir sáði þar á æfinnar morgni; margur ljótur syndavani hefir síðan fest djúpar rætur hjá oss. Æ! leitum þá aptur vorrar himnesku arfleifðar með auðmýkt hjartans og helgun lifernisins. Tíminn hleypur með hraðri rás og fæst hvorki aptur með tárum nè bænum. Syndaskuldin og samvizkukvölin stendur kyr, En ein er líka huggunin eptir, ó vor Guð! fyrir þín iðrandi börn, sem hafa villzt frá þínu föðurhjarta, og hún er það, að þú ert faðir allrar miskunar og fyrirgefur oss í Jesú nafni vorar skuldir, þegar vèr í auðmýkt flýjum til þín og með einlægri iðrun leitum þinnar náðar. Miskuna þú oss og öllum þínum villuráfandi börnum; legg þú, góði frelsari! þína

líknarhönd yfir oss; blessa þú oss og fullvissa þú oss um, að oss heyri guðsríki til, ef vèr leitum þess af hjarta; og þegar þú kemur sem dómari lifenda og dauðra, æ! láttu oss þá fá að heyra þessi huggunarfullu orð: „Komið blessuð börn míns föður og eignizt það ríki, sem yður er fyrirbúið frá veraldar upphafi!" Amen.

---

# 17. hugvekja.

1. Jóh. 4., 8.—9. „Guð er kærleikurinn; í því opinberast elska Guðs til vor, að Guð sendi sinn eingetinn son í heiminn, svo vèr skyldum lifa fyrir hann."

Kristindómsins aðalinntak er sá kærleiki Guðs til vor syndugra manna, sem er auglýstur í Jesú lífi og lærdómi, í hans pínu og friðþægjandi dauða og í ástgjöfum hans anda. Kristindómurinn er því þekkíngin á Guðs kærleika og sameiníng við hann í kærleika. Aumur er sá maður, sem verður leiður á þessum huggunarfulla höfuðlærdómi kristilegrar trúar. Vèr höfum allir þörf á að innræta oss og hugfesta þann lærdóm, að Guð er kærleikur, því þessi lærdómur hefir helgandi áhrif á líferni vort og styrkir og huggar oss á vorri dauðastundu. Sú trú, „að Guð er kærleikurinn," er sá sigur, sem yfirvinnur heiminn með allri hans mæðu og öllum hans freistíngum og lystisemdum. Ef þú hefir þessa trú í hjarta þínu, kristinn maður! þá ert þú óhultur í sèr-

hverju mótlæti; sè Guð með þèr, hver getur þá verið á móti þèr? Að sönnu geta sjúkdómar og örbyrgð sókt þig heim, og þinn ytri maður hrörnað; en þinn innri maður endurnýjast þó, og þú heldur þeim fjársjóði, sem er dýrmætastur allra: undirgefninni undir Guðs vilja og trúnaðartraustinu á hans mildiríku forsjón. Með þessari trú í hjarta þínu ert þú ríkur í fátæktinni, hughraustur í veikindunum, glaður í sorginni, lifandi í dauðanum; ef þú geymir þessa trú í hjarta þínu, þá sèr þú ljós í efasemdanna myrkrum, vinnur sigur í freistínganna stríði og lífsins kórónu í þínu dauðastríði; með þessari trú vinnur þú verk köllunar þinnar með glöðu geði og bæn til Guðs, og felur þig á hverju kvöldi Guðs vernd og forsjón á hendur. En hver fær til fulls útlistað þá huggunar fyllíngu, sem þessi lærdómur hefir að geyma? Friðþægíng við Guð og friður sálarinnar er sú æðsta þörf og hið dýrmætasta hnoss mannsins; því sè vor innri maður ósáttur við Guð, eða í ófriði við sjálfan sig, þá getur maðurinn ekki notið sannarlegrar gleði, þó veröldin brosi á móti honum. Allir þurfum vèr þess við, að það sè friður og eindrægni milli skilníngs og tilfinnínga, milli skynsamlegra hugleiðínga og hjartanlegrar trúar, milli samvizkunar og heilags Guðs. En þessu getum vèr ekki komið til leiðar af sjálfsdáðum; því það lögmál, sem í Guðs umboði talar til vor í hans orði og í samvizku vorri, heimtar mikið, eins og von er til, þar eð vèr erum

skapaðir í Guðs mynd; það býður oss, að vera „fullkomnir eins og vor himneski faðir er fullkominn;" það lætur sèr ekki lynda, að vèr leggjum stund á einstöku góðverk, heldur vill það, að vèr sèum dyggðugir og „heilagir í öllu voru líferni;" það lítur ekki á yfirborð verkanna, heldur á hjartað og hugarfarið; það lagar sig ekki eptir girndum vorum og tilhneigíngum, heldur miðar það allt við hið æðsta góða. Æ! hvernig getum vèr staðizt fyrir þessum dómstóli? Vèr skjótum skuldinni upp á mannlegan breyskleika, en höfum þó aldrei reynt, hve miklu góðu vèr hefðum getað komið til leiðar, hefðum vèr haft einlægan vilja á því, og af hjarta leitað hjá Guði liðs og krapta til þess. Sèrhver ásökun samvizku vorrar vitnar gegn oss. Vèr tölum um iðrun vora fyrir hið umliðna, fyrir vorar drýgðu syndir, um löngun vora eptir Guðs náð og friði við hann, og um þau góðu áform, sem vèr nú höfum tekið fyrir oss; en vèr hljótum þó að játa, að iðrun vor getur ekki afplánað yfirsjónir vorar og að áform vor eru annað en framkvæmdin sjálf. Já, vèr hljótum allir í auðmýkt hjartans að játa, að vèr erum aumir syndarar og brjótum margfaldlega. Hver ver oss fyrir ásökunum samvizkunnar? Hver hreinsar sálir vorar af saurgun syndanna? Hver lèttir af oss hinni þúngu synda byrði? — Sumir vilja telja sèr trú um, að mannlegir kraptar geti reist hinn fallna á fætur aptur, og að angur og betrunaráform geti bætt fyrir

brot og yfirsjónir. En þessar fortölur geta ekki gefið hjartanu aptur þann frið, sem það er búið að missa; það heimtar aðra tryggari stoð í veikleika sínum, aðra áreiðanlegri hugsvölun í sinni hryggð og angist. Hvergi finnur hjartað hvíld og huggun, nema í þeim lærdómi, að „svo elskaði Guð heiminn, að hann út gaf sinn eingetinn son, til þess að hver sem á hann trúir, ekki skuli fyrir farast, heldur hafa eilíft líf" (Jóh. 3. 16.), og „að Guð hefir fyrir Jesúm Krist friðþægt heiminn við sjálfan sig" (2. Kor. 5., 19.). Þetta er hinn mikli leyndardómur guðhræðslunnar, og þegar kristinn maður meðtekur hann í trúnni, fær hann að reyna krapt friðþægingarinnar og Guðs kærleika. Hvergi nema undir Jesú krossi fáum vèr af oss lètt eymdabyrði syndarinnar; þar heyrum vèr raust vors deyjanda lausnara, sem biður: „Faðir, fyrirgef þeim!" Með trúarinnar augum sjáum vèr nú himininn opinn og Guðs náðarfaðm útbreiddan; þessi sjón græðir sár hjartans, samvizkukvölin snýst í hryggð eptir Guðs vilja og girndirnar spekjast af helgandi áhrifum guðlegrar náðar. Lærdómurinn um Guðs kærleika í Jesú Kristi sættir oss við Guð og sjálfa oss; hann er skilyrði fyrir traustinu á guðlegri forsjón og undirstaða allrar sannarlegrar lífernis betrunar. Lærdómurinn um Guðs kærleika í Jesú Kristi opnar oss himininn og sameinar tíma og eilífð. Það hlýtur að vera manninum sem skynsemigæddri veru mjög áríðanda, að vita vissu sína um

ástand sitt eptir dauðann; en skynsemin einsömul getur ekki tekið öll tvímæli af í þessu efni, nè komið í veg fyrir, að ýmsar efasemdir hreifi sèr í sálunni, sem vekja hjá henni óþreyju og kvíða. Guðs náð og kærleika eigum vèr það að þakka, að Jesús Kristur hefir lífið og ódauðleikann í ljós leitt. Hann prèdikaði lærdóminn um eilíft líf með sinni kenningu, sem hafði eilífan sannleika að geyma; með sínu lífi, sem hann varði til að vinna eilíft verk; með sinni upprisu, sem var hinn ljósasti vottur um, að hann var sjálfur upprisan og lífið, og pantur fyrir því, að „þeir framliðnu eru sælir, sem í Drottni deyja," því að þeir „munu heyra Guðssonar raust," og vèr eigum allir að birtast fyrir Krists dómstóli, svo hvereinn fái laun eptir breytni sinni í líkamanum, hvort sem hún hefir verið góð eða vond." Þessi lærdómur um Guðs eilífa kærleika í Jesú Kristi er vor einasta huggun í lífi og dauða og sú einasta uppspretta dyggðugs og sannkristilegs lífernis. Æ! vermdu og lífgaðu vor köldu hjörtu, kærleikans himneski, heilagi andi! Það er kærleikans eðli, að breyta hugarfarinu og efla og styrkja kraptana til hins góða. Ó! látum oss elska Guð, því hann elskaði oss að fyrra bragði. Þessi heilagi kærleiki Guðs er hið æðsta, sem mannlegur hugur getur hugsað sèr, hið sælufyllsta, sem mannlegt hjarta getur reynt. Ó! látum oss elska Guð, svo vèr getum betur lært að þekkja hann, sýnt honum auðsveipnari hlýðni, fúslegar tekið hverju því,

sem hann lætur oss að höndum bera, og innilegar elskað meðbræður vora, sem eins og vèr eru á leiðinni til eilífðarinnar og vona eins og vèr að verða Guðs náðar aðnjótandi fyrir Jesúm Krist. Amen.

---

# 18. hugvekja.

Lúk. 10., 25. „Hvernig á eg að breyta, svo að eg eignist eilíft líf.“

Þessi spurníng, sem lögvitríngurinn forðum lagði fyrir frelsara vorn, hreifir sèr í brjósti hvers manns, sem ekki er öldúngis hugsunarlaus um sín sáluhjálparefni; því hver getur látið sèr að öllu leyti lynda þetta jarðneska líf? Hver getur fundið hvíld fyrir sálu sína í þessu stutta og stopula lífi, sem er fullt af ófriði og stríði og einatt hlaðið eymdum og mæðu; sem að sönnu stundum veitir oss fögnuð og gleði, en sýnir oss jafnframt, að þetta er hverfult eins og hjáliðandi skuggi, og að vèr sjálfir erum á flugi og megum á hverri stundu búast við þessum boðskap: Nú átt þú að fara hèðan og deyja? En því betur sem vèr finnum til þess, að vèr getum ekki fundið hvíld fyrir sálir vorar í þessu hverfula og fallvalta lífi, því inndælli og huggunarfyllri fyrir oss eru fyrirheit frelsara vors, sem kom til að afreka oss eilíft líf; því inndælli og huggunarfyllri fyrir oss eru þessi hans orð: „Komið til mín

allir þèr, sem erfiðið og þúnga eruð hlaðnir, eg vil gefa yður hvíld" (Mtth. 11., 28.). Já, hvíld fyrir vorar þreyttu sálir, fyrir vor mæddu og angruðu hjörtu, það er það hnoss, sem vèr mest af öllu þráum og þörfnumst, og án þess getum vèr engra gæða notið. En hvar fáum vèr þessa hvíld nema í hinu eilífa, nema hjá frelsara vorum, sem hafði orð hins eilífa lífsins og kom til að frelsa oss úr ánauð syndarinnar og forgengilegleikans, svo hið eilífa lífið gæti upp runnið í oss? Hann hefir kennt oss, að það sè eilíft líf, að þekkja sig og þann, sem sendi hann, einn sannan Guð (Jóh. 17., 3.). En að þessi þekkíng ekki megi vera dauð og ávaxtarlaus, hefir hann brýnt fyrir oss, þegar hann sagði, að til þess að eignast eilíft líf, þyrftum vèr að elska Guð umfram alla hluti og náúngann eins og sjálfa oss (Lúk. 10., 28.). Þetta er líka eðlilegt, því sá, sem ekki elskar Guð, þekkir hann ekki rèttilega, og er ekki gagntekinn af lotníngu fyrir hans eilífu hátign, nè af þakklæti fyrir hans óendanlegu gæzku. Davíð hefir fagurlega lýst elskunni til Guðs, þegar hann segir: „Hjartkæran hefi eg þig, Drottinn! minn styrkleiki" (Sálm. 18., 2.). „Hvern hefi eg í himninum nema þig? og jafnt við þig gleðst eg við ekkert á jörðinni. Þó að minn líkami og hjarta vanmegnist, ertu samt, Guð! alla tíma mitt hjartans traust og hlutskipti" (73. 25.—26.). „Eins og hjörturinn kallar eptir rennanda vatni, eins kallar sál mín, Guð! til þín. Sál mína þyrstir

eptir Guði, eptir lifanda Guði" (42., 2.—3.). Ó, hversu aumir eruð þèr, syndugir menn! sem aldrei finnið til þessa þorsta eptir Guði, sem einúngis þyrstir eptir hinum jarðnesku svölunarlindum, sem ekki gjöra annað en æsa þorsta yðar því meir; sem látið daga koma og líða, án þess að lypta hjörtunum upp til Guðs, af því þèr finnið hjá yður enga löngun til þess. Þèr hvorki byrið daginn nè endið hann með bæn til Drottins; þèr leitið einúngis líkamanum hvíldar, en leitið ekki sálunni hvíldar í Guði? Hvernig ættuð þèr þá, niðursokknir í þetta jarðneska líf, að hafa eilíft líf í yður veranda? Vilir þú eignast eilíft líf, kristinn maður! þá ástundaðu að elska Drottinn Guð þinn af öllu hjarta; hugsaðu um hans óendanlegu fullkomlegleika, um hans almætti, heilagleika, speki og gæzku; rifjaðu upp með þèr allar hans náðarríku velgjörðir við oss synduga menn og við þig sèr í lagi, og þakkaðu honum af öllu hjarta fyrir hans náð og miskunsemi, og þegar þú í öllum lífsins byltingum „með góðri breytni felur sálu þína honum á hendur" (1. Pèt. 4., 19.), þá munt þú fá að reyna, „að hans kærleiki fullkomnast í þèr". En vèr vitum það, kærir bræður! að vèr eigum ekki að elska með orði og túngu, heldur í verki og sannleika", og því „höfum vèr það boðorð frá Guði, að sá, sem elskar Guð, honum beri einnig að elska sinn bróður" (1. Jóh. 4., 21.), og í þessu boðorði eru allar skyldur vorar við náúngann innifaldar. Eins og vor himneski faðir alltaf

erfiðar, alltaf upp lýkur sinni mildu hendi með sinni blessun, þannig eigum vèr líka, eins og hans börn, að erfiða trúlega hver í sínum verkahring með samvizkusemi og í kærleika, og leitast við, eptir því sem oss er unnt, að efla annara heillir. Hversu opt brýnir ekki guðsorð fyrir oss, að vèr eigum að vera meðaumkunarsamir, sáttgjarnir, hreinskilnir, mildir og mannúðlegir við aðra, þar eð vèr allir sèum börn hins sama himneska föður og allir endurleystir af frelsara vorum, Jesú Kristi.

Þegar vèr nú, kærir bræður! spyrjum, hvernig vèr eigum að breyta, svo að vèr eignumst eilíft líf, þá bendir frelsarinn oss á föðurinn, sem sendi hann og segir: „Elska skaltu Drottinn Guð þinn af öllu hjarta þínu og af allri öndu þinni og af öllum mætti þínum og af öllu hugskoti þínu", og hann bendir oss á bræður vora, sem hann elskaði og gaf sig í dauðann fyrir, og segir við hvern þann, sem honum vill fylgja: „Elska skaltu náúnga þinn eins og sjálfan þig". Já, hann bendir oss á þann síðasta dag, þegar hann kemur aptur í sinni himnesku dýrð og allar þjóðir safnast til hans, og hann af sinni náð og miskunsemi mun segja við þá, sem hèr í lífi höfðu hlýtt hans röddu: „Komið blessuð börn míns föður og eignizt það ríki, sem yður var fyrirbúið frá upphafi veraldar! . . . . það sem þèr gjörðuð við einn af þessum minnstu bræðrum mínum, það hafið þèr mèr gjört" (Mtth. 25.). Látum þessa umhugsun kröptuglega hvetja oss til að

höndla eilift líf í elsku til Guðs og manna, og í lifandi trú á vorn himneska föður og þann, sem hann sendi, Jesúm Krist. Trúin er skilyrði fyrir elskunni, af því trúin veitir huggun og hvíld sálum vorum. Þegar vèr í trúnni tileinkum oss huggun Guðs náðarfyrirheita og treystum því, að syndir vorar sèu oss fyrirgefnar og að það sè engin fordæming framar yfir oss, og vèr því finnum til friðar og gleði í hjörtum vorum, æ! þá hrærast hjörtu vor af þakklæti og af elsku til Drottins, sem miskunaði oss, aumum syndurum, frelsaði oss úr neyðinni og tók oss í sátt við sig. Þá fer kærleikurinn að þvínga oss, svo vèr viljum ekki framar lifa sjálfum oss, þá fer kærleikurinn að þvínga vorn vilja undir Krists vilja og vort trúaða og kærleiksfulla hugarfar fer að bera ávöxt í heilögu líferni.

Ó, Guð! gef þú oss náð til þess, að taka æ meiri og meiri framförum í trúnni og kærleikanum, svo vèr fáum höndlað eilift líf: hið eilífa sælulífið í þèr, sem ert og varst og verður frá eilífð til eilífðar. Bænheyr oss í Jesú nafni! Amen.

---

# 19. hugvekja.

Hebr. 9., 27. „Mönnunum er fyrir sett eitt sinn að deyja."

Allir menn hljóta að deyja, og þó hafa fæstir rètta hugmynd um, hvernig þeir eigi að deyja, til þess að dauðinn geti orðið þeim ávinningur,

það er að skilja: inngangur til eilífs lífs. þess vegna eru svo margir hræddir við dauðann og svo margir sjúklíngar, sem ekki þykir neinn hlutur óttalegri en sú tilhugsun, að þeir verði bráðum að skilja hèr við og yfirgefa þetta líf. þetta gegnir því meiri furðu, sem það eru ekki einúngis veikindin, er minna oss á dauðann, heldur og allir hlutir, bæði hjá sjálfum oss og umhverfis oss. Já, sèrhvert kvöld og sèrhver morgun minna oss á vort dauðlega eðli og vort endadægur, og enn er einn dagur æfi vorrar liðinn og vèr erum komnir einum degi nær gröfinni. Hversu fljótt líður ekki barnæskan, fullorðinsaldurinn og elliárin, og það sem liggur milli vor og grafarinnar, það sem að skilur oss og eilífðina, er ekki nema eitt augnablik. Æ, undir hverju er þá viðhald þessa vors skamvinna lífs komið? Undir viðhaldi þessa líkama, sem fyr eða síðar verður að dupti og moldu, þó hann sè dásemdarverk Drottins og vottur um hans almætti og speki. Allir hlutir verða til þess að eyða líkamanum, og á hverjum degi og hverri stundu verður þessu verki meir og meir ágengt. Áhyggja og sorg, erfiði og mæða og þau störf, sem vèr ekki getum hjá komizt, veikja heilsu vora og eyða kröptum vorum. Ekki er hvíld og iðjuleysi eða munaðarlífið hættuminna fyrir líkamann, því þetta gjörir hann þúngan og óhæfilegan til allrar vinnu, og hefir ótal veikindi í för með sèr. Hèr við bætast svo mörg skaðleg útvortis áhrif, sem vèr ekki getum

gætt vor fyrir: illviðri, frost og hiti, þurkur og væta. Já, jafnvel fæðan, sem vèr neytum, og loptið, sem vèr öndum að oss, veikir lífskraptinn. Sèrhvert augnablik, er vèr lifum, er barátta við dauðann. Og hversu lítið þarf ekki til þess að flýta fyrir honum! Ekki þarf annað til þess en lítinn fótamissi, litla byltu, óvarkára hreifingu, einn dropa blóðs, sem tekur óreglulega stefnu, litla sin, sem slitnar, og í stuttu máli getur lítilfjörlegt viðvik, sem vèr ekki getum fyrir sèð nè fyrir byggt, allt í einu grandað lífi voru og sundurskorið vorn veika lífsþráð. Og þó lifum vèr eins og vèr ættum aldrei að deyja, eða ættum það víst, að fá nægan tíma til undirbúnings undir dauðann. „Dári! í nótt mun líf þitt verða frá þèr tekið" (Lúk. 12., 20.). Á hverjum degi megum vèr búast við að heyra þessi óttalegu og alvörufullu orð til vor töluð, og það er einúngis Guðs náð að þakka, að þetta hefir allt til þessa dregizt, og að hann hefir lengt vorn lífstíma til nálægrar stundar. Í stað þess að segja með postulanum Páli: „eg dey daglega og mig langar til að fara hèðan og vera hjá Kristi," þá höfum vèr mörg áform fyrir stafni, sem gjöra ráð fyrir löngu lífi. — Af hverju kemur nú þessi óbeit á að búast við dauða vorum? Af því vèr elskum þetta líf svo dátt, af því vèr hvorki elskum guðsríki nè eilíft líf eins og vèr ættum að gjöra. Ó, vèr aumar og vesalar mannskepnur, sem ekki getum losað hug nè hjarta við þessa jörð, sem þó er mörg-

um af oss saunkallaður táradalur, sem ekki getum út rýmt úr hjörtum vorum elskunni til heimsins og hans fallvöltu gæða, sem yfirgefa oss áður en oss varir! Æ, snú þú oss, Drottinn! þá verður oss snúið; snú þú vorum hjörtum í hæðirnar til þín og gef þú oss náð til þess að hugleiða, að vèr erum hèr útlendir og vegfarendur, að hèr er ekki vort rètta föðurland, heldur hjá þèr, vor himneski faðir! Biðjum þannig góðan Guð æ og iðulega að gefa oss krapta til að losa hjörtu vor við mátalausa elsku til hinna jarðnesku hluta, en gróðursetja þar aptur heita elsku til sín og frelsara vors, Jesú Krists. Venjum oss á að hugsa opt um dauðann, en ekki svo, að vèr fyllumst ótta og kvíða af þessari umhugsun, heldur til þess því betur og rækilegar að geta búið oss undir hann í sönnum guðsótta; til þess með því meiri árvekni að geta vakað yfir sjálfum oss og sigrazt á þeim freistíngum, sem heimurinn og vorar spilltu girndir leiða oss í; til þess með því meiri kostgæfni að leitast við að afla oss þeirra himnesku fjársjóða, sem hvorki mölur nè ryð fá grandað, sem fylgja oss út yfir dauðann inn í eilífðina. Ef vèr, kristnir bræður! breytum þannig, þá getum vèr ókvíðnir horft á dauðans aðkomu, ókvíðnir sagt: „kom þú sæll þegar þú villt!" því vèr lifum þá og deyjum í Jesú nafni, í innilegri sameiníngu við hann, sem er upprisan og lífið, og sem hefir heitið sínum trúlyndu lærisveinum, að þeir skuli eilíflega fá að vera þar sem

hann er. Hann mun þá á vorri dauðastundu flytja oss hèðan í sínum blessaða friðarfaðmi inn á friðarins og fagnaðarins land, í sælufulla sambúð við Guð og alla útvalda. Amen.

---

# 20. hugvekja.

Matth. 25., 46. „Þá munu þessir fara til ævarandi kvala, en þeir góðu til eilífrar sælu."

Þetta verða þá hin seinustu afdrif allra manna, að hinir óguðlegu fara til ævarandi kvala og hinir góðu til eilífrar sælu; þannig enda þá að lokunum allar þeirra óskir og vonir, allar þeirra ráðagjörðir og áform; þannig verður þá að lokunum leitt í ljós, það sem nú er hulið, hvers vegna lífskjörum mannanna hèr á jörðu er svo misjafnt úthlutað, og allt opinberað, sem oss nú þykir óskiljanlegt í Guðs alheimsstjórn. Þetta líf er þá ekki nema eitt augnablik, sem jafnskjótt hverfur aptur í endalausri eilífð. Endalaus ófarsæld og eilíf sæla að greina þá að lokunum kjör allra manna, og annaðhvort þetta hlutskipti bíður þá einnig vor, kærir bræður! En hvað kemur til þess, að þessi háleitu sannindi, sem hafa svo mikilvægar afleiðíngar fyrir vora eilífu farsæld, sýnast hafa svo lítil áhrif á líferni manna og betrun hugarfarsins? Mun það ekki koma til af því, að spillíngin, sem er vantrúarinnar móðir, vekur efasemdir um sannleikann í hjörtum manna og

kemur þeim til að spyrja sjálfa sig, hvort þetta muni ganga til eins og guðsorð kennir oss. Það er líka eðlilegt, að hið spillta hugarfar reyni með öllu móti til að vefengja þann sannleika, sem er svo vel lagaður til að trufla þess holdlega andvaraleysi og veikja áhrif þess sannleika, sem ónáðar það í syndarinnar og heimsins þjónustu. Heimurinn hefir, eins og vonlegt er, enga geðþekkni á að hugsa um eilíft endurgjald, og því hefir hann ávalt reynt til að út rýma umhugsun um eilífðina úr huga og hjörtum manna; hann veit af því, að þessi hugsun leggur óþægilegt hapt á mannlegar girndir og tilhneigíngar, og að girndanna þrælar muni ekki geta orðið rólegir og andvaralausir, nema þeir áður sèu gjörðir vantrúaðir. Það er nú líklegt, að enginn af oss, kristnir bræður! efumst um sannleika guðsorðs, efumst um, að annað líf sè til eptir þetta, og að á efsta degi fái góðir og vondir eilíf laun og eilífa hegníng fyrir breytni sína hèr í lífi. En þó sýnir hugarfar vort og breytni vor, hálfvelgja vor og alvöruleysi í vorum sáluhjálpar efnum, að annaðhvort felst leynilegur efi í hjörtum vorum, eða að trú vor er dauð og dofin. Það væri sannarlega hryggilegt, ef það þyrfti að fara að sanna hina helztu og huggunarfyllstu trúarlærdóma fyrir kristnum mönnum; ef það þyrfti á ný að fara að sanna fyrir þeim, sem hafa meðtekið Jesúm Krist í trúnni og eru uppfræddir í hans sáluhjálplega lærdómi, að vèr ekki sèum orðnir til af blindri hendíngu

eða tilviljun, heldur hafi almáttug og alvitur vera myndað oss og gefið oss ódauðlegan anda, sem lífgi líkama vorn og hverfi aptur til Guðs, sem gaf hann, hverfi til þeirra eilífu bústaða, þar sem hverjum verður goldið eptir hans verkum. Með þessum sannindum hóf Páll postuli trúarkenníngu sína fyrir Aþenuborgarmönnum (Post. gb. 17., 29.), og með þeim lögðu postularnir grundvöll sinnar sáluhjálplegu kenníngar meðal heiðinna og spilltra þjóða. Á þessum sannindum hefir kristileg kirkja verið byggð, á þeim hefir hún staðið óhögguð í margar aldir og mun standa allt til veraldarinnar enda. Það ætti því aldrei að þurfa að sanna það fyrir kristnum mönnum, að eilíft líf og eilíft endurgjald bíði vor hinu megin grafarinnar, heldur einúngis reyna til að lífga þessa trú, þar sem hún sýnist vera dauf og ávaxtarlaus, með því að hvetja oss til að búa oss sem bezt undir eilífðina og efla vora sáluhjálp með ótta og andvara. Þó er það víst, kærir bræður! að vèr getum aldrei tekið oss nógsamlegan vara fyrir því, að leyfa vantrúnni inngöngu í vor hjörtu, því vantrúin er órækur vottur um spillíngu hjartans, og hinn óguðlegi segir: „þar er enginn Guð til". Þess vegna eigum vèr iðulega með guðrækilegum og skynsamlegum hugleiðíngum að lífga hjá oss eilífðarinnar von og vissu. Gætum þess jafnan, að trúin er örugg eptirvæntíng þeirra hluta, sem maður vonar, og sannfæríng um það, sem hann ekki sèr (Hebr. 11., 1.). Vèr megum

ekki nema staðar við það, sem vèr sjáum með vorum líkamlegu augum, því þá verður gröfin sá seinasti hvíldarstaður í huga vorum. En eins og sèrhver óspilltur maður finnur til þess innst í sálu sinni, að það er annað æðra til en það, sem vèr verðum varir við með skilníngarvitum vorum, að það er til ósýnilegur heimur, sem hefir áhrif á oss og breytni vora eigi síður en þessi sýnilegi heimur; þannig segir og sèrhver sá, sem trúir á Krist, með postulanum Páli: „Eg hefi þá von til Guðs, að framliðnir muni upp rísa, bæði vondir menn og góðir" (Post. gb. 24., 15.). Í gröfinni er oss ekki ætlað æfinlega að dvelja; en hún er vegurinn til vors samastaðar, og hinu megin grafarinnar verða kjör hinna guðhræddu og hinna óguðlegu næsta ólík. Og þó hinn óguðlegi hæðist að Guði og eilífðinni með vörunum, mun hann þó ekki án skelfíngar geta hugsað til þessara frelsarans orða: „þá munu þessir fara til ævarandi kvala;" og eins og það hefir verið, þannig mun það og ætíð verða, huggun allra guðsbarna í lífi og dauða, að trúa því og treysta, að þau við enda þessa jarðneska lífs muni fá að koma til föðursins á himnum, samkvæmt Jesú fyrirheitum, sem í bæninni til síns himneska föður sagði: „Faðir! eg vil, að þeir, sem þú gafst mèr, sèu hjá mèr þar sem eg er, svo þeir sjái mína dýrð, sem þú gafst mèr" (Jóh. 17., 24.). Vissulega hefir þú, trúaða sál! þegar þú í bæninni varst Guði og frelsara þínum sameinuð, fundið til þess friðar og fagn-

aðar, sem var forsmekkur eilífrar sælu, og „fengið að smakka Guðs himnesku gáfu og krapt komandi aldar". Þetta fáum vèr að reyna á sælustundum lífsins, og þessi reynsla veitir sálum vorum hvíld í trúnni, og því innilegri og fjörugri sem trúin verður, því betur lyptir hún oss upp yfir sút og sorg þessa lífs, svo oss þykja mótlætíngar nálægs tíma einskis virði í samanburði við þá dýrð, sem við oss mun opinber verða. Vörumst því, kærir bræður! að láta holdlegar girndir og soll veraldarinnar spilla hjörtum vorum, eða koma oss til að gleyma Guði; því ef vèr gleymum honum, þá gleymum vèr eilífðinni og missum sjónar á hinu æðra andlega lifi, sem á að gjöra oss hæfilega fyrir eilífa sælu. Æ, Guð minn góður! láttu mig aldrei gleyma þèr nè eilífðinni, og þegar syndin ætlar að blinda mína trúarsjón með vantrúarinnar myrkri: æ, láttu þá geisla þíns eilífa lífs lýsa niður í sálu mína, svo eg í lifi og dauða haldi fast við þá trú, að „það er eilíft líf, að þekkja þig einn sannan Guð og þann, sem þú sendir, Jesúm Krist." Í þeirri von vil eg lifa og deyja. Amen.

---

## 21. hugvekja.

Matth. 10., 28. „Jesús sagði: Hræðizt ekki þá, sem líkamann deyða, en geta ekki líflátið sálina."

Það er alþekktur sannleiki, að hið fyrsta stig lífsins er líka hið fyrsta stig til grafarinnar. Allt

frá fæðíngu vorri berum vèr dauðann í oss, og það má svo að orði kveða, að vèr deyjum daglega, því sèrhvert augnablik sviptir oss nokkru af lífi voru og flytur oss einu feti nær gröfinni; líkaminn hrörnar, heilsan bilar og öll vor æfi verður nokkurs konar langvinnt dauðastríð. þegar lífi mannanna er nú þannig varið, ættu þeir þá að vera nokkurri hugsun kunnugri og handgengnari en íhugun dauðans? En mönnunum er svo varið, að þeir forðast að hugsa um það, sem getur vakið hjá þeim óþægilegar og sorglegar tilfinníngar, og þess vegna stendur þeim stuggur af að hugsa um dauðann. þeim þykir það mjög geigvænlegt að deyja og missa sjónar á öllu því, sem þeir hèr hafa mætur á, að verða lík og orma fæða, og flytja ofan í hina dymmu gröf og inn í hið ókunna djúp eilífðarinnar; þeim stendur stuggur af að hugsa til þessa, og þá hryllir við öllu því, sem minnir þá á dauðann. það mátti virða heiðíngjunum til vorkunar, þó þeir hefðu þessa miklu hræðslu fyrir dauðanum, því þeir hlutu að skoða dauðann sem einhverja hina mestu ógæfu, af því þeir þekktu ekki annað líf og áttu ekki von á neinu hinu megin grafarinnar; af því þeir lifðu án vonar, urðu þeir að deyja án huggunar. En hitt gegnir meiri furðu, að kristnum mönnum skuli standa svo mikill ótti af dauðanum, og að þessi ótti skuli koma þeim til að forðast að hugsa um hann. það sýnist þó vera langtum skynsamlegra, að hafa alltaf vakanda auga á dauðan-

um og búa sig undir hann, fyrst hann ekki verður umflúinn og þykir svo hræðilegur. Eða er það tilhlýðilegt að verða því skeytíngarlausari, sem sú yfirvofandi hætta er meiri og óttalegri? Eigum vèr að láta of mikla hræðslu gjöra oss hugsunarlausa og út rýma hjá oss þeim guðrækilega ótta og andvara, sem nauðsynlegur er til vorrar sáluhjálpar eflíngar? Er ekki hræðileg mótsögn í því, að of mikill ótti fyrir dauðanum skuli gjöra oss óhrædda og kæríngarlausa? Eða væri það ekki heimskulegt, ef vèr ættum að þræða eitthvert örmjótt einstigi, þar sem hengiflug væri fyrir neðan, að láta binda fyrir augu vor, svo vèr ekki sæjum háskann, af ótta fyrir því, að oss kynni að sundla? Vèr stöndum á barmi grafarinnar og látum þessa sjón hræða oss, og í stað þess að taka allar kristilegar varúðarreglur og hafa guðsorð oss til stuðníngs og ráðaneytis, svo vèr ekki að óvörum dettum ofan í grafarinnar djúp, þá bindum vèr sjálfir fyrir augu vor, svo vèr ekki sjáum hana, og gjörum allt til að út rýma þessari sjón úr huga vorum. Þetta væri þó sök sèr, ef vèr gætum hrundið dauðanum frá oss með því, að hrynda frá oss umhugsun um hann. En því er ekki þannig varið; hvort sem vèr hugsum um hann eða ekki, þá nálgast hann oss alltaf meir og meir og hittir oss þegar hans tími er kominn. Hvað ávinnum vèr þá með því, að hrynda þessari hugsun frá oss? Gjörum vèr hættuna minni fyrir það? Nei, vèr aukum hana, og verðum

því óttaslegnari þegar hann yfir fellur oss. Ef vèr iðulega hugsuðum um dauðann, þá vendumst vèr smátt og smátt við þessa hugsun, og hann missti smám saman sinn beittasta brodd. Sú hætta, sem menn sjá löngu fyrir, er ekki svo óttaleg, og dauðinn er ekki óttalegur þegar vèr búum oss undir hann í tíma, en ætíð hræðilegur þegar hann hittir einhvern óviðbúinn. Þèr óttizt fyrir því, kærir bræður! að iðuleg umhugsun um dauðann mundi trufla yður í yðar veraldlegu störfum, aptra yður frá að neyta lífsins glaðværðar, og jafnvel skerða skynsemi yðar og svipta yður sálarrósemi. En þetta stríðir á móti reynslunni, sem sýnir oss, að engir hafa gegnt sinni tímanlegu köllun betur en þeir guðsvinir, sem hafa látið umhugsun um dauðann fylgja sèr í öllum sínum áformum og fyrirtækjum, látið hana sefa girndir sínar og vera hina kröptugustu uppörfun fyrir sig til að reynast Drottni trúir. Sú gleði, sem ekki getur sameinast við dauðans umhugsun, er vissulega syndsamleg og á ekki rót sína í Guði; hinn trúaði neytir saklausrar gleði með þakklæti við gjafarann allra góðra hluta, og hugsar jafnframt til þeirrar óumræðilegu gleðinnar á himnum, sem Guð hefir sínum börnum fyrirhugað, þegar þau flytja hèðan. Skynsemin truflast ekki við dauðans umhugsun, því hún sèr eilífðarinnar morgunroða gegnum grafarinnar myrkur, og fær af guðsorði það vonar og huggunar ljós, sem gjörir hana sjálfa ennþá upplýstari og fegri; við umhugsun dauðans fær hún þá speki, sem kennir oss að telja vora

daga, sem kennir oss að lifa og deyja kristilega. Já, það er syndsamlegt vanþakklæti við Guð, að hrynda frá sèr umhugsun um dauðann, af því hún kunni að óspekja hjörtu vor og gjöra oss órólega. Þessi hræðslu tilfinníng fyrir dauðanum, sem þú hefir, kristinn maður! er náðarvelgjörð Guðs. Margir óguðlegir nálgast dauðann óhræddir og í forherðíngu hjartans, og margir lèttúðarfullir syndarar skoða lífið eins og leikfang og lifa alla æfi án þess að hugsa um dauða sinn. Það er því Guðs velgjörð við þig, að hann lætur hræðslu fyrir dauðanum hreifa sèr í sálu þinni, og það er líklegt, að hann með þessu móti ætli að leiða þig aptur til sín. Varastu því að hrynda frá þèr umhugsun um dauðann, því hún vekur hjá þèr heilsusamlegan ótta; varastu að láta þessa Guðs náð verða til ónýtis á þèr, en hagnýttu þèr hana svo, að þú eflir þína sáluhjálp með ótta og andvara; þá hræðist þú ekki lengur viðskilnað þinn hèðan, heldur einúngis syndina og allt það, sem getur skilið þig við Guð; þá hræðist þú ekki dauðann lengur sem óvin lífsins, heldur skoðar þú hann sem engil Drottins, sem hann sendir til að flytja þig hèðan á friðarins land. Hugur þinn nemur þá ekki lengur staðar við grafarinnar geigvænlegu bústaði, heldur leitar hann til himins, og þar hefir þú umgengni þína, þangað til dauðinn vitjar þín á sáluhjálplegri stund og leiðir þig í Guðs miskunarfaðm. Guð miskuni oss öllum í Jesú nafni! Amen.

---

# 22. hugvekja.

Efes. 4., 3. „Kappkostið að varðveita einíngu andans með bandi friðarins."

Vèr vitum, kærir bræður! að kærleikans boðorð er kristindómsins æðsta boðorð, og er það eðlilegt, því frelsari vor, sem gaf oss þetta boðorð, er sjálfur ímynd hins eilífa kærleika, ímynd hans, sem er faðir allra, sem börn kallast bæði á himni og jörðu. Að elska Guð umfram allt og náúngann eins og sjálfa oss, það er hið mikla og háleita boðorð, sem oss öllum er gefið og sem vèr allir verðum að leitast við að halda, ef vèr viljum vera sannir Jesú lærisveinar og sannarleg guðsbörn. Af þessu elskunnar æðsta boðorði sprettur hitt, „að varðveita einíngu andans með bandi friðarins", því þar sem elskan er fyrir, þar býr friður og eining andans. Í sèrhverri stètt og stöðu gefst oss færi á að stunda þessar kristilegu dyggðir, því ætíð höfum vèr eitthvað saman við aðra menn að sælda, allir erum vèr limir mannlegs fèlags og eigum allir að minnsta kosti eitthvert heimili, og eigum þannig í voru daglega lífi kost á, að auðsýna hver öðrum velvild og bróðurlegan kærleika, kost á, að varðveita einíngu andans með bandi friðarins. Heimilislífið er rót og undirstaða hins kristilega þjóðlífs, í heimilislífinu á kærleiki og friður að gróðursetjast, og þaðan eiga að spretta blessunarfullir ávextir fyrir mannlegt líf yfir höfuð. Í húsfèlagi voru og á heimilum

vorum á eining andans með bandi friðarins sèr í lagi að eiga heima; þar eigum vèr að finna hressandi hvíld eptir hita og þúnga dagsins og ganga til hvíldar í friði og kærleika. Heimili vor eiga að vera eins og musteri, helguð Drottins þjónustu; á heimilum vorum á hans orð að búa ríkulega og hafa huggandi og helgandi áhrif á vora daglegu breytni. Búi eining andans með bandi friðarins á heimilum vorum, þá er það mikil bót og raunalèttir í sèrhverju böli og andstreymi, sem oss mætir í þessu lífi; og það má óhætt fullyrða, að farsæld og gleði blómgast hvergi betur á þessari jörðu, en á því heimili, hvar einíngu andans er viðhaldið með bandi friðarins, og húshagurinn er eins og hann á að vera eptir Guðs vilja; eins og það að hinu leytinu er óyggjanda, að eymd og ófarsæld mannlegs lífs birtist hvergi í hræðilegri mynd, en á þeim heimilum, hvar úlfúð og ófriður eiga heima, hvar agg, deilur og sundurlyndi taka sèr bólfestu. En til þess að vèr getum gætt einingar andans með bandi friðarins, til þess að sambúð vor geti verið kristileg, verðum vèr umfram allt að búa saman í guðsótta. Guðsótti er einka-skilyrði fyrir því, að heimilislíf vort geti orðið gleðilegt og farsælt. Án Guðs blessunar getum vèr engrar farsældar vænt oss; en hvernig getum vèr vænt oss hans blessunar, ef vèr ekkert samneyti viljum eiga við hann, ef vèr út hýsum honum úr húsum vorum og hjörtum? Að vísu eru víða nóg efni og auð-

legð og mörg heimili til, sem eru byrg af tímanlegum munum, þó guðsótti eigi þar ekki heima; og sömuleiðis er víða skortur og örbyrgð, þó guðsótti sè þar fyrir. En auðlegðin er ekki órækur vottur um Guðs blessun. Eða eru ekki margir fátækir og ófarsælir mitt í auðlegð sinni? Er það ekki eins og óblessun hvíli yfir auðlegð þeirra, svo þeir hafa hennar engin not, heldur einúngis amstur og armæðu, áhyggjur og sorgir? Sjáum vèr ekki einatt eymd og andstreymi eiga heima í allsnægtum, þar sem ósamlyndi og ófriður, eða svall og syndsamlegt líferni, truflar og saurgar sèrhverja gleði? En höfum vèr ekki þar á mót opt sèð, að Guðs blessun fylgdi litlum efnum, og þekkt mörg heimili, sem daglega reyndu, að guðhræðsla með nægjusemi er mikill ávinníngur? Það er því áreiðanlegt, að þar sem guðsótti er, þar er líka Guðs blessun; opt er þessi blessun áþreyfanleg og sýnileg í góðum efnahag; en þó hún ekki sjáist, er hún þar þó engu að síður. Drottinn gefur ætíð nóg til nauðþurftar, því nóg finnst þeim, sèr nægja lætur; nægjusemin verndar manninn fyrir áhyggju og sorgum, og guðhræðslan kennir honum að treysta guðlegri forsjón og reiða sig á hana. Þó er þetta ekki svo að skilja, að hinar ytri kríngumstæður hafi ekki talsverð áhrif á ánægju og rósemi vora, og því fer fjarri, að hin guðhræddu heimilin geti ávalt farið varhluta af allri mæðu og mótlæti þessa lífs; en því nauðsynlegra er það, þegar

svo ber undir, að hafa þá í kríng um sig, sem kappkosta að varðveita einíngu andans með bandi friðarins, sem bera hver annars byrði, finna hver til annars meina og auðsýna hver öðrum innilegan bróðurkærleika; en eigi þessi bróðurkærleiki að vera staðfastur og hjartanlegur á mótlætínganna tímum, verður hann að eiga sèr rót í elskunni til Guðs, í sönnum guðsótta; því sú kristilega elska er í raun rèttri elska til Guðs myndar í manninum. Þessi kristilega bróðurást breiðir blessun sína út yfir heimilislífið og gjörir það sannfarsælt; þar sem hjónin unnast af hjarta, þar býr eining andans, samlyndi og friður, þar býr sáttgirni, því kærleikurinn þreytist ekki af að fyrirgefa og leiðrètta með hógværum anda; þar býr trú og hollusta; kærleikurinn gefur húsföðurnum þrótt og þolgæði og prýðir konuna með blíðlyndi, umhyggju og reglusemi; hann gjörir hjónin nægjusöm, þrautgóð og þolinmóð. Kærleikurinn kemur foreldrunum til að vaka yfir börnum sínum og upp ala þau í aga og umvöndun til Drottins; hann kemur börnunum til að hlýða foreldrum sínum í öllu góðu. Kærleikurinn gjörir húsbændurna væga og vorkunláta við hjú sín, og hjúin trú og holl við húsbændur sína. Kærleikurinn kemur því til leiðar, að hver tekur innilega hlutdeild í annars gleði og sorg, og hjálpar þeim til að varðveita einíngu andans með bandi friðarins.

Látum oss þá, kærir bræður! kappkosta að varðveita einíngu andans með bandi friðar-

ins; látum oss búa saman í friði og eindrægni, eins og bræður og systur, þenna stutta tíma, sem oss hèr er ætlað að vera saman! Biðjum friðarins Guð að styrkja oss í þessum góða ásetníngi og senda friðarins anda í vor hjörtu, svo vor sambúð verði honum til dýrðar, en oss sjálfum sáluhjálpleg! Drottins náð og friður sè með oss öllum í Jesú nafni! Amen.

---

# 23. hugvekja.

Lúk. 8., 15. „Þeir, sem orðið heyra og geyma það í góðu og siðsömu hjarta, bera ávöxt með stöðuglyndi."

Það er víst, að Jesú lærdómur er „kraptur Guðs til sáluhjálpar sèrhverjum sem trúir", eins og Páll postuli segir (Róm. 1., 16.). En til þess að kraptur hans geti sýnt sínar sáluhjálplegu verkanir hjá manninum, útheimtist hjá honum trúin, eða: að hann „geymi orðið í góðu og siðsömu hjarta", eins og frelsari vor að orði kemst. Ef þèr því, kærir bræður! vilið hafa sönn og sáluhjálpleg not af Guðs heilaga orði og geta borið ávöxt með stöðuglyndi, þá geymið það í trúuðum, í góðum og siðsömum hjörtum. Í hvert sinn, sem þèr ætlið að hafa guðsorð um hönd, þá hyggið fyrst og fremst að hjörtum yðar, hvernig þau eru ásigkomin, hvort þau eru hæfileg til að taka við því og geyma það, og þessa rannsókn byrið þèr bezt með því, að lypta þeim upp í hæðirnar til ljósanna föður og biðja hann að skapa í yður

hreint hjarta, biðja hann að láta krapt sinna sannleiksorða út rýma úr hjörtum yðar þeim kulda og því tilfinníngarleysi, sem híngað til hefir veitt verkunum hans orðs mótspyrnu, þegar þèr heyrðuð það eða lásuð; biðja hann að senda yður anda ráðs og skilníngs, sem leiði yður í allan sannleika. Enn fremur verðið þèr að finna til angurs og hryggðar í hjörtum yðar yfir því, hversu lítinn ávöxt þèr allt til þessa hafið borið af heyrn og lestri guðsorðs, hvernig þèr svo opt hafið haft það um hönd án andaktar og eptirtektar, og látið það eins og vind um eyrun þjóta, svo það ekki gat vakið yður, nè haft betrandi áhrif á hjörtu og líferni yðar. Biðið Guð fyrirgefníngar á því, hversu opt þèr hafið vanbrúkað hans orð og veitt þeim náðarverkunum mótspyrnu, sem áttu að leiða yður til iðrunar og sáluhjálpar. Sú þriðja tilfinníng, sem á að hreifa sèr í hjörtum yðar, þegar þèr setizt niður til að hlýða guðsorði, er innilegt þakklæti við góðan Guð fyrir það, að hann hefir gefið oss sitt sáluhjálplega orð og gefur oss enn færi á að hafa það um hönd; innilegt og auðmjúkt þakklæti við hann fyrir þetta dýrmæta náðarmeðal, sem hann hefir ætlazt til að væri ljós á vorum vegum og lampi vorra fóta, meðan vèr ráfum í þessum dymma dal og dauðans skugga. Já, vissulega er það einhver sú mesta velgjörð guðlegrar náðar, að hann lætur sitt orð búa ríkulega meðal vor, og gefur oss tækifæri til að uppfræðast af því í vorum sáluhjálparefn-

um; því hvað værum vèr, ef vèr ekki hefðum það? Vonarlausir í lífinu og huggunarlausir í dauðanum. En því þýngri er líka vor ábyrgðarhluti og því hegningarverðari erum vèr, ef vèr vanrækjum það, eða höfum það ár eptir ár um hönd, án þess það beri hjá oss nokkurn ávöxt. Æ! megum vèr þá ekki óttast fyrir, að sagt verði við oss, eins og þeir Páll og Barnabas sögðu við Gyðínga: „Guðsorð hlaut fyrst að berast upp fyrir yður; en þar þèr burt skúfið því og álítið yður sjálfa óverðuga eilífs lífs, sjáið! þá snúum vèr oss til heiðinna manna" (Post. gb. 13., 46.)? Megum vèr ekki óttast fyrir því, að hið eilífa lífsins orð, sem vèr af þverúð hjartna vorra fyrirlitum og vanbrúkuðum, dæmi oss á efsta degi? Þegar þèr nú, kærir bræður! eptir að hafa lypt hjörtum yðar upp til Guðs með bæn og þakkargjörð, setizt niður til að hafa hans orð um hönd, þá verðið þèr að hlýða því með andakt og eptirtekt. Gætið þess, að það er ekki mannlegt orð, sem þèr heyrið, heldur Guðs orð; enginn maður hefir hugsað það upp af sjálfum sèr, heldur hefir almáttugur og eilífur Guð opinberað oss það fyrir sinn eingetinn son; þess vegna eigum vèr að hlýða því með auðmýkt og lotníngu. Æ! ef vèr bærum meiri lotníngu fyrir guðsorði, þá mundi það hafa meiri áhrif á vor hjörtu en það almennt hefir; þá mundum vèr betur finna til þess, að þó það kunni opt að koma til vor í einföldum og óálitlegum búníngi, þá er

það þó í innsta eðli sínu orð hins eilífa lífsins, þegar það er kennt hreint og óblandað af mannasetníngum. En, því miður, hafa margir svo litla virðíngu fyrir guðsorði, að þeir annaðhvort hlýða því með leiðindum og í hugsunarleysi, eða til að setja út á það, sem þeir heyra eða lesa. Er nokkur von til þess, að guðsorð geti borið ávöxt hjá slíkum mönnum? Er nokkur von til, að þeir geti geymt það í góðum og siðsömum hjörtum? Hlýðið því guðsorði með auðmjúkri lotníngu, kærir bræður! ekki sem dómendur, heldur sem námfúsir lærisveinar, og þá munuð þèr ætíð geta af því lært eitthvað yður til sáluhjálpar, hversu einfaldlega sem það kann að vera fram sett, því „Guði hefir þóknazt að gjöra þá með einfaldlegri kenníngu hólpna, er henni vildu trúa" (1. Kor. 1., 21.). Þegar þèr þannig hlýðið guðsorði með andakt og eptirtekt, þá munuð þèr og með hreinskilnu hjarta heimfæra það til sjálfra yðar, það er að skilja: halda strangan reikníngskap við samvizku sjálfra yðar, hafa alltaf sálarástand yðar fyrir augunum og bera það saman við guðsorð, skoða yður í þessu ljósi, dæma yður eptir þessu lögmáli og hlýða því eins og það einúngis væri talað til yðar. Því miður hættir svo mörgum við því, að heimfæra það eina til sín úr guðsorði, sem huggar syndarana með fyrirheitum guðlegrar náðar, en sleppa öllu hinu, sem það talar um syndina, rèttlætið og dóminn, og gæta þess ekki, að Guð heitir engum sinni náð, nema sanniðr-

andi syndurum, nema þeim, „sem geyma hans orð í góðum og siðsömum hjörtum og bera ávöxt með stöðuglyndi". Því miður eru margir svo blindaðir, að þeir aldrei læra að þekkja sjálfa sig af guðsorði; þeim verður aldrei svo nákvæmlega lýst, að þeir ekki segi við sjálfa sig: „eg er þó ekki í tölu þessara manna"; en eru fljótir til að finna þá lesti, sem guðsorð talar um, hjá einhverjum bræðra sinna. Æ, Guð minn góður! þannig vanbrúka mennirnir þínar dýrmætustu gjafir, og jafnvel sannleikans ljós verður til að loka augum þeirra, svo þeir sjá ekki sína eigin villu, og opna þau ekki nema til að sjá annara bresti. Þegar vèr nú, kærir bræður! heimfærum guðsorð til sjálfra vor og berum það saman við vort sálar ástand, þá gætum vel að þess heilsusamlega og sáluhjálplega tilgangi, sem er að snúa vorum hjörtum frá heiminum til Guðs, út rýma þaðan villu og syndum, en gróðursetja þar aptur sannleikann og trúna, svo vèr verðum guðsbörn, kostgæfin til allra góðra verka, og berum ávöxt til eilífs lífs. Látum ekki þenna tilgang guðsorðs verða til ónýtis á oss; biðjum hann að hreinsa vor hjörtu, svo þau verði góð og siðsöm, svo vèr getum hlýtt hans orði með iðrandi og þakklátum hjörtum, með andakt og auðmjúkri lotníngu, og heimfært það kostgæfilega og með hreinskilni til sjálfra vor; þá munum vèr bera ávöxt með stöðuglyndi og gefa Guði dýrðina, því hann er sá, sem ávöxt

inn gefur. Hann virðist að bænheyra oss í Jesú nafni! Amen.

---

# 24. hugvekja.

Sálm. 117. „Lofi Drottinn allar þjóðir, prísi hann allir lýðir; því hans miskun drottnar yfir oss og Drottins trúfesti er eilíf!"

Af því Guð er eilífur og alfullkominn, þá eru allir hans eiginlegleikar eilífir og óendanlegir. Að sönnu getur engin endanleg vera rannsakað djúp guðlegrar veru, því Guð „býr í því ljósi, sem enginn fær til komizt" (1. Tím. 6., 16.), og er öllum hlutum æðri; en hann er líka í öllum hlutum, því að „í honum erum, lifum og hrærumst vèr", og hann hefir birt oss sína eilífu hátign að svo miklu leyti, sem það er nauðsynlegt, til þess að vèr getum þekkt hann, óttast hann og elskað, treyst honum og vonað á hann. Guð hefir opinberazt í náttúrunni, „með því hans ósýnilegu eiginlegleikar, hans eilífi máttur og guðdómur, eru, eins og postulinn segir, „frá veraldarinnar sköpun bersýnilegir af verkunum" (Rómv. 1., 20.). Himin og jörð eru vottur um Guðs eilífu hátign. En Guð hefir ekki einúngis opinberazt í náttúrunni, heldur einnig í viðburðanna gangi, hvar vèr einatt þreifum á hans forsjónar hendi; og í mannlegum sálum, og þar hefir hann ritað sitt lögmál og sína dóma í samvizkum vorum, sem

ýmist ásaka, ýmist afsaka oss. En einkum og sèr í lagi hefir Guð opinberazt í sínum eingetnum syni, sem er „ljómi hans dýrðar og ímynd hans veru" (Hebr. 1., 3.), svo að sá, sem þekkir soninn, þekkir og föðurinn, því faðirinn og sonurinn eru eitt. Þegar vèr nú tölum um Guð, eins og hann hefir opinberazt oss, þá nefnum vèr hans eiginlegleika, sem að sönnu í sjálfum sèr eru óskiljanlegir, en sýna oss þó Guðs veru frá ýmsum hliðum og skýra þekkíngu vora á honum. „Guðs miskun drottnar yfir oss og Drottins trúfesti er eilíf", segir Davíð. Enginn af Guðs eiginlegleikum er eins huggunarfullur fyrir oss, synduga menn, eins og hans gæzka og miskunsemi, og enginn er heldur áþreifanlegri en þessi. Sína miskunsemi opinberar Guð oss alstaðar. Þegar vèr gætum að hinum ótölulega grúa lifandi skepna, og sjáum hvernig Drottinn upp lýkur sinni mildu hendi og seður þær allar, þá finnum vèr svo glögglega til þess, að „hans miskun drottnar yfir oss og að hans trúfesti er eilíf". Hans miskun elur önn fyrir fuglum loptsins; hún skrýðir liljugrös akursins og blessar oss, vor störf og vora vinnu, því Drottinn „hefir ekki látið sjálfan sig án vitnisburðar, heldur gjört oss mikið gott og gefið oss dögg af himni og frjófsamar árstíðir" (Post. gb. 14., 17.). Miskunsemi Drottins stjórnar öllum vorum lífskjörum; stundum sendir hann oss gleði og fögnuð lífsins, meðlæti og góða daga, og þá getum vèr eins og þreifað á hans miskunsemi.

En hann sendir oss einnig mæðu og mótlæti og leggur oss stundum þúngan kross á herðar, og honum er þá einatt samfara hryggð og sorg, efasemdir og órósemi sálarinnar, kvíði og hræðsla hjartans. Þegar Drottinn dregur sína hjálp undan og vèr stynjum þreyttir og óþolinmóðir undir krossins byrði, þegar vèr mænum biðjandi upp til vors himneska föður, en hann byrgir ásjónu sína, þá reynir á trúartraustið á Guðs miskunsemi, og það veitir opt erfitt að út rýma úr hjartanu vantrú og efasemdum. Þegar hinar ytri þjáníngar þannig sameinast við sjúkleika sálarinnar, þá er ástand vort mjög hættulegt; en hvorttveggja sprettur af syndinni, sem er allra eymda móðir. Þegar þannig er ástatt fyrir oss, mættum vèr falla í örvæntíng, ef Guðs miskunsemi ekki opinberaðist oss annarstaðar, en í hinni sýnilegu náttúru. En Guðs miskunsemi opinberast einnig, og það á dásamlegastan hátt, í Jesú Krists náðarlærdómi, í þeim hinum mikla og fagnaðarríka boðskap, „að Guð elskaði svo heiminn, að hann gaf í dauðann sinn eingetinn son, til þess að hver, sem á hann trúir, ekki skuli fyrirfarast, heldur hafa eilíft líf." Guðs miskunsemi er oss opinberuð í Jesú Kristi, sem ekki einúngis gekk í kríng og gjörði gott og græddi alla, sem til hans komu, meðan hann dvaldi sýnilega nálægur hèr á jörðunni, heldur lèt einnig lífið „til lausnargjalds fyrir marga", og leiddi oss með sínum friðþægjandi dauða í Guðs miskunarfaðm. Meðan maðurinn ekki

þekkir Jesú náðarlærdóm, þekkir hann ekki heldur stærð guðlegrar miskunar, því lögmálið, sem sýnir honum hans syndasekt, kemur honum til að titra og skjálfa af ótta fyrir Guðs hegnanda rèttlæti, svo hann er jafnt huggunarlaus í meðlæti og mótlæti. En sá sem þekkir Jesú náðarlærdóm og trúir honum, hann gengur í því ljósi Guðs miskunar, sem ekki getur deprazt af nokkuri tímanlegri neyð. Sá, sem trúir á Guðs náð í Jesú Kristi, skoðar meðlætið sem náðargjöf Guðs og neytir þessarar gjafar með þakklæti við Drottinn, en varast að ofmetnast í hjarta sínu; mótlætið skoðar hann líka sem velgjörð Guðs agandi föðurhandar, og því ber hann það með stillíngu og þolinmæði. Já, „Drottins trúfesti er eilíf" og hans miskunsemi birtist alstaðar, ekki einúngis í hinni sýnilegu náttúru, heldur einkum í andlegum efnum, ekki einúngis í útbítíngu hinna tímanlegu gæðanna, heldur sèr í lagi í veitíngu hinna andlegu og eilífu gæða. Guðs miskunsemi er hvern dag ný og fersk yfir oss, og hvert augnablik lífsins er nýr vottur um hans eilífu náð og miskun. Getum vèr þá gengið innan um allar þessar gæzkunnar dásemdir, öll þessi náðarinnar undur, með köldum og tilfinníngarlausum hjörtum, án þess að lypta huganum með lofgjörð og þakklæti upp til gjafarans allra góðra hluta? Getum vèr dag eptir dag, ár eptir ár, þegið Guðs náðargjafir, án þess að vikna, án þess að hugleiða, hvaðan þær koma, án þess að íhuga, hversu miklu minni vèr erum

allri Drottins miskunsemi og trúfesti? Ó, hversu hegníngarvert væri slíkt vanþakklæti við vorn góða Guð! Látum oss daglega þakka honum af innsta hjartans grunni fyrir hans föðurlegu velgjörðir við oss, synduga menn, sem einúngis höfum til hegníngar unnið; þökkum honum fyrir allt gott, sem hann veitir oss í tímanlegum efnum; en umfram allt fyrir sendíngu hans eingetna sonar, frelsara vors, Jesú Krists, og allar þær andlegu ástgjafir, sem hann hefir veitt oss i honum: fyrirgefníngu syndanna, frið, frelsi og eilíft líf! „Guðs miskun drottnar yfir oss"; hann býr á hæðum í sínu eilífa ljósi, en sendir sína miskunar geisla niður til vor, og lætur þá lýsa oss á þessari vorri jarðnesku vegferð; og þegar vor hérvist er á enda og þessi líkamans tjaldbúð hrynur, þá hefir hann af miskunsemi sinni fyrirhugað öllum sínum börnum bústað hjá sèr í sínu himneska dýrðarríki. Þetta er sú seinasta og háleitasta opinberun Guðs eilífu náðar. Hana hafa þeir fengið að reyna, sem þegar eru kallaðir heim til föðurhúsanna, sem hafa „barizt góðri baráttu, fullkomnað hlaupið og haldið trúnni"; hana munum vèr og fá að reyna, kærir bræður! ef vèr ástundum að vera Guðs börn og reynast honum trúir. Með þessu viljum vèr hughreysta hver annan, og svo vonglaðir þreyta skeiðhlaupið í Guðs nafni; þá mun hans himneska föðurauga gæta vor og hans mildiríka forsjónar hönd leiða oss, þangað til hann á sáluhjálplegri stund flytur

oss hèðan í sín eilífu friðarheimkynni. „Lofi því Drottinn allar þjóðir, prísi hann allir lýðir, því hans miskun drottnar yfir oss og Drottins trúfesti er eilíf!" Amen.

---

# 25. hugvekja.

Sálm. 5., 5. „Þú ert ekki sá Guð, sem óguðlegt athæfi líki. Sá vondi fær ekki að vera hjá þèr."

Guð er ekki einúngis góður og miskunsamur, heldur einnig heilagur og rèttlátur, og jafnframt hans föðurlegu áminningum og kærleiksfullu aðvörunum heyrum vèr þrumurödd hans hegníngardóma og þessa alvarlegu skipun: „Verið heilagir, því Drottinn Guð yðar er heilagur"! (3. Mós. b. 11., 44.) Guð er heilagur. Ó, þetta eina orð felur í sèr allt, sem getur varpað mönnum til jarðar og lypt þeim upp til himins. Guðsorð brýnir það svo iðulega fyrir oss, að Guð hafi óbeit á öllu því, sem illt er; það kallar hann Guð hegníngarinnar og hins brennanda vandlætis, sem fyrirfer hinum þverbrotnu, og það ávarpar oss með þessum aðvörunarorðum: „Farið ekki villir vegar; Guð lætur ekki að sèr hæða!" Að sönnu er Guð kærleikurinn sjálfur; en hans kærleiki er ekki innifalinn í afskiptaleysi af syndinni, heldur er hans kærleiki heilagur, sem elskar hið góða, en hatar hið illa, í hvaða

mynd, sem það birtist. Af því Guð er heilagur og hann í öndverðu skóp oss eptir sinni mynd, þá hefir hann gróðursett í hjörtum vorum tilfinníngu, sem gjörir greinarmun góðs og ills, sem lítur hið góða með velþóknun, en hið illa með misþóknun; þessi tilfinníng er samvizka vor; hún er hinn sannkallað „heilagi eldur"; þegar hann logar stillt og skært, þá er hjartað Guðs musteri; þegar hann slokknar, fara andar myrkranna inn í hjartað og ásamt þeim alls konar andstyggð. Af því Guð er heilagur, kallar ritníngin kristna menn, sem eru endurnýjaðir eptir hans mynd og rèttlættir fyrir trúna, Guðs heilaga og elskanlega. Væri prèdikað meira um Guðs heilagleika og rèttlæti meðal vor, og ekki einúngis um hans kærleika og gæzku, þá væri meiri guðsótti hjá þessari kynslóð; og þó guðsóttinn sè ekki eins algjörr og elskan til Guðs, þá er hann þó „upphaf vizkunnar", og hætt er við því, að sá, sem aldrei hefir lært að óttast Guð, muni ekki heldur elska hann af hjarta; því ótti Drottins greiðir veginn fyrir anda kærleikans og kennir oss að sjá viðurstyggð syndarinnar og vora syndasekt, og þar sem ótti Drottins er fyrir, þar eru iðrandi og sundurkramin hjörtu, þar eru hreldar samvizkur, sem með alvörugefni hugsa um sín sáluhjálparefni og spyrja: hvað á eg að gjöra til að eignast eilíft líf? Oss mönnunum er svo hætt við að gjöra lítið úr vorum yfirsjónum og fegra og afsaka vora bresti, af því vèr viljum ekki láta

á móti sjálfum oss, nè hafa fyrir því, að krossfesta holdið með þess girndum og tilhneigíngum, og þessi spillíng vor kemur oss jafnvel til að afbaka guðsorð og aflaga hugmyndina um Guðs miskunsemi, og halda, að hvernig sem vèr breytum og hversu lítið sem vèr hirðum um að eflast að dyggðum og siðgæðum, þá getum vèr þó ekki farið á mis við eilífan fögnuð og gleði, svo að það sýnist eiga heima hjá mörgum, sem postulinn spáir, að sá tími muni koma, að menn ekki þoli þann heilsusamlega lærdóm, heldur safni sèr kennendum eptir eigin girndum, eptir því sem eyrun klæja" (2. Tím. 4., 3.). Þannig gjöra menn veginn til eilífs lífs greiðan og breiðan, þar sem þó frelsarinn segir, að hann sè mjór og þröngur, og ganga síðan í andvaraleysi þenna breiða glötunarveg móti dauða, eilífð og dómi.

Alltaf þurfum vèr því, kærir bræður! að heyra talað um Guðs heilaga eðli og hans rèttlæti; alltaf þurfum vèr að heyra þessa áminníngu: „Farið ekki villir vegar; Guð lætur ekki að sèr hæða; það sem maðurinn sáir, það mun hann og upp skera" (Gal. 6., 7.)! Já, þó uppskeran komi ekki undir eins og búið er að sá, þá kemur hún þó einhvern tíma; en það er einmitt þetta, sem svo margir gleyma; af því þeir sjá, að hinum óguðlegu vegnar opt vel í þessu lífi, en guðsbörn hafa einatt einhvern kross að bera, þá hugsa þeir, að syndin sè ekki svo hegníngarverð í Guðs augum og að það muni ekki vera svo hættulegt að drýgja

hana. En gættu þess, syndugur maður! að Guð hefir hvergi í sínu orði heitið sínum börnum, að þau í þessu lífi skyldu ávalt baða í rósum; þvert á mót segir það oss, að oss beri fyrir þrengíngar inn að ganga í guðsríki, og að hinu megin grafarinnar byri sá rètti endurgjaldstími. Guð hefir hvergi í sínu orði hótað þeim óguðlega, að hegníngin skyldi ávalt koma strax á eptir brotum hans; þvert á mót lætur hann sína sól upp renna eins yfir hina ranglátu og hina rèttlátu, og það er ekki fyrr en í öðru lífi, að hinum óguðlegu verður fullkomlega hegnt. Og þó byrjar opt hegníng þeirra hèr í lífi. „Hinn óguðlegi fær ekki að vera hjá þèr", segir Davíð. Æ, er það ekki sú þýngsta hegníng, að vera útilokaður frá öllu samfèlagi við heilagan og rèttlátan Guð, og það þegar strax í þessu lífi? Er það ekki hegníng fyrir hinn óguðlega, að geta ekki nálgast Guð með trúnaðartrausti, og það getur hann ekki meðan hann heldur iðrunarlaust áfram í syndum sínum, því þó hann hafi svæft samvizku sína, finnur hann þó til þess innst í sálu sinni, að Guð er ekki sá, sem óguðlegt athæfi líkar, og þessi hugsun ónáðar hann svo mjög í hans syndasvefni, að hann forðast að hugsa um Guð og biðja hann. Og er það þá ekki hegníng fyrir hinn óguðlega, að hann neytir Guðs gjafa í hugsunarleysi, án þakklætis við hinn algóða gjafara og án þess að verja hans gjöfum eptir hans gæzkuríka tilgangi? Og er það þá ekki einnig hegníng

fyrir hinn óguðlega, að hann er þræll sinna spilltu girnda, sem hrjá hann og hrekja og svipta hann allri sannarlegri hugarrósemi? Eins og dyggðin er sín eigin verðlaun, þannig hefir og syndin sína eigin hegníngu í sèr fólgna, sem fyrr eða síðar hittir hinn óguðlega, nema hann í tíma snúi sèr til Guðs og bæti ráð sitt. Gættu þess því, syndugur maður! að Guð er ekki sá, sem óguðlegt athæfi líkar, og að þú með þínu iðrunarlausa hugarfari sviptir sjálfan þig Guðs náð og öllu samfèlagi við hann um tíma og eilífð. Ó, hve hræðileg er þessi tilhugsun! Flý þú til hans miskunar meðan tími er til, og bið þú hann um fyrirgefníngu synda þinna í Jesú nafni; bið þú hann að gefa þèr krapt til lífernisbetrunar, svo þú getir snúið af villu þíns vegar, snúið þèr til hans, sem „ekki vill dauða syndarans, heldur að hann snúi sèr og lifi"! Æ, minn Guð! þú ert ekki sá, sem óguðlegt athæfi líkar. Að sönnu ertu eilífur kærleikur og faðir allrar miskunar; en þú ert líka heilagur og rèttlátur Guð; láttu mig aldrei gleyma þessum sannleika, aldrei gleyma því, að sá vondi fær ekki að vera hjá þèr, og að öll eymd og ófarsæld er í því innifalin, að vera útskúfaður frá þínu augliti. Gefðu mèr náð til þess að óttast þig og elska, svo eg megi vera þèr sameinaður hèr í tímanum, vera hjá þèr í eilífðinni og um eilífð skoða þína dýrð og þín dásemdarverk. Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

---

# 26. hugvekja.

2. Kor. 7., 10. „Sú hryggð, sem er eptir Guðs vilja, verkar apturhvarf til sáluhjálpar, hvers engan iðrar."

Opt höfum vèr, kærir bræður! að minnsta kosti þeir af oss, sem komnir erum til vits og ára, fundið til þess, að vèr þyrftum að taka sinnaskipti, að vèr þyrftum að leggja af ýmsa bresti, en taka framförum í dyggð og guðsótta, og vèr höfum vissulega eins opt heitið því Guði og sjálfum oss, að sú hryggð, sem vèr fundum til af syndum vorum, skyldi verða eptir Guðs vilja og verka hjá oss apturhvarf til sáluhjálpar. Á þessum vorum iðrunarstundum vorum vèr leiðir á heiminum og sjálfum oss, og ásettum oss að byrja nýtt líf, flýja og forðast allt, sem gæti freistað vor til syndar, vera varkárari en áður í orðum og verkum, biðja Guð optar, hafa hans orð optar um hönd, og yfir höfuð at tala: vanda allt vort ráð sem bezt vèr gætum. Þá vorum vèr hrærðir af Guðs miskunsemi við oss, sem enn virtist að rètta oss sína hjálparhönd og draga oss upp úr þeirri syndaeymd, sem vèr vorum fallnir í, hrærðir af hans þolinmæði, sem ekki vildi, að vèr dæjum í syndum vorum, heldur snèrum oss og lifðum, og þá hètum vèr honum því, að reynast honum trúir, og innsigluðum þetta heit með andvörpunum og tárum. En hljótum vèr þó ekki að játa það, að þessi áform, sem voru svo áríðandi fyrir sáluhjálp vora, komust sjaldan lengra en í huga vorn,

og að það varð næsta lítið úr þeim, þegar til framkvæmdanna kom? Vèr hèldum, að það yrði lètt fyrir oss, að framkvæma þau, af því oss veitti hægt að taka þau fyrir oss. Verið getur og, að vèr höfum sýnt Drottni trúmennsku nokkra stund, og að vèr höfum blygðast vor að rjúfa þau heit jafnskjótt aptur, sem vèr fyrir skemmstu höfðum svarið honum. En trúmennska vor varð þó ekki langvinn, því smátt og smátt fórum vèr að telja oss trú um, að loforð vor væru sprottin af óþarfa hræðslu og samvizkusemi, að vèr hefðum lagt sjálfum oss óþarflega þúngt ok á herðar, að það væri einhver snertur af geðveiki að gjöra sèr samvizku af því, sem aðrir ekki hikuðu sèr við að gjöra, og þegar á allt væri litið, mundu menn geta orðið hólpnir án þess að gangast undir slík skylduverk; vèr hefðum að sönnu tekið þessi áform fyrir oss í góðu skyni, en vèr hefðum ekki þekkt sjálfa oss rètt, og þegar menn rèðust í of mikið, þá yrði ekki neitt úr neinu. Þannig gleymdust vor góðu áform og heit vor urðu að engu, og eins fer það jafnan, þegar menn vanrækja að hagnýta sèr þau meðul, sem hjálpa til að framkvæma hinn góða ásetning. Vèr höfðum ásett oss að verða bænræknari, af því vèr fundum til þess, að hjörtu vor eru veik, þegar þau eru látin ein um hituna; vèr höfðum ásett oss, að hafa guðsorð kostgæfilega um hönd, af því vèr fundum til þess, að án þess kólnar guðrækni vor fljótt og vèr verðum holdlega sinnaðir;

vèr höfðum ásett oss, að vera varkárir í orðum og gjörðum og forðast allt, sem gæti freistað vor til syndar, af því vèr fundum til þess, að vèr þurftum á varkárni að halda. En vèr höfum vanrækt allt þetta, og þessu hirðuleysi voru er það að kenna, að vèr erum horfnir aptur til vors fyrra lífernis, og hið veraldlega og holdlega hugarfar hefir aptur fengið yfirráð yfir oss. Þannig erum vèr komnir á þeim vegi, sem Guðs náð leiddi oss á, og höfum spillt voru helgunarverki, og þetta er því hættulegra fyrir oss, sem vèr, með því að sleppa vorum góðu áformum og rjúfa vor heit, komumst í vana með að brjóta á móti samvizkunnar boðum og daufheyrast við hennar áminníngum; með því slökkvum vèr þá guðrækilegu tilfinníngu, sem ásakar oss, þegar vèr hrösum, og leggur hapt á tilhneigíngar vorar, og föllum í syndsamlega værð og andvaraleysi. Þar að auk lýsir þessi ótrúmennska vor því berlega, að vèr lítilsvirðum Guðs miskunsemi, sem hafði vakið hjá oss þessar góðu iðrunar tilfinníngar og sáluhjálplegu hugarhræríngar; það er eins og oss nærri því þyki það miður, að hann skuli hafa vakið oss til þekkíngar á sálarástandi voru og skyldum vorum, og oss liggur við að öfunda þá, sem sýnast vera búnir að sljófga tilfinníngu sína fyrir rèttu og röngu og láta ekki ónáða sig af átölum samvizkunnar. Getið þèr ekki, kærir bræður! þekkt neitt hjá sjálfum yðar í þessari lýsíngu? Hugsið til yðar iðrunarstunda,

sem eflaust hafa einhvern tíma fyrir yður komið á umliðinni æfi; hugsið til þess, hvernig þèr þá voruð hrærðir af guðlegri náð, hvernig þèr þá auðmýktuð yður fyrir Guði og hètuð honum bót og betrun, hvernig þèr þá voruð hryggvir og angraðir af yfirsjónum yðar og ásettuð yður að reynast Drottni trúir allt til dauðans; hvernig þèr þá voruð hryggvir og angraðir af því, að hafa dregið það svo lengi, að snúa yður til Guðs, og álituð iðrunarinnar stund vera þá mestu sælu stund í lífi yðar. Æ! en hvernig er þessu nú varið fyrir yður? Ef þèr nákvæmlega rannsakið sjálfa yður, þá megið þèr játa, að þèr hafið reynzt Guði ótrúir og rofið heit yðar við hann; tár yðar og andvarpanir hefðu þó átt að gjöra þessi heit yðar heilög og órjúfandi; já, lotníngin fyrir Guðs hátign hefði einsömul átt að geta komið því til leiðar. Þegar vèr í daglegu lífi lofum öðrum mönnum einhverju, álítum vèr það skyldu vora að halda það, enda þó vèr iðrumst eptir því og vèr kunnum að hafa einhvern halla af því. Ættum vèr þá ekki að blygðast vor fyrir að rjúfa þau heit, sem vèr gjörum Guði vorum? Ættum vèr að sýna vorum himneska föður minni orðheldni en syndugum mönnum, þó þau loforð, sem vèr gefum honum, einúngis miði til að efla sáluhjálp sjálfra vor? Ó, hve sælufullt og inndælt er það, að auðsýna honum trú og hollustu, að þjóna honum einum með önd og líkama, sem hann á! En hvílík ófarsæld er það ekki, að reynast honum

ótrúir, að vera á sífeldu reiki milli iðrunar og syndar og finna aldrei sálu sinni hvíld; að láta æfina þannig líða, samvizkuna sljófgast og eilífðina nálgast! Þá deyjum vèr, og iðrun vor á dauðastundinni verður ekki annað en hið seinasta merki upp á það hviklyndi, sem vèr höfum sýnt í lífinu. Æ, Guð almáttugur! hjálpa þú oss og styð þú oss; styrktu vor veiku og óstöðugu hjörtu, svo vèr getum reynzt þèr trúir, svo vor hryggð verði eptir þínum vilja og verki apturhvarf til sáluhjálpar, hvers engan að eilífu iðrar! Bænheyr oss, góði himneski faðir! fyrir Jesú Krists skuld! Amen.

---

## 27. hugvekja.

Matth. 6., 33. „Jesús sagði: leitið um fram allt Guðs ríkis og þess rèttlætis, sem honum er þóknanlegt!"

Um ekkert ætti oss að vera eins annt í þessu lífi og að bera umhyggju fyrir vorri eilífu farsæld, þareð þetta er einka tilgangur hèrveru vorrar, og öll vor störf og fyrirtæki og sèrhver staða lífsins ætti að lúta að því, að efla vora sáluhjálp; en þó verður þessi umhyggja, sem ætti að sitja í fyrirrúmi fyrir öllu öðru, út undan og á hakanum hjá allflestum, og það verður, því miður, optast nær seinast, sem frelsari vor hefir boðið oss að láta vera fyrst, sem sè: að leita „Guðs ríkis og þess rèttlætis, sem honum er þóknanlegt". Hvað mun valda þessu,

kærir bræður? Án efa það, að vèr höfum meiri óbeit á hinum eilífu og ósýnilegu hlutum, en hinum, sem vèr verðum varir við með vorum líkamlegu skilníngarvitum. Allir viljum vèr þó verða sáluhólpnir, og enginn syndari vill sleppa þessari von, og vèr viljum jafnvel allir ásamt öðru gjöra eitthvað það, er efli vora eilífu farsæld, því fæstir eru svo blindir að ímynda sèr, að hún fáist öldúngis fyrirhafnarlaust og án þess vèr höfum nokkra viðleitni til að gjöra oss hæfilega fyrir hana; en það, sem villir oss, er það, að vèr látum umhyggjuna fyrir sálarheill vorri sitja á baki annara vorra sýslana og starfa. Eða ef vèr skyggnumst inn í vor eigin hjörtu og gætum að breytni vorri, mun þá ekki meginhluti hjartna vorra og æfi vorrar vera helgaður hinum jarðnesku hlutum? Þó vèr, ef vèr til vill, kvöld og morgna lyptum huganum snöggvast upp til Drottins og biðjum hann, mun þó ekki heimurinn samt sem áður hafa fyrirrúmið í sálum vorum, og mestur hluti hins tímans ganga til þess, að þjóna honum? Þó vèr höfum guðsorð um hönd og heyrum það í kirkjunni eða heimahúsum, hlýðum vèr því ætíð með þeirri andakt og eptirtekt, sem vera ber? Geymum vèr það í góðum og siðsömum hjörtum, svo vèr berum ávöxt með stöðuglyndi? Það er má ske eitthvað gjört á hluta vorn og vèr verðum að þola rangindi af öðrum mönnum, umberum vèr þá þetta með kristilegri hógværð, eða mun ekki hitt verða optar ofan

á, að vèr reiðumst, þegar oss er gjört á móti, leggjum hatur á óvildarmenn vora, viljum hefna vor sjálfir og yfirvinna hið illa með illu? Og þannig fer það fyrir oss í flestum efnum; augnablikin eru ætluð Guði, en mestöll æfin heiminum og tilhneigíngum vorum. Þèr finnið eflaust til þess, kærir bræður! hversu röng og hættuleg þessi aðferð er. Þèr játið, að veraldleg störf og jarðneskar sýslanir taka næstum því allan tímann upp fyrir yður, og að þèr hafið lítinn tíma afgangs til að hugsa um sáluhjálp yðar. En yður til hugfróa segið þèr, að þegar þèr fáið betra næði, eða sèuð búnir að af ljúka einhverjum vissum störfum, eða komnir út úr einhverjum kröggum, og í stuttu máli: þegar hagur og kríngumstæður yðar breytist, þá ætlið þèr að gefa yður alla við sáluhjálp yðar og umfram allt að leita Guðs ríkis og þess rèttlætis, sem honum er þóknanlegt. En það, sem þèr einkanlega villizt í, er þetta: að þèr ímyndið yður, að sáluhjálpin geti ekki rýmzt saman við þau störf, sem eru samfara þeirri stètt og stöðu, sem Drottinn hefir sett yður í. Því getið þèr ekki gjört þessi störf að helgunar meðulum fyrir yður? Getið þèr ekki jafnframt þeim lagt stund á allar kristilegar dyggðir? Sèuð þèr í einrúmi, getið þèr þá ekki snúið hjörtunum til Drottins með bæn og guðrækilegum hugleiðíngum? sèuð þèr í fjölmenni og innan um aðra, getið þèr þá ekki sýnt þeim meðaumkunarsemi, velvild og hluttekníng í þeirra kjörum? Getið

þèr ekki sýnt undirgefni undir Guðs vilja, ef störf yðar misheppnast? Getið þèr ekki fyrirgefið mótgjörðir, ef þèr verðið fyrir einhverri rangsleitni, ásælni eða álasi? Getið þèr ekki látið í ljósi traust á Guði, ef aðrir menn bregðast yður? Sjáið þèr engan í yðar stöðu lifa guðrækilegu og kristilegu lífi? Þèr vitið þó sjálfir fullvel, að vèr getum fundið Guð alstaðar; eða var það ekki svo þær stundirnar, sem þèr voruð hrærðir af hans náð, að þá urðu allir hlutir til að minna yður á hann; að jafnvel það í störfum yðar, sem var mestum freistingum undirorpið og hættulegast fyrir yðar eilífu farsæld, varð yður þá til áminníngar og viðvörunar, og að þèr þá mitt í yðar veraldlegu störfum fenguð tómstund og tækifæri til guðrækilegra hugleiðinga? Hví hafið þèr þá ekki lífgað þessi sáluhjálplegu áhrif guðlegrar náðar og við haldið þeim hjá yður? Það er ekki stètt nè staða yðar, sem hefir slökkt þau í hjörtum yðar, heldur veraldlegt hugarfar og breyskleiki yðar. Þegar oss því er boðið, „um fram allt að leita Guðs ríkis og þess rèttlætis, sem honum er þóknanlegt", þá er ekki ætlast til þess af oss, að vèr skulum sleppa öllum öðrum sýslunum vorum, því þá yfirgæfum vèr Guðs köllun, heldur til hins, að vèr látum alla hluti minna oss á Guð og vora sáluhjálp, að vèr látum guðhræðsluna helga öll vor störf og stjórna öllum vorum athöfnum, og í stuttu máli: að vor eilífa farsæld sè það mark og mið, sem þær allar stefni

að. Því fer svo fjarri, að vor guðdómlegu trúarbrögð bjóði oss að vanrækja vorar tímanlegu skyldur, að þau ein kenna oss, hvernig vèr getum gegnt þeim rèttilega. Af þessu sjáum vèr svo berlega, kærir bræður! að vèr getum leitað guðsríkis, hvernig sem ástatt er fyrir oss, því guðsríki er innra hjá oss, og að vèr ekki getum kennt störfum vorum eða stöðu vorri um það tómlæti og þá tregðu, sem vèr sýnum í að efla vora sáluhjálp, heldur verðum að kenna þetta eingöngu vorum syndsamlegu girndum og tilhneigíngum; vèr þurfum ekki að breyta stöðu vorri nè störfum, heldur þurfum vèr sjálfir að breytast og það spillta og ókristilega hugarfar, sem vèr gjörum verk vor með; vèr þurfum að hreinsast af saurgun holdsins og andans, svo að gjörðir vorar verði í Guði gjörðar, í samfèlagi við hann og i elskunni til hans. „Allt er hreinum hreint", og ef vèr erum hreinhjartaðir, þá hreinsast og helgast gjörðir vorar og verða Guði velþóknanlegar. En sèu hjörtu vor óhrein, full af áhyggju og sorgum þessa lífs, þá verða og störf vor rotnir ávextir vors innra lífs, því „rotið trè getur ekki borið góðan ávöxt"; það erum vèr sjálfir, sem gjörum hin veraldlegu störfin hættuleg fyrir vora eilífu farsæld, eins og það líka erum vèr sjálfir, sem gjörum vorar guðræknisiðkanir arðlausar og ófrjófsamar, ef vèr gjörum þær með holdlegu og veraldlegu hugarfari. Æ, Drottinn! til vor komi þitt ríki, sendu þitt rèttlæti, frið og fögnuð þíns anda niður

í vor hjörtu, svo vèr í hugsunum, orðum og verkum ávalt höfum þig fyrir augunum, og girnumst ekkert nè gjörum nema það, sem þèr er þóknanlegt! Vertu hjá oss í vöku og svefni, í lífi og dauða, í Jesú nafni! Amen.

---

# 28. hugvekja.

Rómv. 5., 12. „Syndin er af einum manni komin í heiminn og dauðinn vegna syndarinnar; þannig hefir dauðinn runnið inn til allra manna, því þeir syndguðu allir."

Frá blautu barnsbeini höfum vèr heyrt þann sannleika, kærir bræður! að allir menn eru dauðlegir, en að dauðastundin er óviss; og frá blautu barnsbeini höfum vèr sèð þenna sannleika staðfestan af reynslunni. Já, vèr, sem til ára erum komnir, höfum opt með sorg og söknuði orðið að sjá á bak ástvinum vorum, áður en vèr áttum von á því, og, ef til vill, áður en þeir sjálfir bjuggust við að fara hèðan. Hvaða lærdóm og hvaða hugvekju höfum vèr nú dregið af þessum mikilvæga sannleika, af þeim mikilvæga sannleika, að dauðinn er öllum viss, en dauðastundin óviss? Eða höfum vèr aldrei hugsað út í hann, aldrei látið hann vekja oss til alvarlegrar umhugsunar um sjálfa oss og vor eigin forlög? En hvernig sem þessu kann að vera varið fyrir sèrhverjum af oss, þá látum oss þó á þessari kvöldstundu

verja fáeinum augnablikum til að íhuga þetta efni. Hverjar ályktanir eigum vèr þá að draga af óvissu dauðastundarinnar? Fyrst og fremst þá, að sèrhvert ár, sèrhver dagur, sèrhvert augnablik getur gjört enda á þessu voru jarðneska lífi. Þess vegna er það heimskulegt, að festa hug og hjarta við þá hluti, sem geta hvorfið oss á augabragði, og vinna það fyrir þá, að fara á mis við þau gæði, sem eru eilíf og ævarandi. Þess vegna ber oss líka að gæta þess, að allt, sem vèr gjörum einúngis fyrir þetta líf án nokkurs tillits til eilífðarinnar, vantar verulegt gildi, og að vèr ekki tökum hèðan neitt með oss, nema það, sem vèr höfum gjört fyrir himininn og annað líf, og að vèr því eigum að kosta kapps um að safna oss himneskum fjársjóðum: þeim eilífu gæðum, sem enginn getur frá oss tekið. Þessu næst ber oss að hugleiða, að með því dauðastund vor er óviss, þá eigum vèr að deyja daglega, það er að skilja: vera á hverjum degi undir dauða vorn búnir, aldrei gjöra eða áforma neitt það, sem vèr ekki vildum hafa gjört eða áformað, hefðum vèr vitað, að dauðinn mundi hitta oss á meðan; hafa stöðugt gát á öllum vorum athöfnum og skoða þær eins og athöfn deyjanda manns, sem á hverju augnabliki býst við dauða sínum; gjöra allt, sem vèr gjörum, eins og vèr á sama augnabliki ættum að standa reikningskap af því, og verja þannig yfirstandandi tímanum, að vèr ekki þurfum ókomna tímans við, til að laga eða endurbæta það, sem

vèr gjörum. Með því dauðastund vor er óviss, megum vèr ekki skjóta á frest vorri iðrun og lífernis betrun, ekki skjóta því á frest að snúa oss til Drottins; með því vèr ekki getum ábyrgzt að lifa nokkurn dag til enda, þá megum vèr ekki draga það út í óvissuna. Eða mundum vèr, ef oss hefði orðið það á að gleipa eitthvað banvænt, draga það, að leita ráða við því? Mun þá dauðinn, sem vèr berum í oss, leyfa oss meiri undandrátt? Dauðinn er syndarinnar verðlaun og dauðann berum vèr í sálum vorum, af því vèr berum þar syndina. Flýtum oss því að leita oss lækníngar. Sèrhvert augnablik er dýrmætt fyrir þann, sem ekki á ráð á neinu, og hið banvæna eitur, sem vèr berum í hjörtum vorum, gefur oss ekki langan frest. Guðs náð bíður oss ennþá læknismeðal; flýtum oss að hagnýta oss það, meðan hann gefur oss tíma til þess. Ef vèr færum oss þau náðarmeðul í nyt, sem hann hefir gefið oss, þá þurfum vèr ekki að óttast óvissu dauðastundar vorrar; því dauðinn er ekki óttalegur í augum iðrandi sálar; hún elskar ekki heiminn lengur, og getur því án kvíða og hræðslu horft á bak öllum jarðneskum hlutum; hún finnur til þess án nokkurrar órósemi, já, með sannri gleði, að þessi dauðans líkami, sem leiddi hana svo opt í freistni og var orsök í breyskleika hennar, íklæðist ódauðleikanum; hún saknar ekki neins hèr á jörðunni, því hún veit, að hennar guðhræddu ástvinir flytja einnig hèðan innan lítils tíma, og hún vonar að fá

að sjá þá aptur á landi lifenda; hún kvartar ekki, þó henni sè boðið að yfirgefa þetta líf að hálfnuðu skeiðhlaupinu, og að enda sína hèrvistardaga í blóma lífsins; þvert á mót þakkar hún lausnara sínum fyrir það, að hann styttir hennar útlegðar stundir og tekur hana burt úr þessum reynslunnar skóla, svo hún þarf ekki framar að óttast fyrir því, að hjarta sitt kunni að spillast, ef hún ætti lengur að dvelja í þessum spillta heimi; hún sèr þá, að allir hlutir yfirgefa hana á grafarbarminum nema guðhræðslan; hún sèr þá, að allt yfirgefur hana: eignir, völd og virðíngar, frændur og vinir, og hún gleðst af því, að hafa einúngis sett traust sitt til lifanda Guðs, sem varir að eilífu og í hvers náðar faðmi hún nú finnur þann frið og þá farsæld, sem engin sköpuð skepna getur gefið; hún lítur því með hugarrósemi til hins umliðna og með fögnuði til þeirrar eilífðar, sem fer í hönd, og felur sig með auðmjúku trúnaðartrausti í Jesú nafni Guðs miskunsemi á hendur.

Ætíð höfum vèr, kærir bræður! nægilegt tilefni til að íhuga óvissu dauðastundar vorrar og hafa hana lifandi afmálaða fyrir augum vorum, en þó aldrei meir, en þegar vèr að kvöldi dags ætlum að leggjast til hvíldar í rekkjum vorum; því þá tala allir hlutir til vor um dauðann; nóttin minnir oss á endi æfidagsins, hvilurúmið á grafarinnar beð og svefninn á dauðann; aldrei finnum vèr betur en þá til þess, að „milli vor og eilífðarinnar er ekki

nema eitt fótmál" og að þetta fótmál er fljótt stigið. Þess vegna viljum vèr jafnan endurminnast dauðastundar vorrar, jafnan endurminnast þess mikilvæga sannleika, að „enginn veit sína æfina fyrr en öll er", og láta þessa endurminníngu hvetja oss til að snúa oss til Guðs með sannri iðrun og í hans ótta leitast við að búa oss kristilega undir burtför vora hèðan. Þegar vèr þannig erum undir dauða vorn búnir, þá getum vèr í trausti til Jesú friðþægíngar ókvíðnir tekið dauðanum og sagt: „Dauði! kom þú sæll þegar þú villt". Vertu hjá oss, Drottinn! í vöku og svefni; vertu vor Guð í lífi og dauða! Amen.

---

# 29. hugvekja.

1. Kor. 15., 57. „Guði sèu þakkir, sem oss hefir sigurinn gefið fyrir Drottinn vorn, Jesúm Krist."

Margir kvarta yfir því, að þeir stríði við syndina, en geti ekki unnið sigur; og er þetta vant að koma til af því, að þeir berjast ekki rèttilega, nè beita hinum rèttu vopnum; því margir þessara manna, jafnvel þeir, sem sýnast fyrir alvöru vilja betrast, halda, að ekki þurfi annað til þess en skýra og greinilega þekkíngu á Guðs vilja, og þá muni hlýðnin koma af sjálfri sèr; og yfir höfuð að tala eru það margir á vorum dögum, sem halda, að hin

svo kallaða upplýsíng sè einfær um að vísa manninum veg til eilífs lífs og leiða hann til eilífrar sáluhjálpar. En þessa menntun eða upplýsíngu er vant að vanta það, sem er upphaf allrar vizku, það er að skilja: guðsóttann og þá viðurkenníngu, að vèr vitum næsta lítið, og það, sem veröldin kallar upplýsíngu, er sjaldan samfara speki og dyggð í kristilegum skilníngi, og því er ekki við því að búast, að þekkíngin eintóm geti gefið oss krapta til að sigra hið illa. Nei, mannleg vizka hefir aldrei getað rekið syndarinnar vonda anda burt úr mannlegum sálum. Aðrir halda, að þessu geti orðið framgengt með föstum og einbeittum vilja, með alvarlegri áreynslu hinna siðferðislegu krapta; og þeir þykjast vinna sigur yfir girndum sínum og tilhneigíngum. En það mun optar reynast svo, að þessir menn sigra eina ástríðu með annari: munaðarlífið með metorðagirnd, metorðagirndina með leti, og letina með ágirnd. Nei, kristnir bræður! syndin verður ekki sigruð nema með því guðrækilega hugarfari, sem sprettur af sannfæríngunni um fyrirgefníng vorra synda. Það eru margir vænir menn til, sem hafa viðbjóð við hinu illa og löngun eptir hinu góða, sem angrast af yfirsjónum sínum og hafa þann einlæga ásetníng, að stríða við syndina og bæta ráð sitt; en þó geta þeir aldrei unnið sigur; þó syndin sýnist vera yfirunnin í dag, þá ræðst hún á þá á morgun með enn meiri ákafa. Af hverju kemur þetta? Af því þeir eru ekki skrýddir her

tygjum trúarinnar: trúarinnar á Jesúm Krist; þá vantar sannfæríng um syndanna fyrirgefníng og þann góða og guðrækilega vilja, sem af þessari sannfæríngu sprettur. Sá, sem vantar trúna á Jesúm Krist, hlýtur að skoða syndina sem ósigranda óvin, því hann getur ekki dulizt þess, að hún opt áður hefir unnið sigur yfir hans góða vilja og góðu áformum, og hann getur ekki búizt við að veita henni hraustari mótspyrnu eptirleiðis með þessum sínum sömu veiku kröptum. Þann, sem án trúar ætlar að berjast við syndina, hlýtur að bresta sanna hugprýði, og því fellur hann og á freistínganna tíma. Hinn sannkristni þar á mót berst góðri baráttu, því hann berst baráttu trúarinnar og vinnur sigur fyrir Jesúm Krist. Hann treystir því, að hann sè frelsaður frá myrkranna valdi; hann veit, að Jesús hefir frelsað hann frá syndarinnar hegníngu og yfirráðum, og hann segir með postulanum: „eg megna alla hluti fyrir Krist, sem mig máttugan gjörir". Hann trúir guðsorði og hefir af því lært, „að Kristur opinberaðist í heiminum til að niður brjóta djöfulsins verk". Að vísu á hann í stríði við hold og heim; en hann berst hraustlega og treystir Guðs hjálp, en ekki sínum eigin kröptum; og þegar óvinur sálarinnar hvíslar að honum: fylg þú mèr! dýrðlega hluti vil eg gefa þèr, ef þú fellur fram og tilbiður mig, þá flýtir hann sèr til Drottins síns og frelsara, og í hans nafni rekur hann freistarann frá sèr og vinnur trúarinnar

sigur. Þegar sorgir og áhyggjur þessa lífs freista hans, þá tekur hann guðsorð og les þessi huggunarríku orð: „kastið allri yðar áhyggju upp á Drottinn, því honum er annt um yður", og hann biður Guð fyrirgefníngar á vantrausti sínu og felur sig og öll sín efni hans alvitru forsjón á hendur. Þegar þjáníngar og krossburður sækja hann heim, þá treystir hann því, að það sè komið að Drottins tilhlutun og að hans stjórn sè einber speki og gæzka, treystir því, að mótlætíngar þessa tíma komist ekki í samjöfnuð við þá eilífu sælu, sem Jesú trúlyndu þjónum er heitið. Hann hugleiðir, hvernig flestir Guðs vinir fyrr og síðar hafa orðið að bera krossinn á eptir frelsara sínum, hvernig Jesú postular „tjáðu sig með mikilli þolinmæði í þrengíngum, neyð, angist, undir höggum, í fangelsi, á hrakníngi, í erfiði, vökum og skorti" (2. Kor. 6., 5.); hann hugleiðir, hvernig svo margir píslarvottar og trúarhetjur hafa gengið glaðar og sigri hrósandi í hörmúngar og dauða fyrir Jesú nafns sakir, og þessar hugleiðíngar styrkja hans trúnaðartraust og undirgefni undir Guðs vilja. Hversu veglegt er þá ekki trúarinnar stríð og trúarinnar sigur yfir syndinni. Með hverjum sigri, sem hinn trúaði vinnur yfir freistíngunum, vex elska hans til hins góða og viðbjóður hans við syndinni, og hann hefir það jafnan hugfast, að frelsarinn varð að þola pínu og dauða vegna mannanna synda; hann sèr í anda Jesú kvöl í grasgarðinum og hvernig sál hans

var hrygg allt til dauða; hann lítur trúarinnar augum á Jesú þyrnikórónu og krossgöngu, og hvernig gæti hann þá aðhyllzt eða drýgt þá synd, sem var orsök í Jesú óumræðilegu kvöl og pínu! Nei, hann deyr syndinni og lifir Guði fyrir Drottinn vorn, Jesúm Krist. Sál hans verður alltaf meir og meir gagntekin af elsku til frelsarans, gagntekin af andlegum og himneskum hugleiðíngum, og þegar hann iðulega út hellir hjarta sínu í bæninni til hans og hefir umgengni sína við hann, sem er upprisan og lífið, þá streymir hið eilífa lífið inn í sálu hans með sínum krapti og sinni sælufullu von, og hinn nýi maður, sem skapaður er eptir Guði í rèttlæti og heilagleika sannleikans (Efes. 4., 24.) fer dagvaxandi ad aldri og náð, og á ósýnilegan hátt þroskast hið nýja líf, „sem er hulið með Kristi í Guði", þangað til það er orðið hæfilegt fyrir himneska sælu; þá hnígur hin þreytta, en vonglaða og sigursæla, stríðshetja Jesú Krists niður í dauðans faðm; hann er þá kallaður heim á sigursins og friðarins land og genginn inn í fögnuð herra síns. Þá er sigurinn algjörlega unninn og á himnum hljómar þá þessi fagnaðar og lofgjörðar söngur: „Guði sèu þakkir, sem oss hefir sigurinn gefið fyrir Drottinn vorn, Jesúm Krist!" Berizt, kristnir menn! hinni góðu baráttu trúarinnar; „haldið trúnni og fullkomnið skeiðið: þá er yður geymd kóróna rèttlætisins, sem Drottinn, sá rèttláti dómarinn, mun gefa yður í sinni dýrðlegu tilkomu á efsta degi".

Æ, góði himneski faðir! gefðu oss öllum til þessa þína náð, í Jesú nafni! Amen.

---

# 30. hugvekja.

Lúk. 13., 24. „Jesús sagði: keppizt að komast gegnum hið þröngva hliðið, því eg segi yður satt, að margir eru þeir, sem leitast við að komast þar inn, en geta það ekki."

Drottinn hefir innrætt öllum lifandi skepnum löngun eptir farsæld og velgengni; en aðrar eru sèr ekki þessarar löngunar meðvitandi en hinar skynsemi gæddu skepnur. Það er að vísu satt, að mennirnir hafa mjög ólíka skoðun á því, í hverju farsældin sè innifalin, með því sumir leita hennar í ríkidæmi, sumir í metorðum, sumir í hvíld og næði, sumir í frelsi, sumir í munaði; en allir vilja þó vera farsælir, hver á sinn hátt. Ekkert er í sjálfu sèr eðlilegra og skynsamlegra, en að óska og leita sinnar eigin farsældar, og þetta er skylda vor, kærir bræður! En þegar þèr leitið farsældar yðar, þá leitið hennar ekki þar, sem hana ekki er að finna; þèr leitið hennar á jörðinni, en þar er hana ekki að finna; jörðin er ekki lengur sælustaður; síðan syndin kom inn í heiminn, hafa ekki lífdagar vorir verið sæludagar, heldur dagar eymda og þjáninga, dagar hitans og þúngans, dagar andvarpana og iðrunar. Hvergi er sanna sælu að finna nema á landi lifenda,

og engir eru sælir, nema þeir, sem eru hjá Guði; þeir einir sjá góða daga, því þeir eru uppljómaðir af Guðs dýrðar ljósi; þeir lifa í allsnægtum, því Guð er þeim allt í öllu; þeir eru sælir, því þeir lifa í alsælum Guði, í fullkomnun andans, fögnuði hjartans og eilífum friði. „Nú þegar erum vèr guðsbörn", segir postulinn, „en það er ennþá ekki opinbert, hvað vèr verða munum" (1. Jóh, 3., 2.). „Það hefir ekki auga sèð, ekki eyra heyrt og í einkis huga komið, hvað Guð hefir sínum elskendum fyrir hugað" (1. Kor. 2., 9.). Ættum vèr ekki allir að þrá þessa eilífu og óumræðilegu sælu? Er nokkur sá til, sem ekki andvarpi og styni í þessu lífi? „Öll skepnan stynur", segir postulinn, „og ber fæðíngar harmkvæli allt til þessa" (Rómv. 8., 22.). Völd og metorð og auðæfi eru allt hverful og stopul gæði og seðja aldrei þann, sem eptir þeim sækist, því „mikið vill alltaf meira". Ekkert getur svalað þorsta sálarinnar og bætt úr vorum andlegu þörfum, nema hið eilífa og óendanlega; hvergi getum vèr fundið sálum vorum hvíld, nema hjá frelsara vorum, Jesú Kristi. Þegar vèr leitum hans, fylgjum honum og elskum hann, getum vèr hèr í lífi fengið forsmekk eilífrar sælu; en hèrna megin grafarinnar getum vèr þó aldrei höndlað hnossið; það er vor huggun og vor von, að vèr munum fá það höndlað við enda skeiðhlaupsins. Sem kristnir verðum vèr að finna til þess, að vèr erum hèr á ferð, að vèr erum hèr ferðamenn og framandi, sem erum

að keppa til himinsins: þessa vors sælufulla og sanna föðurlands. Þangað erum vèr enn ekki komnir; vèr erum á leiðinni þangað og enn á veginum, en það er vor huggun, að „Jesús Kristur er vegurinn, sannleikurinn og lífið"; til hans eigum vèr að keppa og fyrir hann eigum vèr að keppast að komast gegnum hið þröngva hlið, sem frelsari vor talar um; og oss verður alltaf að miða áfram á sáluhjálparinnar vegi, því að standa við er sama sem að hörfa til baka. Margar villigötur mæta oss, kærir bræður! á þessu skeiðhlaupi voru; en frelsarinn kallar þær allar „hinn breiða veg". Þessi vegur liggur ekki til vors rètta föðurlands, heldur til glötunarinnar; vegurinn til föðurlandsins er mjór og þröngur; á honum verður ekki holdlegum girndum svalað, heldur er hann þyrnum stráður, sem gjöra hann ógreiðan yfirferðar, og á hverjum degi verðum vèr að skilja eitthvað eptir á honum af farangri vorum, það er að skilja: af brestum vorum og tilhneigíngum. Þeim, sem standa við, miðar aptur á bak, þó þeir sèu enn á veginum; þeir vilja þjóna sumpart Guði, sumpart heiminum; þeir vilja stríða við sumar girndir sínar, en mega láta aðrar eptir sèr; þeir vilja að sönnu gjöra ýmisleg góðverk, en margar hvatir þeirra eru óhreinar og eigingjarnar, og í stuttu máli: þeir hafa löngun til að ganga hinn rètta veg, en vilja gjöra hann breiðari og betri yfirferðar; en hjá þessum mönnum á það heima, sem Jesús sagði, að „enginn sá,

sem leggur hönd á plóginn og horfir til baka, er hæfur til guðsríkis" (Lúk. 9., 62.). Vèr megum hvorki hörfa aptur nè horfa aptur á lífsins vegi; vèr megum ekki horfa aptur með geðþekkni á vort fyrra óendurfædda hugarfar, á vora fyrri syndsamlegu breytni, „heldur eigum vèr, að boði postulans, að gleyma því, sem bak við oss er, en seilast eptir því, sem fyrir framan er, og skunda til takmarksins, til þess himneska hnossins, sem Guð fram býður oss fyrir Jesúm Krist" (Filipp. 3., 14.). Ef vèr förum aptur að hafa geðþekkni á heiminum og vorum fyrri syndum, þá er oss hrösunin búin, þá höfum vèr að sönnu byrjað vel, en endum illa, og vort síðara ástand verður verra hinu fyrra; þá iðrumst vèr vorrar fyrri góðu breytni, en þessi iðrun vekur ekki fögnuð hjá englum Guðs, heldur hjá hinum vondu öndum. Aldrei megum vèr hugsa, kærir bræður! að nú höfum vèr gjört nóg fyrir sáluhjálp vora, nú höfum vèr tekið nógum framförum í dyggð og guðsótta, því vèr ætlum ekki að gjöra nema það, sem vèr minnst getum komizt af með, til þess að verða sáluhólpnir, en viljum lofa öðrum að gjöra meira. Nei, þetta er hraparleg villa; allir megum vèr sífelt játa, að vèr erum ónýtir þjónar og verðum alltaf að keppa áfram; ef vèr ekki gjörum allt, þá gjörum vèr ekkert; ef vèr ekki hlaupum, þá hrösum vèr. Vèr megum ekki skipta líferni voru þannig, að helmíngurinn verði kristilegur, en helmíngurinn heiðinn, því þá verður

öll vor breytni heiðinn og ókristileg í Guðs augum. Þess vegna býður frelsarinn oss að neyta allra vorra krapta, til að komast gegnum hið þröngva hliðið. „Í húsi vors himneska föður eru að vísu mörg hýbýli" (Jóh. 14., 2.); en þangað liggur ekki nema einn vegur: vegur krossins og iðrunarinnar. Styrk þú oss, góði Guð! til að ganga þenna þröngva lífsins veg og komast gegnum hið þröngva hliðið í þína himnesku dýrðarbústaði; láttu oss aldrei gleyma þessum aðvörunarorðum frelsara vors: „margir eru þeir, sem leitast við að komast þar inn, en geta það ekki!" Æ! þegar vèr ætlum að þreytast, þá sendu oss nýtt fjör og nýja krapta af hæðum; þegar vèr ætlum að hörfa aptur, þá snú þú huga vorum fram á leið til dauðans og eilífðarinnar; vertu sjálfur vort ljós og vor leiðtogi í lífi og dauða! Bænheyr oss, himneski faðir! í Jesú nafni! Amen.

---

# 31. hugvekja.

Lúk. 21., 27. „Þá munu menn sjá mannsins son komanda í skýjunum með makt og mikilli dýrð."

Guðsorð kennir oss, kærir bræður! að í dauðanum fari sál vor undir eins og hún skilur við líkamann til síns samastaðar, annaðhvort í eilífa sælu eða eilífar kvalir. En jafnframt þessu er oss kennt, að líkami vor muni upp rísa á efsta degi og að Guð láti þá Jesúm

Krist hátíðlega dæma lifendur og dauða, og til þessa allsherjardóms líta þessi Jesú orð: „Þá munu menn sjá mannsins son komanda í skýjunum með makt og miklu veldi." Það er líka eðlilegt, fyrst maðurinn saman stendur af sálu og líkama og syndgar bæði með sálu og líkama, að Guð láti dóm ganga yfir hvorttveggja, það er að skilja: yfir allt hans eðlisfar; og það er samkvæmt Guðs rèttlæti, að hann einhvern tíma leiði í ljós það, sem nú er í myrkrunum hulið, og hátíðlega taki þann ójöfnuð burt, sem í þessu lífi einatt er á kjörum og sálarástandi mannanna. Hèr í lífi getur syndarinn þráfaldlega fundið upp ýmisleg ráð til að hylja með þá blygðun, sem hann hefir til unnið, annaðhvort með því að leyna löstum sínum, eða fegra þá, eða fremja þá blygðunarlaust. En á efsta degi verða hinar huldu syndir opinberar, hið fánýta yfirskyn verður burt numið og óskamfeilninnar hneyxli breytt í eilífa blygðun. Heimskínginn segir í hjarta sínu: „Þar er enginn Guð" (Sálm. 53., 1.). Það eru, því miður, til þeir guðleysingjar, sem segja, að allt sem við ber sè tilviljun án allrar æðri stjórnar; þeir eru svo blindir, að þeir hvorki sjá Guð í hans dásemdarverkum nè í hans velgjörðum. Aptur eru það aðrir, holdsins og syndarinnar þrælar, sem samvizkan ónáðar og ótti fyrir guðlegri hegníngu, svo þeir fegnir vildu, að enginn Guð væri til, vildu fegnir geta trúað því, að hann sè ekki til, og þeir segja og í hjarta sínu, ekki af sann-

færíngu, heldur af löngun hjartans: „Þar er enginn Guð". En flestir eru þó þeir, sem að sönnu játa, að Guð sè til, en breyta þó eins og hann væri ekki til og þeir hefðu aldrei neina hegníngu að óttast. Þeir bera því enga lotníngu fyrir Guði, og það er eins og þeir einnig segi í hjarta sínu: „Þar er enginn Guð." Þeir fyrirverða sig, að láta væna menn, sem þó eru syndugir og breyskir, komast að þeirra leynilegu ávirðíngum; en Guðs alltsjáanda auga og heilögu alstaðarnálægð hræðast þeir ekki; þegar þeir geta dulið syndir sínar fyrir mönnum, þá verða þeir rólegir og segja í hjarta sínu: enginn hefir sèð það. Ó, hvílík fásinna! „Þèr heimskíngjar!" segir Davíð, „nær ætlið þèr að verða hyggnir? Mun sá eigi heyra, sem eyrað hefir plantað, mun sá eigi sjá, sem augað hefir til búið? (Sálm. 94., 8.—9.). Vitið þèr ekki, að hans auga sèr allt, hans eyra heyrir allt, hans speki þekkir allt, að hugur og hjarta yðar segir honum allt og að samvizka yðar er hans vitni gegn yður? Það stríðir á móti Guðs rèttlæti, að iðrunarlausir syndarar skuli æfinlega komast hjá þeirri hegníngu og geta skýlt í myrkrunum þeirri smán, sem þeir hafa til unnið. En engir syndarar munu á efsta degi finna til annarar eins blygðunar eins og skynhelgir hræsnarar, sem hafa hulið vonzku sína með yfirbragði guðhræðslunnar. Enginn meiðir Guðs hátign eins og hræsnarinn, sem hefir hans heilaga nafn á vörunum, en býr í hjartanu yfir flærð og hrekk-

vísi, sem vill gjöra Guð hluttakandi í syndum sínum og fremja þær undir hans verndun. Ritningin segir oss, að vorir fyrstu foreldrar hafi falið sig milli trjánna í aldingarðinum, þegar þeir höfðu brotið Guðs boðorð, og síðan afsakað sig, þegar þeir gátu ekki dulizt. Þannig breytum vèr Adams nyðjar enn í dag; vèr reynum fyrst til að hylja ávirðíngar vorar, og svo að fegra þær, þegar þær ekki geta dulizt, og þegar vèr ekki getum fegrað þær með neinu, sláum vèr allri skuldinni upp á vort breyska eðli og vorar sterku tilhneigíngar. Guð er ljós, hann er rèttlæti og sannleikurinn sjálfur, í hans augum gilda ekki vorar fánýtu afsakanir, þó vèr með þeim getum blekkt heiminn og sjálfa oss; en auðmjúk iðrun og játning synda vorra er hið einasta ráð til að geta komizt hjá þeirri hegningu, sem þær hafa til unnið. Allt mun verða opinbert fyrir Jesú Krists dómstóli; þaðan mun streyma ljós sannleikans og rèttlætisins, og í þessu ljósi munu syndararnir sjá, að þeir höfðu engar gildar ástæður til að fegra með syndir sínar. Æ! hugsum til þess í tíma, hverju vèr þá munum geta svarað hinum alvalda dómara; hugsum til þess á meðan þessi hugsun getur komið oss að nokkru haldi; hættum að afsaka og fegra syndir vorar með breyskleika náttúru vorrar! Að sönnu er náttúra vor breysk, en Guðs náð er sterk og máttug í veikleikanum; að sönnu er hjá oss stríð milli holdsins og andans, en vèr höfum guðsorð og sakra-

mentin, sem styrkja oss í stríðinu og hjálpa oss til að vinna sigur, ef vèr rèttilega hagnýtum oss þessi guðlegu náðarmeðul; að sönnu eigum vèr í stríði við ýmislegar freistíngar, en vèr eigum líka endurlausnara, sem gjörir þann enda á freistíngunum, að vèr fáum staðizt, ef vèr biðjum og vökum; að sönnu erum vèr alltaf undirorpnir holdlegum áhrifum, en náðin er líka alltaf við hendina og reiðubúin að styðja oss, ef vèr ekki veitum henni mótstöðu; og að minnsta kosti getum vèr flúið fyrir þeim freistíngum, sem vèr ekki treystum oss til að sigra; og í stuttu máli: hvernig sem vèr lítum á syndir vorar, þá höfum vèr engar gildar afsakanir, ekkert, sem vèr getum barið við. „Tíminn er stuttur", segir postulinn (1. Kor. 7., 29.). Hvort skammt eða langt verði að bíða hins mikla allsherjadóms, það er Guði einum kunnugt; en hitt vitum vèr, að dauða vors er ekki langt að bíða, og í því ástandi, sem vèr deyjum í, munum vèr verða leiddir fram fyrir Krists dómstól og þar eptir verða ákveðin vor eilífu kjör og forlög.

Ó, Guð! gef þú oss náð til að hugfesta þenna mikilvæga sannleika, svo vèr aldrei gleymum því, að á eptir dauðanum kemur dómurinn, og að vèr allir eigum að mæta fyrir þínum dómstóli og standa þèr reikníngskap af þessu voru lífi. Æ! vertu oss náðugur og miskunsamur í Jesú nafni og slepptu oss ekki í fráleitt sinni, heldur vek þú hjá oss sanna iðrun og apturhvarf frá syndunum, einlæg

og staðföst betrunar áform, svo vèr þjónum þèr það sem eptir er lífdaga vorra og gjörum vora útvalníngu vissa. Haltu þinni verndar og miskunar hendi yfir oss í Jesú nafni! Amen.

---

# 32. hugvekja.

Sálm. 130., 3. „Ó, Drottinn! ef þú villt muna misgjörðir: Drottinn! hver getur þá staðizt?"

Eins og það er víst, að vèr erum allir komnir upp á Guðs náð og miskunsemi og að enginn gæti staðizt, ef hann vildi „muna misgjörðir" vorar, eða ganga við oss í rèttlætisdóm, eins er það að hinu leytinu sú hættulegasta villa, að reiða sig á Drottins miskunsemi, án þess að vilja iðrast og bæta ráð sitt, því guðsorð gjörir alstaðar einlæga iðrun og trú að einkaskilyrði fyrir vorri sáluhjálp. En þó hættir mörgum iðrunarlausum syndara við að svæfa sig í þeirri trú, að hann þurfi sjálfur ekkert að hafa fyrir sáluhjálp sinni, heldur geti óhræddur haldið áfram í syndum sínum; já, margir óguðlegir leita jafnvel í Guðs eiginlegleikum að ástæðum til að rèttlæta þetta sitt oftraust með; þeir segja, að Guð sè almáttugur, sem hafi mannleg hjörtu í hendi sinni og geti breytt þeim, hvenær sem honum þóknist; að hann sè rèttlátur og muni því ekki taka mjög hart á syndunum, fyrst hann hafi skapað mennina eins breyska og þeir eru; þar að auk sè hann

miskunsamur og því ætíð reiðubúinn til að taka syndarann til náðar, hvenær sem hann snýr sèr. Að visu er það nú satt, að Guð er almáttugur, en hitt er allt að einu vist, að hans almætti stjórnast af speki og að hann ekkert gjörir nema það, sem er samkvæmt þeirri röð og reglu, sem hann einu sinni hefir sett. En það almætti, sem hinn óguðlegi tileinkar Guði, er blindur kraptur. Að sönnu getur Guð gjört allt, sem hann vill; en af því hann er alvitur, þá fylgir hans vili vissri reglu, og þessi regla er með tilliti til mannanna innifalin í því frjálsræði, sem hann hefir gefið þeim og sem er einhver hinn helzti fullkomlegleiki þeirra. Það er Guðs vili, að maðurinn hafi sinn eigin vilja, en það er ætlað manninum að laga hann eptir Guðs vilja. Ef Guð svipti manninn frjálsræðinu, þá yrði hann að skynlausri skepnu. Þar að auk er það athuganda, að ef Guð með almætti sínu breytti vilja mannsins, þá hefði hinn sanniðrandi, sem krossfestir holdið með þess girndum og tilhneigingum, ekkert fram yfir hinn óguðlega, sem alla æfi daufheyrist við Guðs og manna áminningum, ef kjör þeirra yrðu að lokunum hin sömu. Það gilti þá einu, hvort heldur maðurinn þjónaði Guði eða syndinni; það væri þá ekki lengur neinn munur á dyggðum og löstum; flestir mundu þá draga iðrun sína sem lengst, og Guðs náð yrði ekki til annars en að freista hinna guðhræddu til syndar. Auk þess sem vèr ekki getum kennt Guði um spill-

ingu vora, heldur verðum að kenna hana sjálfum oss, þá verðum vèr að gæta þess, að þó veikleiki vor sè mikill, hefir Guð þó gefið oss bæði krapta til að geta stjórnað girndum vorum og nóg náðarmeðul til að geta lamað afl syndarinnar hjá oss. Vor eigin samvizka segir oss, að þó vèr sèum breyskir, þá hefir það þó í hvort sinn, sem vèr höfum hrasað, staðið í voru valdi, að yfirbuga freistíngarnar og halda Guðs boðorð, ef vèr hefðum viljað; þess vegna ásakar líka samvizkan oss fyrir yfirtroðslur Guðs heilaga lögmáls, sem hún ekki gæti gjört, ef vèr værum sýknir saka. Já, það er mjög líklegt, að það hefði kostað oss minna stríð og fyrirhöfn að reynast Guði trúir, heldur en að spilla sakleysi æskunnar og daufheyrast við áminníngum samvizku vorrar, hefðum vèr í tíma tekið fyrir oss að þræða dyggðanna veg. Það er því syndsamlegt að ímynda sèr, að Guð muni ekki eins hegna syndunum fyrir það þó vèr sèum breyskir, þegar vèr ekki viljum iðrast þeirra og bæta ráð vort. Við þetta bætist það nú einnig, að þó eðlisfar vort sè veikt og breyskt, þá hefir Guð þó borið nákvæma og föðurlega umhyggju fyrir sálu vorri og eins og hlaðið utan um hana óteljandi náðarmeðulum, sem áttu að vera henni til vígis og varnar; hann hefir gefið oss sitt heilaga orð og sakramentin; látið eptirdæmi, áminníngar og kristilegt uppeldi vera oss til leiðarvísis, og þar að auk með áhrifum síns anda leitast við að draga oss til sín. Sú ein-

asta álykton, sem vèr því getum dregið af veikleika og breyskleika vorum, er það, að vèr höfum þörf á að vaka og biðja, að vèr með því meiri árvekni þurfum að umflýja freistíngarnar og allar syndsamlegar girndir, og með því meiri alúð flýja til Guðs náðar og leita styrks og krapta hjá honum. Að vísu er það vor huggun í lífi og dauða, að Guðs náð og miskunsemi er óendanleg; en hann hefir því að eins heitið oss henni, að vèr ekki syndgum upp á náðina, heldur einlæglega iðrumst vorra synda, á meðan hann gefur oss tíma og tækifæri til þess. Allir fáum vèr að reyna ótal votta um Guðs gæzku; en ætti þetta að gjöra oss enn skeytíngarminni um vora sáluhjálp? Ætti það ekki miklu fremur að vekja hjá oss þakklæti við Drottinn fyrir allar hans náðarríku velgjörðir við oss? Vèr lærum þó af guðsorði, að maðurinn getur fyllt mæli synda sinna, að öxin verður einhvern tíma sett til rótar trjánna, og mætti ekki þetta vekja hjá oss ótta fyrir því, að sèrhver náðarvelgjörð, sem vèr þyggjum af Guðs mildiríku hendi, en sem vèr fyrirlítum, kunni að verða sú seinasta, sem honum þóknast að veita oss? Æ! snúum oss því til hans af hjarta og skjótum því ekki á frest; þá megum vèr treysta hans náð og miskunsemi, þó oss hafi margt og mikið yfirsèzt; þegar vèr iðrumst þess af hjarta, að hafa styggt og móðgað hann, þá þurfum vèr ekki að skelfast af endurminníngu vorra synda,

því þeirra mun þá ekki að eilífu minnst verða. Himneski gæzkuríki faðir! snú þú þínu augliti til vor og láttu ekki stærð vorra synda byrgja augu þinnar miskunar, líttu heldur á þá hjartans löngun, sem vèr höfum til að snúa oss til þín! Það er þín eilífa miskunsemi, sem vekur þessa löngun í sálum vorum; þessi löngun er sá himneski geisli, sem boðar oss þína náðar nálægð; æ! láttu oss ekki lengi þurfa að bíða eptir þèr og þínu ljósi, svo vèr ekki villumst aptur út í myrkur syndarinnar og vorra girnda. Fullkomna þú í oss það hið góða verk sáluhjálpar vorrar, sem þú þegar hefir byrjað. Bænheyr oss í Jesú nafni! Amen.

---

## 33. hugvekja.

Jóh. 12., 25. „Sá, sem elskar sitt líf, mun missa það, og sá, sem metur lítils sitt líf í þessum heimi, mun varðveita það til eilífs lífs."

Skaparinn hefir eins viturlega hagað því og öllu öðru, að hann hefir innrætt öllum lifandi skepnum ótta fyrir dauðanum og elsku til lífsins. En jafnframt þessu hefir hann opinberað oss sínum skynsemigæddu skepnum, að vèr auk þessa vors líkamlega lífs hefðum annað æðra andlegt líf, sem ekki slokknar í dauðanum, heldur er eilíft í eðli sínu, og kennt

oss, að vèr ættum að meta þetta æðra eilífa líf meira en hið líkamlega lífið, og „að vèr skyldum ekki hræðast þá, sem deyða líkamann, en geta ekki líflátið sálina". Guðsorð tekur oss því vara fyrir að elska líkamlega lífið of dátt, svo vèr ekki með því spillum voru æðra og eilífa lífi; já, brýnir það fyrir oss, að það geti orðið skylda vor að leggja þetta óæðra líf í sölurnar, þegar farsæld sálar vorrar heimtar það. Því meir sem menn gleyma þessum sannleika, því meir sem þeir festa hug og hjörtu við þetta jarðneska líf, og því meir sem þeir elska þá jarðnesku hluti, því meir fjarlægjast þeir sína sönnu ákvörðun, og sú elska til lífsins, sem var gróðursett hjá manninum í gæzkuríkum tilgangi honum til rèttilegs undirbúnings undir eilíft líf, fær þá svo skakka stefnu, að hún verður að syndsamlegri heimselsku og eigingirni. Þá miðar maðurinn allt við þetta líf, en gleymir hinu æðra lífinu; hann elskar þá einúngis lífið í heiminum, en metur lítils lífið í Guði. Og þegar vèr nú virðum fyrir oss mannlegt líf, þá sjáum vèr, að sá andlegi sjúkleiki, sem þjáir mannkynið, er einkanlega innifalinn í þeirri skökku og syndsamlegu sjálfselsku eða eigingirni, sem vill lifa út af fyrir sig, en sleppa lífinu í Guði. Þessi eigingirni er rótin til allra vorra synda og hún á sèr stað hjá oss öllum meir eða minna. Vèr erum allir ástfangnir í sjálfum oss; það hlýtur sèrhver sá að játa, sem alvarlega hugsar um sitt sálar-

ástand; vèr reiðumst því, ef nokkur kemur við kaun vor og finnur eitthvað að við oss; vèr þolum það ekki, að oss sè sýndur breyskleiki vor, eða í hverju oss er ábótavant, og vèr vildum fegra yfirsjónir vorar og hylja þær, ekki einúngis fyrir öðrum, heldur og fyrir sjálfum oss og jafnvel fyrir Guði, ef þess væri kostur. Getur nokkur hlutur betur en þetta leitt oss spillíngu vora fyrir sjónir? Þess vegna segir Drottinn oss, „að sá, sem elskar sitt líf, muni missa það," því þessi syndsamlega eigingirni, sem kemur manninum til að tilbiðja sjálfan sig, og hafa einúngis mætur á sjálfum sèr, er ekki einúngis heimskuleg og hið vesta sjálfstál, heldur einnig óvenjulega skaðleg, af því hún leiðir af sèr andlegan dauða og svæfir manninn í holdlegu andvaraleysi; með henni deyðir hann sitt sanna líf og sviptir sig þeirri himnesku arfleifð. Það er ekki að kynja, þó sá, sem ofurselur sig þessari syndsamlegu sjálfselsku, hræðist líkamlegan dauða, því dauðinn er ekki ávinníngur fyrir aðra en þá, sem elska Guð og lifa honum, sem hafa lært að beygja sig undir hans voldugu hönd og hlýða hans heilaga vilja. Sú syndsamlega sjálfselska hefir einkis góðs að vænta í dauðanum, heldur allt að óttast, því þá missir hún allt; sem hún hefir mestar mætur á, og eilífðin hefir ekki annað að bjóða henni en eilífan söknuð og eilíft hugarangur. Æ! ekkert getur opnað augu vor, ekkert frelsað oss frá eigingirninnar og heimselskunnar ófar-

sælu yfirráðum nema guðsorð. Það segir oss, að sá, sem ofdátt elskar sitt líkamlega líf, muni missa eilíft líf og eilífa sælu; það bannar oss að elska hina syndumspilltu veröld, svo vèr ekki ásamt henni fyrir förumst. Lærið af því, kærir bræður! að elska yðar sönnu sálarheill og leitizt í tíma við að höndla eilíft líf með því að elska Guð og reyna til að feta í fótspor vors heilaga frelsara, sem af elsku til vor syndugra manna lèt sitt líf svo vèr mættum lifa; gætið þess, að sá, sem ofurselur sig eigingirninni og heimselskunni, verður þræll heimsins og sinna syndsamlegu tilhneiginga; heimurinn dregur hann þá meir og meir til sín og girndirnar hrjá hann og hrekja, svo hann að lokunum missir alla löngun og hæfilegleika til að elska Guð og lífið í honum. Vèr verðum þjónar þeirra, sem vèr elskum, því það er elskunnar eðli að vilja gjöra þeim til geðs, gjöra þeirra vilja að sínum vilja, og þess vegna fær sá, sem vèr elskum, vald yfir oss, svo vèr ráðum oss ekki sjálfir. Ef vèr elskum Guð, þá verður hans vili að vorum vilja, og þá ráðum vèr oss ekki sjálfir, heldur látum vèr oss stjórna af hans heilaga vilja. Ef vèr þar á mót elskum heiminn, þá verður heimsins vili að vorum vilja, og hann fær meiri og meiri yfirráð yfir oss og getur að lokunum fengið oss til hvers sem vera skal og leitt oss frá einni synd í aðra. Æ! gjörið ekki lítið úr þessari hættu í huga yðar. Jesú lærisveinn, Pètur, hèllt, að það mundi aldrei

koma upp á fyrir sèr, að afneita frelsara sínum; þess vegna sagði hann við Jesúm: "Þó eg ætti að láta lífið með þèr, vil eg þó ekki yfirgefa þig" (Matth. 26., 35.); en elska til lífsins í þessum heimi fèkk þó yfirhönd hjá honum á freistínganna tíma og kom honum til að afneita Drottni sínum. Og hafi nú einum af Jesú ástvinum getað viljað slíkt til, hvers má þá vænta af hinum, sem einúngis elska heiminn og þetta sitt jarðneska líf? Þarf oss að furða á því, þó þeir afneiti Guði með sínu syndsamlega líferni? En afdrif þeirra er dauðinn: andlegur dauði hèr í lífi og eilífur dauði síðar meir. Í dauðanum missa þeir allt nema dauðann, það er að skilja: allt nema eilífa glötun og ófarsæld og útskúfun frá Guðs augliti. Þetta segir Guðs heilaga orð oss berlega, og hið sama segir samvizkan oss. Elskum því ekki heiminn eða heimsins líf, því „heimurinn fyrir ferst með sínum lystíngum;" en elskum Guð, „því sá, sem breytir eptir Guðs vilja, varir að eilífu" (1. Jóh. 2., 17.). Æ, góði himneski faðir! lífgaðu vor dauðu og köldu hjörtu með ylgeislum þinnar náðar, svo vèr getum lifað þèr og elskað þig af öllu hjarta, og í elskunni til þín höndlað hið eilífa lífið! Bænheyr oss í Jesú nafni! Amen.

---

# 34. hugvekja.

Rómv. 2., 9. „Hrellíngar og harmkvæli munu koma yfir allra þeirra manna sálir, sem ílsku drýgja."

Það er alltaf eitthvað undarlegt og óskiljanlegt í mannlegum fýsnum og tilhneigíngum. Allir menn vilja lifa og skoða dauðann eins og óvin lífsins, og allar þeirra fýsnir og tilhneigíngar stefna í þá sömu átt: að við halda lífinu. En þó eru það þessar sömu fýsnir og tilhneigíngar, sem án afláts stytta lífið og hrynda mönnunum fram í dauðann, sem þeir hræðast svo mjög, og það lítur út eins og þeir einúngis lifi til að flýta fyrir dauða sínum. Allir ásetja sèr að deyja rèttlátra dauða, allir búast við því og óska þess, og með því þeir ekki geta átt von á að lifa æfinlega hèr á jörðunni, halda þeir þó, að þeir að minnsta kosti muni lifa svo lengi, að þær girndir verði slokknaðar, sem nú hrjá þá og hrekja. Þeim þykja kjör þess manns óttaleg, sem deyr í syndum sínum og í óvináttu við Guð; en margir þeirra undirbúa þó sjálfa sig undir þessi kjör, án þess það valdi þeim órósemi, og hlaupa viðstöðulaust áfram þann veg, sem liggur til glötunar og eilífra ófara. Þeir vilja lifa í syndunum, en deyja rèttlátra dauða. Vèr tölum einatt um óstöðugleik þessa lífs og um fánýti allra jarðneskra hluta; en, því miður, hefir þó þetta lítil áhrif á vor hjörtu og flestir búast við að verða langlífir. En setjum svo, kærir bræður! að þetta ætti fyrir

oss að liggja; einhvern tíma kemur þó að því, að vèr hljótum að skilja hèr við, einhvern tíma upp rennur þó vor dauðadagur, og þá bíður vor annaðhvort eilíf sæla, ef vèr deyjum í Drottni, eða eilíf ófarsæld, ef vèr deyjum í syndum vorum. Óttalegur hlýtur dauðinn að vera fyrir þann, sem deyr í syndum sínum, því hvert sem hann rennir augum sínum, hlýtur hann að finna til angistar og örvæntíngar. Hvaða huggun getur umliðni tíminn veitt slíkum syndara, þegar hann liggur á banasænginni, úrkulavonar um að mega lifa lengur og les í augum allra viðstaddra þau óttalegu tíðindi, að hann verði að deyja? Hvað sèr hann á þeim mörgu dögum, sem hann hefir lifað á jörðinni? Æ! ekki annað en ónytjuerfiði, syndsamlegar lystisemdir, sem ekki hafa varað nema eitt augnablik, og syndsamlegar athafnir, sem hafa eilífar afleiðíngar. Hann sèr þar ónytjuerfiði, því líf hans hefir verið fullt af áhyggjum og sorgum; hann hefir einlægt unnið, en ekki fyrir sálu sinni nè guðsríki, heldur fyrir hègómann og heiminn. Þá sèr hann fyrst blindni sína og að hann alla æfi hefir verið að elta eintóman skugga, sem jafnóðum hefir skroppið úr höndum honum; þá sèr hann um seinan, að ekkert er í raun og veru eptirsóknarvert nema trú og guðrækni. Í sínu liðna lífi finnur hann líka endurminníngu þeirrar syndsamlegu gleði, sem hann hefir notið; en þessi endurminníng er sár og svíðandi, því hann sèr, að hann hefir selt sálu sína

og eilífa farsæld fyrir skammvinna gleði, sem er hvorfin eins og draumur; hann hafði gjört sèr von um langt líf og hèlt, að það yrði of langt til að helga það Guði einum; hann var hræddur um, að lífið yrði of leiðinlegt, ef hann færi strax að bera krossinn á eptir frelsara sínum, og því hafði hann skotið þessu á frest til elliáranna, en sökkt sèr niður í munaðarlífið. Á banasænginni sèr hann um seinan, að það líf, sem hann hèlt yrði svo langvinnt, er liðið, og að það er styttra en hann hugði milli æsku og elli, milli vöggunnar og grafarinnar. Þessi syndsamlega gleði hefir skilið sálu hans eptir tóma og gleðisnauða, og endurminníng hennar fyllir nú hjarta hans með blygðun. Í sínu liðna lífi endurminnist hann líka annara syndsamlegra athafna, sem hafa eilífar afleiðíngar. Æ! meðan vèr erum heilir heilsu, skoðum vèr ekki nema yfirborð samvizku vorrar, og endurminníng athafna vorra er einatt óglögg og eins og í þoku; en á banasænginni tvístrast þau myrkur, sem áður lágu á samvizku syndarans, og það er eins og eilífðin fari þá strax að leiða í ljós það sem í myrkrunum var hulið. Hvort sem syndarinn lítur inn í hjarta sitt, eða í kríng um sig, þá verður hann ekki var við annað en syndir sínar; hjartað titrar af ásökunum samvizkunnar, og allir, sem nálgast hans banasæng, minna hann á nýjar og nýjar syndir. Já, það sannast sem Job segir um hinn óguðlega, að „himininn mun opinbera hans misgjörðir og jörðin mun rísa

móti honum." (Job 20., 27.). Þannig gjörir endurminníng hins umliðna dauðastríð hins óguðlega þúngbært og kvalafullt; en ofan á þetta bætist umhugsun um hið yfirstandanda og hið ókomna. Hann hefir elskað þetta líf mjög dátt; en finnur nú með sárum kvíða, að hann verður að yfirgefa það, að yfirgefa þá fjármuni, sem hann með rèttu og röngu hafði dregið saman og þókt svo vænt um, að hann ekki hafði tímt að hjálpa sínum nauðstadda bróður; að hann verður að yfirgefa líkama sinn, sem hann hafði hjúkrað svo vel og þótt svo vænt um; að hann verður að yfirgefa heiminn, sem hann hafði helgað allt líf sitt, eins og vera hans hèr ætti að verða eilíf, og sem hjarta hans ennþá hangir fast við. Heimurinn deyr nú frá honum, en jafnvel í sjálfum dauðanum getur hann ekki dáið frá heiminum. Hann verður nú að skilja hèr við allt; en því meir sem allt hið stundlega hverfur sjónum hans, því betur sèr hann heilagan og rèttlátan Guð; hann einn verður eptir; hann uppfyllir allt. Syndarinn hafði áður lifað eins og enginn Guð væri til; hann hafði áður gjört gys að Guði og öllum ósýnilegum hlutum; en á þessum seinustu augnablikum lífsins sèr hann ekkert nema Guð; þá getur hann sèð hinn ósýnilega; þá geta skilníngarvit hans ekki lengur orðið vör við þessa sýnilegu hluti; þeir hverfa sjónum hans, en Guð kemur nú í stað allra þeirra missýnínga, sem höfðu villt sjónir fyrir honum á lífsleiðinni. En það sem út yfir tekur og gjörir

ástand þessa deyjanda syndara öldúngis óbærilegt, það er umhugsanin um eilífðina, sem þá fer í hönd: þessa myrkvu eilífð, sem hann á nú að leggja út í, einsamall og yfirgefinn af öllum, nema samvizku sinni, sem fylgir honum; þessa eilífð, þetta ókunna land, hvaðan enginn dauðlegur er aptur kominn, hvar hann nú á að mæta frammi fyrir Guðs heilaga dómstóli og standa reikníngskap af sínu liðna lífi, sem er atað syndum og fullt af óguðlegu athæfi. Á meðan hann sá þessa eilífð álengdar, var hann ókvíðinn og áhyggjulaus; en þegar dauðinn nálgast og eilífðin opnast, þá tekur hann til að skjálfa og titra, fullur angistar og örvæntíngar. Ó, kærir bræður! þessi ógæfusami maður, sem áður hafði svæft samvizku sína með því að telja sèr trú um, að ekki þyrfti annað til að fullnægja Guði og öðlast eilíft líf, en nokkur bænarorð rètt undir andlátið, örvæntir sèr nú Guðs náðar, og það tjáir ekki að tala við hann um Guðs eilífu miskunsemi; hann þorir ekki að treysta henni, hann þorir ekki að varpa sèr í Guðs miskunarfaðm; hann kvelst af ásökunum samvizkunnar; hann vill umflýja dauðann, sem dregur hann til sín, eða að minnsta kosti umflýja sjálfan sig, ef þess væri kostur. Loksins dregur af honum og hann deyr. Ó, Guð! láttu hans dæmi verða oss að varnaði! Gefðu oss náð til að lifa þèr, svo vèr getum dáið þèr! Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

---

# 35. hugvekja.

Opinb. bók. 14., 13. „Sælir eru þeir framliðnu, sem í Drottni deyja."

Jafnvel guðhræddar sálir kvíða einatt fyrir dauðanum; þær óttast fyrir Guðs rèttlæti, og af því trú þeirra er lifandi og elska þeirra heit, þá er samvizka þeirra svo næm, að sèrhver yfirsjón vex í augum þeirra. Líka hryllir manninn við gröfinni og við því, að líkaminn skuli sundur leysast og verða að orma fæðu. Allt þetta gjörir dauðann geigvænlegan jafnvel í augum guðsbarna. En þó er það engu síður víst, að Guðs náð hjálpar til að yfirbuga þenna hroll og kvíða fyrir dauðanum, og um það getur sèrhver sá sannfærzt, sem nemur staðar hjá banasæng sannkristins manns. Hinn sannkristni hefir lengi búið sig undir dauðann; hann hefir lengi leitazt við að safna sèr himneskum fjársjóðum; hann hefir aldrei misst sjónar á umskiptum tímans og eilífðarinnar, heldur jafnan haft þau hugföst í orðum og áformum, og umhugsun um eilífðina hefir hjálpað honum til að sýna sjálfsafneitun, og til að bera sèrhverja mæðu og sèrhverja byrði lífsins með þolinmæði. Verið getur, að þèr, kærir bræður! nú sem stendur hafið óbeit á krossburðinum, óbeit á að líða með Kristi og að yður þyki það óbærilegt ok, að þurfa að láta nokkuð á móti yður. En á banasænginni er það sú bezta huggun fyrir sèrhverja guðelskandi sál, að endurminnast þeirra þján-

inga, sem hún hefir orðið að þola vegna Guðs og frelsara síns; þá sèr hún, hve lèttvægar þessa lífs skammvinnu þrautir eru í samanburði við þá óendanlegu og eilífu sælu, sem bíður guðsbarna í öðru lífi, og það sem þá huggar hana er það, að hún ekki hefir látið eptir sèr þá syndsamlegu stundargleði, sem einúngis leiðir af sèr blygðun og órósemi; það sem þá huggar hana er, að hugsa til þess, að sèrhver guðrækileg hugarhræríng og sèrhvert mannelskuverk eru fjársjóðir, sem aldrei líða undir lok, því þeir eru geymdir hjá Guði. Ó! hvílík huggun er það fyrir hana að hugsa til þess, að þá eru hinar skammvinnu þrautir á enda, sem verða endurgoldnar með eilífri huggun; að þá er á enda hættunnar og freistínganna tími; að þá taka enda þær árásir, sem heimurinn gjörði á trú og guðhræðslu hennar, og stríð hennar við hold og blóð; þá getur sálin með gleði minnzt vegferðar sinnar á þessa lífs ólgusjó, því þá er hún komin að höfnum friðarins. En hin guðhrædda sál minnist ekki einúngis þeirrar hættu og þeirra þjáninga, sem hún átti við að stríða á sinni umliðnu æfi, heldur minnist hún einnig breyskleika síns og yfirsjóna sinna; en hún minnist jafnframt Guðs miskunar og náðar, sem fyrirgaf henni og lèt hrösun og breyskleika vekja hjá henni iðrun og apturhvarf, árvekni og stöðuglyndi í hinu góða. Þessi hryggð af yfirsjónum hennar á dauðastundinni er ekki annað en hryggð huggunarinnar og kærleikans; þau tár, sem þessi

endurminníng ennþá lokkar af augum hennar, eru ekki annað en tár gleðinnar og þakklætisins; sú miskun Guðs, sem hún hefir reynt á umliðna tímanum, fyllir hana trausti, von og djörfúng; hún skoðar Guð þá ekki lengur, eins og hún áður gjörði á tíma iðrunarinnar, sem strangan dómara, heldur eins og miskunsemdanna föður og Guð allrar huggunar, sem þá er reiðubúinn að taka hana í sinn náðarfaðm. Hún kvíðir því ekki fyrir dómsins degi, heldur þráir hún tilkomu frelsara síns; hún hefir í gjörðum sínum og áformum jafnan haft það hugfast, að hún átti að mæta fyrir Drottins dómstóli; hún fer því glöð og hughraust hèðan í Drottins friði. Á dauðastundinni skoðar hún heiminn með sömu augum og jafnan áður; hún skoðar hann sem hverfulan og svikulan, og gleðst af því, að hafa ávalt skoðað hann þannig, en sett von sína til Guðs, sem varir að eilífu og umbunar þeim með eilífri sælu, sem á hann vona. Ó, hvílíkur friður býr þá í guðhræddri sálu á dauðastundinni! Það er eins og trú og elska hennar fái þá nýtt fjör, og því meir sem hennar jarðneska tjaldbúð hrörnar, því meiri og innilegri verður löngun hennar eptir himninum og eilífðinni; hún yfirgefur þetta líf með gleði og felur ástvini sína Drottins forsjón á hendur; hún veit, að dauðinn að skilur ekki þá, sem hèr elskast í guðsótta, heldur hittast þeir aptur innan lítillar stundar í Guðs náðarfaðmi, í söfnuði útvaldra. Það er fögur sjón, að sjá trú hins guðhrædda á dauðastundunni!

Það, sem þá fyllir trúaða sál með huggun og fögnuði, er umhugsunin um eilífðina. Meðan hinn óguðlegi er heill heilsu, skoðar hann ókomna tímann með mestu rósemi, en á dauðastundinni breytist rósemi hans í angist og kvíða; en fyrir guðsbörnum er þessu allt öðru vísi varið; meðan hèrvist þeirra varir, efla þau sína sáluhjálp með ótta og andvara og bera lotníngarfullan ótta fyrir Guðs hátign og hans eilífa rèttlæti; en á banasænginni birtist þeim friðarins Guð, sem sefar þeirra órósemi, og ótti þeirra hverfur og breytist í inndæla von; gegnum þau dauðaský, sem um kríngja þau, sjá þau þegar, eins og Stefanus, himnana opna og mannsins son standa föðurnum til hægri handar; þau sjá hið eilífa föðurlandið, sem þau hafa svo mjög þráð og hvar þau í anda svo opt hafa dvalið: þenna eilífa sælustað, hvar Guð hefir fyrir hugað sínum elskendum óumræðilegan frið og fögnuð; þenna sælustað Guðs heilagra og útvaldra, hvar þau hitta aptur alla sína guðhræddu ástvini og ásamt þeim eilíflega sýngja Guði lof og dýrð. Dauðastundin er því guðsbörnum fagnaðarrík friðarstund: deyjandi lypta þau til himins augum sínum og sjá frelsarann, sem kemur að sækja þau, og sál þeirra talar við Guð sinn í hljóði segjandi: þegar þèr þóknast, Drottinn! þá leið þú mig nú á burt og leys þau veiku bönd, sem enn halda mèr hèr; eg bíð í trú og von eptir uppfyllíngu þinna náðarfyrirheita. Með þessari bæn í hjarta sínu, endurnærður og styrktur

af Guðs náðarmeðulum, lætur hinn trúaði augun aptur og sofnar sætt í Drottni og hverfur í hans náðarfaðm.

„Mín sála deyi dauða hinna rèttlátu; mitt hið síðasta verði sem þeirra!" (4. Mós. b. 23., 10.). Sá, sem óskar þessa af hjarta — og hver mun ei óska þess — hann ástundi að lifa lífi hinna rèttlátu, hann snúi sèr strax til Drottins með heitri bæn um syndafyrirgefníngu, um náð og krapta til iðrunar og lífernisbetrunar; hann snúi sèr á hverjum degi til Drottins og framgangi í hans ótta. Þetta sè þá einnig fast og einlægt áform vorra allra, kærir bræður! og sælir erum vèr, ef vèr framkvæmum þenna vorn góða ásetníng; og sælir erum vèr, ef vèr lifum Drottni og í samfèlagi við hann, því þá munum vèr fá að deyja í honum, og vèr vitum, að þeir framliðnu eru sælir — já, eilíflega og óumræðilega sælir — sem í Drottni deyja. Amen.

---

# 36. hugvekja.

1. Jóh. 4., 21. „Þetta boðorð höfum vèr frá honum, að sá sem elskar Guð, honum beri einnig að elska bróður sinn."

Þó tvídrægninnar andi sè orðinn mjög ríkjandi meðal mannanna, hefir þó skaparinn gróðursett hjá þeim velvildar tilfinníngar og hæfilegleika til vináttu og kærleika. En af því þessar góðu tilfinníngar ná ekki nema til þeirra, sem

oss fellur vel við, og eru hvorki nógu hjartanlegar nè nógu staðfastar, þá hefir Drottinn viljað, að mannlegur fèlagskapur byggðist á öðrum tryggvari og dýpri grundvelli, það er að skilja: á sjálfum honum, sem höfundi allra hluta, og að elska til annara manna sprytti af elskunni til hans, og því er oss boðið, að elska hann um fram alla hluti og náúngann eins og sjálfa oss. Elskan til Guðs er því undirstaða sannrar mannelsku, af því hún losar huga vorn við þá eigingirni, sem vön er að vera elskunni til náúngans til fyrirstöðu; og sá, sem elskar Guð af hjarta, getur elskað alla menn og viljað öllum mönnum vel af hreinu hjarta; en sá, sem ekki elskar Guð, getur í rauninni ekki elskað aðra í verki og sannleika og engan nema sjálfan sig; sú elska, sem hann ber til annara manna, verður aldrei svo hrein og hjartanleg, að henni megi treysta. Þessi eigingirni vor og of mikla sjálfselska er orsök til tvídrægninnar í heiminum; hún er orsök í því, að menn eru „sèrgóðir og kærleikslausir" (2. Tím. 3., 2.—3.), og geta ekki elskað náúngann eins og guðsorð býður. Það býður oss að elska hann eins og sjálfa oss, af því hann er, bæði að náttúrunni og náðinni til, náúngi og jafníngi vor; en eigingirnin, sem vèr heldur hlýðum, gjörir það að verkum, að vèr elskum hann vegna sjálfra vor, en ekki eins og sjálfa oss; elskum hann ekki í sönnum eindrægnis anda, heldur til þess að geta haft eitthvert gagn af honum. Þannig elska

heimsins börn, og þannig elskum vèr, þangað til Guð dregur hjörtu vor til sín; en meðan vèr ekki elskum hann, á eigingirnin meiri eða minni þátt í allri vorri elsku, hversu fögur sem hún að öðru leyti kann að sýnast; og vegna þess að elskan til Guðs er svo dauð og köld í sálum vorum, þá eiga einnig heima hjá mörgum samtíðamönnum vorum þessi orð spámannsins: „Hver einn bróðir vill fella bróður sinn, og hver einn vinur gengur um kríng sem rógberi, og hver einn fer á bak við vin sinn, og sannleika tala þeir ekki; þeir æfa túngu sína í að tala lygar og kosta kapps um að gjöra rangt. Þú býr mitt á meðal svikanna" (Jer. 9., 2.—5.). Já, því miður, reynist það svo, að margir elska með orði og túngu, en fáir í verki og sannleika; væri oss gefið að rannsaka hjörtun, ef Guð allt í einu brigði sínu ljósi yfir þau og gjörði ráð þeirra opinber, þá mundum vèr sjá, að í stað hreinnar mannelsku fela þau einatt í sèr mikinn kulda, tortryggni og óeinlægni. Og af hverju kemur þetta öðru en þeirri syndsamlegu eigingirni, sem kemur oss til þess einúngis að hugsa um vorn tímanlega hagnað og vill hafa aðra fyrir verkfæri til að efla hann? En æ, hversu ólíkt er þetta Jesú heilaga boði og hans heilaga dæmi, og hve hræðilegt er til þess að hugsa, að elskan til Guðs skuli vera svo dauð og dofin í vorum hjörtum, og að vèr skulum svo lítið óttast hans heilaga rèttlæti! Já, það er hræðilegt til þess að hugsa, að þó vèr einlægt

aukum og margföldum vora syndaskuld, þó vèr alltaf og í öllum hlutum sèum komnir upp á Guðs náð og miskunsemi, þá erum vèr þó svo kærleikslausir, hlutteknúngarlausir og ósáttgjarnir við bræður vora. Vèr viljum, að Guð umberi oss allt, en viljum sjálfir ekki umbera neinum neitt. Oss vex allt í augum, sem aðrir gjöra á hluta vorn, og þolum ekki eitt styggðar- eða móðgunaryrði, en í hitt þykir oss, aumum og vesælum jarðarmöðkum, lítið varið, þó vèr brjótum Guðs boðorð, þó vèr styggjum og móðgum hans eilífu hátign. Munu þá augu vor aldrei opnast? Munu þá hjörtu vor aldrei mýkjast og vermast af elsku til Guðs og manna, áður en þau stirðna og kólna í dauðanum? Mun oss þá aldrei lærast að fyrirgefa af hjarta og umbera mótgjörðir með hógværð og þolinmæði? Ennþá megum vèr, því miður, játa, að mannkærleikans tilfinníngar eru næsta veikar og daufar í sálum vorum, en að þar er of mikið af eigingirni og sjálfsþótta; vèr höfum enga stillíngu í oss til að þola nokkra mótgjörð; já, höldum, að vèr gjörum of lítið úr sjálfum oss, ef vèr ekki stökkvum upp og látum til vor taka, hvað lítið sem útaf ber, og þykjumst miklir menn af þessari upptektasemi, sem vèr köllum sómatilfinníngu; og stundum bíðum vèr ekki eptir því, að aðrir gjöri á hluta vorn, heldur verðum fyrri til að gjöra á annara hluta, ef einhver grunsemd eða tortryggni kemst inn hjá oss; vèr óttumst fyrir, að aðrir siti á svikráðum við

oss, og hötum þá einúngis af því vèr höldum, að þeir hati oss. Þannig kviknar ófriður og óvinátta, óvild, heipt og hatur meðal manna, og þeir fjarlægjast meir og meir kærleikans heilaga boðorð, fjarlægjast meir og meir Guð, sem er kærleikurinn. Ef þèr því, kristnir menn! vilið elska Guð og verða hans náðar að njótandi, þá elskið bræður yðar; út rýmið úr hjörtum yðar öllu hatri til þeirra, allri hrekkvísi og undirferli; takið innilega hlutdeild í annara kjörum og vilið öllum vel; hafið taumhald á túngu yðar og talið sannleika hver við annan; stjórnið reiði yðar og hafið gát á öllum yðar orðum; því Guð hefir sjálfur sagt, að hann á dómsins degi muni krefja oss til reikníngskapar fyrir sèrhvert illyrði, sem vèr mælum (Mtth. 12., 36.). Berum því lotníngu fyrir hans alskyggna auga og hans alstaðarnálægð; gætum þess, að hann mun breyta við oss eins og vèr höfum breytt við náúnga vorn. Látum oss ekki skjóta því á frest, að innræta hjá oss elsku og velvildarfullt hugarfar; látum oss ekki draga það, að fyrirgefa vorum skuldunautum, ef vèr viljum, að Guð fyrirgefi oss vorar skuldir. „Sólin gangi ekki undir yfir yðar reiði," segir postulinn (Efes. 4., 26.). Þessi mikli mannvinurinn gat ekki ímyndað sèr, að kristnir menn mundu geta sofið sætt og vært, ef hjörtu þeirra væru full af heipt og kala til bræðra sinna, mundu geta „vænt sèr værð og frið, en vera ósáttir þó við Guð." Dagurinn líður, kristnir menn! kvöldið er þegar

komið og sólin gengin undir; skjótum því ekki á frest að gefa Guði hjörtu vor. Vèr viljum helzt draga öll góð áform þangað til vor dauðadagur upp rennur; en þá munum vèr fá nóg að gjöra. Æ, Drottinn! hjálpa þú oss sjálfur með þinni elsku til að geta elskað þig um fram allt og aðra menn eins og sjálfa oss; án þín getum vèr ekkert elskað nema vora eigin spillíngu; en vèr megnum alla hluti fyrir þig, sem oss máttuga gjörir. Vertu máttugur í vorum vanmætti, í Jesú nafni! Amen.

---

# 37. hugvekja.

1. Mós. b. 41., 9. „Í dag minnist eg minnar syndar."

Enginn dagur er meir áríðandi fyrir oss, en sá dagurinn sem er að líða, því vèr eigum ekki ráð á morgundeginum, og þess vegna megum vèr aldrei skjóta því á frest til morgundagsins, að hugsa, tala og gjöra það gott, sem í voru valdi stendur, og þess vegna er það líka mjög áríðanda fyrir hvern þann, sem lætur sèr vera annt um sína eilífu sáluhjálp, að endurminnast daglega synda sinna. Endurminníng syndanna er mjög áríðandi fyrir oss, því hún vekur angur í vorum hjörtum; en þetta angur er innifalið í sárri og innilegri löngun eptir, að vor syndasekt verði afplánuð og hinni þúngu syndabyrði lètt af samvizkum vorum.

þetta angur felur í sèr viðbjóð við syndinni, af því hún lýsir vanþakklæti við vorn himneska föður og gjörir vorn ódauðlega anda auðvirðilegan og ófarsælan. þetta angur er hryggð eptir Guði, sem verkar betrun til sáluhjálpar. Að þekkja sjúkleik sálar vorrar og kannast við vora andlegu fátækt er hið fyrsta stig á vorum betrunarvegi; en þetta fáum vèr ekki þekkt, nema vèr endurminnumst synda vorra og rannsökum vorn innra mann. En til þessa eru mennirnir svo tregir; flestir lifa einúngis í sínum ytra manni, en hirða lítið um sálu sína; þeir sökkva sèr niður í veraldlegar áhyggjur og sorgir, og láta allan hug og hjarta fyrirberast í hinu tímanlega og hverfula; í stað þess að hafa Guð í hjarta sínu, setja þeir þar heiminn og sjálfa sig, og þessi heimselska og eigingirni blindar svo augu þeirra, að þeir ekki sjá sálarástand sitt; þeim ferst líkt og þeim sjúklíngum, sem taka helfróna fyrir batamerki, og þykjast einkis meins kenna sèr þegar þeir eru að fram komnir. Ó, skyggnizt þá, þó ekki sè nema litla stund, inn í hjörtu yðar, syndugir menn! og hversu fáir munu þá þeir dagarnir verða, sem ekki gefi yður neitt ásökunar og angurs efni. Hversu opt var ekki skynsemi yðar, sem eptir eðli sínu leitar hins himneska og eilífa, hneppt í fjötur holdlegra girnda og heimsins ginnínga; hversu opt var ekki trú yðar veik og elska yðar köld og viljinn til hins góða dáðlaus og máttvana; þreklaus til að afneita heiminum og

stríða við freistíngarnar? Af hverju kom þessi blindni skynseminnar, þetta þróttleysi viljans? Af hverju nema syndsamlegri eigingirni hjartans? Hvað er það sem hið holdlega óendurfædda hjarta mest elskar? Það elskar mest nautn holdlegs munaðar, sem kitlar skilníngarvitin, en skilur sálina eptir snauða og volaða; það elskar mest veröldina, sem launar með svikum og prettum; það elskar sig mest sjálft, þó það þykist elska enn meir Guð og dyggðina; því hjá Guði elskar það ekki annað en velgjörðir meðlætisins, en hefir óbeit á hans krossi, og dyggðina elskar það einúngis, þegar henni fylgir álit og lofstír hjá mönnum, en ekki þegar hún heimtar sjálfsafneitun. Það gengur sinn veg, en ekki á Guðs vegum; það fylgir sínum spilltu tilhneigíngum, en ekki Guðs vilja. Ó, prófið því hjörtu yðar, kristnir menn! og endurminnist yðvarra synda! Mundi þessi endurminníng ekki geta vakið hjá yður sorgar tilfinníngar og hryggð eptir Guði? Endurminníng synda vorra vekur ekki einúngis angur í hjörtum vorum, heldur kemur oss einnig til að leita Guðs í bæninni. Þegar þú, kristinn maður! minnist þess, hvernig þú hefir brotið á móti Guði þínum, og stendur hryggur og angraður með sundurkramin anda, hvar getur þú þá leitað sálu þinni hvíldar og hjarta þínu huggunar, nema hjá hinum eilífa miskunsemdanna föður? Og mun þèr ekki verða tamast að biðja hann og þú fúsastur til bænaiðjunnar, þegar syndir þínar standa lifandi

afmálaðar fyrir hugskotssjónum þínum? Eða hver mun helzt biðja Guð um náð og miskun? Ekki sá, sem í hjarta sínu segir: „Eg er ríkur og hefi allsnægtir og þarfnast einskis," heldur hinn, sem þekkir sína andlegu fátækt og kannast við brot sín og bresti; ekki sá, sem treystir dyggðum sínum, eins og þær gætu afplánað eina einustu drýgða synd, eða hefðu nokkurt gildi í augum hins heilaga og rèttláta, heldur hinn, sem finnur til þess, að enginn getur afplánað syndina, nema hinn eilífi kærleikurinn sjálfur og hans friðþægjandi náð; sem finnur til þess, að í augum heilags Guðs eru allir syndugir og að þá skortir þá hrósun, sem hjá honum gildir. Þess vegna getur enginn sá beðið Guð um náð og fyrirgefníng syndanna, sem treystir sínu eigin rèttlæti eða heldur, að hann geti sjálfur afplánað syndir sínar eða gefið sèr krapta til lífernisbetrunar. Sá þar á mót, sem endurminnist synda sinna, sem endurminnist þess, að hann hefir brotið á móti heilagleikans boðum og kærleikans bendíngum, sem þekkir sína synda sekt og vanmátt sinn í hinu góða, sá sem þannig er sinnaður og játar með Davíð: „Móti þèr, Drottinn! hefi eg brotið og aðhafzt hið illa fyrir þinni augsýn" (Sálm. 51., 6.), hann finnur til þess, hvílíka þörf hann hefir á því, að flýja á náðir hins eilífa miskunarans, og hvílík sæla það er að úthella hjarta sínu fyrir honum í bæninni. Þegar endurminníng syndanna kemur oss til að biðja Guð, þá styrkir hún líka traustið

á Guðs náð í hjörtum vorum. Þegar menn renna augunum yfir sína umliðnu æfi, þá er þeim opt hætt við að falla annaðhvort í andvaraleysi eða örvæntíng. Andvaraleysið segir: „Eg þakka þèr, Guð! að eg er ekki eins og aðrir menn"; en örvæntíngin andvarpar þannig: „mín synd er stærri en svo, að hún verði fyrirgefin." Hvorrtveggi misskilja bendíngar Drottins náðar og steypa sèr aptur í nýjar syndir. Það er víst, að syndin er andstyggileg í augum hins heilaga, en hans náð er líka eilíf og óendanleg, og hann elskaði svoleiðis syndugt mannkyn, „að hann fram seldi sinn eingetin son, til þess að hver, sem á hann trúir, ekki skuli fyrir farast, heldur hafa eilíft líf." Jesú orð og verk, pína hans og dauði, var huggunarríkur náðarboðskapur um himnaföðursins elsku til vor, syndugra manna. Og ennþá og ætíð hefir Guð sinn náðarfaðm útbreiddan móti iðrandi syndurum. Hans náð er eilíf og óendanleg; en gætum þess líka, að hún er heilög og að vèr ekki án árvekni, bænar og trúar getum byggt von um frið og sigur á Jesú friðþægíngu. Þó hjarta vort fordæmi oss, er Guð þó meiri voru hjarta" (1. Jóh. 3., 21.); en hjá þessari fordæmíngu getum vèr því að eins komizt, að endurminníng synda vorra veki hjá oss sannarlegt angur, auðmjúka bæn og lifandi trúnaðartraust á Jesú Kristi, svo vèr ekki höldum áfram að syndga upp á náðina, heldur megum deyja syndinni og lifa rèttlætinu. Æ! á þá einnig þessi stund með

sínum heilögu bendíngum að líða ónotuð eins og svo ótal margar aðrar stundir, og hverfa í gleymskunnar djúp, án þess að leiða oss einu feti lengra á vorum sáluhjálpar vegi? Nei, á þessari stundu viljum vèr endurminnast vorra synda í augsýn hins alltsjáanda Guðs og í hans nafni byrja vort betrunarverk. Þá mun hann af náð sinni styrkja vora veiku krapta, hreinsa vort angur, heyra vorar hjartans andvarpanir, og lífga og glæða vort trúnaðartraust. Ó, Guð! miskuna þú oss öllum í Jesú nafni! Amen.

---

# 38. hugvekja.

Rómv. 10., 2. „Þeir hafa vandlætíng Guðs vegna, en ekki með skynsemd."

Það mun ekki þurfa að bera vorum samtíðamönnum svo mjög á brýn, að sú vandlætíng, sem þeir hafi Guðs vegna, sè ekki með skynsemd. Hitt sýnist öllu fremur eiga heima hjá þeim, að þeir yfir höfuð að tala hafi litla eða enga vandlætíng Guðs vegna; að þeir sèu skeytíngarlitlir um Guðs dýrð, um sína og annara sáluhjálp og hálfvolgir í kristindóminum. En vèr vitum, kærir bræður! að þetta á ekki þannig að vera. Fyrst og fremst eigum vèr að efla sáluhjálp sjálfra vor með ótta og andvara, og kappkosta að láta alla vora breytni

verða Guði til dýrðar; en af því vèr eigum að elska aðra menn eins og sjálfa oss, þá ber oss einnig að láta oss vera annt um þeirra eilífu farsæld, og með orðum og eptirdæmi leitast við að hafa betrandi áhrif á þá og leiða þá frá villu síns vegar. Að vísu hafa nú kennendur guðsorðs bezt og beinast færi á því, að tala orð áminníngarinnar, aðvörunarinnar og huggunarinnar til bræðra sinna; en þó eiga einnig hjón og foreldrar, húsbændur, vinir og vandamenn kost á því, og allir getum vèr, í hverri stöðu sem vèr erum, komið miklu góðu til leiðar með lastvöru líferni og góðu eptirdæmi. Sú vandlætíng Guðs vegna, sem postulinn Páll talar um, er ekki annað en kristilegur kærleiki, sem verður svo lifandi hjá oss, að vèr ekki einúngis girnumst sáluhjálp bræðra vorra, heldur einnig finnum oss knúða til að vinna sjálfir að henni eptir mætti, knúða til að leitast við að frelsa þeirra sálir frá dauðanum. Þessi kærleikans vandlætíng verður því að hafa öll kærleikans einkenni; annars er hún ekki með skynsemd. Hið fyrsta einkenni þeirrar vandlætíngar, sem sprettur af kristilegum kærleika, er það, að hún er umburðarlynd. Já, kærir bræður! vèr verðum að bíða með þolinmæði, biðja Guð og vona, að hann gefi syndugum manni náð til þess að iðrast og bæta ráð sitt. Vèr megum ekki beita neinum blindum ákafa, því þá verður vor vandlætíng óskynsamleg og hætt við, að hún stjórnist af sjálfsþótta, heimulegri dramb-

semi og hègómadýrð. Vèr eigum að fela Guði þetta málefni eins og öll önnur, því hann er sá, sem ávöxtinn gefur. Af umburðarlyndinu sprettur góðvili, sem er hið annað einkenni kærleiksfullrar vandlætingar. En þessi góðvili á ekki skylt við það hugleysi, sem ekki þorir að segja sannleikann, heldur talar eins og hver vill heyra; sem reynir til að gjöra svo öllum líki með því að laga sig eptir þeirra girndum og tilhneigíngum, og leitast við að sameina Guðs boð við heimsins lífernisreglur. Sá góðvili, sem vill fegra og rèttlæta spillíngu mannanna, er ólíkur sönnum kristilegum kærleika; það er ekki að elska bræður sína að smjaðra fyrir syndsamlegum girndum þeirra, heldur er það að sykra hinn banvæna drykk, svo hann fái betra bragð og renni betur niður. En að hinu leytinu verða menn eins að varast hörku og of mikla hótfyndni, sem örvæntir um betrun og sáluhjálp syndugs manns; því sú vandlætíng, sem þannig er varið, vekur samvizku sturlanir hjá hinum ístöðulausu, en gjörir hina holdlega sinnuðu andvaralausa. Þessi vandlætíng þekkir hvorki breyskleika mannlegs eðlis nè Guðs óendanlegu miskunsemi, og gleymir því, að Jesús Kristur er kominn til að leita að hinu týnda og tapaða og leiða það til Guðs. Allar áminníngar og aðvaranir verða jafnan að lýsa því, að þær spretti af innilegri elsku. Af því sú sanna kristilega vandlætíng sprettur af kærleikans rót, ávinnur hún sèr elsku og virðíngu jafnvel hjá þeim,

sem hún leitast við að leiðrètta og betra; þó hún ekki geti fengið þá til að hata lestina, vekur hún þó hjá þeim virðíngu fyrir dyggðinni; en verði tilraunir hennar árangurslausar, getur hún ekki annað en tárast og andvarpað yfir eymd bræðra sinna, og beðið Guð að miskuna ag fyrirgefa þeim. Sú kristilega vandlætíng er ekki öfundsjúk; hún hefir allan hugann á sinni og annara eilífu farsæld, og metur ekki þessi tímanlegu gæði meir en þau eiga skilið; hún tekur með þakklæti móti því, sem Drottni þóknast að gefa af þeim, en gjörir sig líka ánægða með að fara þeirra á mis. Því fer svo fjarri, að hún sjái ofsjónum yfir annara hagsæld, að hún samgleðst þeim, sem vel gengur, og hefir velgengni þeirra sem meðal til að vekja hjá þeim þakklæti við gjafarann allra góðra hluta, og koma þeim til, að gefa Guði dýrðina. Kærleikans vandlætíng er hvorki raupsöm nè hrokafull. Hún gjörir ekkert til að sýnast fyrir mönnum; hún starfar í leyni og í auðmýkt hjartans, og þegar henni verður eitthvað ágengt, þegar einhver fyrir hennar fortölur og góða eptirdæmi snýr frá villu síns vegar, þá þakkar hún sèr það ekki, heldur Guði, sem ávöxtinn gefur, og hún minnist jafnan þessara Jesú orða, sem hann sagði við lærisveina sína: „Gleðizt ekki yfir því, að illir andar hlýða yður, heldur yfir því, að nöfn yðar eru skrifuð á himnum" (Lúk. 10., 20.). Hún gjörir ekkert ósæmilegt, því hún er samfara kristilegum hygg-

indum og velur jafnan þau meðul, sem bezt eiga við til að efla og útbreiða guðsríki; hún er ekki sèrplægin, því hún leitar ekki sinnar, heldur Guðs dýrðar; ekki fljót til reiði, af því hún er umburðarlynd og auðmjúk, og þess vegna tilreiknar hún ekki heldur illt; hún erfir ekki mótgjörðir og dæmir engan; hún örvæntir aldrei um betrun syndugs manns, heldur væntir alls góðs af Guðs miskunsemi.

Ástundum, kærir bræður! að hafa þessa kærleikans vandlætíngu Guðs vegna; auðsýnum hana í vorri daglegu breytni hver við annan, en verum jafnan vandlátastir við sjálfa oss og vökum gaumgæfilega yfir girndum vorum og hugrenníngum, yfir orðum vorum og gjörðum, svo vèr ekki hneyxlum nokkurn mann, nè leiðum hann til syndar.

Ó, Guð allrar miskunar! styrk þú oss í þessum góða ásetníngi; láttu þá hugsun jafnan vera vakandi hjá oss, að vèr eigum fyrir ódauðlegri sálu að sjá, að vèr á síðan eigum að standa þèr reikníngskap af því, hvernig vèr höfum varið þessum náðartíma, sem þú gafst oss, og að þú þá einnig munt krefja oss um þær sálir, sem vèr hèr í lífi leiðum afvega með syndum og löstum! Æ, gefðu oss góð og skynsöm hjörtu, svo vèr höfum vandlæting þín vegna með skynsemd og kærleika! Heyr þú vora bæn í Jesú nafni! Amen.

# 39. hugvekja.

Lúk. 16., 31. „Ef þeir ekki vilja hlýðnast Mósi og spámönnunum, munu þeir ekki heldur trúa, þó einhver dauður upp risi.“

Þegar vèr hugleiðum, hvernig guðsorð útmálar það eymdarfulla ástand, sem bíður hinna iðrunarlausu hinu megin grafarinnar, og vèr jafnframt virðum fyrir oss breytni mannanna og sjáum, hvernig margir lifa eins og hugsunarlausir um annað líf, eins og þeir gjöri sèr enga grein fyrir því, eða skipti sèr af því, hvort það sè til eða ekki, hvernig þeir sökkva sèr niður í munað þessa lífs eins og engin eilífð og enginn dómur væri til; þegar vèr virðum þetta andvaraleysis hugarfar fyrir oss, þá hlýtur það að renna hverjum þeim til rifja, sem ekki er með öllu andlega dauður, heldur hefir áhuga á sinni og annara eilífu sáluhjálp, og honum liggur við að biðja líkt og hinn ríki maður, sem frelsari vor getur um í dæmisögunni: „að Drottinn sendi einhvern framliðinna til hinna lifendu, til þess að aðvara þá í tíma, svo þeir komi ekki í þenna kvalastað.“ En svarið mundi nú verða líkt og forðum: Hinir lifendu „hafa Móses og spámennina; hlýði þeir þeim!“ og „ef þeir hlýða ekki Móses og spámönnunum, þá munu þeir ekki heldur trúa, þó einhver dauður upp risi.“ Frelsarinn segir oss því, kristnir bræður! að það mundi ekki verða til neins, að það mundi ekki leiða oss til sannrar lífernis betrunar, þó

einhver framliðinn upp risi og færi að útmála fyrir oss þá eymd, sem í öðru lífi bíður óguðlegra og iðrunarlausra manna; og vèr getum vel skilið, hvers vegna þetta mundi verða svo. Útmálun eilífra písla mundi vekja hjá oss ótta og kvíða, en ekki neina sannarlega elsku til Guðs og manna; hún mundi vekja hjá oss þrældómsanda, en ekki kærleikans anda; en Guð, sem er kærleikurinn, vill, að vèr skulum hlýðnast sèr af kærleika; hann vill, að vèr skulum elska sig, af því að hann er svo góður og gæzkuríkur, að vèr skulum elska hið góða, af því það er gott; „en hver, sem hefir ótta, sá er ekki algjörður í kærleikanum" (1. Jóh. 4., 18.); þess vegna getur ekki óttinn eintómur afrekað oss eilíft líf nè eilífa sælu, heldur er það eilíft líf, að þekkja Guð, elska hann og hlýðnast honum af kærleika. Meðan vèr dveljum hèr á jörðinni, þá er oss líka ætlað að lifa í trúnni, en ekki í skoðuninni; og í trúnni, í innilegri sameiníngu við Guð og frelsara vorn, höndlast hið eilífa lífið; en þessi trú mundi lítið styrkjast fyrir það, þó einhver framliðinna færi að prèdika fyrir oss. Að sönnu mundum vèr þá verða agndofa um stundar sakir, eins og Gyðíngar, þegar þeir sáu kraptaverk lausnara vors; en þegar frá liði, mundi sækja í sama horfið, og synd og vantrú geta vakið ótal efasemdir um sannleikann í hjörtum vorum. Þess vegna eigum vèr, kristnir menn! að heimfæra þessi orð til vor: „Þeir hafa Móses og spámennina, hlýði

þeir þeim!" Guðs opinberaða orð á að vísa oss veginn til eilífs lífs, og það er sá bezti og áreiðanlegasti leiðarvísir, sem vèr getum fengið á þessari vegferð vorri, ef vèr að eins viljum hlýðnast því og „geyma það í góðu og siðsömu hjarta." Það skýrir og upplýsir allt, sem oss þykir efasamt um tilgang þessa lífs og vora eilífu ákvörðun; það segir þèr með óyggjandi vissu, kristinn maður! hvað þú átt að gjöra til að eignast eilíft líf; það kennir þèr að þekkja Guðs vilja og hvernig þú átt að hlýðnast honum. Hvar sem vèr þurfum uppfræðíngar við um vora tímanlegu og eilífu ákvörðun, þá er sagt um oss eins og um bræður hins ríka manns í eptirlíkingu frelsara vors: „Þeir hafa Móses og spámennina; hlýði þeir þeim!" Og vèr höfum meira en þeir; vèr höfum það, sem þeir sáu álengdar og eins og í þoku og ráðgátu: vèr höfum Krists sáluhjálplega lærdóm. Hinn eingetni sonur föðursins, sem er ímynd Guð veru og ljós heimsins, hefir leitt í ljós lífið og ódauðleikann og vísað oss veginn til eilífs lífs, og ef vèr fylgjum honum, þurfum vèr ekki að óttast fyrir því, að fara villir vegar nè rata í hin yztu myrkur, heldur munum vèr þá fara frá dauðanum til lífsins. Hann, sem sjálfur sigraði dauðann og upp reis fyrstur frá dauðum, hefir kennt oss til hlýtar að þekkja annað líf og vor komandi forlög. Uppfræddir af hans orði vitum vèr, að „Guð mun endurgjalda sèrhverjum eptir hans verkum: þeim, sem með stöðug-

leika í góðu verki leita vegsemdar og heiðurs og ódauðleika, eilíft líf; en hinum, sem mótþróanlegir eru og ekki trúa sannleikanum, heldur hlýðnast ranglætinu, bræði og reiði" (Rómv. 2., 6.—8.). Þessi eilífu sannindi, þetta sitt lögmál og evangelium, lætur Drottinn ávalt brýna fyrir oss, svo vèr ekki skulum gleyma dauða, eilífð og dómi, heldur hugleiða í tíma, hvað til vors friðar heyrir, og snúa oss til hans og hlýða honum, sem er upprisan og lífið og hefir afrekað oss eilíft líf. Látum þá ekki þessa Guðs aðvarandi röddu verða til ónýtis á oss; látum hana ekki alltaf kalla forgefins á oss! Af guðsorði vitum vèr, að sá tími kemur, þá vèr ekki getum lengur flúið til Guðs náðar, ef vèr hèr í lífi höfum fyrirlitið ríkdóm hans gæzku og langlundargeðs. Ó, hversu mun oss þá ekki um alla eilífð iðra þess, að vèr hèr í lífi svo lítið hirtum um að heyra guðsorð og hlýða því! Þess vegna, bræður góðir! meðan náðartíminn yfirstendur, þá forherðum ekki hjörtu vor, og forðumst með vísvitandi syndum að deyfa tilfinníngu vora fyrir hinu sanna, rètta og góða, svo hjörtu vor verði ekki köld og kærleikslaus og vèr skeytíngarlausir um vora eilífu sáluhjálp! Geti nokkuð hryggt Guðs útvalda, geti nokkuð skert sælu þeirra ástvina vorra, sem í Drottni eru dánir, þá er það vissulega það, að sjá oss andvaralaust halda áfram á glötunarinnar vegi, án þess að skipast við guðsorðs áminníngar; að sjá oss iðrunarlaust halda

áfram í syndum vorum mót umbunandi eilífð. En ef vèr í trúnni á Jesúm Krist ástundum af fremsta megni að hlýða hans sáluhjálplega lærdómi, hversu glaðir getum vèr þá ekki gengið vorn lífsferil, hversu glaðir og hughraustir tekið dauða vorum, fullvissir um, að hann, sem kominn er til að frelsa hið týnda og glataða, sem sagði við hinn iðrandi ræníngja á krossinum: „Í dag skaltu vera með mèr í paradís", einnig muni flytja oss í sínum blessaða faðmi á friðarins og sælunnar land! Amen.

# 40. hugvekja.

Lúk. 19., 10. „Mannsins sonur er kominn að leita að því, sem tapað var, og frelsa það."

Enginn sannleiki er huggunarfyllri en sá, að Jesús Kristur er kominn að leita að því, sem tapað var, og frelsa það. Hann kom í heiminn til að leita að hinu týnda mannkyni og frelsa það, og hann leitar enn í dag að sèrhverjum syndara til að geta frelsað hann, því hann er sá sami í gær og í dag og að eilífu. Hans kærleiki er óumbreytanlegur og æ hinn sami, því að hann er ímynd föðursins, sem er sá eilífi kærleikur. En hvernig fer frelsarinn að leita vor syndugra manna? Það gjörir hann með sínu orði, sem hann alstaðar lætur prèdika, svo vèr bæði lærum af því að

þekkja syndarinnar eymd og ljótleik og fáum huggun af því, að Guð af sinni föðurlegu elsku hefir bætt úr þessari eymd með sendíngu sins eingetna sonar, ef vèr viljum aðhyllast hann og hlýða honum. Það orð, sem hann lætur boða syndugum mönnum, talar því með tvenns konar röddu. Önnur þeirra er sterk og ógnarleg, og hún heitir lögmálið. Þessi rödd vekur syndarann af svefni hans og andvaraleysi, með því hún talar um hinn lifanda, heilaga og rèttláta Guð, „sem ekki líkar óguðlegt athæfi" (Sálm. 5., 5.), en „lætur hegníng og reiði, þjáníng og þrengíng koma yfir sálu sèrhvers manns, er illt fremur" (Róm. 2., 8.). Frelsarinn vill, að syndugir menn hlýði þessari röddu, því hann segist ekki „vera kominn til að aftaka lögmálið, heldur til að fullkomna það" (Matth. 5., 17.). Þessi rödd lætur því alltaf til sín heyra, til að auglýsa Guðs rèttlæti og mannanna spillíngu; hún á að fæla frá syndinni og vekja angist í sálu syndugs manns, með því að kenna honum að þekkja sitt eymdarfulla ástand, svo hjá honum geti vaknað löngun eptir frelsi og endurlausn; en lögmálið sjálft getur ekki frelsað syndarann; það getur ekki gjört annað en heimtað og hótað og innilokað allt undir synd. Það getur kollvarpað, en ekki reist á fætur; deytt, en ekki lífgað. Fái syndarinn ekki annað að heyra en lögmálsins rödd, þá getur hann, ef til vill, titrað og skolfið og orðið óttasleginn, og haldið sèr frá hinu illa af ótta fyrir hegníngunni og ófarsælum afleið-

íngum þess; en þetta verður jafnan þrælsótti, sem ekki betrar hugarfarið nè vekur elsku til hins góða. Þar að auki verður maðurinn alltaf var við „annað lögmál í sínum limum, sem stríðir á móti Guðs lögmáli" (Róm. 7., 23.), og þessu syndarinnar lögmáli verður honum einatt að hlýða, svo hann brýtur Guðs lögmál og hlýtur angraður að játa, „að hann gjörir ekki hið góða, sem hann vill, heldur hið illa, sem hann ekki vill" (7., 19.). Þegar því samvizkan ásakar manninn og syndir hans standa honum lifandi fyrir hugskots sjónum, þá hefir lögmálið enga meðaumkun með honum, enga huggun handa honum, heldur kveður vægðarlaust upp sinn hegníngardóm og lýsir bölfun sinni yfir honum, svo að syndarinn stendur hjálpar- og huggunarlaus, fullur angistar og örvæntíngar. En þá kemur frelsarinn, fullur náðar og miskunar, að „leita að því, sem tapað var og frelsa það". Hann kemur þá ekki til að ásaka syndarann, heldur til að afmá syndina; ekki til að hegna, heldur til að fyrirgefa. Hann talar þá með þeirri röddu, sem hrærir og huggar hjarta syndarans og gefur því hvíld og frið í faðmi Guðs eilífu miskunar; með þeirri röddu, sem rekur óttann burt, en vekur aptur elsku til Guðs og löngun eptir að lifa honum í nýju og heilögu líferni. Æ! þegar eg hugsa til Guðs eilífa kærleika, sem er opinberaður í hans eingetna syni, þegar eg hugsa til hans náðarfyrirheita, sem fullvissa mig um, að hann ekki vili dauða syndugs manns, heldur að hann

snúi sèr og lifi; að hann ekki vili brjóta hinn brákaða reyr, eða slökkva hinn líttloganda hörkveik; þegar eg hugsa til þess, að það er gleði hjá englum Guðs yfir hverjum syndara, sem bætir ráð sitt; og þegar eg hugsa til míns mildiríka frelsara, sem ekki þreytist að leita að hinu týnda og frelsa það, sem aldrei hefir þreytzt að leita að mèr og leiða mig til sín: æ! þá finn eg til óumræðilegrar huggunar í sálu minni, þá finn eg til þess, að Guð er líka minn faðir, að Jesús er líka minn frelsari, og því vil eg aldrei örvænta um mína sáluhjálp þó eg sè stórsyndugur. Nei, eg vil ekki örvænta um mína sáluhjálp, nè um sáluhjálp nokkurs manns. Þegar eg sè villuráfandi syndara, þegar eg sè þá lifa í synd og löstum, og annaðhvort drýgja opinbera glæpi, eða hafa yfirskyn guðhræðslunnar, en afneita hennar krapti; þegar eg hugsa til þess, hvernig sumir ata líf sitt með saurugleik holdsins og andans, en aðrir fjarlægjast Guð með drambsemi, sjálfsþótta og kærleiksleysi; þegar eg skjálfandi hugsa til þess, hvað fyrir öllum þeim muni liggja, sem ganga hinn breiða glötunarveg, og mèr virðist eins og það sè ómögulegt, að þeir geti orðið hólpnir, þá vil eg hugga mig með þessum frelsarans orðum: „Guði er enginn hlutur ómáttugur" (Mtth. 19., 26.), og jafnframt hugsa til þess, að Jesús er enn að leita að hinu týnda og getur, ef til vill, fundið það, áður en það verður dauðans og glötunarinnar herfang. Látum oss því, bræður góðir! aldrei

sleppa voninni um sáluhjálp nokkurs manns, heldur áminna aðra með kærleiksfullum orðum, þegar oss gefst færi á því, og biðja fyrir þeim af hjarta eins og fyrir sjálfum oss, biðja Guð að gefa þeim og oss náð til iðrunar og apturhvarfs. Vili syndarinn fyrir alvöru snúa sèr til Drottins, þá er hans náðarfaðmur jafnan útbreiddur móti sèrhverju sínu sanniðrandi barni, og hann tekur það sèr í fang og flytur það á helgunarinnar og sáluhjálparinnar veg, og þá gleðjast englar Guðs og útvaldir yfir frelsi syndugs manns. Æ, gef þú það, algóði himneski faðir! að máttur þíns eilífa kærleika einnig megi birtast í vorum sálum, svo vèr snúum oss af hjarta til þín og fylgjum þinni röddu og finnum til þess innst í sálum vorum, að vèr erum frelsaðir og komnir í tölu þinna barna, finnum til þess fagnaðar og gleði, sem er á himnum yfir hverjum syndara, sem iðrast og bætir ráð sitt. Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

---

# 41. hugvekja.

2. Tím. 3., 12. „Enda munu allir verða ofsóktir, sem vilja lifa guðrækilega í Jesú Kristi."

Vèr vitum, kærir bræður! að í hinni fyrstu kristni og frameptir öldunum urðu kristnir menn að sæta ofsóknum og leggja líf og eignir í sölurnar fyrir Kristi nafns sakir. En

þó hafði postulinn ekki einúngis tillit til þessa, þegar hann sagði: „enda munu allir verða ofsóktir, sem vilja lifa guðrækilega í Jesú Kristi,“ heldur einnig til þeirra ofsókna og áreitínga, sem guðsbörn alla tíma verða fyrir af heimsins börnum. Enn í dag eiga þeir, sem vilja lifa guðrækilega, í ofsóknum og stríði, ekki einúngis við hold og blóð, heldur og við spillíngu heimsins, og þessar ofsóknir birtast einkum í því, að heimurinn tortryggir þeirra góðverk og færir allt fyrir þeim á verra veg; gjörir úlfalda úr míflugu, þegar talað er um breyskleika og ófullkomlegleika þeirra, og skopast að guðrækni þeirra.

Ekkert er háleitara og virðíngarverðara á þessari jörðu, en sannarleg dyggð og guðrækni. þetta neyðast einnig heimsins börn til að játa. Guðrækilegar tilfinníngar, hreinar og helgar hvatir, vald yfir girndum og tilhneigíngum, auðmýkt í meðlætinu, þolinmæði í þrautum og þjáníngum, hugprýði í hættum, sáttgirni og hógværð í ofsóknum, sannsögli, einlægni og ósèrplægni í viðskiptum, skyldurækni, stillíng og jafnaðargeð í hverju, sem að höndum ber, og í stuttu máli: sönn dyggð og guðrækni finnst hvergi nema hjá sönnum Jesú lærisveinum. því ókristilegri og spilltari sem aldarandinn er, því fegra og aðdáanlegra er að sjá sannkristinn mann lifa guðrækilega mitt í spillíngunni og hvernig hann innan um heimsins andvaraleysi gætir trúarinnar og góðrar samvizku; en því hryggilegra er til þess að

vita, að guðræknin skuli vera undirorpin hæðni og spèhlátrum óguðlegra manna. Það lítur svo út, eins og heimurinn virði sjálfa hugmyndina um dyggð og guðsótta, en fyrirlíti jafnan hvern þann, sem vill lifa dyggðugu og guðrækilegu lífi; hann játar, að dyggð og guðrækni sèu virðíngarverðar, en kvartar yfir því, að þær sèu hvergi að finna, til þess hann því meir geti fyrirlitið hinn guðhrædda mann og hallmælt honum. Þó spillíng heimsins ekki hafi neitt verulegt að setja út á breytni sannkristins manns, tortryggir hún þó hans góða tilgang og tileinkar gjörðir hans eigingirni og öðrum óhreinum hvötum. Þegar vèr nú hugleiðum, kærir bræður! hve fús heimurinn er á að afsaka lesti og glæpi og hversu lint hann einatt tekur á syndum og yfirsjónum manna, þá sjáum vèr bezt, hversu syndsamlegt það er, að tortryggja það, sem vel er gjört, og að dæma um tilgang og hjartalag, sem enginn þekkir nema Guð einu; já, það er syndsamlegt að kalla guðræknina hræsni og skynhelgi, án þess menn hafi gildustu ástæður til þess, því það niðurdrepur lotníngu fyrir trúarbrögðunum og gjörir alla dyggð tortryggilega, og auk þess órèttar, sem hinum guðhrædda þannig er gjörður, spillir það öllu því trausti, sem mennirnir verða að hafa hver til annars, til þess að mannlegt fèlag geti staðizt; því sè dyggð og guðsótti hins sannkristna ekki annað en hræsni og skynhelgi, sem þeir hafa til að skýla með girndum sínum, þá verður

ekki mikið að reiða sig á ráðvendni heimsins barna; þá mættu menn óttast að eiga viðskipti við nokkurn mann, óttast alla sem óvini, óttast, að allir sætu á svikráðum hver við annan. En þetta getur enginn leitt sèr í grun nema sá, sem sjálfur er gjörspilltur. „Illur á jafnan ills von", segir máltækið, og reynist það satt. Sú illgirni, sem þykist sjá eitthvað illt, jafnvel í þeim verkum, sem hafa dyggðanna útlit, og heldur, að öll góðverk sèu gjörð í einhverjum óhreinum tilgangi og af eigingjörnum hvötum, getur ekki sprottið úr góðu hjarta. Sá getur ekki haft góðan mann að geyma, sem alstaðar þykist sjá hrekkvísi, svik og undirferli, sem tortryggir aðra að raunarlausu og ætlar öllum illt; hann getur ekki skilið í því, að hreinskilni, ósèrplægni og mannelska geti búið í nokkurs manns brjósti, af því hann finnur ekki þessar dyggðir hjá sjálfum sèr. Sá sem hefir gott hjarta, sá sem er einlægur og hreinskilinn, á þar á mót bágt með að trúa illu um nokkurn mann, og ætlar öllum gott, af því hann finnur svo mikið gott í sínu hjarta; finnur, að hann gæti ekki fengið af sèr að svíkja nokkurn mann. Ef þèr, kærir bræður! hyggið að þeim, sem tortryggja öll mannelskuverk, þá munuð þèr komast að raun um, að það gjöra ekki aðrir en þeir, sem sjálfir eru spilltir og leita sèr hugfróa í þeirri hugsun, að þeirra breyskleiki sè öllum mönnum sameiginlegur; að þeir, sem dyggðugir sýnast, hafi ekki annað framyfir hina, en að þeir kunni betur að skýla

girndum sínum og koma ár sinni fyrir borð, en í rauninni sèu þeir ekki betri. Með þessari hugsun styrkja þeir sig í spillíngu sinni og fá hræðilegt álit á öllum mönnum, til þess því síður að þurfa að hræðast það álit, sem þeir hljóta að hafa á sjálfum sèr, til þess því betur að geta afsakað og fegrað syndir sínar.

En heimurinn tortryggir ekki einúngis góðverkin, heldur verður honum einnig skrafdrjúgt um breyskleika og ófullkomlegleika guðhræddra manna, og skopast að guðrækni þeirra. Það er auðvitað, að hinir guðhræddu eru ekki fráskildir þeim breyskleika og ófullkomlegleika, sem jafnan loðir við oss, synduga menn, í þessu lífi, og að þeir geta hrasað, þó þeir kappkosti að vanda ráð sitt. En það er eins og heimurinn ætlist til, að þeir sèu heilagir og syndlausir, og verði þeir yfirstignir af einhverjum breyskleika, þá er af heimsins börnum uppkveðinn yfir þeim harður og miskunarlaus dómur; þá á ekkert gott að vera í fari þeirra, þá er gleymt öllum þeirra dyggðum og mannkostum. Heimurinn gætir þess ekki, að hann er opt sjálfur með sínum vondu eptirdæmum orsök í hrösun guðhræddra manna; heimsins börn gæta þess ekki, að hinir guðhræddu eru þeir einustu, sem dæma mildilega um þau, elska þau af hjarta og biðja fyrir þeim.

Látum oss því, kærir bræður! jafnan bera virðíngu fyrir dyggð og guðhræðslu, elska og virða þá, sem vilja lifa guðrækilega í Jesú Kristi, og forðast að hneyxla þá og gjöra þeim

rangt til. Látum aldrei áreitíngar, gis eða spèhlátra heimsins barna fæla oss af dyggðanna vegi nè koma oss til að reynast Guði ótrúir. Ó, Guð minn góður! láttu mig aldrei óttast heimsins ómildu dóma; láttu mig ekkert óttast nema þig; gefðu mèr náð til þess að fram ganga í þínum ótta og lifa guðrækilega í Jesú Kristi, svo eg megi deyja í samfèlagi við hann! Bænheyr það í hans nafni! Amen.

---

# 42. hugvekja.

Jak. 2., 10. „Þó einhver hèldi allt lögmálið, ef hann verður brotlegur í einu boðorði, þá er hann orðinn sekur við þau öll."

Jafnframt því sem þessi orð postulans sýna oss, hve sakfallnir vèr allir erum fyrir heilögum og rèttlátum Guði, minna þau oss á, hvílíka þörf vèr höfum á því, að vaka yfir hugrenningum vorum og girndum og hversu nauðsynlegt það er, að reynast Drottni trúr í öllum greinum, þar eð sèrhvert boðorða brot lýsir ótrúu hugarfari og skorti á undirgefni undir Guðs vilja og á lotningu fyrir hans hátign. En hversu almennt er það þó ekki í heiminum, að menn þykjast þjóna Guði og halda hans boðorð, þó þeir láti sèr stjórna af einhverri vissri syndsamlegri tilhneigíngu, eða þó þeir láti eitthvað eptir girndum sínum, sem

þeir kalla smá-yfirsjónir, ef þeir að öðru leyti halda sèr frá grófum löstum og stórkostlegum glæpum. Þeir láta sèr lynda, að bera breytni sína saman við bókstaf lögmálsins, og þegar þeir ekki brjóta hann, gjöra þeir sèr enga samvizku af að reynast Guði ótrúir í öðrum greinum. En þessi mælikvarði fyrir dómi vorum er næsta ófullkominn, því hið syndsamlega í gjörðum vorum á ekki einúngis að metast frá sjónarmiði lögmálsins, heldur einnig með tilliti til hugarfarsins og þeirra afleiðínga, sem syndir vorar hafa. Ef vèr hefðum tilhlýðilega lotníngu fyrir Guðs óendanlegu hátign, þá mundum vèr fljótt verða þess varir, að það er allt mikilvægt, sem móðgar hann, hversu lítið sem í það kann að þykja varið. Ef Guð einúngis hefði tillit til sinnar dýrðar og færi einúngis eptir því, að skapaðar skepnur lítilsvirða það, sem hans eilífa hátign býður, á hverju mættum vèr þá eiga von í hvert sinn, sem vèr fyrirlítum hans boðorð og erum honum óhlýðnir, jafnvel í því, sem oss þykir lítið í varið? Þó er þetta ekki svo að skilja, að allar syndir sèu jafnstórar eða eins hegníngarverðar, heldur er hitt meiníngin, að sèrhver ótrúmennska við Drottinn, hversu lítil sem hún sýnist, lýsir því, að hugarfar vort er ekki eins og það á að vera og að vèr metum skepnuna meir en skaparann, metum þá skammvinnu gleði, sem vèr getum haft af syndinni meir en Guðs heilaga vilja, meir en Guð sjálfan, sem hefir bannað oss að drýgja syndina. Getum vèr þá

álitið nokkuð af því smámuni, sem Guði mislíkar: þessari hinni almáttugu, heilögu og algóðu veru; einkum þegar vèr gætum þess, að vèr ekki af sjálfsdáðum getum afplánað eina einustu yfirsjón vora, heldur verðum að leita fyrirgefníngar á henni í nafni Jesú Krists? En eins og allar syndir eru mikilvægar, þegar þær eru skoðaðar frá sjónarmiði lögmálsins, eins eru þær það ekki síður, þegar vèr skoðum þær með tilliti til hugarfars vors, og þá sjáum vèr eins berlega, að „sá, sem verður brotlegur í einu boðorði, verður sekur við þau öll". Frelsarinn hefir boðið oss að vera fullkomnir, „eins og faðir vor á himnum er fullkominn" (Mtth. 5., 48.), ekki í þeim skilníngi, að oss verði nokkurn tíma auðið að ná sömu fullkomnun og hann, heldur, að vèr alltaf eigum að ástunda að ná meiri og meiri framförum í fullkomlegleikanum. En þegar vèr nú brjótum eitt af Guðs boðorðum og reynumst honum ótrúir, í hverju sem er, þá sýnir það, að vèr höfum misst sjónar á vorri háleitu ákvörðun og því óendanlega fullkomnunar takmarki, sem vèr alltaf meir og meir eigum að nálgast; það sýnir, að vèr erum orðnir hálfvolgir og hirðulausir, og höfum ekki lengur óbeit á því, sem tálmar framförum vorum; það sýnir, að vèr lítilsvirðum þetta háleita boðorð frelsara vors og gefum því of lítinn gaum. Sá, sem ekki vílar fyrir sèr að brjóta eitt af Guðs boðorðum, mundi ekki heldur hika sèr við að brjóta þau öll, ef hann hefði sömu freistíngar til þess,

því hjá honum er árveknin hvorfin, hin siðferðislegi kraptur lamaður, og elskan til hins góða dofnuð. Sá, sem ekki hikar sèr við að drýgja hinar smærri yfirsjónir, fellur smámsaman dýpra og dýpra og getur að lokunum orðið glæpamaður. Að fyrirlíta hin smærri boðorðin, það er að skilja: að brjóta þau vísvitandi og af ásettu ráði, leiðir ætíð að lokunum á lastanna veg, því með því gjörir maðurinn sig meir og meir óhæfilegan fyrir áhrif guðlegrar náðar, deyfir meir og meir trúarinnar og kærleikans líf í hjarta sínu og veiklar hina góðu krapta sálarinnar. Þær yfirsjónir, sem maðurinn drýgir vísvitandi og af ásettu ráði, auka þar á mót afl tilhneigínganna og æsa girndirnar meir og meir, því eptir því sem vèr látum meir eptir vorri holdlegu eigingirni, þá venjumst vèr smátt og smátt á að gjöra henni til geðs, getum að lokunum ekkert látið á móti oss og gjörum oss alltaf erfiðara fyrir að hlýða nokkru Guðs boðorði. Þar að auki verðum vèr að gæta þess, kærir bræður! að þó vèr í fyrstunni ekki ætlum oss að brjóta nema eitt af Guðs boðorðum, og það jafnvel eitt af þeim, sem oss þykir minna í varið, þá leiðumst vèr samt ætíð lengra, því ein syndin býður annari heim, og mannlegu hjarta er svo varið, að það verður ætíð minna, en vèr ætlum, úr heitum vorum og ásetníngi, af því að þó andinn sè reiðubúinn, þá er þó holdið jafnan veikt, þegar til framkvæmdanna kemur. Þetta

sjáum vèr af dæmi hins sannkristna; þó hann áseti sèr að verða sem fullkomnastur, lendir hann þó ætíð á lægra stigi en hann ætlaði sèr. Já, vèr höfum víst einatt, kærir bræður! tekið fyrir oss alvarlegan betrunar ásetníng, en framkvæmdin dróg fjör og afl úr þessum vorum góða ásetníngi. Þetta kemur til af því, að iðrunar áform vor verða öðru vísi, þegar vèr ætlum að framkvæma þau, en þau voru áður, meðan vèr vorum að undirbúa þau í hjartanu; meðan þau eru í huga vorum, fá þau enga mótspyrnu og eru þar því með fullu fjöri, en þegar vèr ætlum að koma þeim í verk, þá rísa vorar holdlegu girndir upp á móti þeim, og sálar óvinir vorir reyna til að ónýta þau og fá þau til að stranda á freistínganna skerjum. Þess vegna megum vèr aldrei slá slöku við vora betrun, aldrei láta neitt eptir vorri holdlegu náttúru, sem vèr höldum að sè Guði á móti, heldur eigum vèr sífelt að hafa hans vilja fyrir augum, rannsaka iðulega vort sálarástand og láta það vera mark og mið vorrar breytni, að taka sífeldum framförum í dyggð og guðsótta, að efla Guðs dýrð og vora sáluhjálp. Fullkomna þú, ó Drottinn! í oss það, sem þín náð hefir byrjað; þú hefir af miskunsemi þinni hjálpað oss til að af leggja vora lesti; hjálpa þú oss nú einnig til að sigra vorn breyskleika, vort kaldsinni og vora hálfvelgju; æ, láttu ekki þitt verk verða ófullkomið, heldur gjörðu oss hæfilega fyrir eilíft líf og eilífa sælu, svo vèr á síðan verðum taldir með þeim

góðu og trúlyndu þjónum þínum, sem hèr voru trúir yfir litlu og þar verða settir yfir meira! Heyr vora bæn í Jesú nafni! Amen.

---

# 43. hugvekja.

2. Pèt. 3., 18. „Vaxið í náð og þekkíngu Drottins vors Jesú Krists!"

Maðurinn er þannig skapaður af Drottni, að hann getur ekki staðið í stað. Þegar líkaminn er orðinn fullþroskaður og búinn að ná þeim vexti og viðgangi, sem honum er áskapaður, þá fer honum smám saman að fara aptur, unz hann loksins hverfur aptur til jarðarinnar og verður að moldu, þegar hann er orðinn óhæfilegur til þess að vera lengur bústaður og verkfæri sálarinnar. En öllu fremur á þetta sèr stað í andlegu tilliti. Í andlegu tilliti getum vèr ekki staðið í stað; annaðhvort verður oss að fara fram eða aptur. Ef vèr ekki við höldum því, sem vèr höfum numið, og rifjum það upp með oss, þá gleymum vèr því, ef vèr vanrækjum að auðga anda vorn að nytsamlegri þekkingu, þá verðum vèr fáfróðir og fákunnandi. En hvaða þekkíng er oss nytsamlegust? Er það ekki þekkíngin um Guðs ráð og vilja oss til sáluhjálpar? Er það ekki sú þekkíng, sem postulinn talar um, þegar hann gefur oss þessa áminníngu: „Vaxið í náð og þekkíngu

Drottins vors, Jesú Krists!" Vissulega er það svo, kærir bræður! Hversu nytsamleg sem önnur þekkíng kann að vera fyrir mannlegt fèlag, þá fylgir hún oss þó ekki lengra en að grafarbarminum, nema hún eigi sèr rót í Guði og komist í samband við þekkíngu Drottins vors, Jesú Krists. Það er þessi þekkíng, sem fylgir oss út yfir dauðann og inn í eilífðina, því hún felur sjálf í sèr eilíft líf Á engu ríður oss því eins mikið og að vaxa í þekkíngu Drottins vors, Jesú Krists. En gætum vel að því, bræður góðir! að þegar postulinn áminnir oss um að vaxa í Krists þekkíngu, þá býður hann oss einnig að vaxa í guðlegri náð. Guðs náð og Krists þekkíng eru óaðskiljanlegar. Til þess að geta lært að þekkja lausnara vorn, rèttilega lært að þekkja hans óumræðilegu elsku til vor syndugra manna, verðum vèr að finna til þess í hjörtum vorum, að vèr erum náðarþurfar, að vèr þurfum á Guðs náð að halda. Meðan vèr erum í óvináttu við Guð, þá finnum vèr enga löngun eptir að þekkja Jesúm; því þá eru hjörtu vor enn þá föst við heiminn og í ánauð syndarinnar. Þess vegna verðum vèr að læra að þekkja sjálfa oss, læra að þekkja vorn breyskleika og vora syndasekt, til þess að geta fengið rètta þekkíngu á lausnara vorum, því með þekkíngunni á vorum eigin óverðugleika vaknar í sálum vorum löngun eptir guðlegri náð, húngur og þorsti eptir rèttlætinu, og þessi löngun knýr oss til að iðrast synda vorra og flýja til Guðs náðar, knýr oss til að

afla oss þekkíngar á Jesú Kristi, svo vèr getum heimfært til vor þá guðlegu náð, sem hann hefir oss afrekað. Og því betur sem vèr getum tileinkað oss Guðs náð, þess ljósari og yfirgripsmeiri verður vor kristilega þekkíng, og því meiri framförum sem vèr tökum í kristilegri þekkíngn, því innilegri og hjartanlegri verður löngun vor eptir guðlegri náð. Það reynist jafnan satt, að „holdlegur maður skynjar ekki hvað Guðsanda er" og þó Guðs náð sè búin að vekja manninn til iðrunar og apturhvarfs, þá má hann með angri og trega játa, að hann er fjarri því, að vera kominn til fullkominnar þekkíngar á Guðs syni og „til aldurshæðar Krists fyllíngar", eins og Páll postuli kemst að orði (Efes. 4., 13.). Já, bræður góðir! var það ekki einnig svo fyrir oss í byrjun vors betrunarverks? Þá þekktum vèr næsta lítið til lausnara vors, og þá var líka þekkíng vor á sjálfum oss mjög ófullkomin. Æ! og enn megum vèr með blygðun viðurkenna tregðu vora og tómlæti í að taka framförum í þekkíngunni á Guðs sáluhjálplega orði, tregðu vora og tómlæti í að afneita heiminum og vorum syndsamlegu girndum og tilhneigíngum, jafnvel þó vèr vitum, að án þessa getur enginn verið sannur Jesú lærisveinn. Æ, Guð minn góður! hversu tregt veitir oss ekki að leggja af ljótan syndavana, að losast við hálfvelgju hjartans, við kaldsinni og kærleiksleysi, en læra undirgefni undir þinn vilja, auðmýkt og þolinmæði, mannelsku og umburðarlyndi! Þó andinn sè

reiðubúinn, þá er þó holdið jafnan veikt, og meðan vèr dveljum hèr á jörðunni, erum vèr einlægt umkríngdir af freistíngum, sem sitja á svikráðum við oss og vilja draga hjörtu vor frá Guði. Þess vegna þurfum vèr sífelt að vaka og biðja, vaka yfir sjálfum oss og hugrenningum vorum, og biðja Guð um styrk og krapta til að geta staðizt áhlaup freistínganna og barizt góðri baráttu trúarinnar. Aldrei getum vèr sagt: nú er eg nógu djúpt gróðursettur í guðlegri náð; nú hefi eg tekið nógum framförum í þekkíngu Jesú Krists. Æ! þetta er hættuleg hugsun; ef vèr stöndum í stað, ef vèr hættum að taka framförum, þá fer oss aptur; ef vèr hættum að efla vora sáluhjálp með ótta og andvara, þá er oss búið andvaraleysi, og að lokunum andlegur og eilífur dauði. Það er einkenni hins sanniðrandi sannkristna manns, að því lengra sem hann kemst á helgunarinnar vegi, því næmari og viðkvæmari verður samvizka hans, því betur finnur hann til þess, hversu langt hann er frá hinu algjörða takmarki helgunarinnar; því betur finnur hann til þess, hvílík sæla það er, að vera í náð hjá Guði og þekkja Krists óumræðilega kærleika, og að hann um alla eilífð getur tekið framförum í náð og þekkíngu, og af innsta grunni hjartans tekur hann undir með postulanum og segir: „Ó, þá dýpt ríkdóms, speki og þekkíngar Guðs; hversu óútgrundanlegir eru dómar hans og órekjandi vegir hans (Rómv. 11., 33.)! Látum oss því að boði postulans kappkosta,

að vaxa í náð og þekkíngu Drottins vors, Jesú Krists, og látum engan dag svo hjá líða, leggjum oss aldrei svo til hvíldar, að vèr ekki rennum augunum yfir hinn útlíðanda dag og inn í vor eigin hjörtu, og spyrjum sjálfa oss, hvað oss verði ágengt í náð og þekkíngu Jesú Krists, hvað oss verði ágengt í að afleggja brek vor og bresti, og hvort vèr sèum á framfara vegi í trúnni, elskunni og voninni; hvort vèr finnum til Guðs náðar og velþóknunar í sálum vorum, og hvort Krists andi stjórni vorum hugsunum, orðum og athöfnum, svo að vèr meir og meir íklæðumst Kristi og hans þekkíng hafi betrandi og helgandi áhrif á vora breytni. En um leið og vèr þannig göngum í reikníngskap við sjálfa oss, þá lyptum hjörtum vorum upp til Guðs og biðjum hann af öllu hjarta um hans náð og blessun; biðjum hann af öllu hjarta að vera máttugan í vorum veikleika, og „að hann af ríkdómi sinnar gæzku vili veita oss að styrkjast svo kröptulega í vorum innra manni fyrir hans anda, að Kristur geti búið í vorum hjörtum fyrir trúna, og að vèr sèum rótfestir og grundvallaðir í kærleikanum og ásamt öllum heilögum getum skilið, hvilík að sè breidd, lengd, dýpt og hæð elsku Krists, og þekkt, hversu hún yfirgengur allan skilníng, svo vèr verðum fullkomnir í allri fullkomnun Guðs (Efes. 3., 16.—19.). Legg þú oss til þessa lið og krapta, góði himneski faðir! af ríkdómi þinnar náðar, í nafni Drottins vors, Jesú Krists!" Amen.

---

# 44. hugvekja.

1. Jóh. 5., 3. „Í því sýnir sig elskan til Guðs, að vèr höldum hans boðorð; en hans boðorð eru ekki þúng."

Væru mennirnir fullkomnir í elskunni til Guðs, þá mundi þeim þykja Krists boðorð lètt og hans ok inndælt, þvi hans boðorð eru ekki annað en elskunnar ávextir. „En af því elskuna vantar, þykja flestum Krists boðorð þúng og dyggðanna vegur ógreiður yfirferðar og leiðinlegur. Já, svo breyskir og ófullkomnir erum vèr, syndugir menn, og svo fjarlægir lífinu í Guði, að hans þjónusta, sem ætti að vera oss inndælust allra hluta, verður oss leiðindaefni, og yfir þessu kvarta jafnvel þeir, sem þó vilja vera sannarleg guðsbörn. Fæstir verða svo gagnteknir af elskunni til Guðs í þessu lífi, að hún nú þegar geti gjört þá algjörlega sæla; en vèr megum ekki kenna elskunni eða Jesú boðorðum um það, sem ófullkomlegleika sjálfra vor er að kenna, og sem að nokkru leyti er óaðskiljanlegt frá ásigkomulagi þessa vors jarðneska lífs. Gæti maðurinn algjörlega sameinast Guði, þá væri hann alsæll; en við þessu er naumast að búast hèrnamegin grafarinnar, af því maðurinn er syndugur og breyskur, og þó Guð gefi honum náð til þess, að verða gróðursettur í kærleikanum, brestur þó ætíð mikið á, að hann geti náð þeirri rèttlætis og elsku fyllíngu, sem á að gagntaka gjörvalla sálina og svala

hennar eilífðar löngun, og þessi algjörða fyllíng fæst ekki fyr en í öðru lífi. Væri það mögulegt að vera sæll hèr á jörðunni, þá yrði sá það, sem þjónar Guði, því hans náð spekir vorar tilhneigíngar, takmarkar vorar óskir og leggur grundvöllinn til þeirrar sælu, sem vèr á síðan eigum í vændum, en sem vèr ekki algjörlega fáum fyr en á sælunnar landi. Vèr megum því ekki láta oss leiðast dyggðanna veg, þó hann gjöri oss ekki alsæla í þessu lífi, því það er þó sá vegurinn, sem kemst sælunni næst og hefir minnsta vansælu, minnst leiðindi í för með sèr. Það er líka víst, að Guð hefir fullgildar ástæður til þess, að láta oss ekki finna fullkomna sælu hèr í lífi, því hann ætlar með því að vekja hjá oss löngun eptir lausn vorri hèðan, löngun eptir því hinu eilífa föðurlandi, hvar ekkert mun bresta á sælu vora. Ef dyggðin bætti úr vorum tímanlegu vankvæðum, eða ef hún ætíð gjörði oss sæla og ánægða hèr í lífi, þá yrðu laun hennar stundleg og hún hefði þau þá hèr úttekið; hún yrði þá eigingjörn og mennirnir leituðu ekki lengur Guðs, heldur þeirra eigin hagnaðar; þeir mundu þá láta sèr meira annt um að sefa girndir sínar til að ná tímanlegri hugarrósemi, en að gjöra Guðs vilja til að geta fengið sálu sinni hvíld í honum. Drottinn fengi þá eigingjarna og launaða verkamenn, sem ekki bæru hans ok, heldur einúngis hvíldust í skjóli og skugga hans miskunar; verkamenn, sem ekki bæru hita og þúnga dagsins, heldur neyttu

ávaxtanna í makindum og næði. Hinn rèttláti lifir hèr af trú sinni; en trúin vonar, en hefir enn ekki höndlað hnossið; hèr er útlegðarstandið, og hèr verða einatt tár og andvarpanir einkahuggun hins trúaða; hann finnur, að hèr er hann umkríngður af hættum og freistíngum; að hèr á hann enn í stríði og að hann getur ekki orðið alsæll, fyr en hann hefir unnið algjörðan sigur og er kominn á land lifenda. En þó hinn trúaði geti ekki orðið alsæll í þessu lífi, er þó dyggðanna vegur engan veginn svo ógreiður yfirferða, nè Jesú boðorð svo þúng, eins og hinn holdlega sinnaði maður ímyndar sèr. Að vísu eru hin fyrstu iðrunartár syndugs manns næsta beisk, og honum fellur í fyrstunni mjög erfitt, að afneita sjálfun sèr og krossfesta holdið með þess girndum og tilhneigíngum; en þetta er ekki nema í fyrstunni, og dyggðanna vegur verður því betri og fegri, sem hann lengur er farinn. Þó dyggð og guðhræðsla ekki gjörðu annað að verkum, en verja oss fyrir girndanna árásum, snúa huga vorum til Guðs og hjálpa oss til að komast úr ánauð heimsins, þá væru þær vissulega eptirsóknarverðari; já, langtum eptirsóknarverðari, en öll tímanleg gæði. Þó dyggð og guðrækni ekki geti losað oss við það stríð og andstreymi, sem er óaðskiljanlegt frá þessu lífi, gjöra þær þó þetta langtum lèttbærara; þær snúa hjörtum vorum til Guðs, kenna oss undirgefni undir hans vilja og styrkja oss í þolinmæði og stöðuglyndi; og er ekki

þetta ómetanlegur ávinníngur? Það, sem oss þykir þúngbært og óþægilegt í dyggðarinnar þjónustu, er ekki innifalið í öðru en því, að hún heldur í taumi þeim syndsamlegu girndum, sem gjöra oss ófarsæla og eru orsök í allri vorri eymd; þetta læknismeðal finnst holdlega sinnuðum manni beiskt; en það miðar til að gjöra oss heilbrigða í trúnni; þetta taumhald á holdlegum girndum þykir óþægilegt, en það lèttir af oss hinu óbærilega oki syndsamlegra tilhneigínga; og þess lengra sem frá líður, þess meiri mætur fáum vèr á dyggðinni og þess ánægðari og farsælli verðum vèr. Dyggð og guðhræðsla eru í sjálfum sèr elskuverðar; en öll vor eymd og ógæfa hefir upptök sín frá voru spillta hugarfari, sem veitir þeim mótspyrnu. Sæll er því sá, sem snemma snýr sèr til Drottins og gengur hans veg, áður en hjartað spillist af æsíngi girndanna og heimsins solli; því þess lengur sem syndarinn heldur áfram á lastanna vegi, þess örðugra á hann með að snúa sèr til Guðs, þess meiri tálmunum mætir hann á dyggðanna vegi, og þess ógeðfeldari verður hann honum. Já, kærir bræður! öll sú farsæld, öll sú hugarrósemi og sálarfriður, sem fengizt getur í þessu lífi, fæst með því, að breyta eptir Jesú boðorðum og ganga þann dyggðanna veg, sem hann leiðir oss á, og sú bezta huggunar uppspretta fyrir hinn trúaða er umhugsanin um eilíft líf; þangað mænir hann sífelt sínum trúar og vonar augum; þar væntir hann þeirrar óumræðilegu sælu,

sem Guð hefir heitið sínum trúlyndu þjónum, og þessi tilhugsun gefur honum djörfúng og hugrekki og styrkir hann í stríði og baráttu þessa lífs, svo hann er glaður mitt í sorginni og tekur hverju því, sem Drottinn lætur að höndum bera, með undirgefni undir hans vísdómsfulla og gæzkuríka vilja. Og þegar skeiðhlaupið er á enda runnið, gengur hinn guðhræddi glaður til hvíldar, felur sig í Guðs hönd og fer hèðan í friði, til að meðtaka hinn eilífa friðinn í ríki himnanna og öðlast þá sælu, sem ekki hefir auga sèð, ekki eyra heyrt og í einkis huga komið. Gef þú oss náð til þess, góði Guð! að lifa og deyja í þínum ótta. Heyr þú vora bæn í vors frelsara Jesú nafni! Amen.

---

# 45. hugvekja.

Lúk. 6., 37. „Verið eigi ómildir í dómum yðrum, að eigi verði ómilt um yður dæmt."

Hvað mun valda því, kærir bræður! að engum er hættara við að brjóta Guðs boðorð en þeim, sem þykjast halda þau, og að það er næstum því örðugra að fá menn til að kannast við yfirsjónir sínar, en til að leiðrètta þær? Það kemur til af því, að menn ekki skoða anda boðorðanna, heldur hanga í orðunum og hinum ytri bókstaf, til þess að geta fegrað og afsakað yfirsjónir sínar og boðorða brot. Hvers

vegna eru nú ómildir dómar um náúnga vorn syndsamlegir eptir Jesú Krists náðarlærdómi? Fyrst og fremst af því, að kristileg auðmýkt, sem sýnir oss vora eigin eymd og miklu syndaskuld, ætti að innræta hjá oss vægð og vorkunsemi við aðra; í annan stað ætti kristileg bróðurást að þrýsta oss til þessa: þetta háleita mannelskunnar boðorð, þessi innilegi og fagri kærleiki, sem hylur þær yfirsjónir, sem hann ekki getur leiðrètt, afsakar þær, sem hann ekki getur hulið, og er seinn til að trúa illu um aðra, af því hann ætlar engum illt; og í þriðja lagi verðum vèr minntir á sanngirni og milda dóma með þeirri kristilegu rèttlætis reglu, sem bannar oss að gjöra öðrum það, sem vèr ekki viljum að þeir gjöri oss. Sá, sem talar illa um aðra og leggur í vana sinn að dæma hart um breytni þeirra, sýnir, að hann vantar kristilega auðmýkt; fynndi hann til sinnar eigin eymdar, hefði hann sífelt syndir sínar fyrir augum sèr, þá hefði hann hvorki tíma nè löngun til að grennslast eptir annara yfirsjónum. En þegar slíkar yfirsjónir náúnga vors verða opinberar, þá hefir kristinn maður langtum meiri orsök til að biðja Guð að gæta sín fyrir hinu illa, en til að áfellast náúnga sinn. Vèr eigum ekki að tala við aðra um ávirðingar náúngans, heldur við sjálfa oss, og láta þær verða oss til viðvörunar og hvetja oss til bænar og árvekni. Þú, sem leggur harðan dóm á bróður þinn, þegar hann verður uppvís að einhverri yfirsjón, munt þú vera

minna sekur en hann, þó yfirsjónir þínar hafi dulizt fyrir mönnum? Menn halda, að þú sèrt betri, dyggðugri og skylduræknari en hann; en mun Guð, sem þekkir þig, dæma eins og mennirnir? Eða mundi ekki sá steinn, sem þú kastar á náúnga þinn, hitta sjálfan þig, ef það væri nú allt í ljós leitt, sem í myrkrunum er hulið? Mundu þá ekki þeir ómildu dómar, sem þú nú kveður upp yfir öðrum, hljóta að auka og margfalda blygðun sjálfs þín? Þú hefir neytt allra bragða til að skýla ávirðíngum þínum og útvega þèr álit hjá öðrum mönnum, og stærir þig af þessu mannorði, sem þú ekki átt skilið; en getur ekki Drottins rèttlæti á einu augnabliki blásið þeim reyk burt, sem þú hylur þig í, og sýnt, hvernig þú ert í raun og veru? Því ættir þú að fyrirverða þig og þegja þegar talað er um bresti náúngans; en í þess stað hefir þú gaman af að tala um þá, bera þá út og, ef til vill, gjöra meira úr þeim og færa allt til verri vegar. „Þeir, er með vopnum vega, munu og fyrir vopnum falla," segir frelsari vor (Matth. 26., 52.); þú vegur bróður þinn með vopni túngunnar, en þú munt einhvern tíma sjálfur verða veginn með sama vopni, því „með sama mæli og þú mælir öðrum, mun þèr aptur mælt verða." En eins og vèr með ómildum dómum um náúnga vorn sýnum, að oss vantar sanna auðmýkt, þannig lýsir og þessi breytni vor skorti á kristilegum bróðurkærleika, sem bannar oss að bera út bresti náúngans. En þekki þeir ávirðíngu bróður

vors, sem til vor heyra, þá er ekki til neins að segja frá henni á ný. Eða hvern tilgang getum vèr haft með því? Er það til að hallmæla honum? En mun hann ekki hafa nóg að bera, þó vèr ekki bætum ofan á það? það eru svo margar illgjarnar túngur til, sem hafa svert hann og ýkt og aukið yfirsjón hans, að vèr ættum heldur að kenna í brjósti um hann en áfellast hann. Eða er það til að aumka hann? það getur ekki verið, því meðaumkanin er ekki mannvonzkufull og ýfir ekki upp sárin, í stað þess að græða þau. Kristilegur kærleiki býður oss að vilja öllum vel, og því ætti oss að taka það sárt, þegar einhverjum verður á að hrasa, og vèr ættum með vorri eigin þögn að leitast við að eyða annara ómildu dómum, og þó yfirsjónin sè orðin hljóðbær, þá eigum vèr ekki að auka hneyxlið með umtali voru. Eða er það rètt af oss að vilja ófrægja bróður vorn enn meir, fyrst vèr ekki getum afsakað hann? Með ómildum dómum sýnum vèr ekki einúngis kærleiksleysi, heldur og rangsleitið hugarfar, því vèr breytum á móti því gullvæga boðorði, sem frelsarinn gaf oss, að breyta eins við aðra og vèr viljum, að þeir breyti við oss. Eða setjum oss í annara stað. Mundum vèr vilja, að aðrir hentu á lopti og útbreiddu sèrhvern óhróður um oss? Mundum vèr ekki kalla það illvilja og óvildarmerki? Eða vitum vèr ætíð, nema óhróðurinn kunni að vera spunninn upp af litlu eða engu tilefni? það ganga svo margar ósannar sögur í ver-

öldinni, og illkvittnin gjörir marga mjög trúgjarna; margur óhróður er öldúngis tilhæfulaus og sprottinn af óvild, lèttúðarfullri framhleypni, tortryggni og stundum af tómum getgátum, og þess vegna ættum vèr að vera sèrlega varkárir í að hafa slíkt eptir. En þó þess háttar sögur væru sannar og bróður vorn hafi hent einhver hrösun, vitum vèr þá, nema að hann kunni að hafa iðrazt hennar og fengið fyrirgefníngu hjá Drottni? Hve margir saklausir verða ekki fyrir óverðskulduðu álási, upplognum óhróðri og ómildum dómum, og hve syndsamlegt er það ekki, að fylla heldur þeirra flokk, sem ásaka, en hinna, sem afsaka? Ó, Guð! þú kennir oss að vera varkárir og mildir í dómum vorum með því að umbera vorar syndir; þú dregur dóminn yfir vorum syndum með miskun og þolinmæði, en vèr dæmum fyrir tímann með mannvonzkulegu hugarfari og aukum með því vora eigin synd og hegníngu. En hegníngarverðast af öllu er að fegra sína ómildu dóma um náúngann með guðhræðslunnar yfirskyni, og látast fella þá af guðlegri vandlætíngasemi, eins og guðhræðslan, sem sjálf er kærleikur, geti leyst oss undan kærleikans lögmáli og leyft oss að vera kærleikslausir. Guðhræðslan gefur oss ekki dómsvald yfir bræðrum vorum; ef vèr ekki höfum ábyrgð á breytni þeirra, þá standa þeir eða falla sínum herra; guðhræðslan girnist ekki óhróður bræðra vorra, heldur þeirra sönnu farsæld; hún vill bæta og betra, en ekki skaða

nè skemma; hún vill leiðrètta með hógværum anda og helgu eptirdæmi; hún vill auðsýna öðrum miskunsemi, svo hún geti vænt sèr miskunar af Guði. Æ, Drottinn! vertu oss vægur og miskunsamur dómari, eins og vèr viljum vera varkárir, vægir og mildir í dómum vorum um bræður vora; bænheyr oss í nafni þíns eingetna sonar, sem ekki kom til að dæma heiminn, heldur til að frelsa hann! Amen.

---

# 46. hugvekja.

Efes. 5., 16. „Notið tímann, því nú er hættuleg tíð.“

Öll sú synd og óregla, sem viðgengst í heiminum, kemur til af því, að menn verja tímanum illa. Sumir verja allri sinni æfi í iðjuleysi og án þess að taka sèr nokkuð þarflegt fyrir hendur, aðrir í sífeldum störfum, áhyggjum og sorgum þessa lífs. Það lítur svo út eins og tíminn sè sá óvinur, sem menn gjöri sèr allt far um að eyða. Tíminn, þessi dýrmæti fjársjóður, sem Drottinn hefir trúað oss fyrir, er orðinn oss að þúngri og þreytandi byrði, og vèr eyðum mestum hluta hans annaðhvort í hugsunarleysi, eða til fánýtra og hègómlegra starfa, í stað þess að verja honum eptir gjafarans tilætlun, til að efla vora sönnu fullkomnun og vora eilífu farsæld. Tíminn er Guðs náðargjöf, kristnir menn! því dauðinn er syndarinnar

verðlaun og vèr erum allir dauðasekir, af því vèr allir erum syndarar. Í hvert sinn, sem vèr brjótum Guðs boðorð, brjótum vèr af oss lífið; en Guðs miskunsemi lengir í hvert sinn líf vort, til þess að gefa oss tíma til iðrunar og apturhvarfs; og í sama gæzkuríka tilgangi frelsar hann oss úr sjúkdómum og alls konar hættum. Viðhald vors lífs er því kraptaverk guðlegrar náðar, og sá tími, sem oss er lèntur, er einlægur miskunarþráður; sèrhvert andartak vort er ný velgjörð Drottins við oss. Að eyða þessum tíma og verja þessum augnablikum illa, er því sama sem að móðga hina óendanlegu gæzku, sem gaf oss þau; eyða hinni ómetanlegu náð, sem vèr enga heimtíng eigum á, og spilla vorri eilífu farsæld. Vèr erum vanir að kalla þann mann fáráðan, sem ekki hefir neitt eptirlit með eigum sínum, heldur sóar þeim öllum út, í stað þess að verja þeim sèr eða öðrum til einhvers góðs; en ekki ferst oss hyggilegar, þegar vèr eyðum þeim tíma til ills eða einkis, sem oss er gefinn til undirbúníngs undir eilífðina. Gætið þess, kærir bræður! að þessi tími, sem oss er lèntur, líður skjótt og að hann er á enda óðar en oss varir. Ó, mínir vinir! hugsið þá til þess, hve fegnir þèr á dauðastundunni munið óska, að hafa varið náðartímanum vel, að hafa varið honum betur undir sáluhjálplega burtför hèðan. Hugsið þó til þess, að sá tími, sem vèr svo gálauslega eyðum, er ekki einúngis dýrmætur og stuttur, heldur einnig óbætanlegur, og það, sem vèr

sóum burt af honum, fæst aldrei aptur. Þegar vèr missum eignir vorar, mannorð eða vináttu annara, þá getum vèr náð þessu aptur, eða á einhvern hátt fengið skaða vorn bættan; en sá tími, sem burt er sóað, verður ekki aptur fenginn, heldur er hvert augnablik jafnóðum og það er liðið numið burt úr tölu þeirra náðarmeðala, sem Guð hafði fyrirhugað oss af gæzku sinni. Það er engum vafa undirorpið, að þareð þetta líf vort er svo skammvinnt, hefir Guð gefið sèrhverjum hluta þess sèrlega ákvörðun og ákveðið, hvernig vèr ættum að verja honum, og í hverju sambandi hann skyldi standa við vora eilífu farsæld, og að hann hefir tengt sína náð og hjálp við sèrhvern vorra hèrvistardaga til að fullkomna helgun vora. Þessum dögum og þessum augnablikum er burtsóað og sömuleiðis þeirri náð, sem við þau var tengd. Þetta er farið og fæst aldrei aptur. Vèr höfum haldið, að vèr ekki eyddum öðru en óþörfum augnablikum; en um leið misstum vèr þá náð, sem Guð hafði sett í samband við þann tíma, sem hann af gæzku sinni hafði úthlutað oss. Missir tímans er óbætanlegur, því sèrhver dagur og sèrhvert augnablik á að flytja oss einu feti nær himninum, og ef vèr verjum tímanum illa, þá kemur vor burtfararstund meðan vèr enn erum fjarri himninum; að minnsta kosti verðum vèr þá að fara það á einum degi, sem annars er vant að þurfa langan tíma til; en hvort oss auðnast það, veit enginn nema Guð; ef svo verður,

þá er það eitt af kraptaverkum náðarinnar. Missir tímans er óbætanlegur, því með honum missum vèr krapta vora og þrótt og þrek til hins góða; þess vegna er það svo áríðanda fyrir oss, að nota vel þá krapta, sem Guð hefir gefið oss, og verja þeim samkvæmt hans tilgangi. Í sèrhverri lífsins stöðu getum vèr varið tímanum vel, hvort heldur vèr erum yfirboðnir eða undirgefnir, foreldrar eða börn. Þeir, sem yfir aðra eru settir, geta það með því að leitast við að efla heill þeirra, sem undir þá eru gefnir; þeir undirgefnu með því að sýna þeim hlýðni og hollustu, sem yfir þá eru settir; foreldrarnir með því uð uppala börn sín í guðsótta og kristilegum dyggðum og vera þeim til fyrirmyndar í öllu góðu; börnin með því að heiðra og elska foreldra sína, með því að vaxa í þekkíngu Jesú Krists og í náð hjá Guði og mönnum. Allir getum vèr varið tímanum vel, kærir bræður! með því að snúa oss til Drottins og biðja hann iðulega um hans náð og blessun, með því að hafa hans orð kostgæfilega um hönd oss til uppfræðíngar og betrunar, með því að hreinsa oss af allri saurgun holdsins og andans, með því að vaka yfir hjörtum og hugrenníngum vorum, stjórna girndum vorum, vanda vora daglegu breytni til orða og verka, og í einu orði: með því að efla sáluhjálp vora með ótta og andvara. Notið því tímann, kærir bræður! hver í sinni stöðu og sínum verkahríng; notið þenna dýrmæta náðartíma, sem Drottinn hefir

gefið yður, svo að hann verði honum til dýrðar, en yður til sannra sálahjálpar nota. Ætíð getum vèr tekið undir með postulanum og sagt, að nú sè hættuleg tíð; því hún er ætíð hættuleg, sè henni illa varið, hættuleg fyrir vora andlegu og eilífu farsæld; biðjum einnig góðan Guð að gæta vor fyrir þessari hættu.

Æ, Drottinn! þú sem úthlutar tímanum, árum, dögum og augnablikum lífsins, fyrirgef þú oss í Jesú nafni hirðuleysi vort í að verja vel þessari náðargjöf þinni; en gef þú oss náð til að verja betur þeim stundum æfinnar, sem þinni mildiríku speki þóknast enn að gefa oss! Þú einn veizt, hvort þær verða margar eða fáar; en hvort heldur vèr lifum eða deyjum, viljum vèr láta oss nægja þína náð og fela oss með lífi og sálu, í lífi og dauða, þinni miskun á hendur. Amen.

---

# 47. hugvekja.

1. Jóh. 4., 16. „Guð er kærleikurinn, og hver, sem er stöðugur í kærleikanum, sá er stöðugur í Guði og Guð í honum."

Frá blautu barnsbeini höfum vèr, kristnir menn! heyrt talað um Guðs eilífa kærleika og hans óendanlegu elsku til vor, syndugra manna. Hann hefir gjört oss hluttakandi í sínum ástgjöfum og föðurlega alið önn fyrir oss frá upphafi vorra vega, og á hverjum degi, hverri

stundu og hverju augnabliki lífsins fáum vèr að reyna ótal votta um hans eilífa kærleika, og þreifum á hans guðlegri náð. En hvaða áhrif hefir nú allt þetta haft á oss? Hefir það vakið elsku til Guðs í vorum hjörtum, þakklátsemi við hann og hlýðni við hans boðorð? Frá blautu barnsbeini höfum vèr heyrt, að vèr eigum að elska þenna vorn bezta himneska föður af öllu hjarta, að vèr eigum af fremsta megni að leitast við að þóknast honum, og komast í sameiníngu við hann fyrir trúna á Drottinn vorn, Jesúm Krist. Æ, Guð minn góður! hversu dauð og köld og kærleikslaus eru ekki vor hjörtu, og þegar vèr segjumst elska þig, hvað er það þá annað en munnflapur, þur játníng varanna og þýðíngarlaus orðatiltæki, sem ekki hafa krapt í sèr til að betra oss nè leiða oss í samfèlag við þig? Að elska Guð er innifalið í því, að vilja einúngis það sem hann vill, gegna trúlega hans heilögu boðorðum, hafa viðbjóð við syndinni og forðast hana, en finna hjá sèr innilega löngun eptir að lifa í samfèlagi við hann og vorn frelsara, Jesúm Krist. Og þegar vèr nú rennum augunum inn í vor eigin hjörtu og rannsökum vort sálarástand, megum vèr þá ekki með blygðun játa, að í stað þess að elska Guð mest af öllu, þá elskum vèr alla hluti meir en hann, og í stað þess að hafa umgengni hjartans hjá honum, þá höfum vèr hjartað fullt af heiminum og veraldlegum girndum. Ó! hversu grátlegt er til þess að hugsa, að þar sem vèr

í kærleiksfullri sameiningu við vorn himneska föður gætum verið sannfarsælir bæði hèr og síðar meir, þá sviptum vèr sjálfa oss Guðs náð og blessun með voru syndsamlega kaldsinni og kærleiksleysi. Hversu lengi ætlum vèr að halda áfram í þessari fásinnu vorri, í þessu andvaraleysi voru? Ætlum vèr að láta þær stundirnar, sem vèr enn kunnum að eiga eptir ólifaðar, einnig líða burt ónotaðar án þess fyrir alvöru að leita Guðs, án þess fyrir alvöru að reyna til að verða hans hlýðin börn, kostgæfin til góðra verka? Ætlum vèr að láta straum tímans flytja oss fram í dauðans djúp, án þess fyrir alvöru að hugleiða, hvort vèr nokkurn tíma munum ná friðarins höfnum? Ætlum vèr að láta það ráðast eins og verkast vill, hvort vèr fáum eilífa sáluhjálp, eða verðum eilíflega útskúfaðir úr guðsríki? Ætlum vèr að selja eilífa sælu og samfèlag við Drottinn fyrir skammvinna stundargleði í syndarinnar þjónustu? Eða ætlum vèr fyrst þá að fara að elska Guð, þegar vèr ekki getum lengur elskað heiminn og hans lystisemdir? Ætlum vèr fyrst að leita Guðs og innræta oss elsku til hans, þegar vèr liggjum á banasænginni, þegar nákuldi dauðans er farinn að nísta hjörtu vor og vèr höfum misst mál og rænu? Ætlum vèr þá fyrst að senda brennandi bænarandvörp upp til Drottins, þegar vèr liggjum í hinni seinustu dauðans angist, þegar vèr erum staddir í hinu óumræðilega eymdanna djúpi, og hinn eilífi eldur Guðs rèttlætis er farinn að brenna

á samvizkum vorum? Ó, Drottinn minn og Guð minn! hvílík hræðileg tilhugsun! Vèr höfum frá blautu barnsbeini heyrt talað um mismuninn á hinni dauðu og lifandi trú, heyrt talað um það, að hin sanna trú eigi að sýna sig ávaxtarsama í kærleikanum, að vèr eigum að deyja syndinni og lifa Guði, og að þessu hníga allar áminníngar og aðvaranir guðsorðs. Bæði frelsari vor og hans postular hafa sagt, að ef vèr ekki fæðumst að nýju og bætum ráð vort, þá getum vèr ekki fengið inngöngu í guðsríki, og þá vili frelsarinn ekki kannast við oss á efsta degi, heldur verði oss þá útskúfað í hin yztu myrkur. Vèr höfum heyrt það frá blautu barnsbeini og lesið það í vorri kristilegu barnalærdómsbók: „að Kristur hefir ekki með sinni endurlausn gefið oss leyfi til að syndga, heldur hefir hann því fremur skuldbundið oss til að forðast hið illa og kappkosta af fremsta megni að láta oss framfara í hinu góða". En allar þessar áminníngar guðsorðs látum vèr eins og vind um eyrun þjóta; þar á mót viljum vèr mega heimfæra til vor Guðs náðarfyrirheit, hvernig sem vèr breytum; og það er eins og vèr hugsum, að fyrst Jesús Kristur sè dáinn vegna vorra synda, þá sè oss óhætt að lifa og láta eins og vèr viljum, og að fyrst Guð sè kærleikurinn, þá sè það sjálfsagt, að hann miskuni oss, þó vèr alla æfi fyrirlítum ríkdóm hans náðar. Þannig breytum vèr þeim huggunarfyllstu lærdómum kristilegrar trúar í hegníngardóm yfir sjálfum oss,

og höfum þá til að svæfa sjálfa oss í andvaraleysi. Vissulega hefir Kristur af sinni óumræðilegu elsku liðið fyrir oss; en hann hefir jafnframt boðið oss að breyta eptir sèr, og sagt oss, að elska til Guðs og náungans væri skilyrði fyrir því að eignast eilíft líf. Vissulega er Guð kærleikurinn; en gætum þess vel, að hans kærleiki er heilagur, og að oss er boðið að verða heilagir eins og sá sem oss hefir kallað. Æ, leitið því Drottins meðan hann er að finna, ákallið hann meðan hann er yður nálægur! Þú segist, kristinn maður! feginn vilja leita Guðs og ákalla hann af hjarta, þú segist feginn vilja elska hann umfram allt: en þú kvartar yfir kulda hjarta þíns, yfir vanmætti þínum og þróttleysi viljans og að þú vitir ekki, hvernig úr þessu verði bætt. Vilir þú þetta fyrir alvöru, þá mun þèr líka með Guðs aðstoð takast það. Taktu guðsorð þèr í hönd, og lestu það kostgæfilega með allri þeirri eptirtekt og andakt, sem þèr er mögulegt; hugleiddu iðulega Guðs kærleika til vor syndugra manna og allar hans velgjörðir við þig; bið þú hann síðan að út hella sinni elsku í hjarta þitt; hafðu stöðugt gát á sjálfum þèr, og forðastu að láta girndir þínar fá yfirráð yfir þèr; hugsa þú um, hvað staða þín af þèr heimti, og leitastu við að gegna trúlega þeim skyldum, sem Drottinn hefir lagt þèr á herðar. Hugsaðu iðulega um dauða þinn og leitaðu Guðs aðstoðar daglega í innilegri bæn. Ef þú temur þèr þetta, þá mun Guð vissulega

senda þèr hjálp og huggun; þá mun hann sýna sinn mátt í þínum veikleika, því hann vill ekki dauða syndugs manns, heldur að hann snúi sèr og lifi. Þá mun hjarta þitt bráðum verða snortið af hans kærleika, og elska til hans og þakklæti við hann kvikna í sálu þinni, og þessi þakkláta elska mun hafa betrandi og helgandi áhrif á hugarfar þitt og hegðun þína; hún mun vekja hjá þèr frið og fögnuð, þrek og djörfúng og kenna þèr að sigra baráttu lífsins og alla dauðans angist. Já, þá mun í brjósti þínu vakna löngun eptir að fara hèðan og vera með Kristi, og þá getur þú tekið undir með Davíð og sagt: „Þegar eg hefi þig að eins, Drottinn! þá hirði eg hvorki um himin nè jörð; þó að minn líkami og hjarta vanmegnist, þá ertu samt alla tíma mitt hjartans traust og hlutskipti" (Sálm. 73., 25.). Amen.

---

# 48. hugvekja.

Hebr. 6., 4.—6. „Það er ómögulegt að þeir, sem eitt sinn eru orðnir upplýstir og hafa fengið smekk á þeirri himnesku gáfu og hluttakandi eru orðnir hins heilaga anda, og hafa smakkað Guðs góða orð og krapt komandi aldar, og hafa þó fallið frá, að þeir muni endurnýjast til betrunar."

Þenna sama mikilvæga sannleika brýnir frelsarinn fyrir oss með dæmisögunni um hinn óhreina anda, sem fer út af manninum, en hverfur þangað aptur og tekur með sèr sjö anda sèr

verri, svo hið síðara ásigkomulag mannsins verður verra en hið fyrra; og með þessu er það tekið fram, hversu hættulegt það sè, að falla aptur til syndar og lasta og láta fornar ástríður fá yfirráð yfir sèr, þegar maðurinn eitt sinn hefir snúið sèr til Guðs og iðrast synda sinna, og hve miklu torveldari, ef ekki ómöguleg, betrunin þá verður. Það er víst, að Guðs náð hefir óteljandi ráð og meðul til að snúa syndaranum frá villu hans vegar og leiða hann til sín; en þó er hugarfari sumra manna svo varið, að þetta sýnist næsta erfitt. Þetta á sèr einkanlega stað hjá lèttúðarfullum og hviklyndum mönnum, sem ýmist komast við af syndaeymd sinni og snúa sèr til Guðs, ýmist gleyma Guði og falla aptur í sína fyrri eymd, stundum verða leiðir á heiminum, stundum á dyggðinni; sýnast í dag vera skylduræknir, en gefa sig á morgun alla við munaði og hègóma heimsins, og hafa ekkert stöðugt nè staðfast nema óstöðugleikann í áformum sínum og hugarfari sínu, sem hvorki Guðs náð nè syndin geta haldið stöðugum. Þessir menn eru ekki sjaldgæfir í veröldinni, heldur eru, því miður, margar hviklyndar og óstöðugar sálir til. Það meðal, sem Guð fyrst og fremst hefir til að leiða syndugan mann til sín, er að upplýsa hann með sínu orði um sitt ráð og sinn vilja, og leiða honum þá ógæfu fyrir sjónir, sem hann bakar sèr með því að halda áfram í syndunum. Þá fellur opt skýlan frá augum syndarans, svo hann sèr, hvar hann er

aðkominn, og hann hrekkur opt upp eins og af djúpum svefni, felmtsfullur af því, að hafa svo lengi sofið á barmi glötunarinnar og svo lengi gleymt þeim guðlegu sannindum, sem honum var svo áríðandi að hafa hugföst; felmtsfullur af því, að hafa haft svo skakka skoðun á heiminum og eilífðinni og hafa svo lítið hirt um sína eilífu sáluhjálp; hann gleðst nú af því, að hafa fengið augun opin, og fær viðbjóð við sinni fyrri villu, og eins og hann opnar augun fyrir hinu guðlega ljósi, sem kennir honum að þekkja sannleikann, eins opnar hann og hjarta sitt og verður snortinn af elsku til sannleikans og ljóssins. En þetta sáluhjálparmeðal, sem er svo óbrigðult fyrir syndarana yfir höfuð, getur ekki haft áhrif á þær hinar lèttúðarfullu og óstöðugu sálir, sem svo opt hafa verið upp lýstar um sitt synda ástand, en eins opt fallið til syndarinnar aptur; því hvað getur guðsorð sýnt þeim, sem þær hafi ekki áður sèð? Hvaða tilfinníngar getur það vakið hjá þeim, sem það ekki hafi áður vakið? Þær hafa áður sèð ljótleika syndarinnar, fánýti tímanlegra hluta og fegurð guðsríkis, og þessi sjón hefir ekkert nýstárlegt fyrir þær lengur, ekkert, sem geti haft varanleg áhrif á þær. Til þessara lèttúðarfullu og hviklyndu syndara lítur postulinn Pètur, þegar hann segir: „En ef þeir, sem með þekkíngu Drottins vors, Jesú Krists, sloppnir voru frá heimsins saurugleika, flækja sig í honum á ný og sigrast, þá verður þeirra hið síðara

verra hinu fyrra; því betra var þeim aldrei að hafa þekkt veginn rèttlætisins, heldur en, eptir það þeir hafa þekkt hann, að snúa aptur frá því heilaga lögmáli, sem þeim var gefið" (2 Pèt. 2., 20.—21.). Hið annað meðal, sem Guð hefir til að leiða syndarana til sín, er, eins og postulinn segir, „að láta þá smakka krapt komandi aldar," láta þá finna til hugarrósemi og senda sinn frið niður í þeirra hjörtu, undir eins og þeir iðrast og láta af sínum vonda vegi; hann lætur þá finna til fagnaðar og gleði af því, að vera lausir undan ánauðaroki girnda sinna og við samvizkunnar ásakanir. Það eru vissulega engar tilfinníngar inndælli en þær, sem sanniðrandi maður finnur til, þegar hann hefir snúið sèr til Guðs og með hans náð varpað af sèr lastanna byrði: þegar hann ekki lengur fylgir straumi syndsamlegra fýsna og tilhneigínga, heldur kemst yfir í hinn guðlega náðarstraum og hefir náð frelsi guðsbarna. En hjá hinum lèttúðarfulla og óstöðuga syndara verða einnig þessar helgu tilfinningar máttvana og ávaxtarlausar: hann hefir opt fundið til þeirra; hann hefir opt sagt við Guð: Heimurinn hefir þó í rauninni aldrei fullnægt sálarþörfum mínum; hann hefir jafnan skilið eptir hjá mèr leiðindi, angur og órósemi; þar á mót reyni eg nú, að það veitir sálu minni sanna huggun og gleði, að breyta eptir þínum heilögu boðum; en samt sem áður hleypur hann aptur út á lastanna slóð, þegar freistíngarnar benda honum, og

sýnir með því, að sú huggun og sálarrósemi, sem iðranin veitir, gat ekki haldið honum stöðugum á helgunarinnar vegi. Hann er fljótur til að vikna, en eins fljótur til að hrasa; hann er eins og reir af vindi skekinn og tekur jafnt á móti öllum áhrifum, illum og góðum. Þetta er mjög hættulegt sálarástand, kristnir menn! því hin góðu áhrifin veikjast alltaf meir og meir, og viljinn til hins góða verður alltaf þrekminni, eptir því sem hann optar verður yfirbugaður af freistíngunum, svo syndarinn að lokunum leiðist til gjörsamlegs andvaraleysis og forherðingar. Ef þèr því, kærir bræður! eruð í þessu ógæfusamlega sálarástandi, ef þèr finnið til lèttúðar og hviklyndis í hjörtum yðar, svo að „þèr haltrið til beggja hliða milli Guðs og Bals" (1. Kóng. 18., 21.), milli guðlegrar náðar og syndarinnar: þá gætið yðar í Guðs nafni, gætið að því, hvort þessi hálfvelgja muni leiða yður að lokunum! Það er þá aumkunarvert líf, sem þèr lifið; í syndinni getið þèr ekki fundið frið, og í guðhræðslunni finnið þèr ekki heldur stöðuga hugarrósemi; hvað getur þá veitt sálum yðar hvíld? Hafið meðaumkun með sálu yðar, og takið fyrir yður fastan betrunar ásetníng; leitið varanlegs friðar fyrir samvizku yðar, og slökkvið ekki aptur þær góðu hugarhræríngar, sem Guðs náð nú seinast hefir vakið í hjörtum yðar; því verið getur, að það sè í seinasta sinni, sem hann þannig vitjar yðar með sinni miskunsemi, og að hin næsta breytíng á hug-

arfari yðar endi með forherðíngu. Snúið yður af hjarta til Drottins og festið allan huga yðar við hið góða, svo þèr mættuð verða gróðursettir í kærleikanum og verðið ekki lengur í þeirra tölu, „sem að eins trúa um stundar sakir, en falla frá á freistínganna tíma," heldur gætuð borið ávöxt með stöðuglyndi, og á síðan meðtekið á himnum þá eilífu kórónu rèttlætisins, sem þeim er heitið, sem reynast Guði trúir allt til dauðans. Guð gefi oss öllum sína náð til þess í Jesú nafni! Amen.

---

# 49. hugvekja.

Matth. 5., 44. „Blessið þá, sem yður bölva; gjörið þeim gott, sem hata yður, og biðið fyrir þeim, sem rógbera yður og ofsækja, svo þèr sèuð börn föðurs yðar á himnum!"

Ekkert sýnir oss betur, kærir bræður! hve harður og hrjóstrugur jarðvegur hjarta vors er og hve lítinn ávöxt guðsorð ber hjá mönnunum, en það hatur og sú óvild, sem er svo almenn meðal þeirra. Þegar vèr skoðum breytni manna yfir höfuð, sjáum vèr, að hún, því miður, of mjög stjórnast af eigingirni, og að eigingirnin hefir meiri áhrif á viðskipti þeirra, en kærleikurinn og trúarbrögðin. Þetta er orsökin til þess, að vèr þurfum svo lítið til að reiðast öðrum, undir eins og þeir gjöra oss eitthvað á móti og misbjóða eigingirni

vorri, annaðhvort með því, að ásælast oss í viðskiptum, eða rýra þá virðíngu og það álit, sem vèr viljum hafa í augum annara manna. Ef vèr elskuðum oss sjálfa rèttilega, kærir bræður! þá mundum vèr elska aðra meir en vèr gjörum, og þá mundum vèr kosta meir kapps um, að yfirvinna hið illa með góðu" (Rómv. 12., 21.). Eða hvers vegna skyldum vèr sjálfir vilja auka þann skaða, sem náúngi vor gjörir oss, með því að hata hann, þar eð vèr af hatrinu bíðum meira tjón en af nokkrum öðrum hlut? Allur sá skaði, sem aðrir gjöra oss, snertir einúngis tímanleg og hverful gæði; en hatrið spillir hjörtum vorum og sviptir oss vorri eilífu arfleifð. Með því að ala hjá oss hatur til náúngans, hefnumst vèr því á sjálfum oss, og til þess að hugga oss yfir mótgjörðum hans, gjörum vèr sjálfum oss eilífan og óbærilegan skaða. Eða getur hatur til náúngans bætt oss það, sem náúnginn hefir svipt oss, eða bætt það upp, sem hann hefir gjört oss á móti? Hvaða huggun getur oss verið í hatrinu, í þessari skaðlegu og áköfu geðshræríngu, sem rífur hjartað sundur, fyllir sálina með beiskju og órósemi og gjörir sjálfa oss ófarsæla? Vilir þú vera kristinn, kæri vin! og hafir ekki misst trúna úr hjarta þínu, þá muntu ekki leggja hatur á þá, sem eitthvað gjöra þèr á móti, heldur gæta þess, að þeir eru hirtíngarvöndur í hendi skaparans, að þeir eru verkfæri og meðal í Drottins miskunarhendi til að vekja þig, vekja athygli

þitt á sjálfum þèr og þeim löstum, sem þú ert hneigðastur fyrir, hvert sem það er drambsemi, ágirnd eða hègómadýrð, og koma þèr til að sjá að þèr í tíma. Í stað þess að hata bróður þinn, áttu því að tilbiðja Guðs náð og miskunsemi, og skoða þinn mótgjörðamann eins og meðal til þinnar betrunar og sáluhjálpar: þú átt að biðja Guð að gefa honum náð til einlægrar iðrunar, svo að sú velgjörð, sem þèr var auðsýnd, verði ekki til þess að spilla hans eilífu farsæld. Já, kærir bræður! hatur vort kemur einúngis til af trúarleysi voru. Ef vèr gættum þess, að allir þessir tímanlegu hlutir líða undir lok og eru lítils virði; en að vor sönnu auðæfi og vor sanna farsæld er á himnum og í eilífðinni, og að vèr innan lítillar stundar erum komnir þangað: æ, þá mundum vèr líta öðru vísi á mótgjörðirnar, þá mundum vèr sjá, hversu barnalegt og heimskulegt það er, að eiga í þrætum og þrasi og spilla með því sálarrósemi vorri. En vèr erum, því miður, margir hverir svo blindaðir af eigingirni og syndsamlegri hègómadýrð, að oss vex það allt í augum, sem oss þykir vera gjört á hluta vorn, hvort heldur það snertir fjármuni vora eða álit vort. Vèr viljum vera í metum hjá öðrum, og það er náttúrlegt; en vèr viljum láta aðra hæla bæði dyggðum vorum og brestum, og þó vèr sjálfir sjáum bresti vora, þá erum vèr svo ósanngjarnir, að ætlast til þess, að aðrir sjái þá ekki, og viljum helzt, að heimurinn hæli því hjá oss, sem hann lastar

hjá öðrum. En fyrst af öllu ættum vèr að vera mjög varkárir í að trúa rógburði og því illa, sem oss er sagt um náúnga vorn, eða haft er eptir honum, því dagleg reynsla sýnir, að margir eru svo lèttúðarfullir og illgjarnir, að þeir gjöra úlfalda úr míflugunni, auka og afbaka það sem sagt er og færa það til verri vegar, að eg ekki tali um þá, sem hafa gaman af að spúa banvænu eitri á sambúð manna með tilhæfulausum og öldúngis ósönnum milliburði. En þó vèr óverðskuldað verðum fyrir einhverju álasi, munum vèr þá aldrei hafa álasað neinum óverðskuldað? Höfum vèr ætíð verið svo mildir í dómum vorum og varkárir í orðum vorum um aðra? Höfum vèr ætíð látið aðra njóta sannmælis, hælt þeirra góðu eiginlegleikum, aldrei þolað, að þeim væri hallmælt í vorri viðurvist, aldrei stutt illviljað umtal um aðra með dylgjum eða uppgjörðar afsökunum? Er það þá rètt, að vèr sèum svo tregir til að fyrirgefa bróður vorum, hafi honum orðið að sleppa einhverju orði, sem oss er ógeðfelt, þegar sjálfum oss, ef til vill, verður á að meiða aðra langtum meir? En þó vèr ekki þurfum að bera sjálfum oss neitt á brýn í þessu efni, hvað ávinnum vèr með því að hatast við bróður vorn? Getum vèr með því út skafið það illa álit á oss, sem umtal hans hefir vakið um oss hjá öðrum mönnum? Með því veitum vèr sjálfum oss nýtt sár og særum oss því sári, sem deyðir sálu vora. Nær væri oss að sýna sakleysi

vort með ráðvöndu og grandvöru líferni, og þannig safna glóðum elds yfir höfuð þess, sem oss hefir móðgað. Æ, látum oss minnast Jesú orða: „Blessið þá, sem yður bölva; gjörið þeim gott, sem hata yður, og biðið fyrir þeim, sem rógbera yður og ofsækja, svo þèr sèuð börn föðurs yðar á himnum!" „Þó þèr elskið þá, sem yður elska," segir hann, „hver laun eigið þèr skilið fyrir það? Gjöra ekki heiðíngjar hið sama" (Mtth. 5., 47.—48.)? Guðsorð heimtar af oss, að vèr elskum þá, sem oss hata, og gjörir það að skilyrði fyrir Guðs miskunsemi við oss, og segir oss með berum orðum, að vèr getum ekki vænt oss fyrirgefníngar hjá honum, nema vèr fyrirgefum þeim. Vilið þèr þá, kærir bræður! að Guð gleymi öllum yðar misgjörðum og syndum, þó þèr sjálfir ekki vilið gleyma einu styggðaryrði, þó þèr sjálfir sèuð uppstökkir, upptektasamir og heiptræknir; þèr, sem ef til vill, ekki þekkið yður sjálfir og hefðuð má ske verra orð, ef aðrir þekktu yður eins og þèr í raun og veru eruð. Æ, Guð minn góður! skapa þú í mèr hreint hjarta, svo eg geti fyrirgefið af hjarta og að dæmi lausnara míns yfirunnið hið illa með góðu. Hvað eru þær mótgjörðir, sem eg má þola, hjá þeim hann varð fyrir: hann, sem var heilagur og saklaus, þar sem eg er syndugur og sekur. Þú veizt það, Drottinn! að mig langar til að vera þitt barn; en hvernig get eg verið þitt barn, eilífi miskunsemdanna faðir! nema eg sè miskun-

samur og fús á að fyrirgefa? Eg vil byrja á því, að biðja fyrir þeim, sem mèr gjöra eitthvað á móti, eg vil biðja þig að snúa þeim og gefa þeim betra hjartalag og vekja hjá þeim friðarins og kærleikans tilfinníngar, svo þeir einnig verði þín börn. Já, Drottinn minn! eg vil ekkert hata nema syndina, sem skilur mig við þig; en eg vil elska allt, sem þú elskar, eilífa gæzkan! svo eg fái að vera þèr sameinaður í lífi og dauða. Gef þú mèr náð til þess í Jesú nafni! Amen.

---

# 50. hugvekja.

Matth. 5., 44. „Elskið óvini yðar."

Það er, því miður, víst, að oss mönnunum fellur mjög erfitt að feta í fótspor frelsara vors og breyta eptir hans boðum, en þó þykir ekkert erfiðara en það, að elska óvini sína og fyrirgefa þeim af hjarta, sem eitthvað gjöra oss á móti; og þó er þetta boðorð eitthvert hið æðsta boðorð kristindómsins, innsiglað með frelsarans heilaga dæmi og af honum gjört að einkaskilyrði fyrir fyrirgefníngu vorra eigin synda. Það er líka eðlilegt, að mannelskufullt hugarfar hljóti að vera skilyrði fyrir sameiníngunni við miskunsemdanna föður, sem sjálfur er kærleikurinn. Af því menn finna þetta, þá telja þeir almennt sjálfum sèr og öðrum trú um, að þeir af hjarta

hafi fyrirgefið bróður sínum mótgjörðir hans, og að þeir í því tilliti hafi góða samvizku; og þó er það, kærir bræður! næsta sjaldgæft, að menn fyrirgefi af hjarta, eða gjöri það af kristilegum hvötum; því til þess, að fyrirgefníngin sè einlæg og af hjarta, útheimtist, að hún spretti af mannelsku rót og kristilegum bróðurkærleika. Er það þá að fyrirgefa í kristilegum skilníngi, þó menn sættist til málamynda, til þess að eiga ekki í opinberum ófriði, eða til að komast hjá umtali og ómildum dómum annara manna, eða vegna einhvers annars tímanlegs hagnaðar? Að þetta sè þó einatt helzta hvötin, sèst af því, að þeir menn sættast tíðum við mótstöðumenn sína, sem annars ekki láta nein merki til sannrar guðrækni í ljósi, og ekki vilja hlýðnast hinum auðveldustu boðum kristilegrar trúar, ef það heimtar nokkra sjálfsafneitun. Og hversu opt þarf þó ekki að hafa fyrirhöfn og erfiðismuni, með fortölum vina og vandamanna, til að koma nafninu á einhverja sætt meðal manna? Slíkar sættir eru ekki kærleikans verk, heldur heimsins verk; þær eru manna verk, en ekki Guðs verk í manninum, og sá friður, sem þær koma til leiðar, hefir upptök sín frá jörðinni, en ekki frá Guði; þær eru ávextir veraldlegrar forsjálni, en ná ekki til hjartans. Ó! hversu ólíkt er þetta boði frelsara vors, sem segir oss að fara og sættast við vorn mótstöðumann (Matth. 5., 24.), og vill, að bróðurástin einsömul þrýsti oss til sáttarinnar; hann gjörir ekki ráð fyrir því, að

vèr þurfum aðra milligöngumenn en hjarta vort til að elska bræður vora. Af því menn svo sjaldan fyrirgefa af hjarta, þá ber fyrirgefníngin svo sjaldan nokkurn ávöxt fyrir trúarlíf vort og guðrækni vora. Þú segist, kristinn maður! vera sáttur heilum sáttum við mótstöðumann þinn, og hafa fyrirgefið honum af hjarta; en ekki getir þú fengið af þèr að sjá hann aptur, eða hafa nokkurt samneyti og viðskipti við hann; og með þessa þína breytni gjörir þú þig ánægðan, og þykist hafa fullnægt evangelii boðum. En er það að fyrirgefa af hjarta, ef þú heldur, að þú ekki þurfir nema að sjá hann til þess, að haturs og óvildar tilfinníngar vakni hjá þèr? Þú segist ekki vilja hallmæla honum eða gjöra á hluta hans; en þetta er ekki nóg; guðsorð býður þèr að elska hann. Það geta verið eigingjarnar hvatir, sem aptra þèr frá að áreita hann í orði eða verki, en til að elska hann þarftu að vera sannkristinn. Eða vildir þú, að Guð elskaði þig þannig, að hann aldrei vildi sjá þig optar? Værir þú ánægður með hans gæzku og miskunsemi, ef hann ræki þig frá sínu guðlega augliti og vildi engin afskipti framar af þèr hafa? Og þú veizt, að hann mun fara eins með þig, eins og þú fer með bróður þinn. Eða mun það sæma kristnum mönnum, að vilja forðast að sjást, eða hafa nokkuð saman að sælda: kristnum mönnum, sem eru limir á sama líkama, börn hins sama föður, erfíngjar hinnar sömu eilífu sælu, endurleystir af sama frelsara,

hluttakandi í hinum sömu ástgjöfum andans? Allar Guðs gæzkuríku ráðstafanir, hans náðarmeðul, hans blessaða orð og þau heilögu sakramenti, miða til að sameina oss og gjöra oss að einum söfnuði, einum líkama, einu hjarta og einni sal; og þó heldur þú, kristinn maður! að þú elskir bróður þinn og varðveitir hin helgu ástarbönd, sem guðsorð tengir milli ykkar, ef þú slítur allt samfèlag við hann. Hvernig getur þú þá haft sömu von eilífs lífs eins og hann? Því, samkvæmt þessari von, eigið þið eilíflega að búa saman, njóta eilífrar sælu hvor með öðrum, vera sameinaðir í Guðs náðarfaðmi og sýngja honum eilíft lof og þakkargjörð. Og hvernig getur þú búizt við að verða bróður þínum eilíflega sameinaður og huggað þig við þessa sameiníngu hjá Guði, ef þèr þykir svo gott að vera skilinn við hann, og þèr fellur svo þúngt, að hafa nokkur afskipti af honum? Þá hlýtur þú að hafna Guðs fyrirheitum og von eilífs lífs; þá verður þú að útiloka þig úr tölu guðsbarna og hætta að færa Guði fórn hjarta þíns og bænir þínar; því annars gjörir þú gis að guðsorði, sem býður þèr að sættast við mótstöðumann þinn, og gjörir það að skilyrði fyrir því, að þú fáir fyrirgefníng synda þinna og verðir tekinn til náðar af Guði. Þú verður má ske hrærður af þessum sannleika, kristinn maður! og segist vilja búa friðsamlega saman við mótstöðumann þinn, og sýna honum vinsamleg atlot og þènustusemi; en ekki geti hann ætlazt til eigin-

legrar vináttu af þèr. Heldur þú, að þetta sè að fyrirgefa af hjarta, sættast við bróður sinn og elska hann eins og sjálfan sig? Kærleikurinn, sem guðsorð heimtar, býr í hjartanu; hann er ekki innifalinn í eintómu útvortis viðmóti eða vinsamlegum atlotum, heldur í einlægri velvildar tilfinníngu og hjartanlegri ástúð. Ef hana vantar, þá elskar þú eins og Farísearnir, en ekki eins og sannkristinn maður og lærisveinn Jesú Krists. Kærleikans lögmál er hjartans lögmál, sem stjórnar tilfinníngunum og breytir tilhneigíngunum og hellir viðsmjöri friðarins í hin særðu hjörtun; en þú gjörir það að gyðínglegu lögmáli, sem einúngis stjórnar hinu ytra látbragði, og hefir yfirskyn elskunnar, en afneitar hennar krapti.

Æ, Guð minn góður! ætti eg ekki að gleyma þeim hinum lèttvægu mótgjörðum, sem eg verð fyrir af bræðrum mínum, svo þú getir gleymt mínum mörgu og miklu syndum? Hvað eru þessar mótgjörðir í samanburði við allt það, sem eg hefi brotið á móti þèr? Ætti eg vesall jarðarormur að vera svo tilfinningasamur og uppstökkur af hverju lítilræði, þegar þín eilífa hátign umber með þvílíkri þolinmæði og gæzku allar mínar syndir og yfirtroðslur? Æ! eg vil fyrirgefa af hjarta öllum, sem eitthvað gjöra á hluta minn, og þareð þú hefir lofað, að fyrirgefa oss vorar skuldir, svo sem vèr og fyrirgefum vorum skuldunautum, þá treysti eg því, að þú efnir þetta þitt heit, og í því trausti legg eg mig nú til hvíldar

á þessari kvöldstundu, í þínu nafni og í þínum friði og sáttur af hjarta við alla menn. Amen.

---

# 51. hugvekja.

Matth. 10., 32.—33. „Hver sem kannast við mig fyrir mönnum, við hann mun eg einnig kannast fyrir föður mínum á himnum. En hver sem ekki vill kannast við mig fyrir mönnum, við hann mun eg ekki heldur kannast fyrir föður mínum á himnum."

Að kannast við Krist fyrir mönnum, er ekki einúngis innifalið í þeirri játníngu, að vèr sèum kristnir og að Kristur sè Drottinn vor og herra, heldur einnig einkanlega í því, að vèr sýnum það með breytni vorri, að vèr viljum vera sannir lærisveinar hans, og sèum reiðubúnir til að sýna bæði sjálfsafneitun og undirgefni undir hans vilja: reiðubúnir til að taka hans kross á oss og fylgja honum. Nú eru þeir tímar liðnir, þegar kristnir menn þurftu að leggja líf og eignir í sölurnar fyrir hans nafns sakir; heimurinn ofsækir þá nú ekki lengur, sem kalla sig kristna, heldur vill hann öllu fremur hylja spillíngu sína undir þessu fagra og háleita nafni. En þó vèr þannig með játníngu vara vorra nú getum kannazt við Krist fyrir heiminum, án þess að mæta nokkrum ofsóknum, eigum vèr þó enn í öðru stríði fyrir hans nafns sakir, í stríði við hold og blóð hjá

sjálfum oss, við vorar spilltu girndir og tilhneigíngar, sem alltaf vilja koma oss til að afneita Drottni vorum; og það er komið undir því, hve hraustlega vèr berjumst í þessu freistínganna stríði, hvort vèr getum kallað oss sanna lærisveina hans, eða ei. Það er komið undir þeirri sjálfsafneitun, undir þeim innvortis vitnisburði og þeirri stöðugu játníngu, sem kemur því til leiðar, að vèr fyrir trúna á frelsara vorn getum sigrað vorar syndsamlegu tilhneigíngar og lamað áhrif og árásir holdlegra fýsna, getum sigrazt á eigingirni vorri og glætt hjá oss andans og náðarinnar líf. Það er komið undir þeirri betrun hjartans, sem er skilyrði fyrir sáluhjálp vorri, sem kemur því til vegar, að vèr fyrirgefum mótgjörðir, elskum þá, sem oss hata, og tölum vel um þá, sem hallmæla oss, að vèr kefjum hjá oss reiði, hègómadýrð, drambsemi og allar saurugar og syndsamlegar girndir. Það er komið undir því trúarlífi voru, sem alltaf veitir tilhneigínganna lífi mótstöðu. Þetta sífelda stríð við syndina er einkenni allra Jesú sönnu lærisveina; það er hin góða játníng trúarinnar og undirstaða sannkristilegs lífs. Sá, sem hraustlega berst í þessu stríði, meðkennir Jesúm Krist fyrir mönnum; meðkennir, að Jesús Kristur sè hans Drottinn og herra, að hans lærdómur sè kraptur Guðs til sáluhjálpar, og að hans náðarfyrirheit sèu langtum veglegri og betri en heimsins og holdsins loforð og lystíngar. Af þessari sjálfsafneitun leiðir undirgefni undir Krists vilja.

þessi undirgefni er ekki einúngis innifalin í því, að skilníngurinn gefi sig fanginn undir dýpt guðlegra leyndardóma og vald Krists orða, og taki með lotníngu móti því í guðlegri opinberun, sem honum er ofvaxið, og með gleði og þakklátu hjarta þátt í venjulegum guðræknisiðkunum samkristinna bræðra, heldur einnig í því, að maðurinn beygi hjarta sitt undir Guðs heilaga vilja, lagi vilja sinn eptir hans boðum og beri með auðsveipni og þolinmæði sèrhvað, sem hans speki lætur oss að höndum bera. Í hverri helzt stöðu, sem vèr erum, kærir bræður! þá er það óumflýjanlegt, að sýna einhverja sjálfsafneitun og áreynslu, til að geta meðkennt Krist, meðkennt vora kristilegu trú. þetta er sá krossburður, sem ekki verður hjá komizt; en hann er lèttur og inndæll fyrir öll sannarleg guðsbörn, sem elska hann og treysta því, að hann muni hjálpa sèr til að bera hvern þann kross, sem hann leggur þeim á herðar; treysta því, að stríðið leiði til sigurs, og að vegur sjálfsafneitunarinnar sè vegur helgunarinnar og sáluhjálparinnar. þetta er trúarinnar góða játníng og vitnisburður hins trúaða um frelsara sinn; — en hvernig erum vèr nú, kærir bræður! vanir að kannast við Krist? Erum vèr vanir að sýna þessa auðsveipni og undirgefni undir vilja guðlegrar forsjónar? Æ! því miður er það opt, eins og vèr ekki þekkjum Krist nè hans heilögu trúarbrögð, eins og vèr ekki þekkjum Guðs vilja, nè könnumst við hans forsjónar hönd í

því, sem oss ber að höndum. Vèr gleymum því, að öll hans boðorð miða til vorrar farsældar, og að það er hann, sem sendir oss blítt og strítt í vísdómsfullum og gæzkuríkum tilgangi. „Ef vèr einúngis í þessu lífi settum vora von til Krists", segir postulinn, „þá værum vèr hinir vesælustu allra manna" (1. Kor. 15., 19.). Þess vegna er það, að meðkenna Krist, einnig innifalið í þeirri hjartanlegu játníngu, að oss langi til að mega vera þar sem hann er, og eilíflega fá að vera hjá honum. Hinn trúaði finnur til þess, að þetta líf er útlegðarstand og að hann hefir hèr ekki varanlegan samastað; hann finnur til þess, að hans borgarrèttur er á himnum, og þess vegna þráir hann þetta sitt himneska föðurland; að þessu sælufulla miði stefna öll hans verk, allar hans óskir, hugsanir og vonir; hann missir aldrei sjónar á þessum himneska hvíldarstað; hann skoðar alla tímanlega hluti eins og lánsfè, sem hann á að skila aptur, og festir ekki hjarta sitt við neinn af þeim, heldur sækist hann eptir hinum eilífu gæðum, sem enginn getur frá honum tekið og sem gjöra hann æfinlega sælan; hann langar til að leysast hèðan, úr þessum reynslunnar skóla, hvar svo margt vill draga hjartað frá Guði og hið andlega lífið er undirorpið sífeldri hrösun og hættu; hvar heilsa og meðlæti freistar til að gleyma Drottni, en mótlætið til að mögla á móti honum. Þess vegna þráir hinn sanntrúaði að komast á fund frelsara síns, og þess vegna ætti oss alla að

langa til að komast til hans og leysast hèðan. Þar munu öll tár verða þerruð af kinnum vorum, þar munu allar freistíngar taka enda, og þar mun allri sálarinnar löngun verða svalað. Þessi löngun eptir eilífu lífi aðgreinir Jesú sönnu lærisveina frá heimsins börnum; þau skoða þenna heim eins og sitt föðurland og missa því borgarrètt sinn á himnum. Æ, góði himneski frelsari! gef þú oss náð til þess að kannast við þig fyrir mönnum, kannast við þig leynt og ljóst í allri vorri breytni, kannast við það, að þú sèrt vor Drottinn og herra, vor frelsari og endurlausnari, vort athvarf í lífi og dauða: þá munt þú og kannast við oss fyrir þínum himneska föður, kannast við oss sem þína lærisveina og leyfa oss að vera hjá þèr um aldir alda! Amen.

---

# 52. hugvekja.

2. Kor. 5., 10. „Allir hljótum vèr að birtast fyrir Krists dómstóli, svo hver einn fái laun eptir sinni breytni í líkamanum, hvort sem hún hefir verið góð eða vond."

Vèr mundum ekki fá rètta þekkíngu á guðlegri forsjón, ef vèr einúngis dæmdum um hana eptir því, hvernig meðlæti og mótlæti, launum og hegníngu er útbýtt hèr á jörðu. Því þó það reynist jafnan satt, að dyggðin hefir sín eigin verðlaun og syndin sína hegníngu í sèr,

hafa þó hin ytri lífskjör mikil áhrif á farsæld vora í þessu lífi, og vèr sjáum opt, að hinn guðhræddi og ráðvandi á hèr við bág kjör að búa og stynur undir krossi mótlætínganna; en hinn óguðlegi lifir í allsnægtum og sýnist baða í rósum. Það er því huggunarríkur lærdómur, sem guðsorð kennir oss, að fullkomið endurgjald dyggða og lasta sè í vændum hinu megin grafarinnar, og að vèr þá eigum allir að birtast fyrir Krists dómstóli, svo hver einn fái laun eptir sinni breytni í líkamanum, hvort sem hún hefir verið góð eða vond. Ef vèr jafnan hefðum þetta hugfast, kærir bræður! og hugleiddum, hvernig þessum dómi muni verða varið, þá er ekki ólíklegt, að vèr yrðum varkárari í breytni vorri og strangari í dómi vorum um sjálfa oss, en vèr nú almennt erum. Þeir breytilegu viðburðir, sem fyrir oss koma í þessu lífi, einn á fætur öðrum, skipta lífi voru í marga parta, festa athygli vort einúngis á því, sem yfir stendur, og leyfa oss ekki að skoða líf vort í einu lagi, eða sjá það allt saman í sinni heild. Vèr erum því vanir að dæma oss eptir því, hvernig ástatt er fyrir oss í þann og þann svipinn, en gleyma því sem undan er gengið. Á dómsdegi verður þessu allt öðru vísi háttað. Þá verður öllu safnað saman og vort liðna líf sett oss allt fyrir sjónir, frá þeirri fyrstu tilfinníngu, sem hreifði sèr í hjörtum vorum, allt til hins seinasta andvarps í dauðanum. Þar verður ekkert eptir skilið, engin athöfn, ekkert orð, engin

hugsun eða hugarhræríng, því sèu vor höfuðhár talin, hvað munu þá vor verk vera! Öll vor liðna æfi rennur þá eins og lifandi upp fyrir sjónum vorum, ekki einúngis vor orð og verk, heldur og öll hulin ráð hjartna vorra, sem vèr, ef til vill, ekki einu sinni sjálfir höfum aðgætt eða rannsakað til fulls, og sem gáfu fýsnum vorum fögur nöfn, til að gylla þær fyrir oss. Þá munum vèr marga syndsamlega eptirlöngun, sem vèr reyndum til að skýla, ekki einúngis fyrir öðrum, heldur og jafnvel fyrir sjálfum oss; mörg heimskuleg áform, margan eigingjarnan tilgang, sem var hvöt og undirrót athafna vorra; margar spilltar tilhneigíngar, sem komu oss einatt til að óska þess, að heimsins lystíngar mættu verða eilífar og óhegndar; marga haturs og heiptar tilfinníngu, sem skemmdi hjörtu vor oss óafvitandi; mörg syndsamleg fyrirtæki, sem oss einúngis vantaði tækifæri til að framkvæma, og sem vèr töldum eins og ekki neitt, af því þeim aldrei varð framgengt, og í einu orði: allar þessar breytilegu geðshræríngar og tilhneigíngar, sem fylgdu hver á eptir annari innra hjá oss, munu þá renna upp fyrir oss og sýna oss vora sönnu mynd. En ekki munu einúngis yfirsjónir vorar verða leiddar í ljós og hið illa, sem vèr höfum drýgt með hugrenníngum, orðum og verkum, heldur einnig hirðuleysi og tómlæti vort í að gjöra hið góða. Þá munum vèr verða minntir á svo ótal margt, sem vèr höfum látið ógjört og aldrei tekið

iðrun fyrir; á svo ótal margar kríngumstæður, sem bentu oss á að fylgja vorri betri náttúru og draga sannleikans taum, en sem vèr byrgðum augu vor fyrir, blindaðir af eigingirni, ábatavon, eða girndum vorum; á svo ótal mörg tækifæri, sem Guðs náð gaf oss til að breyta vel eða gjöra öðrum gott, en sem vèr næstum því ætíð lètum ónotuð; á svo mikla vanþekkíngu og fáfræði í vorum sáluhjálparefnum, sem vèr vorum sjálfir skuld í; á svo mörg atvik í lífi voru, sem áttu að miða til að opna augu vor, en sem ekki gjörðu annað en blinda oss enn meir, af því vèr elskuðum myrkrið meir en ljósið; á svo margt gott, sem vèr hefðum getað komið til leiðar með orðum og eptirdæmi, en sem vèr höfum hindrað með löstum vorum; á svo margar sálir, sem vèr hefðum getað leitt af glötunarinnar vegi, ef vèr ekki hefðum verið eins skeytíngarlausir; á svo marga daga, stundir og augnablik, sem vèr hefðum getað varið til að undirbúa oss undir eilífðina og í þjónustu guðsríkis, en sem vèr höfum burtsóað í lèttúð og hugsunarleysi. Og það, sem í þessu efni er hvað óttalegast, er það, að þetta er nú sá hluti æfi vorrar, sem í vorum augum er einna saklausastur, og sem ekki skilur eptir í hjörtum vorum neinar sèrlegar ásakanir samvizkunnar, heldur einúngis söknuð og tómleika. Ó, hvílíkt hugarangur hlýtur það á síðan að vekja í sálum allra þeirra, sem deyja í syndum sínum, að hafa burtsóað svo miklum hluta þessa lífs

í heimsins þjónustu, þar sem þeir samkvæmt Guðs náðar fyrirheitum hefðu getað höndlað eilíft líf, hefðu þeir helgað hann Guði! Ó, hvílíkt hugarangur hlýtur það að vekja í sálum þeirra, að hafa látið Guðs náð verða til ónýtis á sèr, að hafa látið allar hans áminníngar, allar hans aðvaranir og allar hans laðanir og bendíngar verða árangurslausar; að hafa vanbrúkað hans gáfur og varið þeim svo illa; að hafa verið uppfræddir í Krísts sáluhjálplega lærdómi og getað gengið við ljós hans sannleiksorða; en hafa fyrirlitið það og aðhyllzt myrkrið! Ó, hvílíkt hugarangur hlýtur það að vekja í sálum þeirra, ekki einúngis sjálfir að hafa gengið á glötunarinnar vegi, heldur einnig leitt aðra þangað og hneykslað þá með orðum og eptirdæmi, að hafa spillt þeim saklausu og afvega leitt hina breysku! Ályktið ekki af þessu, kærir bræður! að það sè til einkis að efla sína sáluhjálp með ótta og andvara, fyrst enginn geti staðizt í Guðs rèttlætis dómi. Gætið þess, að hann er ekki einúngis rèttlátur, heldur og náðugur og miskunsamur dómari, og dragið af því þá ályktun, að yðar eilífa farsæld útheimti, að þèr nú þegar snúið yður til hans með heitum iðrunartárum, og helgið honum yðar ókomnu æfistundir, svo þèr ekki komið til dómsins, heldur farið frá dauðanum til lífsins. Amen.

# 53. hugvekja.

Sálm. 73., 18.—19. „Sannarlega setur þú þá óguðlegu á hálku; þú lætur þá falla niður í grunn. Hversu sviplega eyðileggjast þeir! þeir fyrirfarast og taka enda með skelfíngu."

Guðsorð brýnir svo þráfaldlega fyrir oss þann sannleika, „að hinir óguðlegu muni fyrirfarast og taka enda með skelfíngu". En þó á það alltaf við, sem skáldið segir:

„Margir ætla, fyrst ekki strax
á fellur hefndin sama dags,
Drottinn þá aldrei muni meir
minnast á neitt, er gjörðu þeir".

þeir halda, að allt jafnist í dauðanum, og leggja ekki trúnað á það, sem guðsorð segir oss um eilífa glötun og eymdarástand hinna óguðlegu í eilífðinni; og að þetta sè fullkomin sannfæríng þeirra, sèst af því, að þeir lifa eins og enginn Guð væri til, engin eilífð og enginn dómur eða reikníngskapur; þeir lifa andvaralaust í holdlegum munaði, ágirnd, lygi, undirferli, rangsleitni og alls konar óráðvendni, og skipast ekki við neinar áminníngar. En þó megum vèr ekki hætta að áminna; heldur eigum vèr að taka sjálfum oss og öðrum vara fyrir því að „fyrirlíta ríkdóm Guðs gæzku, þolinmæði og langlundargeðs, sem vill leiða oss til yfirbótar; svo vèr ekki með harðúð og iðrunarlausu hjarta söfnum sjálfum oss reiði á degi reiðinnar og opinberunar Guðs rèttdæmis, sá er sèrhverjum mun endurgjalda eptir hans

verkum: þeim, sem með stöðugleika í góðu verki leita vegsemdar, heiðurs og ódauðleika, eilíft líf; en hinum, sem mótþróanlegir eru og ekki trúa sannleikanum, heldur hlýðnast ranglætinu, bræði og reiði" (Rómv. 2., 4.—8.). Þegar frelsari vor talar um hinn ríka mann, sem vaknaði í helvíti og kvölunum (Lúk. 16., 19.); þegar hann á öðrum stað talar um þann orm, sem ekki deyr, og þann eld, sem ekki slokknar (Mark. 9., 44.); þegar hann með berum orðum segist á dómsdegi muni ávarpa hina óguðlegu með þessum orðum: „farið frá mèr, bölvaðir! í þann eilífa eld, sem búinn er Djöflinum og hans árum" (Matth. 25., 41.), og þegar hann bætir því við, „að þessir muni fara til ævarandi kvala, en þeir góðu til eilífrar sælu": höfum vèr þá nokkurn rètt til að draga úr orðum hans, eða leggja í þau mildari meiníngu, til að hughreysta þá, sem lifa í lyst holdsins, fýsn augnanna og drambsömu líferni? Fjarri fer því; miklu fremur eigum vèr að taka þann lærdóm guðsorða alvarlega fram, að óguðlegir taka enda með skelfíngu. Og þenna lærdóm staðfestir samvizka þín, syndugur maður! hún segir þèr, að það sè heilagur og rèttlátur Guð til, sem hefir skrifað sitt lögmál í hjarta þitt og sem dæmir þig í vitnisburði samvizku þinnar; og þó þú sjáir kjörum mannanna stundum misjafnt útbýtt í þessu lífi, þá guðhræddu stynja undir krossins þúnga, en óguðlega baða í rósum; guðhrædda líða skort, en óguðlega hafa allsnægtir; guðhrædda vera fyrirlitna og

ofsókta, en óguðlega í mestu metum: þá láttu þetta ekki hagga trú þinni á heilagan og rèttlátan Guð. Og svo framarlega sem heilagur og rèttlátur Guð er til, svo sannarlega „hljótum vèr allir að birtast fyrir hans dómstóli, svo hver einn fái laun eptir sinni breytni í líkamanum, hvort sem hún hefir verið góð eða vond" (2. Kór. 5., 10.); og þegar dómsins stund upp rennur, þá „taka óguðlegir enda með skelfíngu." Svo vèr ekki skulum sofna í holdlegu andvaraleysi og halda, að það „sè friður og öllu óhætt;" svo að sá ójöfnuður, sem sýnist vera á kjörum manna hèr í lífi ekki skuli koma oss til að fyrirlíta guðsorð og daufheyrast við aðvörunum samvizku vorrar, þá birtir Guð oss einatt rèttlæti sitt einnig í þessu lífi, og lætur viðburðanna rás og forlög heilla þjóða og einstakra manna staðfesta þann sannleika, sem guðsorð og samvizkan brýna fyrir oss. Hversu mörg merki upp á Guðs hegníngardóma finnum vèr ekki í heilagri ritníngu og í mannkynssögunni yfir höfuð? Eyðileggíng heilla þjóða og voldugustu ríkja, stríð, hallæri, drepsóttir og aðrar plágur, sem Drottinn sendir út yfir löndin, tala alvarlega til vor um hans hegnanda rèttlæti. Og sè það nú sá sami Guð, sem þegar hèr í lífi auglýsir rèttlæti sitt, fyrir hvers dómstóli vèr á síðan eigum að birtast, hvernig getur þá nokkur verið svo blindur og hugsunarlaus, að ímynda sèr, að Guðs rèttlæti nái ekki út yfir dauðann, eða dirfzt að segja, að hinir

óguðlegu og hinir guðhræddu inngangi hvorirtveggja í dauðanum til sama friðar og sælu? En þó einhver vildi efast um sannleika guðsorðs og rengja vitnisburð samvizku sinnar um það, að ólíkt endurgjald bíði guðsbarna og hinna óguðlegu í öðru lífi, þá mætti hann þó sannfærast um þetta af eðli hlutarins sjálfs; því þó það væri mögulegt, að hinir óguðlegu fengju inntöku í himnaríki, þá væri það þó enginn sælustaður fyrir þá, af því þeir skilja hèr við með því hugarfari, sem hvorki getur þráð þá sælu, nè notið þeirrar gleði, sem útvöldum er fyrirhuguð. Hold og blóð getur ekki erft guðsríki, og guðsorð heitir oss ekki munaði nè holdlegri gleði, ekki gulli nè silfri nè fánýtri hègómadýrð í öðru lífi; en það eru þó einmitt þess háttar hlutir, sem heimsins og holdsins þrælar hafa fest allan hug og hjarta við og sem þeir hafa mestar mætur á, og því er það fyrir manna sjónum ómögulegt, að hinar syndum spilltu og Guði fráhverfu sálir geti svo gjörsamlega breytzt allt í einu, að þær fái löngun og hæfilegleika til að njóta þeirrar sælu, sem þær hèr í lífi hafa fyrirlitið. Eða getum vèr ímyndað oss, að guðlastarinn geti allt í einu tekið þeim sinnaskiptum, að hann hafi yndi af því að lofa og vegsama Guð; að hinn ágjarni fái allt í einu óbeit á þeim mammóni, sem hann hèr í lífi tilbað; eða að sælkerinn, hinn heiptrækni og hinn öfundsjúki, og í stutti máli: allir þeir, sem elska heiminn og þá hluti, sem í heiminum eru, muni geta

fundið til sælu í himnaríki, sem ekki hefir veraldlegar lystisemdir að bjóða? Nei; vissulega hljóta allir þeir, sem festa hjörtu sín við þetta tímanlega, að missa í dauðanum allt, sem þeir hafa mestar mætur á. Það stendur því stöðugt, að „hinir óguðlegu fyrirfarast og taka enda með skelfíngu." Hryndum ekki þessum hugleiðíngum frá oss, kristnir menn! heldur látum þær fá inngöngu í hjörtu vor; látum þær vekja oss og koma oss til að leita Guðs í tíma, svo vèr ekki fyrirförumst með heiminum og tökum enda með skelfíngu!

Æ, Drottinn! miskuna þú oss og sendu oss anda iðrunarinnar, svo vèr snúum oss til þín meðan náðartíminn yfir stendur, svo vèr ekki tökum enda með skelfíngu, heldur megum fara hèðan í friði, í þínum blessaða friði, og fá inntöku í þitt himneska ríki, sem er friður og fögnuður í heilögum anda. Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

---

# 54. hugvekja.

Efes. 6., 11. „Íklæðizt Guðs alvæpni, svo þèr getið staðizt Djöfulsins vèlabrögð."

Í þessu lífi erum vèr alltaf undirorpnir ýmislegum freistíngum, sem vilja draga hjörtu vor frá Guði og flækja þau í neti syndsamlegra girnda; þess vegna býður postulinn oss að

íklæðast Guðs alvæpni, svo vèr getum staðizt Djöfulsins vèlabrögð; hann bendir oss með þessari áminníngu til þeirrar hættu, sem oss er búin, ef vèr leyfum sálaróvinum vorum að ráðast á oss vopnlausa og óviðbúna, og sýnir oss, hversu nauðsynlegt það er, að hertygjast öllum kristilegum dyggðum, hafa sífelda árvekni og aðgæzlu á sjálfum oss og vera „brennandi í andanum", svo vèr ekki gefum freistíngunum höggstað á oss, nè færi á að leiða oss afvega, heldur höldum kappsamlega áfram á vorum sáluhjálpar vegi að því helgunar og fullkomnunar takmarki, sem oss er fyrirsett. Og vissulega þurfum vèr, kærir bræður! á guðlegum vopnum og sífeldri árvekni að halda. Án þessa getum vèr ekki haldið trúnni og varðveitt góða samvizku: án þess getum vèr ekki verið sannkristnir; því hið kristilega trúarlíf er innifalið í stöðugri löngun eptir, að guðsríki megi fullkomnast í vorum hjörtum; í stöðugri ástundun eptir að líkjast frelsara vorum Jesú Kristi; í stöðugri andvörpun yfir vorri syndabyrði, sem vill draga sálir vorar frá Guði; í daglegu stríði milli andans, sem vill lypta oss upp yfir vorar holdlegu girndir, og holdsins, sem vill festa oss við hið jarðneska. Þannig er hinu kristilega trúarlífi varið; það verður daglega að þagga niður þær girndir, sem veita Guðs vilja mótstöðu, daglega að deyða þær óstýrilátu tilhneigíngar, sem vilja tæla og lokka oss af dyggðanna vegi, og í stuttu máli: daglega kosta kapps um að taka framförum í guð-

rækilegu og sannkristilegu líferni. Ef vèr slá-um slöku við þetta og förum að gefa girndum vorum lausan taum, þá er oss hætta búin, þá hættum vèr einlæglega að andvarpa yfir breyskleika vorum, og hættum að óska þess af hjarta, að guðsríki fullkomnist í hjörtum vorum; þá hættum vèr við vort helgunarverk, hættum að bera umhyggju fyrir sálu vorri, hættum að taka á móti áhrifum guðlegrar náð-ar, hættum að vera kristnir. Það er nú að vísu satt, að allar syndir eru ekki jafn-stórar, eða eins hegníngarverðar í Guðs augum; en þegar vèr ætlum að heimfæra reglur fyrir þessu upp á líferni vort, verða þær hvorki almennar nè öldúngis áreiðanlegar, því stærð syndarinnar er mikið komin undir því, hvernig ástatt er fyrir oss. Hèr er nú ekki talað um þau boð-orð, sem með berum orðum og beinlínis eru tekin fram í guðsorði; því enginn getur efazt um, að það er ætíð mjög syndsamlegt og hegn-íngarvert, að brjóta þau vísvitandi og af ásettu ráði, heldur um aðrar daglegar yfirsjónir, heipt og reiði, lastmælgi, eigingirni, hègómadýrð, sællífi, tvöfeldni o. s. frv. Stærð þessara synda er komin undir spillíngu hjartans, því þær geta bæði sprottið af breyskleika og ásetn-íngi. En hvort heldur er, þá er það nauð-synlegt fyrir þig, kristinn maður! að íklæðast Guðs alvæpni, svo þú getir barizt hraustlega við þessa óvini sálar þinnar. Þú þekkir ekki til fulls spillíngu hjarta þíns, og veizt ekki, hvílík hætta þèr kann að vera búin af þínum

daglegu brestum, eða hvort þeir muni leiða þig að lokunum, ef þú ekki með bæn og árvekni reynir í tíma til að af leggja þá. Enginn á verra með að dæma um hjartalag sitt, en sú sál, sem misst hefir alvöru og árvekni í sínum sáluhjálpar efnum. Glæpamaðurinn, sem beinlínis brýtur Guðs boðorð, getur ekki dulið glæpi sína fyrir sjálfum sèr, og hjá hinum guðhrædda er samvizkan svo næm, að hann með innilegu angri finnur til breyskleika síns og ávirðínga sinna; en sá, sem hefir kastað Guðs alvæpni frá sèr, sá, sem stendur vopnlaus og varnarlaus og hefir leyft hálfvelgju og kæríngarleysi inngöngu í hjarta sitt, á bágt með að þekkja sitt eigið sálar ástand, því hálfvelgjan deprar hjá oss trúarinnar ljós og eykur vort andlega myrkur, með því að æsa girndir vorar; sèrhver ný ótrúmennska við Drottinn er eins og nýr skýflóki, sem dregur fyrir sál og sinni, og byrgir fyrir oss þau guðlegu sannindi, sem snerta vora sáluhjálp, svo hjarta vort smátt og smátt spillist, samvizkan þagnar og ljós trúarinnar verður daufara; vèr förum þá smám saman að búa oss til lífernisreglur, sem minka og fegra yfirsjónir vorar fyrir sjálfum oss; því meiri taum sem vèr gefum vorri holdlegu náttúru, því tilfinníngarlausari og skeytíngarminni verðum vèr um skyldur vorar og Guðs boðorð, og fremjum það þá hiklaust, sem vèr áður ekki gátum gjört án samvizkunnar mótmæla. En þegar þannig er komið fyrir þèr, syndugur

maður! hver segir þèr þá, að þú leggir rèttan dóm á þínar daglegu yfirsjónir, eða að það, sem þèr þykir lèttvægt, sè það í raun og veru? Þú hlýtur sjálfur að finna til þess, að það er einhver deyfð og drúngi yfir hjarta þínu, sem þú ekki sjálfur skilur í; að það felst eitthvað í djúpi samvizku þinnar, sem þú ekki skoðar nema til hálfs, og að þú yfir höfuð að tala dæmir of lint og lauslega um þitt sálarástand. Ó, Guð! þú aðgreindir svo vel lífið og dauðann, ljósið og myrkrið í mannlegu hjarta; en hálfvelgjan og hirðuleysið blandar þessu saman og gjörir hjartað að voðalegu djúpi, sem enginn getur kannað, fyr en þú á dómsins degi leiðir í ljós það, sem í myrkrunum er hulið, og gjörir ráð hjartnanna opinber. „Íklæðizt því Guðs alvæpni, kærir bræður! svo þèr getið staðizt Djöfulsins vèlabrögð.“ Gjörið yður það að daglegri reglu, að bera hugarfar yðar og breytni saman við Guðs heilaga orð, og forðast allt, sem hans vilja er gagnstætt: þá munuð þèr geta haldið trúnni, þessum guðlega skildi, „með hverjum þèr fáið slökkt öll eldleg skeyti hins vonda;“ þá munuð þèr fyrir daglega bæn og stöðuga árvekni vinna trúarinnar sigur og taka æ meiri og meiri framförum í helguninni, svo þèr að lokunum fáið úr býtum borið verðlaun sigursins, eilífa kórónu rèttlætisins á himnum.

Gef þú oss öllum náð til þess, himneski faðir, í Jesú nafni! Amen.

---

# 55. hugvekja.

1. Pèt. 5., 5. „Guð mótstendur dramblátum, en lítillátum veitir hann náð.”

Drambsemin hefir frá alda öðli verið einhver hin vesta plága mannkynsins, og við engum lesti er mönnunum hættara en henni. það þarf í sannleika lítið tilefni til, að maðurinn fái háa þánka um sjálfan sig og hrokist upp af því ágæti og þeim yfirburðum, sem hann þykist hafa yfir aðra. En við það missir hann gjörsamlega sjónar á ófullkomlegleika sínum og brestum sínum, og sviptir sjálfan sig öllu færi á að betrast og iðrast synda sinna. þannig leiðir drambsemin ekki einúngis af sèr fyrirlitníngu fyrir öðrum mönnum, heldur truflar hún einnig það auðmýktarinnar samband, sem á að vera milli heilags Guðs og syndugs manns, milli hins almáttuga skapara og veikrar mannskepnu. þess vegna varar líka ritníngin oss við drambseminni, og segir oss, að Guð mótstandi þeim, sem ala þenna löst hjá sèr, en veiti auðmjúkum og lítillátum sína náð. Af skorti á auðmýkt og undirgefni undir Guðs vilja sprettur sèrhver synd og sèrhver óhlýðni við Guðs boðorð, og af syndinni sprettur öll ófarsæld mannanna; en þar á mót er sönn auðmýkt skilyrði fyrir allri vorri farsæld, af því hún vekur hjá oss sanna sálarrósemi, hvort heldur vèr lítum til hins ókomna, til hins yfirstandanda, eða til hins umliðna tíma. Áhyggja og kvíði fyrir ókomna tímanum

óspekir einatt hjarta mannsins, og gjörir líf hans óyndislegt og beiskjufullt. Mikið af þeirri ófarsæld, sem er í heiminum, kemur til af því, að menn bera of mikinn kvíðboga fyrir hinu ókomna; en þetta mundu þeir ekki gjöra, ef þeir hefðu kristilega undirgefni undir Guðs vilja og þaraf leiðandi trúnaðartraust. Sál hins auðmjúka manns truflast ekki af áhyggjum og kvíða, því hann veit, að ókomni tíminn leikur í Guðs forsjónar hendi; að áhyggjur vorar og sorgir geta engu breytt í hans eilífu ráðsályktunum, og að það er óhætt, að varpa allri sinni áhyggju upp á hann. Þó er þetta ekki svo að skilja, að guðsorð mæli fram með iðjuleysi og óvarkárni, eða banni oss að hafa skynsamlega fyrirhyggju fyrir högum vorum. Hinn trúaði treystir Drottni, en freistar hans ekki; hann er sjálfur iðinn og kostgæfinn eins og allt væri undir honum komið, en felur Drottni ókvíðinn áranguriun af vinnu sinni; hann veit, að áform hans eiga að vera skynsamlega stofnuð, en hann veit líka, að það er undir Guði einum komið, hvernig þau heppnast. Fyrirhyggja hans er, eins og postulinn segir, „fölskvalaus, friðsöm, sannsýn, full miskunar og góðra ávaxta" (Jak. 3., 17.); hann hefir aldrei önnur meðul til framkvæmdar áforma sinna, en þau, sem guðsorð og skynsemin leyfa honum; hann hefir frið við alla menn, svo mikið sem í hans valdi stendur; hann er sanngjarn og leitast ekki við að koma neinu til leiðar með kærleikslausum ákafa;

hann ætlar engum illt og vill heldur þola órèttinn en gjöra hann; og í stuttu máli: öll hans fyrirhyggja byggist á guðsótta og stjórnast af undirgefni undir Drottins vilja; hann veit, að hann er minni allri Guðs miskunsemi og trúfesti, og lætur sèr nægja hans náð. Það, sem enn fremur er vant að gjöra mannlegt líf svo óþreyjufullt og armæðusamt, er óánægja með yfirstandandi tímann; mönnum þykir optastnær eitthvað að kjörum sínum, vonir þeirra bregðast, óskir þeirra uppfyllast ekki, fjármunirnir eyðast, heilsan bilar og þeir verða óánægðir og eirulausir, hve lítið sem á bjátar og útaf ber. En, hvernig sem ástatt er, finnur sál hins trúaða ætíð hugsvölun í undirgefninni undir Guðs vilja, og kristileg auðmýkt kennir henni að taka vel hverju því, sem hann lætur að höndum bera; af því hinn trúaði veit og treystir því, að allt sem kemur frá himnaföðurnum muni miða sèr til hins bezta, og að hann muni gjöra enda á sèrhverri þraut, þegar hans blessaður vili sèr það hentugast; hann trúir og treystir því, að almætti, speki og gæzka stjórni öllu því, sem við ber í heiminum, og að hinn alvaldi stjórnari allra hluta elski oss og beri nákvæma umhyggju fyrir oss. Já, kærir bræður! Guð missir aldrei sjónar á vorri sönnu farsæld; ef hann hirtir oss, þá gjörir hann það til að frelsa oss; ef hann lítillækkar oss, þá gjörir hann það vegna vorrar eilífu farsældar; ef hann upp hefur oss, þá hefir það einnig sama tilgang, og í hverja

helzt stöðu, sem honum þóknast að setja oss, þá er það alltaf sá sami faðirinn, sem leiðir oss, sami vinurinn, sem stjórnar oss, sami verndarinn, sem gætir vor, sami leiðtoginn, sem fylgir oss og vísar oss veginn til eilífs lífs. Þessi hugleiðíng veitir hinum trúaða daglega huggun, svo hann er ánægður, auðmjúkur og glaður, hvað sem honum mætir. Hinn holdlega sinnaði endurminnist með óánægju þeirra mótlætínga, sem hann hefir orðið fyrir á umliðna tímanum; hann rifjar helzt upp fyrir sèr hið mótdræga, sem fyrir hann hefir komið í lífinu, og kennir það óheppni sinni eða öðrum mönnum, og þessi endurminníng vekur hjá honum enn meiri gremju og óánægju. Hinn trúaði lítur öðru vísi á sitt umliðna líf; hann skoðar allt, sem honum hefir mætt, eins og merki upp á Guðs forsjón og föðurlega handleiðslu; að vísu angrast hann jafnan af endurminníngu synda sinna; en þessi endurminníng gefur honum þó ætíð tilefni til að þakka Drottni, sem miskunaði honum, tók hann til náðar og gaf honum upp alla skuldina; þess vegna hefir hann einnig fyrirgefið af hjarta þær mótgjörðir, sem hann hefir orðið að þola af öðrum mönnum; hann lætur umliðna tímann kenna sèr að forðast allt, sem Guði er á móti, kenna sèr að hafa vakanda auga á sjálfum sèr, á girndum sínum og tilhneigíngum, svo hann á ókomna tímanum geti haldið trúnni og góðri samvizku og reynzt Guði trúr til dauðans.

Það er engin sannarleg huggun til í þessu

lífi, kærir bræður! nema sú eina, að gefa sig í auðmýkt undir Guðs vilja og vilja ekki annað en það, sem hann vill. Þetta er hinn mikli leyndardómur guðhræðslunnar, það er sá dýrmæti fjársjóður trúarinnar og hin sanna spekin.

Felum oss því og öll vor efni í auðmýkt hjartans Guðs góðum og náðugum vilja á hendur; biðjum hann að vera hjá oss, vaka yfir oss og stjórna öllum vorum lífskjörum; biðjum hann ætíð af hjarta að gæta vor fyrir sèrhverri synd, en gefa oss náð til þess, að laga vort hugarfar og alla vora breytni eptir hans heilaga vilja; biðjum hann af hjarta með þessum orðum sálmaskáldsins:

„Vertu, Guð faðir! faðir minn,
í frelsarans Jesú nafni;
hönd þín leiði mig út og inn,
svo allri synd eg hafni!" Amen.

---

# 56. hugvekja.

Lúk. 15., 10. „Þannig munu englar Guðs gleðjast yfir einum syndugum, sem bætir ráð sitt."

Jafnvel vèr, sem þó erum syndugir og ófullkomnir, gleðjumst af því, þegar vèr sjáum, að hið góða vinnur sigur yfir lyginni, dyggðin yfir löstunum, ljósið yfir myrkrinu. Vèr gleðjumst af því, þegar vèr sjáum, að syndarinn snýr frá villu síns vegar, að hinn óguðlegi lætur af sinni illu breytni og verður vænn og ráð-

vandur maður. Vèr gleðjumst þá yfir almætti guðlegrar náðar, sem hefir getað vakið hinn andvaralausa og komið honum til að sjá að sèr og leita Guðs. En hvílík gleði hlýtur þá að gagntaka hjarta syndarans sjálfs, þegar hann vaknar af sínum syndasvefni; þegar hann verður þess var, að hann er tekinn til náðar af Guði, og kominn í tölu guðsbarna. Að sönnu er iðranin samfara beisku angri, þegar syndarinn hugsar til sinnar fyrri villu; hugsar til þess, hvernig hann hefir styggt og móðgað góðan Guð, hvernig hann svo lengi hefir daufheyrzt við köllun Guðs náðar, við öllum hans bendíngum og áminníngum, og hann hugsar titrandi til þess, hvernig hann áður í holdlegu andvaraleysi gekk á barmi glötunarinnar. En þessi beiskja iðrunarinnar miðar einúngis til þess, að gjöra hinn iðrandi syndara ennþá árvakrari eptirleiðis, og láta hann ennþá fastar og innilegar umfaðma Guðs náð; en skerðir ekki þá gleðitilfinníngu, sem gagntekur hjarta hans við íhugun guðlegrar miskunar. Ó, hvílík fagnaðar og sælu stund er það fyrir syndarann, þegar hann iðrast synda sinna; þegar hann, eins og hinn glataði sonur, varpar sèr í útbreiddan náðarfaðm síns himneska föður og heyrir þessi huggunarorð af hans munni: „Sonur! þèr eru þínar syndir fyrirgefnar!“ Á þess háttar sælustundum lífsins, sem eru fullar af óumræðilegri huggun og helgum fögnuði, getur syndaranum, sem er frelsaður og tekinn til náðar, komið til hugar að biðja þannig: Æ,

nú er eg svo viss um mína sáluhjálp, að eg vildi feginn mega frelsast frá þessum dauðans líkama og frá freistíngum heimsins, og komast á fund frelsara míns og vera hjá honum! En það er opt vísdómsfullur vili Drottins, að þeir, sem hafa iðrazt synda sinna og snúið sèr til hans, skuli enn dvelja hèr nokkra stund; og þetta gjörir hann til að reyna þá í freistínganna skóla og rótfesta þá enn betur í hinu góða, og til þess að þeir skuli styrkja aðra í trú og guðsótta og þannig sýna, að þeirra trú sè sönn og iðranin einlæg. Í þessum daglegu framförum í dyggð og guðsótta er helgunin innifalin. Að sönnu verða hinir endurfæddu alltaf varir við freistíngarnar, við árásir heimsins og ginníngar holdsins; en þegar þeir halda sèr fast við Drottinn, þá er þó þeirra jarðneska vegferð full af huggun og gleði. Það er huggun, sem engin veraldarvizka getur gefið; það er andleg gleði, sem er innifalin í því, að þekkja Guðs, vors himneska föðurs kærleika í Jesú Kristi, Drottni vorum. En hefir nokkur dauðlegur maður lært til fulls að þekkja þenna kærleika? Nei; því hann er eilífur og óumræðilegur. En því betur sem vèr lærum að þekkja hann, því betur sem vèr lærum að skilja hans heilaga orð og heimfæra það til vor, því meiri orsök höfum vèr til að þakka honum og vegsama hann. Áður var það eitt, sem dróg úr huggun og gleði vorri og byrgði fyrir oss náðarinnar sól; það var syndin; það voru vorar syndir; en nú þekkj-

um vèr vorn endurlausnara og vitum, að vèr erum rèttlættir af náð fyrir trúna á hann og að það er „engin fordæmíng framar yfir þeim, sem eru í Jesú Kristi" (Rómv. 8., 1.). Þekkíngin á Guði og Jesú Kristi og á vorum sáluhjálparvegi er því ótæmandi fagnaðar uppspretta fyrir hjarta iðrandi syndara, þar sem líf hins óguðlega er næsta tómlegt og gleðisnautt. Fèkkst þú ekki að reyna þetta, syndugur maður! Áður en þú iðraðist og snèrir þèr til Guðs, þá var hjarta þitt tómt og fullt af leiðindum; líf þitt var fullt af áhyggjum og sorgum og þú gazt ekki búizt við, að neitt betra tæki við hinu megin grafarinnar. En sèrtu nú fyrir Guðs náð endurfæddur, þá er hjarta þitt fullt af trú, og það er hin sanna fyllíng; þá skoðar þú líf og dauða í trúarinnar ljósi, og gengur í þessu ljósi eins og ljóssins barn; í öllu, sem þèr mætir, sèr þú þá hönd þíns himneska föður og beygir þig með auðsveipni undir hans voldugu hönd og lætur hann leiða þig; lætur hann aga þig, svo þú af hirtíngunni lærir að verða ennþá betra og hlýðnara barn. Og að Guð gefur þèr krapta til þessa, hlýtur enn fremur að veita þèr huggun og gleði. Vèr getum ekki glaðzt af þekkíngu Drottins vors, nema vèr jafnframt vöxum í náð, en enginn vex í náð, nema sá sem gengur á Guðs vegi; og ef vèr göngum á hans vegi og fyrir hans augsýn, þá „hlaupum vèr ekki svo sem upp á óvissu, berjumst ekki sem sá, er í vindinn slær" (1. Kor. 9., 26.), heldur erum full-

vissir um það, að Drottinn er með oss og að hann mun frelsa oss frá öllu illu og leiða oss til síns himneska ríkis. Þá getum vèr tekið undir með postulanum Páli og sagt: „Eg hefi barizt góðri baráttu, hlaupið fullkomnað, trúnni haldið. Að síðustu er handa mèr afsíðis lögð kóróna rèttlætisins, sem Drottinn, sá hinn rèttláti dómari, mun gefa mèr á efsta degi; þó ekki einúngis mèr, heldur öllum, sem hafa þráð hans dýrðlegu tilkomu" (2. Tím. 4., 7.—8.). Sú hin mikla guðshetja, sem talaði þessi trúarinnar orð, hafði áður ofsókt Krists söfnuð, en var tekinn til náðar, tekinn í tölu guðsbarna. Þess vegna skaltu ekki örvænta, kristinn maður! þó þú hafir vikið af Guðs vegi, nè vantreysta hans miskunsemi, heldur flýja til Guðs og gjöra það án tafar, og láta hans náð leiða þig aptur á rèttan veg. Þá gengur þú hinn þrönga lífsins veg, og hafnar allri syndsamlegri gleði, en Drottinn mun styrkja þig með sinni heilögu huggun; og ef þú fylgir honum trúlega í blíðu sem stríðu, þá munu guðsbörn hèr á jörðunni og hans englar á himnum gleðjast yfir því, að þú bættir ráð þitt. Ó, Guð! gefðu oss náð til þess að iðrast vorra synda og hlýða þinni röddu, svo vèr, rèttlættir af náð, fáum inntöku í þitt himneska ríki, sem er rèttlæti, friður og fögnuður í heilögum anda! Amen.

---

# 57. hugvekja.

Rómv. 7., 24.—25. „Eg vesæll maður! hver mun frelsa mig frá líkama þessa dauða? Eg þakka Guði fyrir Drottinn vorn, Jesúm Krist."

Vèr megum ekki furða oss á því, kærir bræður! þó hjá sannkristnum manni vakni einatt sár og innileg löngun eptir að leysast hèðan og vera með Kristi, því að þetta vort jarðneska líf er bæði svo syndum spillt og mæðufullt. Vissulega er þetta líf syndum spillt, og til að sannfærast um það, þurfum vèr ekki annað en renna augunum inn í vorn eigin barm og gæta þess, hversu ófullkomin iðrun vor er og hve lítið oss verður ágengt í voru helgunarverki. Kristilegt líf er innifalið í daglegri iðrun og apturhvarfi; en hvílíka óbeit hefir hið syndum spillta hjarta á því, að verða harmþrúngið og sundurkramið, og hve fljótt heimtar það ekki huggun undir eins og það fer að angrast af syndum sínum! Hversu gjarnt er það ekki á að afsaka sig og fegra sínar ávirðíngar! Og þegar það loksins er komið til meðvitundar um sína syndasekt, þegar það loksins er orðið harmþrúngið og sundurkramið, hve tregir erum vèr þá aptur til að trúa og treysta Guðs náðarríku fyrirheitum í Jesú Kristi. Hversu veik, óstöðug og efablandin er einatt vor trú, og hversu ófullkomin er ekki vor helgun; hversu köld er ekki elska vor til Guðs og manna, og hve lítinn áhuga höfum vèr ekki á útbreiðslu guðs-

ríkis meðal vor! Já, jafnvel vorar guðræknis æfíngar bera vott um hálfvelgju og hræsni, um vantraust og óþolinmæði, um eigingirni og elsku til heimsins, um skeytíngarleysi og hjartans þverúð. Þegar vèr ætlum að biðja Guð, hversu bágt eigum vèr þá ekki stundum með að fá oss til andaktar, og þegar vèr þá loksins erum farnir að biðja Guð, hversu óstöðugt og hvarflandi er þá ekki hjarta vort, svo vèr höfum fulla ástæðu til að biðja Guð náðarsamlega að fyrirgefa oss þessa vora fánýtu bæn; náðarsamlega að fyrirgefa oss þær hègómlegu og syndsamlegu hugsanir, sem hafa læðzt inn í hana. Þannig er einnig líferni voru varið, elsku vorri til Guðs og lotníngu vorri fyrir honum. Allt ber það vitni um vora syndaspillíngu, um breyskleika vorn og ófullkomlegleika. Æ! höfum vèr þá ekki orsök til að andvarpa með postulanum og segja: „Eg vesæll maður! hver mun frelsa mig frá líkama þessa dauða”? Og þegar vèr nú enn fremur hugleiðum þann kross, þær þrautir og þjáníngar, sem eru samfara dvöl vorri í þessum vorum jarðneska líkama, hversu mæðufullt er þá ekki þetta líf. Líkami vor er undirorpinn ótal sjúkdómum, sem varpa oss á sóttarsængina, þegar minnst vonum varir; einatt missum vèr ástvini vora og allt, sem vèr unnum heitast í veröldinni; ýmist freistar veröldin vor með sínu glysi og sínum ginníngum, ýmist ofsækir hún oss með heipt og hatri. Vèr erum að velkjast í ólgusjó og ofviðri lífsins, og hrekj-

umst híngað og þangað innan um boða og blindsker. Vèr lifum í sífeldri órósemi og angist, í sífeldri sorg og mæðu, og verðum að hafa samneyti við óguðlega, fláráða og holdlega sinnaða menn. Mætti oss þá ekki hjartanlega langa til að leysast hèðan og vera með Kristi? Mættum vèr ekki af hjarta taka undir með skáldinu og segja: „Hversu mig leysast langar, lifandi Guð, þú sèr"! En þó þetta sè náttúrleg hjartans löngun allra guðsbarna, eigum vèr þó að fela það Guðs alvitru forsjón á vald, hvenær hans eilífu speki þóknast að kalla oss hèðan, og treysta því, að hann muni gjöra það á bezta og hentugasta tíma. Hann hefir sett oss hèr í þenna reynsluskóla, til að undirbúa oss undir annað líf og gjöra oss hæfilega fyrir eilífa sælu. Þess vegna megum vèr ekki mögla yfir hans vísdómsfullu stjórn og mildiríku ráðstöfunum, heldur leitast við að sigra syndina með bæn og árvekni, og umbera mæðu þessa lífs með þolinmæði. Þegar vèr gjörum þetta að marki og miði lífsins, þá lifum vèr Guði; og þó vèr enn eigum að dvelja nokkra stund í þessum dauðans líkama, þá höfum vèr þó umgengni vora á himnum, og förum þegar í þessu lífi að lifa hinu æðra eilífa lífinu í samfèlagi við Guð og Drottinn vorn, Jesúm Krist, svo þó vor ytri maður hrörni, þá endurnýjast þó vor innri maður daglega, þangað til vèr á sáluhjálplegri stund flytjum hèðan í friði inn á friðarins og fagnaðarins land. Þegar postulinn Páll andvarpaði og sagði: „Hver mun

frelsa mig frá þessum dauðans líkama"? þá minntist hann jafnframt Guðs föðurlegu náðar og hans óendanlega kærleika til vor syndugra manna, og því bætti hann þessum huggunarorðum við: „Eg þakka Guði fyrir Drottinn vorn, Jesúm Krist"! Lærum af postulanum, kærir bræður! að bera lífsins byrði með kristilegu og guðrækilegu hugarfari. Þegar hjörtu vor eru hrygg og sundurkramin af endurminníngu vorra synda, af sárri tilfinningu breyskleika vors og óstöðugleika í hinu góða, látum þá þakkláta og auðmjúka endurminníngu guðlegrar náðar renna upp í sálum vorum, þökk Guði fyrir Drottinn vorn, Jesúm Krist, sem hefir eytt afli syndarinnar og dauðans og gefur oss krapta til að sigra synd og dauða, þegar vèr biðjum hann af hjarta og leitum hans með lifandi trúnaðartrausti. Og þegar þrautir og þjáníngar freista vor til möglunar og óþreyju, þegar oss finnst kross mótlætínganna of þúngur fyrir vora veiku krapta, þegar oss liggur við að falla í örvæntíng, og vèr andvarpandi spyrjum: „Hver mun frelsa mig frá þessum dauðans líkama"? Æ! þökkum þá einnig Guði fyrir Drottinn vorn, Jesúm Krist; hann hefir borið hinn þúnga krossinn á undan oss og vísað oss veginn til himinsins; hann hefir sýnt oss, hvernig vèr með undirgefni undir vilja vors himneska föður eigum að bera vorn lèttvæga kross, og hann hefir boðið oss að taka krossinn oss á herðar og fylgja sèr; hann mun líka gefa oss krapta til að bera hann,

því hann leggur engum þýngri byrði á herðar, en hann getur borið. Horfum því ávalt augum trúarinnar á Jesú helga kross, og styðjum oss við hann þegar vèr ætlum að örmagnast undir krossins byrði; göngum síðan hughraustir og vonglaðir í fótspor frelsara vors, þangað til vor lausnarstund upp rennur, og vèr í hans nafni leggjumst til hvíldar á grafarinnar beð: þá er sigurinn unninn, þá er skeiðið fullkomnað, þá erum vèr frelsaðir frá þessum dauðans líkama, og þá verður að oss rètt hin eilífa kóróna rèttlætisins. Amen.

---

# 58. hugvekja.

Gal. 5., 6. „Í Jesú Kristi gildir hvorki umskurn nè yfirhúð, heldur trú, sem ber ávöxt í kærleika."

Ef ekki þyrfti annað til að vera sannkristinn, en að heita kristinn, hafa guðsorð um hönd, hlýða því í heimahúsum, fara til kirkju og ganga til altaris, þá væru sannarlega margir sannkristnir meðal vor, þá væri kristileg kirkja í blómlegu ástandi hjá oss. Því þó þeir menn sèu til, sem sýnast lítilsvirða guðsorð og sakramentin, sem sýnast hafa slitið sig öldúngis lausa frá frelsara sínum Jesú Kristi, þá eru þeir þó ekki margir. Flestir halda því áfram að kalla Jesúm herra, og vilja ekki opinberlega afneita honum, sem er vegurinn, sannleikurinn og lífið. En þegar vèr nú betur

virðum þenna mannfjölda fyrir oss og gefum gætur að líferni hans, og hvað það sèr í lagi er, sem hann tekur sèr fyrir hendur og er að sækjast eptir, þá höfum vèr vissulega orsök til að taka fram þessa áminníngu postulans: „Í Jesú Kristi gildir hvorki umskurn nè yfirhúð, heldur trú, sem ber ávöxt í kærleika". Í Jesú Kristi gildir ekkert nema sönn og lifandi trú, og hin sanna og lifandi trú þekkist af því, að hún ber ávöxt í kærleika. En hvernig er þá þeirri trú varið, sem vèr sjáum svo víða í heiminum? Hvernig er þeim ávöxtum vant að vera háttað, sem trúin ber meðal manna? Þegar vèr gætum að allri þeirri lèttúð og hègómadýrð, allri þeirri óráðvendni, prettum og svikum, allri þeirri lygi og undirferli, öfund, hatri, ómiskunsemi og hjartans þverúð: þegar vèr gætum að allri þeirri kærleikslausu eigingirni, sem einúngis hugsar um sjálfa sig, en skiptir sèr ekki af náúngans farsæld; þegar vèr gætum að öllum þeim syndum og löstum, sem saurga mannlegt líf; þegar vèr virðum fyrir oss alla þá úlfúð, sem truflar frið og kærleiksfulla sambúð hjóna, foreldra og barna, húsbænda og hjúa, og allar þær deilur og þráttanir, sem vekja kulda og jafnvel hatur milli náúnga og vandamanna; þegar vèr skoðum það hið veraldlega hugarfar, sem er svo almennt meðal manna, og hvernig þeir verja lífi sínu einúngis til að afla sèr stundlegra muna, án þess að hafa nokkra löngun eptir Guðs ríki og hans rèttlæti; þegar vèr heyrum

allt það guðlast og gárúnga tal, allt það bölv og formælíngar, allan þann óhróður um náúngann og álas, sem fram gengur af mannlegum vörum og sýnir, hvernig þeirri gnægð hjartans er varið, sem munnurinn mælir af: hvað eigum vèr þá að halda um slíka menn? Geta þeir verið sannkristnir? Mun trú þeirra vera sönn og lifandi, þó þeir kalli sig kristna, heyri guðsorð og gangi til altaris? Fjarri fer því. Beri trúin ekki ávöxt í kærleika, þá er hún dauð, eða rèttara sagt: þá er það ekki trú. Trúin verður að hafa áhrif á hugarfarið og betra það. Ef vèr trúum á heilagan og rèttlátan Guð, þá hljótum vèr að óttast hann, og „af guðsótta víkja frá hinu illa" (Salóm. orðskv. 16., 6.). Ef vèr trúum á Guðs kærleika í Jesú Kristi, þá hljótum vèr „að elska hann, sem elskaði oss að fyrra bragði," og af elsku til hans hlýða hans gæzkuríka vilja. Ef vèr trúum því, að Jesús hefir tilbúið oss stað í föðursins himnesku bústöðum, þá hlýtur þessi trú að lypta huga vorum upp yfir hið jarðneska, og koma oss til að keppa þangað, sem vort rètta föðurland og vor borgarrèttur er. Fyrst þessu er þannig varið, kærir bræður! þá rannsakið yður sjálfa, rannsakið, hvort trúin er lifandi í hjörtum yðar, hvort hún ber ávöxt í kærleika. Innra hjá oss búa óhreinar girndir og tilhneigíngar, sem ekki eru aðgjörðalausar, heldur vilja lokka oss til syndar og klæða freistíngarnar í ginnandi búníng Er nú trú yðar svo lifandi, að hún gefi yður krapta til

að standast áhlaup freistínganna? Innra hjá oss býr tregða til hins góða, tómlæti í að gegna vorum skyldum. Er nú trú yðar svo lifandi, að hún geti yfirbugað þessa tregðu og þetta tómlæti og gjört yður brennandi í andanum, fjöruga til þess, sem gott er, og árvakra í Drottins þjónustu? Innra hjá oss býr óstilling og bræði, sem vill fá oss til að hefna vor, þegar oss er eitthvað gjört á móti, og til að launa illt með illu. Er nú trú yðar fær um að stöðva þessa bræði, og út rýma allri heipt úr hjörtum yðar, svo þèr sèuð „fúsir á að sættast við yðar mótstöðumenn meðan þèr eruð enn á vegi með þeim, fúsir á að „blessa þá, sem yður bölva, gjöra þeim gott, sem yður hata, og biðja fyrir þeim, sem yður gjöra skaða og ofsækja yður (Matth. 5., 25.)? Innra hjá oss býr óþreyja, sem freistar vor til óánægju með vor eigin kjör og til að sjá ofsjónum yfir annara hlutskipti. Er nú trú yðar fær um að upp ræta þetta illgresi úr hjörtum yðar og gjöra yður ánægða með það, sem Drottinn úthlutar yður? Innra hjá oss býr óstillíng og óþolinmæði, sem freistar vor í mótlætinu til að mögla móti Drottins handleiðslu á oss. Getur nú trú yðar hjálpað yður til að út rýma þessari óstillíngu og bera krossinn með þolinmæði og undirgefni undir Guðs vilja? Innra hjá oss býr elska til heimsins og tímanlegra gæða, sem vill fá oss til að gleyma hinum andlegu og eilífu gæðum. Er nú trú yðar svo kröptug og lifandi, að hún geti sigrað heims-

elskuna og látið yður mitt innan um veraldlegar sýslanir hafa umgengni yðar á himnum? Sèrhver sá, sem af alvöru og í auðmýkt prófar sjálfan sig, hlýtur að játa, að það vantar mikið á, að trú hans sè nógu sterk og lifandi, og allir höfum vèr orsök til að biðja Guð að hjálpa vorri veiku trú; og hann mun vissulega bænheyra oss, þegar vèr biðjum af hjarta og forðumst að saurga sálir vorar með vísvitandi syndum. Þá mun trú vor styrkjast og glæðast meir og meir, veita oss krapta til að umbera sorg og mæðu þessa lífs, og fylla hjörtu vor djörfúng, fögnuði og friði. Að vísu verða sanntrúaðir einnig að taka þátt í ókyrleik og stríði þessa lífs; en það getur ekki raskað þeirra sönnu gleði, því hún er ekki byggð á þessum heimi, heldur á Drottni, og getur því ekki haggast. Hinn sanntrúaði er jafnan glaður í Guði sínum; þegar honum gengur allt að óskum, þá gleðst hann af velgengninni og skoðar hana eins og náðargjöf, sem kemur hèr að ofan frá föður ljósanna, og segir með Davíð: „Eg vil fagna og vera glaður af þinni miskunsemi" (Sálm. 31., 8.). Sè hann þar á mót sviptur meðlætinu og þjáníngar og mótlæti sæki hann heim, þá segir hann hughraustur: „Drottinn gaf, Drottinn burttók; sè nafnið Drottins vegsamað". Og þó þessi jörð verði honum sannkallaður táradalur, full af eymd og andstreymi, þá veit hann, að hans borgarrèttur er á himnum; þangað mænir hann augum trúar og vonar, og álítur þjáníngar þessa

tíma lèttvægar í samanburði við þá dýrð, sem hann á í vændum.

Æ, Drottinn! gefðu oss öllum náð til þess að taka framförum í trúnni, svo hún beri hjá oss ávöxt í kærleika. Bænheyr það, eilífi kærleikans faðir! í Jesú nafni! Amen.

---

# 59. hugvekja.

Matth. 5., 17. Jesús sagði: „Ætlið ekki, að eg sè kominn til að af taka lögmálið og spámennina; til þess er eg ekki kominn, heldur til að fullkomna það."

Þar eð maðurinn er Guðs handaverk og skynsemigædd vera, er það sjálfsögð skylda hans að lifa samkvæmt Guðs vilja; og þegar Drottinn skóp manninn í öndverðu, skóp hann hann í sinni mynd, og kveikti það ljós í sálu hans, sem átti að stjórna öllum hans gjörðum; en við spillínguna depraðist þetta ljós, svo það gat ekki lengur vísað manninum þann veg, sem honum var ætlað að ganga til eilífs lífs: þá lèt miskun Guðs rita það lögmál á steintöflur, sem hann áður hafði ritað í vor hjörtu, og setti oss það þannig fyrir sjónir, svo það skyldi geta minnt oss á sjálfa oss. En Gyðínga þjóðin, sem þetta lögmál var fengið í hendur, aflagaði það aptur með röngum skilníngi. Þá sendi Guð sinn eingetinn son í fyllíngu tímans, til að tvístra því villumyrkri, sem manna setningar höfðu hulið það í, og gefa

því aptur þá guðlegu fegurð, sem það í önd-verðu hafði; og þetta gjörði frelsari vor með því að eptir skilja oss sinn heilaga lærdóm og sitt heilaga dæmi, svo vèr getum ekki lengur afsakað oss með vanþekkíngu, þegar vèr brjótum Guðs boðorð. Það hlýtur líka hver óspilltur maður að játa, sem upp alinn er i Jesú Krists heilögu trúarbrögðum, að hans boðorð eru ljós og auðskilin, og að það er einúngis spilling mannlegs hjarta, sem þau stundum þykja myrk og þúngskilin. Já, þau eru eins ljós og auðskilin, eins og þau eru vel löguð til að efla vora sönnu farsæld og fullnægja öllum hinum æðstu og mest umvarðandi þörfum sálar vorrar. Ekkert á betur við eðli skynsemigæddrar skepnu, en þær dyggðir, sem Jesú trúarbrögð brýna fyrir oss; og vèr finnum til þess í samvizku vorri, að þær girndir, sem þau vara oss við, eru sú einasta orsök til allrar vorrar ófarsældar, og að því meir sem vèr fjarlægjumst Guðs heilaga lögmál, því meir fjarlægjumst vèr sannan hjartans frið og sálarrósemi. Þetta finnur jafnvel sá, sem ofurselur sig syndsamlegum girndum; honum tekst ekki, þó hann vili, að rèttlæta sinn óreglulega lifnað fyrir sjálfum sèr, og Guðs lögmál í hjarta hans mótmælir því lögmáli, sem er í hans limum og gjörir hann ófarsælan, ef hann vill ekki hlýðnast því. Þannig hrífst maðurinn stundum af hatri og hefndargirni; en bráðum verður hann þess var, að þessi vonzkufulla ánægja er honum ekki

eiginleg nè mannlegu hjarta ásköpuð, og að það er að hegna sjálfum sèr, að hata aðra; og þegar honum rennur reiðin, þá finnur hann, að hans náttúrlegu tilfinníngar eru velvildarfullar, og að Guð með mannelskunnar boðorði hefir ekki gjört annað, en slá á hina innstu og beztu strengi mannlegs hjarta og sætta oss við sjálfa oss. Þó maðurinn ofurseli sig munaði og holdlegum girndum, þá verður hann þess þó bráðum var, að þessi óregla er ósamkvæm hans sanna og rètta eðli, og að guðsorð einúngis hefir haft hugarrósemi vora fyrir augum, með því að fyrirmuna oss allan saurugleik holdsins og andans. Þannig er öllum Guðs boðorðum varið; milli þeirra og mannlegs hjarta er óslítanda samband; þau eru öll byggð á nákvæmustu þekkíngu á því, sem hreifir sèr innra hjá oss; þau geyma í sèr lækníngu hinna dýpstu sára hjartans og styrkja og styðja vorar beztu tilfinníngar. Að vísu getur maðurinn með langvinnum syndavana svoleiðis þaggað niður rödd samvizku sinnar og sljófgað sínar góðu tilfinningar, að hann um stund missi sjónar á sambandinu milli þeirra og Guðs heilaga lögmáls, og köllum vèr slíkt sálarástand andvaraleysi og forherðíngu; en undir eins og hjarta hans verður snortið af guðlegri náð, svo hann fyrir alvöru fer að hugsa um eilífðina, þá opnast augu hans, svo hann sèr sannleikann; eptir því sem girndir hans sefast, eptir því skýrist hans andlega sjón, og hann verður hissa á því, að girnd-

irnar skuli svo lengi hafa villt sjónir fyrir sèr. Guðs boðorð eru því ætíð eins ljós og eðlileg fyrir manninn; en það er sál hans, sem gengur út úr villunnar myrkrum, og augu sálarinnar opnast, svo hún sèr hið guðlega ljósið. Að þessu er þannig varið, sjáum vèr bezt af því, kærir bræður! að þegar girndirnar ekki villa sjónir fyrir oss, þá finnum vèr, að lögmálið er heilagt og gott. Þó hinn ágjarni sè blindur með tilliti til sinnar óseðjandi auragirndar, sèr hann þó glöggt, hversu hegningarverðir lestir metorðagirnd og munaðarlífi eru; og líkt er sælkeranum varið; þó hann afsaki sínar tilhneigíngar, finnur hann þó, hve svívirðileg ágirndin er; og hinn metorðagjarni fyrirlítur iðjuleysi, svall og munaðarlífi. Af þessu sjáum vèr, kærir bræður! að þegar maðurinn er sjálfur laus við einhverja girnd, þá fordæmir hann hana hjá öðrum, og honum þykir það boðorð gott og eðlilegt, sem tekur vara fyrir henni.

Að breyta eptir Jesú heilaga lærdómi er því hinn einasti vegur til sannrar farsældar, bæði í þessu og öðru lífi; hann er ætlaður öllum mönnum, og hann á vel við alla menn í sèrhverri stöðu og á sèrhverjum aldri; hann þekkir hvorki fátækan nè ríkan, voldugan nè vesælan, húsbónda nè þjón, heldur erum vèr allir eptir honum bræður og systur í Jesú Kristi, erfíngjar eilífs lífs og samarfar Jesú Krists; hann sameinar alla með kærleikans helga bandi, og þekkir ekki annan manna-

mun en þann, sem er innifalinn í mismunandi trúrækni og guðsótta.

Látum oss því, kærir bræður! ástunda að breyta rækilega eptir Jesú boðum; látum oss læra að temja vorar óstýrilátu girndir og leggja hapt á vorar syndsamlegu tilhneigíngar, svo þær ekki leiði oss af dyggðanna vegi. Ó, Jesú! vertu oss jafnan nálægur með þínum anda; styrktu oss í freistíngunum, svo vèr ekki hrösum; vertu máttugur í vorum veikleika, svo vèr fáum vilja og krapta til að breyta eptir þínum heilögu boðum, og með því leita vorrar sönnu farsældar hèr og síðar meir. Æ, tak þú þèr sjálfur bústað í vorum breysku hjörtum, og leið þú oss við ljós þinna sáluhjálplegu orða gegnum líf og dauða til eilífs lífs og eilífrar sælu! Amen.

---

# 60. hugvekja.

Jak. 1., 21. „Meðtakið orðið með hógværð, sem í yður er gróðursett, það sem kröptugt er til að frelsa yðar sálir."

Ekkert mannlegt orð hefir eins mikinn krapt í sèr, til að sannfæra og vekja hjörtu vor, eins og guðsorð í heilagri ritníngu. Páll postuli segir, að það sè „kraptur Guðs til sáluhjálpar hverjum þeim, sem trúir" (Rómv. 1., 16.); og að „af lögmálinu komi þekkíng syndarinnar" (3., 20.); og postulinn Jakob líkir guðsorði við

„spegil, sem maðurinn geti skoðað sig í og lært að þekkja sjálfan sig” (1., 23.—24.). Það er líka víst, að guðsorð leyfir ekki manninum að draga sjálfan sig á tálar. Það segir öllum sannleikann án nokkurs manngreinar álits. Sèrhver maður, á hvaða aldri og í hverri stöðu sem hann er, getur af því sèð, hvernig hann er og hvernig hann að rèttu lagi ætti að vera. Sá, sem því ekki þekkir bresti sína og yfirsjónir, er annaðhvort illa uppfræddur í guðsorði, eða hann vill ekki heimfæra til sín annað úr því, en það sem honum fellur lèttast; en sleppir hinu, sem heimtar af honum áreynslu og sjálfsafneitun. Hvað stoðar þig það, kristinn maður! þó þú æfir einhverja dyggð, ef þú jafnframt heldur áfram í þeim syndum, sem þú ert hneigður fyrir? Hvað gagnar þèr það, til dæmis, þó þú sèrt greiðvikinn og góðgjörðasamur, ef þú ekki hirðir um, að hreinsa og betra hjarta þitt og láta á móti sjálfum þèr? Sè hjartað saurugt og óhreint, þá er ekki við því að búast, að þeir ávextir sèu góðir, sem þaðan spretta, því „rotið trè getur ekki borið góðan ávöxt.” Sannarlega þurfum vèr að biðja Guð fyrirgefníngar, ekki einúngis á syndum vorum, heldur og á vorum svo kölluðu góðverkum; því margar gjörðir vorar, sem að ytra áliti sýnast góðar, verða syndsamlegar, af því þær spretta af óhreinum hvötum, eða eru gjörðar í einhverjum eigingjörnum tilgangi; og margar þær dyggðir, sem mikið ber á í heimsins augum, eru næsta ískyggilegar, af

því þær lýsa fordild og hègómadýrð. Já, sumar syndir geta tekið á sig dyggðanna útlit og yfirbragð. Þess vegna ert þú aldrei of kostgæfinn í því, að bera þig og breytni þína saman við guðsorð og frelsara þíns heilaga líferni, og aldrei nógu harður við sjálfan þig. Æ! oss hættir öllum meira eða minna við því, að fara of mjög eptir dómum og áliti veraldarinnar, en of lítið eptir því, hvað guðsorð og lausnarans heilaga eptirdæmi brýna fyrir oss. Vèr gjörum það, sem er samkvæmt girndum vorum og tilhneigíngum; vèr viljum gjöra heiminum til geðs og látum oss stjórna af ýmsum hleypidómum, áður en oss kemur til hugar að ávinna oss Drottins velþóknun. Æ, hvílík fásinna er þetta! Rannsaka þú því sjálfan þig hlutdrægnislaust, kristinn maður! Vertu strangur við sjálfan þig og varastu að fegra yfirsjónir þínar; láttu ekki neitt af því eptir þèr, sem þú bannar öðrum; vak þú gaumgæfilega yfir hugrenníngum og tilfinníngum þínum; aðgreindu yfirskyn frá sannleika, hræsni frá hreinskilni; spyr þú sjálfan þig að, hvort þú gjörir verk þín vegna þín sjálfs, eða vegna Guðs; hvort þú gjörir þau af eigingirni og í ábata von, eða af elsku til Drottins og hlýðni við hann? Enginn hlutur er meir áríðandi fyrir oss en að læra að þekkja sjálfa oss, því undir þessari sjálfsþekkíngu er iðrun vor og lífernisbetrun komin. Sá, sem þekkir sjálfan sig rètt, mun komast að raun um, að vor beztu verk eru ófullkomin, og verða var

við eigingirni jafnvel þar, sem vèr hugðum að sýna sjálfsafneitun, og hèldum, að vili vor væri hreinn og góður. Og þessi þekkíng á sjálfum þèr og breyskleika þínum mun vekja hryggð eptir Guði í hjarta þínu, og koma þèr til að biðja Guð í Jesú nafni um fyrirgefníngu synda þinna. En það er næsta erfitt að komast til þessarar þekkíngar á sinni eigin spillíngu, af því lèttúð og veraldlegt hugarfar, drambsemi og hègómadýrð blindar augu vor; já, oss væri það alls ekki mögulegt, ef Guð kæmi oss ekki til hjálpar og lèti sinn anda vekja samvizkur vorar. Stundum vekur hann hugarhræríngar í vorum hjörtum, sem vèr ekki vitum, hvaðan koma, „eins og þegar vindurinn blæs hvar sem hann vill og vèr heyrum hans þyt, en vitum ekki, hvaðan hann kemur, eða hvort hann fer" (Jóh. 3., 8.); en einkum vekur hann oss með sínu orði, „sem er lifandi og kröptugt og beittara hverju tvíeggjuðu sverði, og þrengir sèr milli sálar og anda, liðamóta og mergjar, og dæmir þánka og hjartans hugrenníngar" (Hebr. 4., 13.). Guðsorð talar um „syndina, rèttlætið og dóminn," og ef vèr ekki mótstöndum þess verkunum, heldur meðtökum það með hógværð, eins og postulinn að orði kemst, það er að skilja: heyrum það með andakt og erum fúsir á að heimfæra það með hreinskilni upp á vort eigið sálarástand: þá mun það vekja hjá oss rètta þekkíngu á sjálfum oss og sýna oss, að vèr höfum ekkert að stæra oss af, heldur megum í auðmýkt taka

undir með Davíð og segja: „þèr, já þèr, Guð minn! hefi eg á móti brotið og aðhafzt hið illa fyrir þinni augsýn.” þessi auðmjúka viðurkenníng hjartans er hið fyrsta stig á vorum sáluhjálparvegi, og ef vèr nú leyfum guðsorði að leiða oss áfram á þessum vegi, þá munum vèr reyna, að það „er kröptugt til að frelsa sálir vorar.” þegar þrumurödd lögmálsins er búin að vekja oss og sýna oss vora syndasekt og hversu sakfallnir vèr erum fyrir Guði: þá fer hin blíða rödd guðlegrar náðar að ávarpa oss, og bjóða oss að flýja til hins eilífa miskunsemdanna föður, flýja að Jesú krossi og tileinka oss hans friðþægjandi kærleika. Og þegar vèr í trúnni umföðmum frelsarann og trúum því, að fyrir hans skuld sèu oss allar vorar syndir fyrirgefnar, þegar ótti og kvíði hverfur úr vorum hjörtum og þau í þess stað fyllast friði, fögnuði og djörfúng: þá hneigjast þau í elskunni til Drottins, sem elskaði oss og miskunaði sig yfir oss, svo vèr ekki framar viljum lifa sjálfum oss, heldur honum, sem fyrir oss er dáinn og upp risinn, og getum tekið oss þessi orð postulans í munn: „svo lifi eg ekki framar, heldur lifir Kristur í mèr” (Gal. 2., 20.). þannig er guðsorð kröptugt til að frelsa sálir vorar, ef vèr meðtökum það með hógværð. það lætur oss reyna krapt komandi aldar, kemur oss fyrir helgun lífernisins í samfèlag við Guð og vorn frelsara, og kveikir hjá oss þegar hèr í lífi hið æðra og eilífa líf; því „eilíft líf byrjar hver sá hèr,

hreina iðrun sem gjörði." Meðtökum því guðsorð með högværð; heimfærum það til sjálfra vor með auðmýkt og trúnaðartrausti; hlýðum þess áminníngum, treystum þess fyrirheitum. Virztu, góði Guð! að ávaxta þitt orð í vorum hjörtum, svo það geti frelsað sálir vorar. Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

---

# 61. hugvekja.

1. Tímóth. 4., 8. „Guðræknin er til alls nytsamleg, og hefir fyrirheit bæði fyrir þetta líf og hið tilkomanda."

Engum, sem ekki er vantrúaður og sem ekki lifir án Guðs í heiminum, kemur til hugar, að efast um það, að guðræknin hafi fyrirheit fyrir hið tilkomanda líf, og að guðhræddir þá muni verða eilíflega sælir; en hitt getur mörgum ekki skilizt, að guðræknin einnig hafi fyrirheit fyrir þetta líf, og að hún gjöri manninn þegar hèr í lífi farsælan, því þeim sýnist reynslan benda til hins gagnstæða, og að dyggðugir og guðhræddir menn eigi hèr einatt við bág kjör að búa og sèu ýmsum eymdum hlaðnir; en heimsins börn þar á mót lifi í mestu velgengni og sælu. En þegar vèr gætum betur að, kærir bræður! munum vèr komast að raun um, að guðsbörn eru þegar hèr í lífi langtum farsælli í raun og veru, en

heimsins börn. Sorgir vorar hafa einatt upptök sín frá villu vorri, og vèr erum ekki sannarlega ófarsælir, nema af því vèr metum ekki rètt hið sannarlega góða og hið sannarlega illa. Guðsbörn, sem eru ljóssins börn, eru upplýstari í þessu efni en heimsins börn, og þetta andlega ljós, sem leiðrèttir dóma þeirra, linar og sorgir þeirra, og trúin, sem sýnir þeim heiminn eins og hann er, lætur þeim verða það til huggunar og gleði, sem heimsins börnum er til angurs og ama. Hvert sem sanniðrandi maður rennir augum sínum, hvort heldur það er til hins umliðna, hins yfirstandanda eða hins ókomna tíma, þá verður allt til að hugga hann, styrkja hann í þeim ásetníngi, að halda áfram á dyggðanna vegi og gjöra hann langtum farsælli en hinn, sem iðrunarlaust heldur áfram í syndunum. Hinn iðrunarlausi syndari getur þó ekki komizt hjá því einstöku sinnum að hugsa til sinnar undanförnu breytni, og þessi tilhugsun þreytir hann, óspekir hjarta hans og, ef til vill, kemur ótta að honum; hann sèr, hvernig hann hefir fyrirlitið Guðs náð, hrundið hans áhrifum frá sèr og varið illa þeim góðu eiginlegleikum, sem Drottinn hafði gefið honum. Hann má því ekki renna augum sínum til hins umliðna, því það truflar ánægju hans; öll hans farsæld er komin undir augnablikinu, sem yfirstendur, og til að geta verið farsæll, verður hann að forðast alla umhugsun; til þess að geta verið rólegur, verður hann, eins og skynlaus skepna, að láta sig leiða af

útvortis áhrifum og blindum fýsnum. En þegar hann á milli raknar við úr þessu roti, þá er hann næsta ófarsæll, þá stendur hann einmana, yfirgefinn af öllum, nema samvizkunni og syndum sínum. Þar á mót hefir sanniðrandi maður gleði af því, að hugsa til hins umliðna. Að sönnu hlýtur endurminníng synda hans og yfirsjóna að vekja hjá honum blygðun og hryggðartár; en hann finnur huggun í tárum sínum og í hryggð sinni; því um leið og hann hugsar til synda sinna, endurminnist hann Guðs náðar og miskunar, sem leiddi hann svo dásamlega á iðrunarinnar veg, sem vakti hann með svo áþreifanlegum bendíngum, frelsaði hann svo opt úr hættunum og leitaðist á allan hátt við að snúa hjarta hans til himinsins. Þessi tilhugsun, kærir bræður! veitir hinum guðhrædda frið og huggun, og hann þakkar Guði af öllu hjarta fyrir þá óendanlegu náð og miskunsemi, sem hann hefir fengið að reyna; og þegar hann nú rennir augunum kríng um sig til yfirstandandi tímans, þá finnur hann einnig, að guðræknin hefir fyrirheit, ekki einúngis fyrir hið tilkomanda, heldur og fyrir þetta líf. Hann sèr, að heimurinn liggur í hinu vonda, að heimsins börn velkjast í áhyggjum og sorgum þessa lífs, að þau eiga í ófriði og lifa í þrældómi veraldlegra girnda, sem steypa þeim í ógæfu og glötun. Þessi sjón vekur hjá honum alvarlegar, en jafnframt gleðiríkar hugleiðíngar. Óstöðugleiki stundlegra hluta, sem er hið mesta mein heimsins

barna, lyptir huga hins guðhrædda upp yfir þetta jarðneska líf, og kennir honum að festa ekki hjarta sitt við þessa hverfulu og endanlegu hluti, heldur safna sèr fjársjóðum á himnum, sem hvorki mölur nè ryð fær grandað. Vanþakklæti og rangsleitni heimsins, sem gjörir heimsins börn óánægð og ófarsæl, angrar ekki guðsbörn, því þegar þau þjóna Drottni, byggja þau ekki gæfuvon sína á heiminum, heldur setja þau alla von sína til Guðs, og þessi von getur aldrei brugðizt; heimsins lof og last liggur þeim í lèttu rúmi, þegar þau vita sig í náð hjá Guði; frá honum stígur friður og rósemi niður í hjörtu þeirra og gjörir þau sannfarsæl. Ó, að heimsins börn þekktu guðrækninnar sanna eðli, og hve sælufullt og inndælt það er að þjóna Guði; ó, að þau vissu, hvað til þeirra friðar og farsældar heyrir! — En það er hulið fyrir þeirra augum. Þegar hinn guðhræddi snýr huga sínum fram á leið og hugsar til ókomna tímans, finnur hann til huggunar og gleði, en iðrunarlaus syndari til sífelds og leynilegs kvíða. Sá guðhræddi huggar sig við Guðs náðarríku fyrirheit og bíður vonglaður þeirrar stundar, að hann fái að flytja hèðan á fund frelsara síns, í fèlag útvaldra, þar sem allir eru alsælir í hinum eilífa kærleika. Þessar hugleiðingar eru því huggunarfyllri fyrir hinn guðhrædda mann, sem þær eru byggðar á kærleikseðli hins alsanna Guðs, sem ekki getur afneitað sjálfum sèr. Þessa huggun hefir hinn guðhræddi hèr í lífi,

og hversu óttalegt er það þá ekki, kærir bræður! að lifa án Guðs, undir yfirráðum syndarinnar, án nokkurrar sannrar gleði, í ófriði við sjálfan sig og aðra, án þess að geta notið huggunar af bæninni og Guðs náðarmeðulum, og án vonar um eilífa sáluhjálp. Ó, Guð almáttugur! hvernig er þá mönnunum varið, að þeir skuli alla æfi eiga í stríði við sjálfa sig, vilja vera farsælir, en vilja þó ekki ganga sælunnar veg; finna til ófarsældarinnar, en þó aðhyllast hana; þekkja hina sönnu sælu, en hafna henni? Ef þèr því vilið verða farsælir, og það þegar hèr í lífi, þá kappkostið að lifa kristilega og guðrækilega, því guðræknin hefir fyrirheit bæði fyrir þetta líf og hið tilkomanda; hún felur í sèr sanna farsæld, sem heimsins börn ekki þekkja. Látið það ekki fæla yður, þó yfirbragð hennar stundum kunni að sýnast alvarlegt, því þó þèr sjáið guðsbörn tárfella, þá sjáið þèr ekki þá ósýnilegu hönd, sem þerrar tárin af augum þeirra; þó þèr sjáið þeirra breyska eðli andvarpa undir krossi iðrunarinnar, þá sjáið þèr ekki, hvernig Guðs náð styrkir þau og veitir þeim nýja krapta, svo þeim finnst Jesú ok inndælt og hans byrði lètt. Já, guðhræddir eru sælir í lífi og dauða. Ó, Guð! gefðu, að það verði vort hlutskipti í Jesú nafni. Amen.

# 62. hugvekja.

1. Pèt. 2., 21. „Kristur hefir oss eptirdæmi eptirlátið, svo að vèr skyldum feta í hans fótspor."

Það sem einkum er einkennilegt við vor kristilegu trúarbrögð er kenníngin um lausnara vorn sem Guðsson og frelsara mannkynsins, og eins þau dásemdarverk, sem hann gjörði af sínu eigin guðlega almætti. En það sem þó sèr í lagi aðgreinir Jesúm frá öllum öðrum og gjörir hann svo óvenjulega miklu æðri en alla spekínga, alla guðlega sendiboða, spámenn og postula, er það, að þeirra líferni var syndugt og ófullkomið, en hans þar á mót var hreint og heilagt. Hann drýgði aldrei nokkra synd, og í hans munni voru ekki svik fundin. Hann er sá einasti, sem hefir verið heilagur á þessari jörðu; hann og faðirinn voru eitt, og það var hans matur og drykkur að gjöra föðursins vilja. Hann var freistaður á allan hátt, eins og vèr, en þó án syndar, og þess vegna er hann sá æðsti prestur, sem vèr þurftum við, heilagur og flekklaus, fráskilinn syndurum og hærri en himininn. Að því leyti sem Jesús var hinn eilífi sonur föðursins, og að því leyti sem hann hafði guðlegt vald til að gjöra kraptaverk, getum vèr ekki breytt eptir honum; en þó „hefir hann oss eptirdæmi eptirlátið, svo að vèr skyldum feta í hans fótspor". Aldrei hefir hann sagt eða boðið neitt, sem hann ekki sjálfur gjörði, og sèrhvert boðorð, sem fram gekk af hans munni, er orðið

að eptirdæmi í hans lífi. Hið dauða lögmál, sem ritað var á steintöflur, er í honum orðið lifandi; boðorðin standa nú ekki lengur á stangli, heldur spretta þau út úr Kristi sjálfum, sem lifandi blóm á þessu lífsins trè. Lögmálið spratt sjálfkrafa upp úr hans guðlegu sjálfsafvitund, því hann var uppspretta lögmálsins, og hafði Guðs vilja, sem er rót allra boðorðanna, í sjálfum sèr. Þess vegna verður sèrhver sá, sem vill breyta eptir Guðs boðum, að fylgja lausnara sínum og höndla Guðs vilja í honum. Með flekkleysi sínu og heilagleika hefir hann hreinsað og styrkt vort breyska og syndumspillta eðli, og lypt því upp til tignar og vegsemdar. Með sínu heilaga líferni hefir hann sett oss lifandi fyrir sjónir, hvernig vèr eigum að vera, og „hver, sem segist vera honum stöðuglega sameinaður, honum ber að breyta eins og hann breytti" (1. Jóh. 2., 6.). Af því hann var heilagur, þá var hann sínum himneska föður velþóknanlegur, og enn eru þeir allir honum velþóknanlegir, sem leitast við að líkjast frelsara sínum; já, hans líferni eigum vèr að lifa; hans líf á að vera vort líf. Eins og hann lítilækkaði sig, eins ber oss einnig að auðmýkja oss; eins og hann lèt skírast, eins eigum vèr og að skírast í „endurfæðíngarlauginni og endurnýjúngu heilags anda"; eins og hann var krossfestur, eins eigum vèr einnig að krossfesta holdið með þess girndum og tilhneigíngum; eins og hann dó, eins eigum vèr líka að deyja heiminum

og syndinni, og eins og hann uppreis frá dauðum, eins eigum vèr að ganga í nýju líferni. Eins og hann uppstè til himins, eins á líka vor umgengni að vera á himnum, og eins og hann situr við föðursins hægri hlið, eins mun hann og síðan setja oss sèr til hægri handar, þegar hann kemur að dæma lifendur og dauða, ef vèr hèr í lífi reynumst honum trúir og ástundum að líkjast honum.

Prófum oss nú sjálfa, kristnir menn! Höfum vèr Jesú Krists dæmi og hans heilaga líferni oss jafnan fyrir augum? Höfum vèr af honum lært auðmýkt og undirgefni undir Guðs vilja? Höfum vèr af honum lært að stjórna vorum syndsamlegu girndum og láta á móti sjálfum oss, þegar Drottinn heimtar það af oss? Höfum vèr af honum lært þakklátsemi við Guð í meðlætinu, stöðuglyndi og þolinmæði í mótlætinu? Höfum vèr af honum lært, að út hella iðulega hjörtum vorum fyrir Guði í bæninni og treysta honum einum? Höfum vèr af honum lært, að elska Guð umfram alla hluti, og vera honum stöðuglega sameinaðir? Höfum vèr af honum lært mannelsku, sáttgirni, umburðarlyndi og meðaumkunarsemi? Og ef vèr með hreinskilni rannsökum vort umliðna líf og vort sálarástand, megum vèr þá ekki með blygðun viðurkenna, að vèr höfum allt of lítið hirt um að feta í fótspor lausnara vors. Hans fótspor liggja um hinn þrönga veg, sem til lífsins leiðir; en vèr höfum hlaupið út á hinn breiða veginn, sem liggur til glötunarinnar og

dauðans. Megum vèr ekki með blygðun játa, að vèr höfum verið fúsari á að fylgja vorum spilltu girndum og heimsins tillokkunum en honum; að vèr höfum haft meiri áhuga á öllu því, sem heyrir til þessa stundlega lífs, en á hinu, sem viðvíkur eilífðinni og vorum sáluhjálparefnum, og sem vèr einúngis getum lært af honum, sem hefir orð hins eilífa lífsins. Æ, hversu ólíkir erum vèr þó frelsara vorum; hversu veikir fyrir í freistíngunum, tregir til sjálfsafneitunar, hrokafullir og vanþakklátir í meðlætinu, óþolinmóðir og möglunarfullir í mótlætinu, kærleikslausir við Guð og menn, ósáttgjarnir og heiptræknir, þegar oss er eitthvað gjört á móti! Já, vort hugarfar og háttalag lýsir því, „að hið sama lunderni býr ekki í oss, sem bjó í Jesú Kristi", heldur þvert á mót það hið veraldlega hugarfar, sem er óvinátta gegn Guði. Æ, góði himneski frelsari! líttu til vor í náð og miskunsemi; líttu til vor með þínu guðdómlega augnatilliti, svo vèr, eins og Pètur lærisveinn þinn, göngum út og grátum beisklega; göngum út úr solli heimsins og syndarinnar þjónustu, og fellum heit iðrunartár fyrir vort tómlæti í að fylgja þèr og feta í þín fótspor; og þegar hið stundlega blindar svo augu vor, að vèr ætlum að missa sjónar á þèr: æ, skildu þá ekki við oss, heldur rèttu oss þína miskunar hönd og leiddu oss aptur á lífsins veg; „ef vèr hrösum, þá styð þú oss, ef vèr föllum, þá reis þú oss á fætur aptur"! Láttu það verða vora æðstu unun, að

hugsa um þig og þína óumræðilegu elsku til vor, syndugra manna, svo vèr lærum að þekkja „dýpt og hæð þíns kærleika", og verðum gagnteknir af elskunni til þín og löngun eptir að feta í þín fótspor og sameinast þèr í lífi og dauða! Amen.

---

# 63. hugvekja.

Matth. 11., 29. „Lærið af mèr, því eg em hógvær og af hjarta lítilátur."

Ekkert getur auðmýkt og lítilækkað oss eins og hógværð Guðs eingetna sonar. Alltaf var hann sèr þess meðvitandi, hver og hvílíkur hann var, hvaðan hann var kominn og hvert hann fór, hvílíka dýrð hann hafði haft áður en heimurinn var til, og hvílíka dýrð hann aptur átti í vændum hjá sínum himneska föður. Hann þekkti til fulls mismuninn á sèr og syndugum mönnum; en þó var hjarta hans fullt af sannarlegri hógværð, og hann gat með sanni sagt: „eg em hógvær og af hjarta lítilátur. Hans gjörvalla líf var vottur um hans auðmýkt og lítilæti; og um þetta sannfærumt vèr, hvort heldur vèr gætum að breytni hans við tollheimtumenn og bersynduga, eða við lærisveinana, hverra fætur hann þvoði; hvort heldur vèr virðum fyrir oss hlýðni hans við foreldra sína, eða miskunsemi hans við alla þjáða og nauðstadda; hvort heldur vèr heyrum hann segja við hið ríka úngmenni: „hví kallar þú mig góðan?

enginn er góður nema Guð einn", eða bjóða Faríseunum að sýna yfirvöldunum hlýðni og undirgefni. Ætíð og alstaðar sýndi hann auðmýkt, hógværð og lítilæti, og seinast á krossinum fól hann í auðmýkt sinn anda í hendur síns himneska föður. Eins og spillíng vor byrjaði með drambseminni, þannig byrjaði og sáluhjálp vor með auðmýktinni, því frelsarinn byrjaði sitt endurlausnarverk með því að lítilækka sjálfan sig. Þess vegna segir og Páll postuli með rèttu: „Látið sama lunderni vera í yður, sem var í Jesú Kristi; hver, þó hann væri Guðs eptirmynd, miklaðist ekki af því, að hann var Guði líkur, heldur lítilækkaði sjálfan sig, gjörðist þjónn, varð mönnum líkur og að útvortis hætti sem maður. Hann lítilækkaði sig sjálfan og var hlýðinn allt fram í dauðann, já, fram í dauðann á krossinum" (Filipp. 2., 5.—8.). Ó, hvað aumur og syndugur maður má fyrirverða sig fyrir drambsemi sína, þegar hann hefir þetta heilaga auðmýktar og hógværðar dæmi fyrir augum sèr! Hvergi getur hann eins og við Jesú fætur lært sanna auðmýkt og hjartanlegt lítilæti, undirgefni undir Guðs vilja og sjálfsafneitun. Lærið því af frelsaranum auðmýkt fyrir Guði, hjartanlega hógværð og lítilæti við aðra menn. Hann, sem var heilagur og án syndar, auðmýkti sig þó fyrir sínum himneska föður, og ættum vèr þá ekki, aumar og syndugar mannskepnur, að auðmýkja oss fyrir almáttugum og heilögum Guði? Ættum vèr ekki, vesalir

jarðar ormar, að skríða flatir í duptinu fram fyrir auglit hins eilífa alheims stjórnara, hins almáttuga skapara himins og jarðar? Hann, sem er „ljómi Guðs dýrðar og ímynd hans veru", íklæddist voru holdi af himneskum kærleika, og kom í heiminn, ekki til að láta þjóna sèr, heldur til að þjóna öðrum, ekki til að dæma heiminn, heldur til að frelsa hann, til að frelsa oss frá eilífum dauða; og ættum vèr þá ekki að vera hógværir og lítilátir af hjarta við bræður vora, sem eru eins dýru verði keyptir og vèr og eins og vèr erfíngjar eilífs lífs? Sá, sem ekki stundar lítilæti og hógværð, getur ekki kallað sig Jesú lærisvein. En þess ber oss að gæta, að hógværðin er ekki innifalin í tilfinníngarleysi fyrir því, sem rètt er og rangt; vèr eigum að hata syndina, en elska vorn breyska bróður og biðja Guð fyrir honum; þegar sannleiki og dyggð er fótum troðin, eigum vèr að sýna helga reiði og alvörugefni; en þessi reiði og alvörugefni eiga að spretta af elsku til náúngans og umhyggju fyrir hans eilífu farsæld. En hversu erfitt veitir það ekki, að þræða ætíð hinn rètta veg í þessu efni! Hve mjög hættir mönnunum ekki við því, að villast á annanhvorn bóginn og fara of langt, annaðhvort í ákafa og vandlætíngasemi, eða í afskiptaleysi af Guðs dýrð! Hvernig á eg þá að læra að gæta hins rètta og hafa frið við alla menn, svo mikið sem í mínu valdi stendur? Hvernig get eg fengið stillt og blítt og hógvært hjartalag? Hvernig

get eg fengið þá hugarrósemi og þann hjartans frið, sem sprettur af guðrækmu og auðmjúku hugarfari? Eitthvert hið bezta ráð til þessa er, að rifja jafnaðarlega upp með sèr þessi orð postulans: „Af náð eruð þèr frelsaðir fyrir trúna, og það er ekki yður að þakka, heldur er það Guðs gjöf" (Efes. 2., 8.). Sá, sem ætíð hefir þessi orð í fersku minni, sá sem er gagntekinn og hrærður af þeim sannleika, að vèr erum allir stórsyndarar og hegníngarverðir í Guðs heilaga augliti, og að vèr allir eigum það hans eilífu náð og miskunsemi að þakka, að vèr erum teknir inn í hans ríki, inn í tölu hans barna og erum orðnir erfíngjar eilífs lífs eptir voninni: þessarar dýrmætu náðargjafar í Drottni vorum, Jesú Kristi; sá sem er gagntekinn og hrærður af þessum sannleika, hlýtur og að verða gagntekinn og hrærður af þakklæti við Guð og frelsara sinn; gagntekinn og hrærður af innilegustu auðmýktar tilfinníngum; hann hlýtur að finna til síns eigin óverðugleika og að hann er minni allri Guðs miskunsemi og trúfesti; en þegar hann finnur til þessa, þá sèr hann, að hann ekki hefir neitt tilefni til að hrokast upp eða lítilsvirða bræður sína, því hann hefir eins og þeir þegið miskun af Drottni og er eins og þeir náðarþurfi.

Ef vèr viljum breyta eptir frelsara vorum, þá verðum vèr að vera auðmjúkir og lítilátir af hjarta. Að gjöra sèr upp auðmýkt og lítilæti er andstyggileg hræsnistegund; það er „að hafa yfirskyn guðhræðslunnar, en afneita

hennar krapti.” Allar dyggðir verða að koma frá hjartanu, því Guð lítur á hjartalagið; hann fer ekki eptir hinu ytra, heldur því sem inni fyrir býr. Þess vegna verðum vèr að ástunda að hreinsa hjörtu vor, ástunda að verða hreinhjartaðir og út rýma þaðan öllum sjálfsþótta og eigingirni. En, æ! vèr megnum ekkert án þinnar hjálpar, himneski, gæzkuríki faðir! Skapa þú í oss hreint hjarta; láttu oss aldrei gleyma þinni náð og miskunsemi; láttu þessa endurminníngu vekja þakklæti við þig og elsku til þín í vorum hjörtum; en þar sem elskan til þín er, þar er líka elska til náúngans, og af þessari elsku sprettur hin sanna hógværð og lítilæti.

„Sann-auðmjúku, Guð! mig gæði
geði helgur andi þinn,
hvern dag vel svo hugsa næði
um hrösun, vansa' og breyskleik minn:
að eg blygðist æ fyrir þèr,
einn sem hjörtun manna sèr,
og náð skærri þakki þinni
það gott allt mèr hlotnast kynni!” Amen.
(Messus. b. 193.)

---

# 64. hugvekja.

1. Þessal. 5., 17. „Biðið óaflátanlega!”

Einhver hin ófarsælasta afleiðíng syndarinnar er án efa tregða vor og tómlæti í að biðja Guð. Hefði maðurinn haldið sakleysi sínu, þá hefði það verið hans æðsta unaðsemd, að tala

við Drottinn; allir hlutir hefðu þá gefið honum tilefni til að hugleiða hans dásemdir, og áhrif skilníngarvitanna hefðu aldrei komið honum til að fjarlægast Guð eða gleyma honum, því þau hefðu þá staðið undir yfirráðum skynseminnar; já, allt vort líf hefði þá verið einlæg skoðun sannleikans, og vèr hefðum leitað allrar sælu vorrar í samfèlaginu við Guð. En þessi óbeit vor og tregða í að biðja Guð er þó ekki svo rótgróin í hjörtum vorum, að vèr ekki með Guðs hjálp getum upprætt þetta illgresi þaðan, ef vèr kostum alvarlega kapps um það. Þèr kvartið yfir því, kærir bræður! að hjörtu yðar séu svo dauð og dofin, að bæn yðar verði köld og snúist upp í hègómlegar hugsanir. En hvernig getið þèr ætlazt til, að hjörtu yðar hafi geðþekkni á himneskum efnum, þegar þau eru full af veraldlegum hugsunum, af áhyggjum og sorgum þessa lífs, af elsku til heimsins og eigingirni? Þetta er ómögulegt, því elskan til Guðs getur ekki búið þar, sem elska til heimsins er fyrir. Hafið þèr ekki sjálfir reynt það, að þá daga sem þèr höfðuð meira gát á sjálfum yður og lètuð eitthvað á móti yður, þá daga sem þèr stjórnuðuð geði yðar eða sigruðuð einhverja syndsamlega freistíngu, þá gátuð þèr beðið Guð með meiri hugarrósemi, og höfðuð af því meiri huggun og gleði en endrarnær? Þegar því Jesús býður oss að biðja, þá byrjar hann með því, að segja oss að vaka (Matth. 26., 41.). Hann vill vekja eptirtekt vora á því, að árveknin er nauðsyn-

legur undirbúningur undir bænina, og að vèr ekki getum fengið geðþekkni á bænaiðjunni, nè huggun af henni, nema vèr vökum yfir sjálfum oss. Það er að vísu satt, að ef vèr ekki biðjum Guð, getum vèr ekki vakað yfir sjálfum oss, nè lifað guðrækilega; en hitt er allt að einu víst, að ef vèr ekki ástundum að hafa þá árvekni, sem til helgunar leiðir, þá getum vèr aldrei fengið geðþekkni á að biðja Guð, eða sanna huggun af því. Af þessu er það nú auðsèð, að ef vèr festum huga vorn og hjörtu við heiminn og þá hluti, sem í honum eru, þá vekur það hjá oss óbeit á bæninni, kælir hjörtu vor, veiklar trú vora, tvístrar huga vorum og truflar hann; og með því nú bænin er skilyrði fyrir sáluhjálp vorri, þá getur ekki það hugarfar og það líferni, sem er bæninni til fyrirstöðu, leitt oss til sáluhjálpar. Það sem enn fremur gjörir oss svo trega til bænarinnar, er það, að vèr biðjum svo s j a l d a n. „Biðið óaflátanlega," segir postulinn; það er eina ráðið til þess, að geta öðlazt hugarrósemi, sem ekki fæst allt i einu, heldur smám saman; það er eina ráðið til þess, að geta út rýmt hègómlegum hugsunum úr hjörtum vorum og tvístrað þeim villumyrkrum, sem einatt villa sjónir fyrir sálu vorri, þegar vèr ætlum að biðja Guð. Vèr verðum líka að verða Guði handgengnir, til þess að geta fengið geðþekkni á bæninni. Ef þèr biðið sjaldan, kærir bræður! þá verðið þèr Guði alltaf ókunnugir, og getið aldrei úthellt hjarta yðar fyrir honum með því trún-

aðartrausti og þeirri djörfúng, sem gjörir bænina svo unaðarfulla fyrir öll sannarleg guðsbörn. Vèr þurfum að þekkja Guð, til að geta elskað hann. Honum er öðru vísi varið en heiminum; heimurinn sýnist, fljótt á að líta, vera fagur og brosandi; en þegar vèr lærum að þekkja hann betur, sjáum vèr, að hann er fullur af hègóma, eymd og órósemi. En því betur sem vèr lærum að þekkja Guð, því meir elskum vèr hann; því handgengnari sem vèr verðum honum, því betur finnum vèr til þess, að öll sannarleg farsæld í þessu lífi er innifalin í því, að þekkja hann og elska. Flestir, sem hafa óbeit á að biðja Guð, halda að það sè nóg, að lesa nokkur bænarorð sem snöggvast, og verja nokkrum augnablikum til þess, að hugsa til Guðs innan um aðrar hugsanir; en hætta að biðja, undir eins og þeir fá leiða á því, og í stað þess að hugleiða, hve nauðsynlegt það er, að sigrast á því, sem vill aptra þeim frá bæninni, þá hafa þeir þetta fyrir afsökun, til að geta hætt við hana. Hvernig er það mögulegt, spyrið þèr, að fá tíma og tómstund til að biðja svo opt og iðulega? En er ekki tíminn, kærir bræður! fyrst og fremst gefinn oss til þess, að biðja Guð að fyrirgefa oss vorar syndir, biðja hann að líta til vor í náð og miskunsemi og leiða oss til eilífs lífs. Ef vèr ekki höfum tíma til að biðja, þá höfum vèr ekki heldur tíma til að vera kristnir; því sá maður, sem ekki biður Guð, hann er án Guðs, án allrar guðsþjónustu og án allrar vonar.

Bænin er upphaf alls góðs, og ef vèr ekki biðjum, þá erum vèr enn ekki komnir á veginn til eilífs lífs. Ef vèr hugleiðum, hversu mörgum stundum vèr burtsóum til ónýtis í syndum, hugsunarleysi og með ónytjuorðum, þá sjáum vèr, að vèr getum ekki kennt tímaleysi um tómlæti vort í að biðja Guð. Þar að auk getum vèr hugsað til Guðs, og beðið hann mitt í vorum daglegu störfum. Ó, Guð almáttugur! menn hafa ekki tíma til að biðja þig um eilíft líf og ákalla þína eilífu miskunsemi! Æ, hvað þeir meta sína sáluhjálp lítils og hvað þeir eru aumkunarverðir, að gefa sèr svo mikinn tíma til heimsins þjónustu, en vilja ekki verja einu augnabliki fyrir eilífðina! En ekki kemur þessi tregða til bænarinnar ætíð til af því, að menn biði sjaldan. Þú kvartar einnig, guðhrædda sál! yfir kaldsinni þínu, og hvernig þú truflist af hègómlegum hugsunum, þegar þú ætlar að biðja Guð. Láttu ekki þetta fæla þig frá bæninni, því með þessu er hann að reyna þig; með þessu er hann að hreinsa hjarta þitt, og með því ætlar hann að fullkomna ráðsályktun sinnar eilífu miskunar á þèr; með því ætlar hann að vekja hjá þèr enn heitari iðrun fyrir syndir þínar, enn sárari þorsta eptir honum og hans rèttlæti, enn þá innilegri löngun eptir eilífu lífi. — Í hverri stöðu sem þèr eruð, kæru vinir! hvort sem þèr búið við meðlæti eða mótlæti, hvort sem þèr lifið í örbyrgð eða allsnægtum, hvort sem þèr eruð glaðir eða hryggvir, hugdjarfir eða ístöðulausir, langt eða

skammt komnir á yðar betrunarvegi: þá biðið Guð, „biðið hann óaflátanlega!" Bænin veitir huggun í sèrhverri neyð; hún er sálin í guðrækninni og máttarstoð trúarinnar. Æ, Guð minn góður! útheltu yfir oss anda bænar og náðar; hreinsaðu hjörtu vor, svo vèr getum fært þèr hreina lofgjörð og brennandi bænar andvörp, sem gjöri oss þèr þóknanlega og hæfilega fyrir þá eilífu sælu, sem þú hefir heitið þeim, sem biðja þig rèttilega! Heyr þú vora bæn í Jesú nafni! Amen.

---

# 65. hugvekja.

Jóh. 16., 7. „Eg segi yður það satt, að það batar yður, að eg fari hèðan; því fari eg ekki á burt, kemur ekki huggarinn til yðar; en ef eg fer hèðan, mun eg senda hann til yðar."

Þessi orð eru tekin úr þeirri ástúðlegu og óviðjafnanlegu skilnaðarræðu, sem frelsari vor hèlt fyrir lærisveinum sínum, skömmu áður en hann skildi við þá að sýnilegum návistum, og framseldi sig í dauðann vegna vor, syndugra manna. Þessi ræða er svo full af guðlegri speki og elsku; hún er svo hjartnæm; svo háleit og fögur, að sèrhver sá, sem les hana eða hlýðir henni með andakt og eptirtekt, hlýtur að verða snortinn af þeim guðlega huggunar og kærleiks anda, sem hún er sprottin af. En í hverju var nú sú huggun

innifalin, sem Jesús hèt lærisveinum sínum? „Fari eg ekki burt," sagði hann, „kemur ekki huggarinn til yðar; en ef eg fer hèðan, mun eg senda hann til yðar." Þetta eru merkileg og eptirtektarverð orð. Var hann þá ekki sjálfur sá bezti huggari, sem þeir gátu fengið? Hann, sem elskaði þá innilegar, en sá bezti faðir; hann, sem bætti úr öllum þörfum þeirra í andlegum og líkamlegum efnum; hann, sem til þeirra talaði orð ens eilífa lífsins, orð spekinnar og huggunarinnar: hlaut hann ekki að vera þeirra skjól og skjöldur, þeirra einka-athvarf í sèrhverri þraut og hættu? Hvað gat bætt þeim hans missi? Hvað gat grætt þau hryggðar og saknaðar sár, sem hjörtu þeirra hlutu að fá af burtför hans frá þeim og skilnaðinum við hann? Og þó var þetta, eins og hvert hans orð, heilagur og guðlegur sannleiki. Þeir fundu það eptir á. Þegar þeir sáu Drottinn sinn, sem þeir híngað til höfðu reitt sig á, sem þeir híngað til höfðu fylgt eins og börn, án þess sjálfir að hugsa nokkuð fyrir sèr, eða taka nokkuð fyrir sig, þegar þeir sáu hann líða og deyja, og allar sínar tímanlegu og jarðnesku vonir líða undir lok með honum; þegar þeir sáu hann síðan upp rísa og hrósa sigri yfir gröf og dauða, og þar eptir inn ganga í sína dýrð: þá fóru þeir fyrst að skilja þýðíngu Jesú orða, sem áður höfðu verið þeim þúngskilin; þá var eins og nýtt ljós upp rynni í sálum þeirra, og þeir sáu nú, að það ríki, sem Jesús stofnaði, ekki var

jarðneskt eða af þessum heimi, heldur andlegt og himneskt; að það var ekki innifalið í mat eða drykk, heldur í rèttlæti, friði og fögnuði í heilögum anda. Og sannleikans andi, sá heilagi huggunar andi tók sèr nú bústað í hjörtum Jesú lærisveina, og leiddi þá í allan sannleika, svo þeir gátu sannfært heiminn um syndina, rèttlætið og dóminn; og leiddir af þessum anda fóru þeir út um heiminn, og kenndu öllum þjóðum og skírðu þær í nafni föðursins, sonarins og þess heilaga anda. En sá sami andi, sem postularnir fengu í svo ríkulegum mæli, viðhelzt enn í Krists kirkju; hann útbreiðir enn þá Krists ríki á jörðunni, og gjörir hann dýrðlegan í hjörtum trúaðra. En vèr verðum oss ekki þessa anda meðvitandi, nema vèr reynum til að losa hjörtu vor við ánauð holdlegra fýsna, því „holdlegur maður skynjar ekki hvað andans er," og heilagur andi tekur sèr ekki bústað í sálu þess manns, sem hefir gjört hjarta sitt að hýbýli syndsamlegra og saurugra girnda: þessara óhreinu anda, sem draga manninn frá Guði, og hrífa hann út á glötunarinnar veg. Enginn verður sèr Guðs heilaga huggunar anda meðvitandi, nema hann með alvörugefni prófi og rannsaki sjálfan sig; nema hann með bæn og iðrun snúi sèr til Guðs, og leyfi hans anda inngöngu í hjarta sitt: þá gjörir hann líka vart við sig innra hjá manninum; þá rennur hann upp í djúpi sálarinnar, og tvístrar myrkrinu og beygir viljann og veitir krapt af hæð-

um, svo hinn breyski og brotlegi maður verður eins og ný skepna, sköpuð eptir Guði í sakleysi, rèttlæti og helgun. Þekkíng hans á Guði og hans heilaga vilja verður þá skýrari, skyldunnar æfíng lèttari og vonin öruggari. Hann leitar sèr þá ekki lengur hælis og huggunar í hinu hverfula og tímanlega, heldur hjá hinum eilífa föður allrar huggunar, og rennir augum trúarinnar út yfir sorg og mæðu þessa lífs, og bíður með þolinmæði sælla samfunda við hann, sem er höfundur og fullkomnari trúarinnar. Þannig náði það huggunarríka fyrirheit, sem Jesús gaf sínum fyrstu lærisveinum, til allra þeirra, sem meðtaka hans orð í trúnni, sem með iðrun og lífernis betrun verða Guðs náðar aðnjótandi og þegnar hans ríkis. Einlægt sendir Guð anda huggunarinnar í hjörtu sinna barna, og fyrir hann og með honum kemur hans ríki til vor og útbreiðist meir og meir á jörðunni, og í honum nálgumst vèr meir og meir himininn og hið eilífa lífið í Guði. Það, sem sameinar vor biðjandi og iðrandi hjörtu við hinn eilífa kærleikann, er Guðs eigin heilagi andi, sem yfir oss er úthelltur og í oss lifir. Forðumst því, kristnir bræður! að slökkva andann með syndsamlegri breytni; forðumst að hryggja hann með því að selja oss í ánauð holdsins og heimsins; leitumst þar á mót við að gjöra hjörtu vor að hæfilegum bústað Guðs anda, svo vèr getum þjónað honum með öndu og líkama; biðjum vorn himneska föður heitt og iðulega

að senda oss sinn anda: anda ráðs og skilníngs, sem leiði oss í allan sannleika; anda huggunarinnar, sem hugsvali vorum iðrandi og sundurkrömdu sálum; anda heilagleikans, sem styrki oss í freistínganna stríði og hjálpi oss til að vinna sigur!

Já, vissulega bataði það oss, himneski lausnari! að þú fórst hèðan; því þó þú sèrt hvorfinn oss að sýnilegum návistum, ertu oss þó jafnan andlega nálægur; æ, taktu þèr bústað í vorum hjörtum, svo vèr látum oss stjórna af þínum anda og verðum varir við það í sálum vorum, að hann er pantur vorrar himnesku arfleifðar (Efes. 1., 14.)! Amen.

---

# 66. hugvekja.

Rómv. 12., 9. „Haldið fast við hið góða."

Á engu ríður oss meir, kærir bræður! en að „halda fast við hið góða"; í því lítið gagn verður að betrun vorri, ef vèr föllum aptur til þeirra lasta, sem vèr erum hneigðir fyrir, eða hættum aptur við vor góðu áform og sleppum þeim í miðju kafi; og það er því nauðsynlegra fyrir oss, að hugfesta þessa áminníngu postulans: „að halda fast við hið góða", sem vèr höfum án efa sjálfir reynt það, að „holdið er veikt, þó andinn sè reiðubúinn", og svo opt orðið þess varir, að betrun vor og annara átti sèr ekki

langan aldur. Af hverju mun nú þessi almenni óstöðugleiki í hinu góða koma? Einkanlega af því, bræður góðir! að iðranin hefir annaðhvort ekki verið sönn og einlæg, eða menn eru ekki nógu varir um sig, af því þeir þekkja ekki veikleika sinn, heldur treysta kröptum sínum of vel. Þegar iðranin ekki er sönn eða einlæg, þá gjöra menn sèr lítið far um að snúa frá villu síns vegar, af því þeir aldrei hafa haft alvarlegan vilja á því. En þó hinn góði vili sè einlægur og alvarlegur í fyrstunni, veiklast hann þó bráðum aptur, ef árveknina vantar. Það er því einhver hin helzta og mest áríðandi varúðarregla, að forðast allt, sem getur freistað vor til syndar, því á þessu stranda flest betrunaráform. Menn hirða ekki nóg um að forðast þetta, heldur heita sjálfum sèr því að hafa meira gát á sèr í freistíngunni sjálfri; telja sjálfum sèr trú um, að þegar þeir hafi þenna góða ásetníng, þá muni hættan verða minni, og búa sèr til ótal ástæður til þess, að þurfa ekki að umflýja freistínguna. Þetta er nú í sjálfu sèr syndsamlegt, að vilja ekki umflýja allt, sem áður hefir verið orsök í hrösun vorri og enn getur komið oss til að hrasa; því það lýsir því, að vèr höfum geðþekkni á því, sem getur leitt oss til syndar, að vèr berum ekki sannarlegan kvíðboga fyrir hrösun vorri, og finnum ekki til þakklætis fyrir þá guðlegu náð, sem hefir reist oss á fætur aptur; það lýsir því, að vèr ekki viljum missa sjónar á því, sem æsir vorar syndsamlegu til-

hneigíngar, og að vèr því berum þær enn í hjörtum vorum. Eins er það hraparleg villa, að ímynda sèr, að oss sè nú óhættara að ganga út í freistíngarnar, af því vèr sèum sterkari fyrir og höfum meiri áhuga á að yfirbuga þær en áður; því þetta lýsir því, að vèr höfum meiri áhuga á, að verða á vegi fyrir freistíngunum, en að sigrast á þeim; og þess meiri iðrunarlöngun, sem Guðs náð hefir vakið í hjörtum vorum, þess meir ættum vèr að varast, að láta hans miskunsemi verða til ónýtis á oss, og gæta þess, að sú fyrsta tilfinníng, sem hann vekur hjá oss, er tilfinníng vors eigin vanmáttar og veikleika. Allt er ennþá breyskt og veikt fyrir hjá þeim, sem lengi hefir þjónað syndinni og verið þræll hennar, en er nýbúinn að snúa sèr til Guðs. Guðs náð hefir að vísu læknað sár hans; en örin eru þó enn eptir, og þau geta opnazt og tekið sig upp aptur, hve nær sem freistíngin kemur og tækifæri býðst; girndirnar eru ekki að öllu leyti slokknaðar, þó þær liggi niðri um stund, og geta bálazt upp aptur, þegar þær fá eldsneyti af hinum ytri áhrifum, og freistíngin blæs að kolunum. Menn draga því sjálfa sig mjög á tálar með því að hugsa, að þeir þurfi ekki á allri varúð og varkárni að halda; því strandi vor beztu áform einúngis á hviklyndi hjarta vors, veiti oss erfitt að sigra óbeit þess á hinu góða og allar þær tálmanir, sem það reisir gegn betrun vorri, og í stuttu máli: sè svo, að vèr eigum bágt með að yfirbuga allt, sem

er syndsamlegt, eða gefur tilefni til syndar innra hjá sjálfum oss: hvernig getum vèr þá verið óhultir fyrir þeirri hættu, sem vèr sjálfir leitum að og steypum oss í, fyrst vèr erum ekki óhultir fyrir sjálfum oss? Hvernig fær veikur maður þolað það lopt, sem er skaðlegt og banvænt fyrir hinn hrausta og heilbrigða? Vèr ættum þó að láta reynslu hins umliðna tíma verða oss að varnaði, láta skaðann gjöra oss hyggna. Optar en einu sinni höfum vèr, þegar líkt stóð á fyrir oss, haft þann ásetníng, að taka fyrir oss kristilegra líferni; opt höfum vèr, að minnsta kosti við hver áraskipti, angrazt yfir syndum vorum, og ásett oss að byrja nýtt líferni; en hvað kemur til þess, að þó vèr höfum byrjað á þessu, þá höfum vèr þó aldrei getað haldið því áfram? Hvað kemur til þess, að þó vèr svo opt höfum heitið Guði trúmennsku, þá höfum vèr svo fljótt aptur rofið þetta heit? Hvað kemur til þess, að þó vèr höfum sneitt hjá hinum stóru skerjunum og forðast þær stórkostlegu villigötur, þar sem oss var bersýnilegur háski búinn: þá höfum vèr þó alltaf liðið skipbrot á trú og hollustu vorri? Mun það ekki koma til af því, að þó vèr vildum forðast syndina, hirtum vèr ekki um að forðast það, sem gat leitt oss til syndarinnar, og hèldum, að vèr mundum geta farið sama veg til Guðs, sem vèr áður höfðum gengið til glötunarinnar? Og þó vor betrunar ásetníngur væri nú enn þá innilegri og kröptuglegri, en hann hefir nokkurn tíma áður verið, þá mundi þó allt lenda fyrir

oss í sama stað, meðan oss vantar varúð og varkárni; því betrunin er ei svo mjög komin undir lifandi tilfinníngum, eins og undir stöðuglyndi í hinu góða, ei svo mjög undir ákafa í upphafinu, eins og undir árvekni og trúmennsku í framhaldinu. Hin fyrstu iðrunartár eru optast nær heit; en það er ekki allt komið undir þeim, því þau geta þornað fljótt aptur. Kristilegt líferni er ekki innifalið í eintómum geðshræríngum, heldur miklu fremur í stöðugri trúmennsku við Drottinn; og þeim einum hefir hann heitið kórónu lífsins, sem reynast honum trúir allt til dauðans. Kristilegt líferni er ekki eins og blossi, sem snöggvast bálast upp, en slokknar jafnskjótt aptur, heldur er það eins og ljós, sem logar jafnt og stöðugt og lýsir oss alla leið til eilífs lífs.

Æ, Drottinn! láttu vora eigin reynslu gjöra oss hyggna og varkára; hversu opt höfum vèr ekki viljað reynast þèr trúir, en hversu opt hafa ekki öll vor góðu áform strandað á því, að vèr ekki vildum forðast boða og blindsker freistínganna; drag þú sjálfur hjörtu vor frá öllu því, sem freistar vor til syndar, því vèr finnum nú svo vel til þess, að holdið er jafnan veikt, þó andinn sè reiðubúinn. Æ, virztu sjálfur að framkvæma í oss hið góða verkið, svo að þessi vor nýju betrunar áform verði oss ekki til nýrrar syndar, heldur megi leiða oss til stöðugrar árvekni og helgunar, og að lokunum til eilífs lífs! Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

---

# 67. hugvekja.

Orðskv. 14., 15.—16. „Sá einfaldi trúir öllu, en hygginn maður athugar sinn gang. Sá vitri er hræddur og forðast hið illa, en dárinn er djarfur og ugglaus."

Þannig kemst Salómon konúngur að orði; og líkrar meiníngar er það, þegar frelsarinn býður oss að vera „forsjálir sem höggormar;" því til þess jafnframt að taka oss vara fyrir hrekkvísi heimsins barna, bætir hann þessu við: „en verið einfaldir sem dúfur." Í sama skilníngi bjóða líka postularnir oss, að vera „vísir, en ekki fávísir," og kalla Jesú trúarbrögð þá sönnu speki, eða „Guðs speki," sem kenni oss þau rèttu hyggindi. Það er líka víst, að vèr þurfum mestu forsjálni og varkárni við á þessa lífs villugjörnu vegum; því hætturnar eru margar og margvíslegar, villan almenn og vegirnir óteljandi, þó ekki sè nema einn sá rètti, og undir vali voru og varkárni eru vor eilífu kjör komin. Þess vegna þurfum vèr vandlega að íhuga, hvernig þeirri aðgætni og forsjálni eigi að vera varið, sem á að leiðbeina oss í þessu mikilvæga og áríðanda efni. Fyrst og fremst verðum vèr að varast, að velja í blindni einn af þeim mörgu vegum, sem menn almennt fara, og í vorum sáluhjálparefnum forðast að fara eptir vananum eða heimsins áliti; þar á mót eigum vèr einúngis að láta guðsorð stjórna vali voru. Í veraldlegum efnum eru menn almennt næsta varkárir, forsjálir og aðgætnir, og fljótir til að

uppgötga það sem rangt er í annara dómi um þessa hluti; en í vorum sáluhjálparefnum er þessu, því miður, allt öðru vísi varið. Oss hefir svo opt verið sagt, að hið veraldlega hugarfar sè ókristilegt, að elska til heimsins og þeirra „hluta, sem í honum eru, sem er lyst holdsins, fýsn augnanna og drambsamt líferni", sè gagnstæð elskunni til Guðs. Þetta er kenníng þeirra guðlegu trúarbragða, sem vèr frá blautu barnsbeini höfum verið uppfræddir í. Þar á mót kennir heimurinn, að þessi lærdómur sè of harður og ekki nema fyrir einstöku menn, og að það sè sèrgæðíngsháttur að fylgja honum og gjöra sig frásneydda öðrum heimsins börnum. Setjum nú svo, kærir bræður! að það væri óvíst, hvor rèttara hefði í kenníngu sinni: kristindómurinn eða heimurinn; mundi það þá ekki hafa verið skylda vor, áður en vèr fèllum á lífernisreglur heimsins, að rannsaka, hvort hann hefði rètt að mæla, eða hvort hann dragi oss á tálar, þegar um svo mikið var að tefla, eins og vora eilífu farsæld? Og höfum vèr nú gjört þetta? Heimurinn vill, að vèr skulum bera umhyggju fyrir vorri tímanlegu velferð, og býður oss að neyta allra bragða til að koma ár vorri vel fyrir borð; hann leyfir oss að hafa til þess vèlar og undirferli, ásælni, gripdeildir og öll þau meðul, sem hegníng borgaralegra laga ekki nær til; hann leyfir oss að láta allt eptir girndum vorum, að svo miklu leyti, sem það getur staðizt með þessum lög-

um. En mun þetta vera samkvæmt Jesú Krists heilaga lærdómi, sem býður oss að hreinsa oss af öllum saurugleik holdsins og andans, krossfesta holdið með girndum þess og tilhneigíngum, og sýna fullkomna sjálfsafneitum? Mun þetta geta staðizt fyrir dómi samvizku vorrar? Heimurinn kennir oss, að kröfur kristindómsins sèu of harðar í tilliti til dyggðar og sjálfsafneitunar. Höfum vèr nú prófað, hvort þessi kenníng heimsins geti samrýmzt við þann himneska lærdóm, sem Jesús Kristur hefir flutt oss? Og þetta hefðum vèr þó átt að gjöra, áður en vèr fèllumst á heimsins lífernisreglur og ásettum oss að fylgja þeim. Er það ekki staklegt hugsunarleysi af oss, þegar um vor sáluhjálparefni er að gjöra, að vèr í blindni skulum fylgja straumnum, án þess að rannsaka, hvert hann leiði oss; að vèr ekki skulum spyrja sjálfa oss, hvort vèr munum ekki draga oss á tálar, heldur láta oss það lynda, að vèr erum ekki þeir einustu, sem verða á tálar dregnir? Þegar vèr í tímanlegum efnum erum spurðir um, hvað oss hefir gengið til hins eða þessa; hvers vegna vèr höfum gjört það eða það, og hverja hagnaðarvon vèr höfum af því eða því fyrirtæki voru: þá getum vèr gjört fullkomna grein fyrir þessu, og gefið gildar ástæður fyrir breytni vorri. En þegar vèr erum að því spurðir, hvers vegna vèr í vorum sáluhjálparefnum heldur viljum breyta eptir heimsins börnum en frelsara vorum; heldur aðhyllumst heimsins lærdóm og lífernisreglur

en Guðs boðorð, þá getum vèr engu svarað, eða ekki öðru en því, að vèr sèum ekki þeir einustu, sem þetta gjöri, og að vèr getum ekki gjört oss frásneidda heiminum. Guð almáttugur! til hvers hefir þú gefið oss skynsemina, þegar vèr verjum henni svo illa; til hvers hefir þú kveikt ljós í myrkrum villunnar, fyrst vèr elskum myrkrið meir en ljósið? Vèr erum vísir í tímanlegum efnum, en fávísir í vorum sáluhjálparefnum; vèr „athugum vorn gang í tímanlegum efnum, en erum eins og „dárinn djarfir og ugglausir" í vorum sáluhjálparefnum. Vèr reynum til að rýma það saman, sem ekki verður samrýmt: þjónustu Guðs og spilltra tilhneiginga; og þó er það þessi tilraun, sem stjórnar oss og flestum vorum gjörðum.

Ef þèr því vilið, kærir bræður! „gjöra yðar útvalníngu vissa", þá verið ekki hikandi í vali yðar, hvorjum þèr eigið heldur að þjóna: Guði eða heiminum; hvorjum þèr eigið heldur að fylgja: Drottins boðum eða heimsins áeggjunum; haldið fast við þann veg, sem Jesús Kristur hefir vísað oss á, og sem einn getur leitt oss til eilífrar sáluhjálpar; reynið ekki til að telja sjálfum yður trú um, að „það sè friður og öllu óhætt", þegar guðsorð og samvizkan segja yður, að þèr farið villir vegar; leitizt ekki við að gjöra lítið úr þeirri hættu, sem þèr eruð í staddir, því hættan er ætíð mikil, þegar er að tefla um vora eilífu farsæld. Þetta er sú forsjálni, sem guðsorð kennir oss; það bannar oss alla áhyggju í veraldlegum efnum,

af því hún festir hjörtu vor of mjög við heiminn og hans hverfulu gæði; sú einasta áhyggja, sem vèr eigum að hafa, snertir vora eilífu sáluhjálp, því hana eigum vèr að efla með ótta og andvara; vèr eigum að vera vitrir, en „sá vitri er hræddur og forðast hið illa". Gætum vandlega þessarar helgu hræðslu, sem Skaparinn hefir gróðursett í samvizkum vorum, því hún gætir vor fyrir hinu illa, gætir vor fyrir því óttalega andvaraleysi, sem leiðir til eilífrar glötunar!

„Faðir, ó, faðir náða,
faðir sannleiks og dáða,
fyrirgef öll vor afbrot leið,
fyrir árnun Jesú, pínu og deyð!
Gæti vor Guð!" Amen.
(Messus. b. 290. 6.)

---

# 68. hugvekja.

1. Kor. 7., 31. „Þeir, sem njóta heimsins gæða, eiga að vera eins og þeir, sem ekki hafa þeim að fagna, því fegurð veraldar mun hverfa."

Það reynist jafnan satt, að „það þurfa sterk bein til að þola góða daga", að mönnunum hættir við að misbrúka heimsins gæði, og að það er engu lèttara að bera meðlætið vel og kristilega en mótlætið; já, það er samhljóða vitnisburður hinna mestu Guðs vina, að heimurinn sè enn þá hættulegri, þegar hann brosir á móti oss, heldur en þegar hann snýr við

oss bakinu. Þetta er líka eðlilegt, því „þar sem vor fjársjóður er, þar eru og vor hjörtu", og þau áhrif, sem tímanleg gæði hafa á hjörtu vor, miða til að festa þau við heiminn. Þar á mót finnur hið mótlætta og þjáða hjarta ekkert eptirsóknarvert í heiminum; það hefir farið varhluta af hans gæðum, og því veitir þess vegna lètt að yfirgefa hann; það hefir umgengni sína á himnum og leitar gleði sinnar í guðrækilegum hugleiðíngum. Ekkert huggar hina mótlættu sál betur í raunum hennar, en að geta sagt við sjálfa sig, að þessi heimur sè ekki hennar föðurland og að hin sönnu gæði sèu andleg og ósýnileg, að missir Guðs náðar sè það einasta verulega tjón, sem guðhrædd sál geti beðið, og með því oss sè bannað að festa hjörtu vor við hið jarðneska, þá eigi oss ekki að þykja eptirsókn í því. En þessar tilfinníngar, sem svo eðlilega vakna í mótlætinu, verða allir hlutir til að deyfa og slökkva í meðlætinu. Því það er næsta erfitt, kærir bræður! að verða leiður á þeim stað, þar sem allt brosir á móti oss, og skoða hèrvist vora eins og útlegðarstand, þegar allt gengur oss að óskum; það er næsta erfitt, að vera ekki af heiminum, þegar hann leikur við oss og fer með oss eins og óskabörn. Þá er hætt við, að mætti maðurinn velja um himininn eða jörðina, þá mundi hann heldur kjósa, að mega lifa hèr æfinlega; en af því leiddi það hugarfar, sem gjörði hann óhæfilegan fyrir eilífa sælu. En eins og meðlætið

freistar vor til að elska heiminn og þá hluti, sem í heiminum eru, þannig freistar það vor einnig til syndsamlegrar sjálfselsku og eigingirni. Guðsorð kennir oss, að vèr, eptir eðlisfari voru, sèum reiðinnar börn; að vèr sèum hegníngar og haturs verðir, því ekkert sè elskuvert nema það, sem er heilagt og gott, en vèr sèum allir syndugir og hvorfnir frá Guði; ekkert sè elskuvert, nema dyggð og ráðvendni, en „vèr höfum skort á þeirri hrósun, sem hjá Guði gildir.“ Og vissulega eru þær stundir í lífi voru, að vèr erum óánægðir með sjálfa oss og með allt, sem vèr gjörum; heimurinn kallar þetta leiðindastundir, en í raun og veru eru það þær einu stundir, sem sýna oss, hvernig vèr í raun rèttri erum; sem sýna oss, að vèr ekki erum elskuverðir. Frá þessari ógeðfeldu skoðun sjálfra vor dregur meðlætið oss; það tvístrar hugsunum vorum, svo vèr eigum næsta erfitt með að þekkja sjálfa oss rèttilega, með því vèr fegrum þá yfirsjónir vorar fyrir sjálfum oss, gleymum syndum vorum og verðum við það óhæfilegir til iðrunar og apturhvarfs. Af þessari geðþekkni með sjálfa oss leiðir drambsemi og sjálfsþótta; í meðlætinu hættir oss við að þakka það sjálfum oss, hyggindum vorum og framsýni vorri, en gleyma gjafaranum allra góðra hluta, og af þessu sprettur fyrirlitníng fyrir öðrum, sem ekki hafa sama láni og lukkukjörum að hrósa; og þessar tilfinníngar verða því hættulegri og skaðlegri, sem aðrir eru

vanir að smjaðra fyrir þeim, sem vel gengur í veröldinni. Enn fremur freistar meðlætið vor til munaðarlífis og vekur hjá oss ýmsar „skaðlegar og heimskulegar girndir, er sökkva mönnunum í ólukku og glötun." Að vísu getur mótlætið einnig freistað mannsins til syndar, komið honum til að mögla á móti Guði og hans handleiðslu, og vakið hjá honum óþreyju og óþolinmæði; en þó er öllu hættara við þessu í meðlætinu, og því hafa sumir haldið, að meðlætið væri merki upp á Guðs ónáð og guðlega hegníngu. En þessu er þó ekki þannig varið, heldur er meðlætið ein af Guðs náðar velgjörðum við oss mennina, sem er misbrúkun undirorpin, eins og allar Guðs gjafir. En það er vort, að bera meðlætið kristilega og samkvæmt gjafarans vilja, svo vèr ekki sætum hegníngu fyrir illa meðferð á því pundi, sem oss þannig er í hendur fengið. Og ber oss þá fyrst og fremst að íhuga það, sem postulinn segir, að „þeir, sem njóta heimsins gæða, eiga að vera eins og þeir, sem ekki hafa þeim af fagna," það er að skilja: að þó oss sè veitt það, sem getur fullnægt lyst holdsins og skilníngarvitanna, þá megum vèr ekki láta meira eptir þeim fyrir það, og eigum að gæta þess, að það sem gefur oss álit einúngis í heimsins augum, gjörir oss ekki betri í Guðs augum; því að í hans augum eru dyggðirnar og guðhræðslan vorir einustu fjársjóðir. Allt hið tímanlega skilur við oss á grafarbarminum, og vèr mætum, sviptir öllum vorum jarðneska

skrúða, frammi fyrir hans dómstóli, og höfum þá vor laun út tekið, ef vèr höfum borið meðlætið ókristilega og varið hinum stundlegu gæðum illa. Ef þú því, kristinn maður! hefir láni og lukku að hrósa, þá hugsa þú til þess, að kristnum mönnum er ekki heitið heimsins gæðum, og hafi guðleg forsjón látið þèr hlotnast þau, þá er það til þess, að þú lærir að meta þau rètt, og verja þeim rèttilega bræðrum þínum til góðs. Gættu þess, að sú sanna upphefð er innifalin í guðsótta, og að ekkert gjörir manninn auðvirðilegan nema syndin; gættu þess, að því meir sem hættan vex og freistíngarnar fjölga í meðlætinu, á því meiri árvekni og bænrækni þarftu að halda; gættu þess, að af þèr verður heimtaður reikníngskapur eigi síður en af hinum vesalasta auníngja, og að af þeim, sem mikið er lánað, verður og mikið heimtað. Hafir þú þar á mót, kristinn maður! farið varhluta af heimsins gæðum; eigir þú við bág kjör að búa og hafir einhvern mótlætiskross að bera, þá gættu þess, að sú sanna farsæld er ekki innifalin í tímanlegri heppni og velgengni, heldur í guðhræðslu samfara nægjusemi; gættu þess, að enginn hefir borið eins þúngan kross og frelsari þinn, og að flestir Guðs vinir hafa fengið að reyna eitthvað mótdrægt í þessu lífi; gættu þess, að „mótlætíngar þessa tíma komast ekki í samjöfnuð við þá dýrð, sem við oss mun opinber verða", gættu þess, að „fegurð veraldar mun hverfa" og ef þú ber mótlætið með þolinmæði

og undirgefni undir Guðs vilja, þá muntu á dauðastundinni ekki vilja skipta því við öll ríki veraldarinnar og þeirra dýrð. Hugsið jafnan um þessi sannindi, kærir bræður! og hvort sem Drottni þóknast að gefa yður mikið eða lítið af gæðum þessa heims, hvort sem hann lætur yður blítt eða strítt að höndum bera, þá breytið svoleiðis og verið þessum tímanlegu gæðum svoleiðis, að þèr farið ekki á mis við hin eilífu gæðin. Guð gefi oss náð til þess í Jesú nafni! Amen.

---

# 69. hugvekja.

Matth. 28., 19. Jesús sagði til sinna lærisveina: „Farið og kennið öllum þjóðum og skírið þær í nafni föður, sonar og heilags anda."

Eins og Krists guðdómlegu trúarbrögð er sú mesta ástgjöf, sem Drottinn hefir veitt mannkyninu, eins er það líka dásamlegur vottur um hans speki, hvernig hann hefir látið þau útbreiðast um heiminn, hvernig hann hefir gjört það dýrðlegt á jörðu, sem í heimsins augum var lítilmótlegt. Krists trúarbrögðum er svo varið, að þau þurfa ekki að ryðja sèr til rúms með herskildi nè kúgunarvaldi; þau eiga svo vel við mannlegan anda og geta svo vel bætt úr allri þörf sálna vorra, að þau geta útbreiðzt af sjálfum sèr, af eintómu valdi þess guðlega sannleika, sem þau hafa að geyma, því þau

eru „kraptur Guðs til sáluhjálpar hverjum þeim, sem trúir". Þau geta bætt úr öllu böli og andstreymi lífsins og gjört dauðann lèttbæran, með því að vekja trú, kærleika og von í hjarta mannsins; þau hugga hinn hrellda, styrkja hinn breyska, reisa hinn fallna á fætur aptur; þau kenna manninum, að njóta gleðinnar guðrækilega, bera mótlætið með þolinmæði og að deyja með undirgefni undir Guðs vilja. Þenna krapt Krists trúarbragða reynir hver kristinn maður, sem ekki byrgir eyru sín af ásettu ráði fyrir Guðs náðarköllun, eða forherðir hjarta sitt gegn hans náðarverkunum. Það er gleðilegt til þess að hugsa fyrir hvern kristinn mann, hvernig Guð hefir látið þessa sína náðargjöf útbreiðast í heiminum; því það sýnir oss betur en allt annað hans föðurlegu stjórn og hans kærleika til vor syndugra manna; og sömu gleði hlýtur það að vekja í hjörtum vorum, þegar vèr heyrum, að ljós Krists náðarlærdóms enn í dag er að renna upp fyrir heiðnum þjóðum, sem eru án Guðs í heiminum og sitja í vanþekkingar og villu myrkrum. En heiðnin er ekki einúngis fyrir utan Krists kirkju, heldur finnast, því miður, alltaf heiðínglegir lestir, heiðíngleg villa og vanþekking í sjálfri kristninni; og það er allt heiðni í hjörtum vorum og háttsemi vorri, sem ekki er endurfætt af evangelii náð, af Guðs orði og anda. Undir þessum vorum breyskleika stynjum vèr svo tíðum og þráum tilkomu Krists í vor hjörtu, svo vèr mættum afleggja verk

myrkranna, en verða ljóssins börn: börn þess algóða föður, sem vill, „að vèr verðum heilagir eins og sá, sem oss hefir kallað". Þess vegna er það svo gleðilegt að sjá, hvernig Krists trúarbrögð hafa krapt í sèr til að endurskapa manninn og betra hann; hvernig þau ryðja sèr til rúms í hjarta hins andvaralausa og vekja samvizku hans, svo hann játar syndir sínar fyrir Guði og snýr frá villu síns vegar; og vèr getum vel skilið í því, að það muni vera gleði á himnum yfir þeim, sem iðran gjörir, þegar vèr, sem þó erum syndugir og ófullkomnir, finnum til þessarar gleði. En sè það gleðiefni fyrir kristinn mann, að sjá aðra snúa sèr til Guðs, þá er það engu síður gleðilegt, þegar vèr á sjálfum oss reynum krapt Krists sáluhjálplega lærdóms, þegar guðsorð leiðir oss í allan sannleika og hans náð vekur vor hjörtu, svo vèr með einlægri iðrun könnumst við vorar ávirðíngar og flýjum til hans náðar og miskunar, sem engan sanniðrandi frá sèr rekur. Þökk sè því algóðum Guði fyrir það, að hann lèt oss fæðast í kristilegri kirkju, af kristnum foreldrum, og gaf oss kost á að uppfræðast um sitt ráð og sinn vilja. Lofaður sè góður Guð fyrir það, að hann lætur sitt blessaða lífsins orð búa ríkulega meðal vor. En því þýngri er vor ábyrgðarhluti, kristnir bræður! ef vèr vanrækjum heyrn og lestur guðsorðs; vanrækjum, að færa oss það rèttilega í nyt og geyma það í góðum og siðsömum hjörtum; ef vèr látum heið-

ínglegar villur og lesti magnast hjá oss, og lifum eins og þeir, sem ekki þekkja Guð.

Æ, finndu til þess, kristinn maður! hvílíkan fjársjóð þú átt í guðsorði, og geymdu það eins og þinn bezta dýrgrip; það eitt getur veitt þèr huggun og hugarrósemi, og vakið hjá þèr trúnaðartraust; það eitt getur hreinsað hjarta þitt, gefið þèr krapta, djörfúng og þolinmæði, hvað sem þèr ber að höndum, meðan þú dvelur í þessum dauðans líkama. Þú lítur með angri yfir þitt liðna líf, og þegar þú rannsakar hjarta þitt, verður þú þar enn var við bresti og breyskleika, og finnur til þess titrandi af ótta og kvíða, að þín synda sekt er mikil, og þú vogar ekki að lypta augum þínum upp til hins heilaga dómara, sem alla hluti sèr og þekkir. En þá kemur guðsorð til þín og boðar öllum þeim náð og synda fyrirgefníng, sem með iðrandi hjörtum flýja að frelsarans krossi, og af hans himnesku vörum heyrir þú þessi huggunarorð: „þèr eru þínar syndir fyrirgefnar; far og syndga ekki framar!" Þú finnur til vanmáttar þíns, og ert hræddur við þær freistíngar og tálsnörur, sem heimurinn og þín holdlega náttúra leggja fyrir þig og vilja draga þig frá Guði. En leyfir þú guðsorði að leiða þig, þá mun þig ekki vanta þá krapta, sem þú við þarft, nè þau náðarmeðul, sem þèr eru nauðsynleg, til að geta staðið stöðugur í hlýðni þinni við Guð og haldið þínu betrunarverki áfram. Leyfir þú guðsorði að leiða þig, þá munt þú fá áhuga á því, að

efla þína sáluhjálp með ótta og andvara, og þegar þú iðulega biður Guð og hugsar um hans heilögu alstaðarnálægð, þá munt þú verða var við hans krapt verkandi í sálu þinni, og reyna, að hann er máttugur í veikleikanum. Og þegar sorgir og þjáníngar sækja þig heim, þá munt þú reyna, að guðsorð er sá bezti huggari, því það fullvissar þig um, að „allt verði að þèna þeim til góðs, sem Guð elska" og „að hann agi hvern þann, sem hann elskar;" það fullvissar þig um, að sá algóði himneski faðirinn sendi þèr mótlætið í gæzkuríkum og vísdómsfullum tilgangi, að hann leggi þèr krossinn á herðar, til að reyna trú þína og æfa þig í þolinmæði og undirgefni undir hans blessaðan vilja; það fullvissar þig um, að hann leggi engum þýngri byrði á herðar, en hann fái borið, og sýnir þèr í anda þá óumræðilegu dýrð og sælu, sem þín bíður hinu megin grafarinnar, þegar þessi stutti reynslutími er liðinn, ef þú ber krossinn með kristilegri trú og þolinmæði. Ó, Guð! láttu þitt orð vera ljós á vorum vegum og lampa vorra fóta, láttu það vera vort athvarf í lífi og dauða! Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

---

# 70. hugvekja.

Jóh. 17., 3. „En það er eilíft líf, að þeir þekki þig einn sannan Guð og þann, sem þú sendir, Jesúm Krist."

Það er einhver sá háleitasti og huggunarfyllsti lærdómur kristilegrar trúar, að Guð er kærleikurinn, og að hann elskaði heiminn svo heitt, að hann gaf út sinn eingetinn son, til þess að hver, sem á hann trúir, ekki skuli fyrirfarast, heldur hafa eilíft líf. Það er því tilgangur guðlegrar gæzku, að leiða menniua til eilífs lífs; en á mannsins síðu útheimtist trúin, sönn og lifandi trú, sem er byggð á þekkíngu sannleikans og sýnir sig ávaxtarsama í kærleikanum. Í þessari trú er manninum ætlað að höndla eilíft líf: hið æðra og andlega líf, kærleikans líf í Guði, sem í eðli sínu er sælufullt og eilíft. En til þess að útskýra þetta enn betur fyrir oss, viljum vèr fáein augnablik láta hugann dvelja við orðið: eilíft líf, og hugleiða, hvað það eiginlega merkir. Eilíft líf merkir ekki neitt af því, sem vèr sjáum með vorum líkamlegu augum; því hvort sem vèr rennum þeim, þá sjáum vèr ekki annað, en hverfullt og fallvalt líf umhverfis oss. Hinir jarðnesku hlutirnir eru sífeldum breytíngum undirorpnir, og líf sjálfra vor er einatt á enda, þegar minnst vonum varir, svo vèr megum taka undir með postulanum og segja: „allt hold er sem gras og vegsemd þess sem blómi grassins; grasið er

þegar skrælnað og blómi þess fallinn". Hver hefir þá kennt dauðlegum mönnum að tala um eilíft líf? Hver hefir flutt þetta orð út um heiminn, inn í konúnganna hallir og kotúnganna hreisi, inn í skóla hinna skriptlærðu, inn í uppfræðíngu barnanna, inn í hjörtu mannanna? Hver, nema frelsari vor, sem einn hafði orð hins eilífa lífsins. Og það orð, sem faðirinn hafði gefið honum, gaf hann sínum postulum, og þeir hafa gefið oss það. En hann hafði ekki einúngis orð eilífs lífs, heldur og sjálft eilíft líf, því hann var hið eilífa orðið, og hann gefur öllum þeim eilíft líf, sem leita hans í trúnni og kærleikanum. Eilíft líf merkir ódauðlegt og sælufullt líf, og bendir út yfir takmörk dauðans og grafarinnar, af því fullkomin sæla á einúngis heima í himnaríki; en þó bendir það líka til þessa lífs og þess yfirstandanda tíma, og oss er boðið nú þegar á hverju augnabliki vors lífs, að höndla hið eilífa lífið, og vèr eigum hèr, eins og postulinn að orði kemst, „að fá forsmekk hinnar himnesku gáfu og reyna krapt komandi aldar"; og sjálfur Jesús talar um þetta líf, er hann segir: „Sá sem drekkur af því vatni, er eg mun gefa, hann skal að eilífu ekki þyrsta, heldur mun það vatn, sem eg mun gefa honum, verða í honum að lind uppsprettandi til eilífs lífs"; og postulinn Jóhannes talar um þá, „sem hafa eilíft líf í sèr veranda". Þar eð nú guðsríki er rèttlæti, friður og fögnuður í heilögum anda, og hið eilífa líf er fyllíng sannleika, rèttlætis

og kærleika: þá á hið eilífa lífið ekki að vera, og getur ekki verið, langt frá oss, og í hvert sinn, sem geislar sannleikans tvístra vanþekkíngar og villu myrkrum; í hvert sinn, sem rèttlæti sigrar rangsleitni og óráðvendni; í hvert sinn, sem elska til Guðs og manna yfirvinnur hið illa með góðu, og í hvert sinn, sem Guð sendir sinn frið niður í vor hjörtu: þá er það eilíft líft, sem þannig birtist. En í hverju hið eilífa lífið einkanlega og sèr í lagi sè innifalið, það hefir frelsari vor sagt oss með þessum orðum: „En það er eilíft líf, að þeir þekki þig einn sannan Guð og þann, sem þú sendir, Jesúm Krist." Ó, Guð! hvað væri vort líf annað en dauði, ef vèr ekki þekktum þig, þú eilífa lífsins uppspretta; ó, hversu huggunarlaus væri vor tilvera, ef vèr ekki þekktum þig, vor himneski lausnari! Alltaf höfum vèr þörf á því, kærir bræður! að gróðursetja í hjörtum vorum betur og betur þekkínguna á einum og sönnum Guði og þeim, sem hann sendi, Jesú Kristi. Alltaf þurfum vèr betur og betur að hugleiða Guðs óendanlegu náð og kærleika, af því kærleiksleysið, kaldsinnið og hálfvelgjan er svo rík í hjörtum vorum, og oss er svo hætt við, að hafa holdið og heiminn fyrir vorn Guð, að hafa annarlega Guði fyrir sönnum og lifanda Guði. Alltaf þurfum vèr betur og betur að hugleiða Guðs heilagleika og rèttlæti, til þess að innræta oss viðbjóð við syndinni og öllum saurugleik holdsins og andans. Æ! oss gleymist það svo

tíðum á freistínganna tímum, að syndin er viðurstyggð í augum hins heilaga og rèttláta Guðs, og að vèr með syndsamlegu athæfi útilokum sjálfa oss frá samfèlagi við hann og frá eilífu lífi. Alltaf þurfum vèr betur og betur að hugleiða Guðs almætti, alvizku og alstaðarnálægð, svo vèr beygjum oss undir hans voldugu hönd, auðmýkjum oss fyrir honum, setjum allt vort traust til hans, og lifum fyrir hans augsýn í kærleika og hlýðni. Já, ef vèr þekktum Guð betur, ef vèr betur og optar íhuguðum Guðs óendanlegu hátign, þá mundum vèr betur finna til þess, að hann er allt, en vèr erum ekkert; betur finna til þess, að vèr erum stórsyndugir og ómaklegir allrar hans náðar, og þessi tilfinníng mundi en kröptuglegar knýja oss til að biðja Guð um fyrirgefníngu synda vorra, í nafni Jesú Krists, vors frelsara og Drottins. Alltaf þurfum vèr betur og betur að þekkja vorn guðdómlega lausnara og hans óumræðilegu elsku til vor syndugra manna, því af þessari þekkíngu sprettur elska til hans og þakklæti við hann í hjörtum vorum, og löngun eptir að sameinast honum meir og meir, með því að deyja frá syndinni og lifa honum. Og sæll er sá, sem í sameiníngunni við Guð og frelsara sinn höndlar eilíft líf; þegar hèr í lífi er hann sæll, því hann hefir frið við Guð og finnur til hans náðar og velþóknunar í sálu sinni; og glaður og ókvíðinn getur hann tekið dauða sínum, því að hann deyr í Drottni, og verður fluttur

frá dauðanum til lífsins: til hins eilífa og alsæla lífsins, sem Guð hefir sínum börnum fyrirhugað. Æ, góði himneski faðir! gef þú oss náð til þess, að geta höndlað eilíft líf hèr í tímanum, svo vèr eilíflega fáum að lifa hjá þèr og frelsara vorum, Jesú Kristi. Bænheyr það í hans nafni! Amen.

---

# 71. hugvekja.

2. þessal., 3., 11. „En vèr heyrum, að sumir meðal yðar lifi óreglulega, vinni ekkert, heldur eyði tímanum til óþarfa."

Vèr vitum allir, kærir bræður! að vor gæzkuríki himneski faðir hefir gefið oss þetta líf til undirbúnings undir eilífðina, og hversu áríðanda það er fyrir oss, að verja þeim tíma vel, sem hann þannig af náð sinni hefir gefið oss. það er því ekki einúngis syndsamlegt, að eyða tímanum í lastanna þjónustu og í algjörlegu iðjuleysi, heldur einnig að verja honum óreglulega eða til óþarfavinnu. Kristileg brúkun tímans er ekki innifalin í sífeldri elju, nè komin undir því, að gefa sèr aldrei neina hvíldarstund, heldur undir því, að vinna með reglusemi og samkvæmt Drottins vilja. Hið kristilega trúarlíf er innifalið í reglusemi og hyggindum; þess vegna geta vorar óreglulegu girndir og geðshræríngar ekki kennt oss að verja tímanum vel, heldur einúngis guðsorð og skynsemin.

En í hverju er þá þessi reglusemi fólgin, sem á að stjórna gjörðum vorum og helga þær? Hún er fyrst og fremst fólgin í því, að vèr ekki gefum oss við öðru en því, sem snertir stöðu vora, og teljum ekki þau verk með skylduverkum vorum, sem óþreyja vor og girndir vorar vilja fá oss til að takast á hendur; og í annan stað í því, að vèr, hvernig sem stöðu vorri kann að vera varið og hversu mikið sem vèr höfum að gjöra, ætíð látum þau verk sitja í fyrirrúmi fyrir öllu öðru, sem snerta sáluhjálp vora. Mörgum hættir, því miður, við, að láta óþreyju og óreglulegar girndir stjórna athöfnum sínum; það er eins og þeir vili forðast og flýja sjálfa sig, og á allan hátt leitast við að komast hjá því að renna augunum inn í sin eigin hjörtu, af því þeir finna þar ekki annað en átölur samvizkunnar og ógeðfeldar hugsanir; þeir reyna því til að gleyma sjálfum sèr í sífeldu argi og elju. En með þessu móti verður þetta líf að þúngri og óbærilegri byrði, og maðurinn missir öldúngis sjónar á hinu æðra og eilífa lífi. Þar á mót hafa þeir, sem lifa vel og reglulega, vissa röð og reglu í öllum sínum gjörðum og jafnan tillit til þess, hvernig Drottinn hefir ætlazt til, að tímanum væri varið, og af þessari viturlegu reglusemi þeirra sprettur ánægja og jafnaðargeð, friður og sálarrósemi, sem gjörir þá hæfilega til að rannsaka sitt eigið sálarástand og hugsa um sína eilífu sáluhjálp. Umhugsanin um vora eilífu sáluhjálp og tillit til hennar á að helga

öll vor störf og allar vorar gjörðir; ef vèr ekki vinnum í guðsótta, þá er öll vor vinna árangurslaus; allt, sem vèr gjörum fyrir heiminn, fyrirferst með heiminum, en allt, sem vèr gjörum Guðs vegna og með tilliti til hans, fylgir oss inn í eilífðina. Það er að vísu satt, kærir bræður! að vèr þjónum Guði, þegar vèr gegnum þeim skylduverkum, sem stöðu vorri eru samfara; en þetta gjörum vèr því að eins, að vèr vinnum verk vor í guðsótta, af guðrækilegum hvötum og í guðrækilegum anda. Þau verk, sem einúngis eru unnin fyrir heiminn, til að útvega oss álit og lof hjá öðrum mönnum eða til að safna oss fallvöltum auði, hafa ekkert gildi í Guðs augum; þau eru ekki annað en barnalegur og heimskulegur leikur. Heimurinn dæmir öðru vísi um þetta; honum þykir líf þeirra manna veglegt og fagurt, sem geta safnað sèr auð fjár, komizt til valda og metorða og látið eptir sig einhver afreksverk; hann reisir þessum mönnum minnisvarða og heldur minníngu þeirra á lopti. En hafi þeir í gjörðum sínum ekki leitað Guðs dýrðar, heldur einúngis sinnar eigin dýrðar, þá hafa þeir eytt lífi sínu til einskis, og þó árbækur mannkynssögunnar geymi nöfn þeirra, þá eru þau þó útskafin úr lífsins bók. Hvað stoðar oss það, kærir bræður! þó vèr vinnum baki brotnu, þó vèr vinnum alla vora æfi með sálar eða líkama kröptum vorum, ef gjörðir vorar ekki eru í Guði gjörðar, ef þær ekki hafa miðað til að efla vora eilífu farsæld? Það er vissulega

tilhlýðilegt og skylda vor, að vinna fyrir lífsuppeldi voru og barna vorra, og bera umhyggju fyrir vorri tímanlegu velferð. En hvað stoðar oss þó þetta í eilífðinni, ef vèr ekki höfum uppalið börn vor í guðsótta, nè borið umhyggju fyrir vorri og þeirra andlegu og eilífu farsæld? Hvað stoðar oss það í eilífðinni, þó vèr hèr höfum getað aukið arfleifð vora og safnað miklum auði, ef vèr höfum misst vora himnesku arfleifð og ekki hirt um, að safna oss andlegum og himneskum auðæfum? Hvað stoðar oss það í eilífðinni, þó vèr hèr höfum verið þarflegir í mannlegu fèlagi, ef vèr aldrei höfum látið oss vera umhugað um, að efla og útbreiða guðsríki í vorum og annara hjörtum? Hvað stoðar oss það í eilífðinni, þó vèr höfum verið gæddir miklum og háleitum gáfum, ef vèr ekki höfum haft vit á að verja þeim í þjónustu hins eilífa sannleika, nè hirt um að vaxa í þekkíngu Drottins vors, Jesú Krists? Hvað stoðar oss það í eilífðinni, þó vèr hèr höfum þóknazt mönnum og átt marga vini, ef vèr höfum ekkert gjört til að þóknast Guði og eigum engan vin á himnum?

Hugfestum þessi sannindi, kristnir menn! og vinnum öll vor verk með kristilegri reglusemi og í kristilegum trúar og guðrækni anda; gætum þess jafnan, að tíminn, sem oss hèr er gefinn, er stuttur og dýrmætur, og að vèr á síðan eigum að standa Guði reikníngskap af því, hvernig vèr höfum varið honum; þá munum vèr aldrei áforma neitt það, sem Guði er á

móti, nè heldur eyða tímanum til óþarfa. Og á hverju kvöldi, þegar vèr höfum af lokið erfiði dagsins, þá göngum í reikníngskap við sjálfa oss um það, hvernig vèr höfum varið þeim liðna degi, og ef vèr verðum þess varir, að það er miður en skyldi, þá biðjum Guð fyrirgefníngar á því, og ástundum að verja hinum komanda degi betur. Leitum til þessa liðs og krapta hjá vorum himneska föður, því án hans megnum vèr ekkert, og biðjum hann að blessa öll vor störf í Jesú nafni, svo þau verði til þess að útbreiða hans dýrð og efla vora sáluhjálp. Hans náð sè með oss í vöku og svefni, á degi og nóttu! Amen.

---

# 72. hugvekja.

Matth. 11., 29.—30. Jesús sagði: „Takið á yður mitt ok og lærið af mèr, því eg em hógvær og af hjarta lítilátur, og munuð þèr finna hvíld sálum yðar, því mitt ok er inndælt og mín byrði lètt."

Allir, sem vilja vera Jesú sannir lærisveinar, verða að breyta eptir honum og leitast við að feta í hans heilögu fótspor; en allir, sem vilja fylgja honum, verða og að hans boði að taka á sig hans ok og bera hans byrði, því að þetta er, eins og hann hefir sjálfur sagt, eina ráðið til þess að geta fundið hvíld sálu sinni. En þegar frelsarinn bauð oss, að gangast undir sitt ok og sína byrði, þá fullvissaði

hann oss um, að þetta ok væri inndælt og þessi byrði lètt. Mun það nú ávalt reynast þannig, kærir bræður? Munu þeir ekki þvert á móti vera allmargir, sem þykir Krists ok vera ógeðfelt og hans byrði þúng? Og hvað mun þá valda þessu? Mun frelsari vor hafa viljað fegra þetta fyrir oss og segja oss það öðru vísi, en það er í raun og veru? Nei, kristnir menn! í hans munni voru aldrei svik fundinn; hann var sannleikurinn sjálfur. Leitum heldur að orsökinni til þess hjá sjálfum oss. Þegar oss finnst Krists ok vera óþægilegt og hans byrði þúng, þá kemur þetta einkanlega til af því tvennu, að vèr tökum hans ok svo sjaldan á oss, og göngum ekki undir hans byrði, nema að nokkru leyti. Vèr verjum ekki nema einstöku augnablikum, til að taka á oss Krists ok, eða með öðrum orðum: til að efla vora sáluhjálp, og þegar þessi augnablik eru liðin, fyllum vèr aptur hjörtu vor með veraldlegum hugsunum, áhyggjum og sorgum, og gefum þannig aldrei Guðs náð tíma eða tækifæri til að lètta undir byrðina með oss, eða vekja hjá oss þá hina inndælu huggun, sem Krists ok veitir þeim, sem bera það trúlega og með stöðuglyndi. Þegar Jesús fullvissaði oss um, að sitt ok væri inndælt og sín byrði lètt, þá bauð hann oss að bera það daglega, því það á einnig heima í vorum sáluhjálparefnum, að „vaninn gefur lystina"; vèr hljótum að verða guðhræðslunni handgengnir, til að geta þekkt hennar unað og helga að-

dráttarkrapt. Guðhræðslunni er öðru vísi varið en syndinni. Syndin er ekki þægileg nema í fyrstunni, og því lengur sem áfram er haldið í henni, því beiskari verður hún, og lastanna ok verður því þýngra og óbærilegra, sem það er lengur borið. En því meiri framförum sem þèr, kærir bræður! takið í guðhræðslunni, því inndælli og huggunarfyllri verður hún; því meir sem girndir yðar spekjast, því greiðfærari verður dyggðanna vegur, og því fegnari verðið þèr því, að hafa slitið af yður syndanna fjötur. Þar á mót mætið þèr í fyrstunni ýmsum mótspyrnum og tálmunum af yðar holdlegu náttúru og heimsins ginníngum, og ef þèr látið þær yfirbuga yður og leiða yður aptur til ótrúmennsku við Drottinn, þá farið þèr á mis við þá huggun, sem guðhræðslan veitir, og finnið ekki hvíld sálum yðar. Þegar oss finnst Krists ok vera óþægilegt og hans byrði þúng, þá kemur þetta ekki einúngis til af því, að vèr tökum hans ok svo sjaldan á oss, heldur og af því, að vèr gjörum það ekki nema að nokkru leyti. Þegar vèr biðjum Guð, höfum vèr hugann híngað og þangað, og bæn vor snýst einatt upp í hègómlegar hugsanir; vèr forðumst, ef til vill, að hata óvini vora, en oss vantar kristilegan bróðurkærleika; vèr göngum til altaris og neytum Drottins kvöldmáltíðar, en oss vantar þá brennandi trú og elsku, sem gjörir nautn þessarar heilögu náðarmáltíðar svo unaðarfulla; vèr tökum oss stundum út úr solli og hávaða heimsins, en oss leiðist í

einverunni, af því vèr tökum ekki þangað með oss rólega skapsmuni og sefaðar girndir, og í stuttu máli: vèr tökum ekki Krists ok á oss nema til hálfs. Vèr viljum bæði þjóna Guði og heiminum; hjarta vort er tvískipt og dregst sundur af gagnstæðum tilhneigíngum, og því getur það ekki fundið frið nè sanna hvíld. Það er því rangt af oss, að kenna Krists oki og guðhræðslunni um það, sem spillíngu vorri er að kenna; það er ekki guðhræðslan, sem er óþægileg, heldur eru hjörtu vor óhrein og spillt. Ef vèr stjórnum vorum syndsamlegu tilhneigíngum, þá munum vèr reyna, að okið er inndælt; ef vèr hreinsum hjörtu vor, þá mun oss þykja byrðin lètt; ef vèr elskum Jesúm Krist, þá munum vèr finna hvíld sálum vorum.

Látum oss þá, kærir bræður! þjóna Drottni af öllu voru hjarta, og þá mun hans þjónusta verða oss inndæl; gefum oss að öllu leyti á hans vald, án þess lengur að áskilja oss rètt til að láta eptir girndum vorum. Hugsið ekki, að iðrunartárin sèu ætíð svo beisk; þau eru það ekki nema í fyrstunni, en eptir á veita þau sálunni hvíld og hugsvölun, þegar iðranin er heit og einlæg, því miskunsemdanna faðir og Guð allrar huggunar þerrar þau sjálfur af kinnum sinna barna, og sendir sinn himneska frið niður í þeirra hjörtu. Komið því, kærir bræður! og reynið þetta sjálfir; reynið Drottins fyrirheit; reynið, hvort hans ok ekki er inndælt og hann byrði lètt; reynið hans

trúfesti og hvort hann efnir ekki það, sem hann hefir lofað! Vèr höfum svo lengi reynt heiminn, og ekki fundið neina trúfesti hjá honum; hann lofaði oss öllu fögru, skemtunum og gleði, friði og farsæld; en hann hefir dregið oss á tálar og bakað oss ófarsæld. Látum oss því yfirgefa hans þjónustu og snúa oss til Drottins, og vèr munum reyna, að hans trúfesti er eins eilíf og hans miskunsemi. Æ, er þó ekki öll sæla í því innifalin, að finna hvíld fyrir sálu sína, og hvar finnur sálin hvíld nema í Guðs náðarfaðmi? Í heiminum er ófriður, eða það sem verra er: svikul værð, sem leiðir til andvaraleysis; þar finnur sál vor enga sanna hvíld; þar velkist hún í áhyggjum og sorgum þessa lífs, þar er hún hrakin og hrjáð innan um ástríður og freistíngar, og við og við ónáðuð af ásökunum samvizkunnar; þar stynur hún þreytt og örmagna undir syndanna þúngu byrði og fellur að lokunum í örvænting. Himneski ljúfi lausnari! þú sem bauðst oss að taka á oss þitt ok og bera þína byrði, þú sagðir líka: „komið til mín allir þèr, sem erfiðið og þúnga eruð hlaðnir, eg skal endurnæra yður." Æ! vèr komum nú til þín, og biðjum þig um endurnæríngu og hugsvölun fyrir vor mæddu hjörtu; lèttu af oss vorri óbærilegu syndabyrði, svo vèr getum tekið á oss þitt ok og fáum að reyna, hversu það er inndælt og þín byrði lètt. Þú, sem sveittist blóðinu undir vorri syndabyrði, gef þú oss náð til þess, að geta fellt einlæg iðr-

unartár undir þínum krossi og elskað þig af öllu hjarta; þá verða tár iðrunarinnar að tárum elskunnar, og vèr finnum hvíld sálum vorum í þínum blessaða náðarfaðmi. Amen.

---

# 73. hugvekja.

Jóh. 3., 20. „Hver sem illt að hefst, hatar ljósið og kemur ekki til ljóssins, svo verk hans verði ekki uppvís."

„Heimurinn liggur í hinu vonda," segir guðspjallamaðurinn Jóhannes (1. Jóh. 5., 19.); og sèum vèr ekki orðnir öldúngis samdauna heiminum og með öllu tilfinníngarlausir fyrir greinarmuni góðs og ills, hljótum vèr að játa, að þessu er þannig varið, að í heiminum drottnar synd og óguðlegt athæfi, sem birtist í alls konar myndum. En heimurinn veit ekki af þessu; hann sefur sætt og vært í hinu illa; hann sefur í andvaraleysi og vill ekki láta vekja sig. Farir þú að reyna til að vekja hann, farir þú að tala við hann um spillíngu hans og leiða honum hans ógæfusama ástand fyrir sjónir, þá verður hann hissa og reiðist ákaflega. Eins og Gyðíngar forðum reiddust frelsara vorum þegar hann bar þeim spillíngu þeirra á brýn, eins reiðist heimurinn enn í dag þegar fundið er að við hann, „því hver sem illt að hefst, hatar ljósið og kemur ekki til ljóssins, svo verk hans verði ekki uppvís".

Gyðíngar töldu sèr það til gildis, „að þeir væru Abrahams synir," og þegar Jesús sagði þeim, að verk þeirra lýstu því, að þeir væru ekki sannkölluð Abrahams börn, æptu þeir, „að hann væri samverskur og hefði djöful", og „tóku upp steina til að kasta á hann" (Jóh. 8., 48., 50.). Eins er þessu varið enn í dag. „Vèr erum kristnir menn"! æpir syndum spillt veröld; vildi þá einhver rísa upp og segja: „ef þèr væruð kristnir, þá lifðuð þèr kristilega; en nú lifið þèr ókristilega, í líferni yðar sjást engin merki til kristilegrar trúar nè kristilegs kærleika, og því eruð þèr ekki kristnir, heldur blindir og harðsvíraðir heiðíngjar." Ef einhver talaði þannig, þá yrði heimurinn ákaflega reiður. Frá því Steffanus var rekinn út úr borginni og grýttur, af því hann talaði sannleikann með djörfúng, hafa ótal píslarvottar látið líf sitt, ótal verið settir í fjötur og fangelsi og ofsóktir með báli og brandi, af því að þeir leituðust við að vekja hina andvaralausu veröld af hennar syndasvefni. Nú er að vísu slíkum opinberum ofsóknum slotað, en hugarfar heimsins er enn þá óumbreytt; „hann hatar alltaf ljósið og kemur ekki til ljóssins, svo verk hans verði ekki uppvís." Marga gildir einu, þó talað sè um lestina yfir höfuð; en sè komið við þeirra kaun, sè fundið að þeirra löstum, eða þeir haldi, að verið sè að setja ofan í við sig, þá fyllast þeir heipt og reiði, hæða og hata þá, sem segja þeim til syndanna og

vilja fá þá til að bæta ráð sitt, og halda eins eptir sem áður áfram í sínu holdlega andvaraleysi, án þess að hugsa um hvern enda það muni taka. Já, myrkrið hatar ljósið; heimurinn hatar sannleikann. En ljósið mun vinna sigur yfir myrkrinu og sannleikurinn yfir heiminum, og eins vissulega og guðsorð hefir sannleika að geyma, eins sannarlega mun sá tími koma, að allt það, sem nú er í myrkrunum hulið, verður í ljós leitt. Sannarlega kemur þessi tími fyrir alla, eins fyrir heimsins börn og guðsbörn; eins fyrir drottna þessarar veraldar og hina lítilmótlegustu meðal mannanna, eins fyrir ríka og fátæka, vitra og fáfróða, eins fyrir þá, sem óttast Guð og ganga á hans vegum, og hina, sem fyrirlíta Guð og fótum troða hans boðorð. Fyrir oss alla kemur þessi tími, dauðans og dómsins tíma, og þá „hljótum vèr allir að birtast fyrir Krists dómstóli, svo hvereinn fái laun eptir sinni breytni í líkamanum, hvort sem hún hefir verið góð eða vond" (2. Kor. 5., 10.). Fyrir þessum dómstóli átt þú einnig að mæta, andvaralausi syndari! og átt þá von á því með ótta og skelfíngu að heyra dómarans rödd. Þó þú nú ekki vilir trúa sannleikanum, þó þú nú gjörir gis að honum og þverskallist, þá getur ekki vantrú þín kollvarpað sannleikanum, og þegar hinn mikli og óttalegi dagur upp rennur, þá mun spèhlátrum þínum lokið og þriózka þín breytast í angist. Leitir þú ekki ljóssins, meðan Guðs náðarsól lýsir þèr, þá mun þèr

verða útskúfað í hin yztu myrkur; því þegar mannsins sonur kemur í sinni dýrð og allir heilagir englar með honum; þegar hann situr í sínu dýrðar hásæti og þjóðirnar safnast til hans: þá mun hann kalla guðsbörn til að eignast það ríki, sem þeim var fyrirhugað frá veraldar upphafi; en hina óguðlegu mun hann reka frá sèr í þann eilífa eld, sem búinn er djöflinum og árum hans, og þá munu þessir fara til ævarandi kvala, en þeir góðu til eilífrar sælu" (Matth. 25., 31., 41., 46.). „Vakna því þú sem sefur og rís upp frá dauðum, þá mun Kristur lýsa þèr" (Efes. 5., 14.). Snú þú þèr til frelsara þíns, og þá mun hann sýna þèr þitt eymdarfulla ástand; sýna þèr, að sá vegur, sem þú gengur, leiðir til glötunar; með ljósi sinna heilögu sannleiksorða mun hann leiða þig á lífsins veg, og þegar þú ert þangað kominn, þá muntu læra að elska ljósið, því þá verða gjörðir þínar í Guði gjörðar. Látum oss, kærir bræður! hata myrkrið og myrkranna verk, en elska ljósið og framganga í ljósinu sem ljóssins börn. Þó vèr hötum ljósið og viljum eigi koma til ljóssins, svo verk vor verði ekki uppvís, þá gætum þess, að þó oss takist að dyljast fyrir mönnum og fela athæfi vort fyrir þeim, þá getum vèr þó ekki hulið oss nè þau fyrir Guði, sem sèr alla hluti og rannsakar hjörtu vor og hugrenníngar; hann fylgir oss með sínu heilaga augnatilliti og gefur gætur að vorri breytni. Æ, þú eilífi ljósanna faðir! sendu geisla þinnar

náðar niður í vor hjörtu og tvístraðu þeim villumyrkrum, sem vilja blinda augu vor; kveik þú elsku til ljóssins í sálum vorum, svo vèr látum þitt orð vera ljós á vorum vegum og lampa vorra fóta, meðan vèr ráfum í þessum dimma dal og dauðans skugga. Æ, vertu sjálfur vort ljós og leiðarstjarna í lífi og dauða! Amen.

---

# 74. hugvekja.

Lúk. 15., 1. „þessi tekur að sèr bersynduga og hefir samneyti við þá.

Lúkas guðspjallamaður segir oss frá því, að margir tollheimtumenn og bersyndugir hafi nálgast Jesúm til að hlýða á kenníngar hans, en þá hafi hinir skriptlærðu og Faríseararnir möglað og sagt: „þessi tekur að sèr bersynduga og hefir samneyti við þá" (15., 1.). þá framsetti Jesús þær fögru og þýðingarmiklu dæmisögur um hinn týnda sauð, þann tapaða peníng og hinn glataða son, og sýndi með þeim, að hann var til þess í heiminn kominn, að leita að hinu týnda og glataða: að endurleysa syndugt mannkyn og leiða það aptur til föðurhúsanna, til hins eilífa miskunsemdanna föður. Eptir því sem vèr þekkjum til Fariseanna og hinna skriptlærðu, þá getum vèr getið því nærri, að þessar dæmisögur hafa vakið hjá þeim enn meiri heipt og hatur til frelsarans,

en þar á mót hafa þær verið tollheimtumönnunum og hinum bersyndugu til huggunar og hughreystíngar. Og þegar vèr nú rennum augunum út yfir mannlegt líf og virðum fyrir oss mennina yfir höfuð, verðum vèr þá ekki varir við þenna sama mismun á hugarfari manna? Eru ekki sumir menn svo holdlega og veraldlega sinnaðir, að þeir eins og styggjast af því, að guðsorð skuli inniloka allt undir synd, að þeir álíta þann lærdóm sèr óviðkomanda: að Jesús sè kominn til að leita að hinu týnda og glataða? Þeir þykjast ekki þurfa á endurlausnara að halda, og hugsa, að þeir án hans geti orðið sáluhólpnir og náð friðarins höfnum þá sjaldan hugur þeirra hvarflar þangað. Hjörtu þeirra eru svo full af sjálfsþótta og drambsemi, að þeir hrinda frelsaranum frá sèr og treysta sínu eigin rèttlæti. Hinir þar á mót, sem eru vaknaðir til æðra lífs, sem fyrir alvarlega sjálfsprófun eru komnir til þeirrar viðurkenníngar, að þá vantar þá hrósun, sem fyrir Guði gildir, að þeir eru breyskar og brotlegar mannskepnur, ónýtir þjónar og villuráfandi sauðir: fyrir þá er enginn lærdómur eins huggunarríkur og sá, að þeir eiga endurlausnara, að hann er sá góði hirðir, sem leitar að hinum týndu og fráviltu sauðum og vill leiða þá aptur til föðurhúsanna, að þeir í allri mæðu og baráttu þessa lífs geta fundið náð og fyrirgefníngu, hjálp og liðveizlu hjá almáttugum Guði, þegar þeir biðja hann í Jesú nafni með trúuðum og iðrandi hjörtum. Og þegar vèr,

kærir bræður! rennum augunum inn í vor eigin hjörtu, verðum vèr þá ekki varir við þenna sama mismun? Verðum vèr ekki varir við eins og tvenns konar hugarfar hjá sjálfum oss? Annað, sem líkist hugsunarhætti og hjartalagi Faríseanna og hinna skriptlærðu, sem er svo gjarnt að treysta voru eigin rèttlæti og fegra og afsaka breyskleika vorn og yfirsjónir vorar; sem er svo innlífað þessum jarðnesku og veraldlegu hlutum, að það blindar augu vor, svo vèr missum sjónar á frelsara vorum og hugsum lítið um dauðann, um þann reikningskap, sem vèr eigum að lúka, og um kjör vor í eilífðinni. En að hinu leytinu hreifir sèr þó við og við sú tilfinníng innra hjá oss, að vèr sèum syndugir, að vèr ekki ávalt breytum eptir Guðs vilja, heldur brjótum margfaldlega; að vèr einatt sèum tómlátir í að gegna vorum skyldum, kaldsinna og kærleikslausir; já, að vèr förum villir vegar og megnum ekki að komast aptur af sjálfsdáðum á rètta leið; og þegar þessi tilfinníng hreifir sèr hjá oss, þá er það næsta huggunarfullt fyrir oss, að heyra þann náðarboðskap, að Jesús leitar að hinu týnda og glataða, að hann tekur að sèr bersynduga og hefir samneyti við þá. Ó, að þessi tilfinníng, auðmjúk tilfinníng vors eigin vanmáttar og breyskleika og vorrar miklu syndasektar ávalt gæti fengið yfirhönd yfir voru holdlega og veraldlega hugarfari, yfir hroka vorum og sjálfbyrgíngskap, yfir þverúð og þrjózku hjartans: þá mundum vèr aldrei láta

oss tæla af heimsins afvegaleiðandi ginníngum eða holdsins spilltu fýsnum, heldur fylgja vorum góða hirði, vorum himneska lausnara, á þeirri leið, sem til lífsins liggur, til eilífs lífs og eilífrar sælu! En því miður deyfist þessi góða tilfinníng hjá oss í solli heimsins, í áhyggjum og sorgum þessa lífs, og nema rödd guðsorða lèti við og við til sín heyra og vekti samvizkur vorar með alvarlegum áminníngum, mundi hún algjörlega slokkna, og vèr algjörlega missa sjónar á hinu æðra og eilífa lífi, sem vèr erum kallaðir til. En hann, sem lèt lífið fyrir sína sauði, vakir enn yfir sinni hjörð; hann sem kom til að leita að hinu týnda og glataða, hann lætur ennþá orð áminníngarinnar hljóma í vorum eyrum, til að glæða hjá oss guðrækilegar tilfinníngar, til að vekja oss til iðrunar og apturhvarfs. Byrgjum því ekki eyru vor fyrir hinni vekjandi röddu, fyrir áminníngum Jesú sáluhjálplega lærdóms; látum oss ekki farast verr en tollheimtumönnum og bersyndugum, sem flykktust að Jesú til að hlýða kenníngu hans; því sèum vèr tregari til að hlýða hans orði, þá munu þeir verða vorir dómendur. Tollheimtumenn og bersyndugir fundu til synda sinna, og því komu þeir til Jesú til að leita sèr huggunar og upplýsíngar um Guðs vilja; skyldu þá hjörtu vor, sem betur en þeir þekkjum Guðs boðorð, vera svo miklu harðari og óbetranlegri, að vèr ekki finnum til neins angurs yfir vorum syndum; ekki finnum hjá oss neina löngun eptir að koma til Jesú og heyra lífsins orð töluð af

hans munni? Æ! það er þessi hálfvelgja hjartans, þetta tvískipta hugarfar, þetta alvöruleysi í vorum sáluhjálparefnum, sem gjörir oss svo hegníngarverða. Vèr viljum að sönnu hlýða guðsorði, en gleymum því að geyma það í góðu og siðsömu hjarta, og þess vegna ber það ekki ávöxt hjá oss, og getur ekki lifað í vorum veraldlega sinnuðu hjörtum; vèr viljum að sönnu hlýða guðsorði, en viljum þó heldur hlýða heiminum og hans tælandi röddu; vèr viljum að sönnu hlýða guðsorði, en heimfærum ekki annað til vor úr því en huggunargreinir Guðs náðarríku fyrirheita, en skeytum lítið um iðrun og apturhvarf, þó guðsorð gjöri þetta að skilyrði fyrir vorri sáluhjálp. Æ, góði Guð! sannfærðu mig um það af þínu heilaga orði, að eg er stórsyndari, að eg hefi syndgað í himininn og fyrir þèr og er þess ekki verður, að kallast sonur þinn; sendu mèr hreinan iðrunaranda, svo minn andi verði harmþrúnginn og hjarta mitt sundurkramið af tilfinníngu míns eigin óverðugleika og minnar syndasektar, svo eg í hjartans auðmýkt finni til þess, að Jesús er líka minn frelsari og að eg væri týndur og glataður, ef hann ekki tæki bersynduga að sèr og hefði samneyti við þá. Góði himneski frelsari! tak þú mig að þèr og haf þú samneyti við mig; tak þú þèr bústað í mínu hjarta, svo eg verði fús á að hlýða þèr og þínu blessaða orði! Leið þú mig á helgunarinnar veg, því helgunarinnar vegur liggur til himins, til eilífs lífs hjá þèr! Amen.

---

# 75. hugvekja.

Matth. 7., 7. Jesús sagði: „Biðið, og mun yður gefast; leitið, svo munuð þèr finna; knýið á, og mun fyrir yður upplokið verða."

Um ekkert áminnir guðsorð oss optar en að biðja Guð og láta allar vorar nauðsynjar framkoma fyrir hann í bæninni; og guðsorð heitir oss bænheyrslu, þegar vèr biðjum um það sem er eptir Guðs vilja og þreytumst ekki að biðja. Og þó eru þeir menn til og kalla sig kristna, sem halda að bænin sè árangurslaus. „Hvernig ætti bænin," segja þeir, „að hafa krapt í sèr til að breyta eilífum ráðsályktunum hins almáttuga og óumbreytanlega Guðs"? En þessir menn gleyma því, að Guð er ekki einúngis almáttugur og óumbreytanlegur, heldur einnig miskunsamur og allsvitandi, alvitur og trúfastur. Miskunsemdanna himneski faðir byrgir ekki eyra sitt þegar hans hjálparþurfandi börn flýja til hans miskunar; „hann er nálægur öllum þeim, sem hann ákalla, öllum, sem ákalla hann einlæglega; hann gjörir það, sem þeir guðhræddu girnast; þeirra kall heyrir hann og frelsar þá" (Sálm. 145., 18.—19.). Sá alskygni Guð þekkir vorar hugrenníngar álengdar, og hann þekkir líka bænir vorar, áður en þær stiga upp frá hjartanu og koma fram af vörunum; og af því hann eptir sinni eilífu speki jafnan velur þau beztu meðul til að ná þeim bezta tilgangi, hefir hann ályktað að hjálpa þeim, sem ákalla hann og þakka honum fyrir

hans vernd og blessun, af því að þessar auðmjúku, trúuðu og þakklátu sálir eru hæfilegastar til að þiggja hans velgjörðir án þess að vanbrúka þær. Eða gjöra ekki góðir og skynsamir foreldrar opt hið sama? Vili börnin heimta allt með sjálfskyldu, eða geti ekki fengið sig til að biðja góða foreldra, þá væri það til að gjöra þau enn þrjózkari og heimtufrekari, að láta allt eptir þeim. Þess vegna vilja góðir foreldrar láta börnin læra að biðja; og eins breytir vor himneski faðir við oss. Hann hefir boðið oss „stöðugt að biðja og ekki þreytast" (Lúk. 18., 1.), og sannleikans munnur hefir sagt: „Biðið, og mun yður gefast; leitið, svo munuð þèr finna; kýið á, og mun fyrir yður upp lokið verða." Og þó eru þeir menn til, sem segja: „Eg vildi feginn trúa því, að Guð bænheyri; því hvað er huggunarfyllra, en að trúa þessu? En eg get ekki trúað því, því eg hefi tekið eptir því, að þeir, sem beiddu Guð, fengu hvorki meira af tímanlegum gæðum nè meiri bót á böli sínu en hinir, sem ekki báðu hann." Verið getur, að þeir hafi ekki fengið meiri tímanleg höpp en hinir, nè fljótar verið lètt af þeim líkamlegum krossburði; en veiztu þarfyrir, kristinn maður! hvaða ávexti bænir þeirra báru fyrir þeirra trúuðu hjörtu? Hafi bænaiðjan styrkt þeirra þolinmæði og veitt þeim hugarrósemi og nægjusemi, getur þú þá neitað því, að Drottinn hafi blessað bæn þeirra og látið hana bera ávöxt? Þú segist hafa reynt það á sjálfum þèr, að

það sè árangurslaust að biðja; þú hafir sent brennandi bænarandvörp upp í himininn, en enginn hafi svarað þèr; bænin hafi enga hugsvölun veitt þèr, og því hljótir þú að efast um, að bænir mannanna megi sè nokkurs hjá Guði." „Bænir mannanna," segir þú. En um hvaða menn talar þú? Eru það trúaðir, eða hinir vantrúuðu og efablöndnu? Eru það hinir guðhræddu og ráðvöndu, eða hinir óguðlegu og óráðvöndu? Eru það þeir, sem biðja vel, eða þeir, sem biðja illa? Æ! látum oss ekki bæta synd ofan á synd, fyrst með því að biðja illa og síðan efast um Drottins trúfesti, af því hann ekki heyrir vorar heimskulegu bænir; látum oss heldur með blygðun játa, að oss alla vantar mikið á, að geta beðið rèttilega; látum oss í auðmýkt játa, að „vèr vitum ei hvers biðja ber, breyskleikinn holds því veldur," að vèr af sjálfum oss ekki getum lært að biðja eins og ber, af því vèr sjáum ekki, hvað oss er fyrir beztu, og elska vor til hinna tímanlegu hluta er svo mikil, að oss hættir við að láta þá sitja í fyrirrúmi fyrir hinum andlegu og eilífu. En uppfræddir af guðsorði vitum vèr, að það er vili vors algóða himneska föður, að vèr skulum líkjast frelsara vorum og verða heilagir eins og sá er heilagur, sem oss hefir kallað, og að einúngis þau gæði, sem geta eflt helgun vora, eru þess verð, að vèr sækjumst eptir þeim og biðjum Guð um þau. Í „drottinlegri bæn" hefir líka frelsarinn sýnt oss, að vèr einkum og sèr í lagi eigum að biðja Guð um

þessi andlegu og himnesku gæði; en með því hann einnig hefir leyft oss að biðja um „daglegt brauð," þá megum vèr einnig biðja vorn himneska föður að gefa oss það af tímanlegum gæðum, sem hans speki sèr að oss er þènanlegt, og sem að er vor einlægur ásetníngur að verja honum til dýrðar og til að efla með því sanna velferð sjálfra vor og náúnga vors. Eptir Jesú heilaga dæmi eigum vèr ekki einúngis að biðja fyrir sjálfum oss, heldur og fyrir náúnga vorum. Það kann að þykja óþarfi að minnast á þetta, þareð það leiðir beinlínis af því kærleikans boðorði, sem býður oss að elska aðra eins og sjálfa oss. En æ, því miður, mannleg spillíng og eigingirni lýsir sèr einnig í þessu. Eða munu þeir ekki vera næsta margir, sem ekki kemur til hugar að biðja fyrir náúnga sínum? En það er ekki furða, þó mönnum gleymist þetta, þegar þeim gleymist að biðja fyrir sjálfum sèr. En frelsarinn hefir ekki einúngis kennt oss, um hvað vèr sèr í lagi eigum að biðja Guð, heldur einnig, hvernig og með hvaða hugarfari vèr eigum að gjöra það. Hann, sem var heilagur og eitt með föðurnum, fèll þó fram á ásjónu sína og baðst fyrir með djúpri og hjartanlegri auðmýkt, segjandi: „þó ekki minn, heldur verði þinn vili." Æ, hvernig eigum vèr þá, aumar og syndugar mannskepnur, að geta auðmýkt oss nógsamlega, þegar vèr í bæninni komum fram fyrir hinn alvalda konúng himins og jarðar, fram fyrir hinn heilaga og rèttláta Guð,

„í hvers augum himnarnir ekki eru hreinir!" Æ, hlýtur það ekki að standa oss lifandi afmálað fyrir hugskotssjónum, að vèr erum dupt og aska og að „vèr erum minni allri Guðs miskunnsemi og trúfesti!" þegar vèr þannig í auðmýkt hjartans og undirgefni undir Guðs vilja biðjum hann í trausti til vors frelsara friðþægíngar, biðjum hann um það sem er eptir hans vilja, þá biðjum vèr í Jesú nafni og megum vera vissir um bænheyrslu, og þá munum vèr reyna það, sem allir Guðs vinir fyrr og síðar hafa reynt, að bænin til Guðs, auðmjúk og trúuð bæn, fyllir hjartað friði og fögnuði og þeim sælutilfinníngum, sem eru forsmekkur eilífs lífs. Ó! hve satt er það sem skáldið segir:

„Bænin má aldrei bresta þig,
búin er freistíng ýmislig;
þá líf og sál er lúið og þjáð,
lykill er hún að Drottins náð."

Já, bænin er sannkallaður „lykill að Drottins náð;" hún lýkur upp fyrir oss dyrum himnaríkis, því hún sameinar oss Guði og vorum frelsara, hún hreinsar, huggar og helgar vor hjörtu og gjörir oss hæfilega fyrir himneska sælu. Drottinn minn! láttu mig ekki þreytast að biðja þig; láttu mig ekki sleppa þèr fyrr en þú blessar mig af ríkdómi þinnar náðar; láttu mig ekki sleppa þèr að eilífu! Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

---

# 76. hugvekja.

Lúk. 14., 11. „Hver sig sjálfan upp hefur, hann mun niðurlægjast."

Eins og Guð er í öllum hlutum, þannig er hann og öllum hlutum ofar; hann er sú æðsta vera og hið sanna og verulega í öllum hlutum. Það sem ekki sprettur frá honum eða byggist á honum, hlýtur því að hverfa aptur og verða að engu. Þess vegna er syndin auðvirðilegust allra hluta, af því hún er gagnstæð Guðs vilja, en ætlar þó að koma sínum vilja fram; og þess vegna hlýtur líka hver sá að niðurlægjast, sem sig sjálfan upp hefur, af því hann leitar sinnar eigin dýrðar, en ekki Guðs dýrðar, og fer eptir eigingirni sinni, en ekki eptir Guðs vilja. Því hærra sem maðurinn þannig tyldrar sèr, því dýpra fellur hann; og falla hlýtur hann, því það, sem hann stendur á, er ekki annað en reykur og gufa. Það reynist því jafnan satt, sem Salómon segir: „komi dramb, kemur forsmán" (Orðskv. b. 11., 2.). En þó þessi sannleiki hljóti að vera hverjum manni auðskilinn, sjáum vèr þó, kærir bræður! að hroki og drambsemi eru almennir lestir í veröldinni og birtast í alls konar myndum. Stundum stæra menn sig af ríkidæmi, metorðum, völdum, eða ágæti líkamans, stundum af gáfum og lærdómi, eða jafnvel af guðhræðslu og manndyggðum. En þó tilefni til drambseminnar þannig sè margvíslegt, er hún þó ætíð sjálfri sèr lík í því, að hún kemur

manninum til að upp hefja sjálfan sig, en fyrirlíta aðra, og að hún leiðir hann til niðurlægíngar. Vèr erum allir breyskar og ófullkomnar verur, og getum því ekki reitt oss á vora eigin krapta; ekki getum vèr heldur treyst neinu af þessum tímanlegu hlutum, því þeir eru fallvaltir og hverfulir í eðli sínu; já, vèr getum engu treyst nema eilífum og almáttugum Guði; hann einn er trúr og getur ekki brugðizt, því hann getur ekki afneitað sjálfum sèr. Sá sem styðst við Guð og setur von sína til hans, stendur fast; en sá, sem slítur sig lausan frá honum, hlýtur að hrasa og falla, og þess vegna hlýtur hinn drambláti að niðurlægjast, og það því fremur, sem drambseminni er samfara blindni, andvaraleysi og þverúðarfullt hugarfar. Hinn drambsami heldur, að sèr sè allt óhætt, og sèr því ekki þá hættu, sem honum er búin; af því hann lítilsvirðir aðra, daufheyrist hann við þeirra áminníngum og aðvörunum. Sá, sem stærir sig af stundlegum gæðum, getur ekki ímyndað sèr, að þau muni nokkurn tíma bregðast; og hinn, sem hrokast upp af sínum andlegu yfirburðum, getur ekki sèð ófullkomlegleika sína nè breyskleika sinn. það kemur lítið út af því, að brýna þann sannleika fyrir þessum mönnum, að allir jarðneskir hlutir sèu fallvaltir og byltíngum undirorpnir, eða leiða þeim þeirra hættulega sálarástand fyrir sjónir; það kemur lítið út af því, að hvetja þá til að auðmýkja sig fyrir Guði og leita hans náðar með einlægri iðrun:

þeir þykjast ríkir og einskis þarfnast; þeir þykjast heilir og ekki þurfa læknis við, heldur þakka Guði fyrir, að þeir sèu ekki eins og aðrir menn. — En einhvern tíma hverfa þessar missýníngar, og þá hljóta þeir, sem þannig upp hefja sjálfa sig og lifa í syndsamlegu andvaraleysi, að niðurlægjast; og sælir eru þeir, ef skýlan dettur frá augum þeirra, ef guðsorð getur vakið þá og sundurkramið hjarta þeirra, meðan þeir fá tíma til iðrunar og apturhvarfs, meðan tími náðarinnar yfir stendur; sælir eru þeir, ef þeir láta guðsorð dæma sig og auðmýkja sig, áður en þeir koma fram fyrir dómstól hins rèttláta dómara og heyra hinn eilífa niðurlægíngar og útskúfunar dóm upp kveðinn yfir sèr. Lær þú því í tíma, syndugur maður! að beygja þig undir Guðs voldugu hönd; því hversu fast sem þú þykist standa, hlýtur þú þó að niðurlægjast og falla, ef þú upp hefur sjálfan þig, og ekkert af því, sem þú treystir, getur frelsað þig. Stærir þú þig af ríkidæmi, þá gættu þess, að þú innan lítils tíma hlýtur að yfirgefa auðlegð þína, ef hún ekki yfirgefur þig áður. Stærir þú þig af metorðum, ágæti og fegurð líkamans, eða vináttu veraldarinnar, þá gættu þess, að allir þessir hlutir eru fallvaltir og óstöðugir; þeir hverfa eins og reykur, fölna eins og blómin og breytast eins og veður í lopti. Stærir þú þig af gáfum og vitsmunum þínum, þá gættu þess, að snerti Drottins hönd þig, þá slokknar ljósið í sálu þinni og þú ráfar í myrkri. En

þó þèr auðnaðist að halda öllu þessu til æfiloka, hvað verður úr því þegar þar að kemur, að þú átt að flytja hèðan og ganga veg allrar veraldar? Hvað verður þá úr veraldarinnar gengi og líkamans atgjörfi? Eða munu þá vitsmunir þínir eða það rèttlæti, sem þú stærðir þig af, geta staðizt í Guðs allsherjardómi? Nei, þá hlýtur þú að niðurlægjast, og þá verður það fullkomlega opinbert, að „hver sig sjálfan upp hefur, hann mun niðurlægjast". En þá rætist líka í æðsta skilníngi það náðarfyrirheit, sem oss er gefið í guðsorði, að „hver sig sjálfan niðurlægir, hann mun upp hafinn verða". Ef þú því, kristinn maður! vilt verða upp hafinn af Guði, þá niðurlæg þú sjálfan þig; kannastu við það, að þú ert aumur syndari, og bið þú Guð í Jesú nafni auðmjúklega fyrirgefníngar á syndum þínum; treystu ekki þínu eigin rèttlæti, heldur rèttlæti frelsara þíns; treystu ekki neinum endanlegum hlutum, heldur einúngis Guðs náð og miskunsemi; og þegar þú þannig í auðmýkt hjartans finnur til þess, að þú ert upp á Guð kominn í öllum hlutum, að þú ert ekkert án hans, þá mun hann hjálpa og miskuna þèr, því hann „gefur lítilátum náð". En þegar vèr erum í náð hjá honum, þá höfum vèr alla góða hluti: rèttlæti, frið og fögnuð og eilíft líf. Ó, Guð! láttu þitt heilaga orð vekja oss til eptirtektar á vorum breyskleika og vorri syndasekt; láttu það vekja hjá oss harmþrúnginn og sundurkraminn anda, svo vèr finnum til þess í hjört-

um vorum, að vèr erum dupt og aska, en þú ert sú eilífa hátign; að vèr erum ekkert, en þú ert allt. Æ, vertu oss náðugur og miskunsamur í Jesú nafni! Amen.

---

# 77. hugvekja.

Hebr. 13., 16. „Gleymið ekki velgjörðaseminni og greiðvikninni, því slíkar fórnir eru Guði velþóknanlegar."

Það hættir mörgum við að ímynda sèr, að velgjörðasemi og greiðvikni sè ekki beinlínis skylda vor, heldur sèu það mannelskuverk, sem vèr gjörum fram yfir skyldu vora. Eigingirni verður til að ala þessa röngu ímyndun, af því oss þykir fremd í því, að gjöra meir en skyldan býður og þannig komast fram yfir aðra. En það er engum efa undirorpið, að guðsorð, sem býður oss að elska náunga vorn, býður oss einnig að hjálpa honum og gjöra honum gott, og er það eðlilegt, því hvernig getum vèr elskað aðra, án þess að kenna í brjósti um þá, sem bágt eiga. Hið guðdómlega mannelskuboðorð, sem er óaðskiljanlegt frá sannri guðrækni og lifandi trú, bannar oss ekki einúngis að taka frá öðrum það sem þeir eiga, eða skaða þá á nokkurn hátt, heldur býður það oss einnig, að auðsýna þeim alla þá hjálp, sem þeir við þurfa og í voru valdi stendur. Velgjörðasemin er því beinlínis skylda vor kristinna manna, og það því fremur sem

vèr allir erum limir á sama líkama og börn hins sama algóða himneska föður. Vèr erum allir bræður og systur í Jesú Kristi, og því á annara eymd að vera vor eymd, annara þörf vor þörf, og vèr eigum yfir höfuð að taka hjartanlega og innilega hlutdeild í annara kjörum; og því meira sem oss er lánað, því meira verður einnig í þessu tilliti af oss heimtað. En þess ber oss jafnan vel að gæta, kærir bræður! að öll vor guðræknis og mannelsku verk hafa einúngis að því leyti gildi í Guðs augum, sem þau miða til að fullkomna vorn innra mann, því „guðsríki er innra hjá oss", og ekkert, sem vèr gjörum til eflíngar sáluhjálpar vorrar, kemur oss að haldi, nema það komi frá hjartanu og sè til að eyða löstum vorum, voru holdlega hugarfari og öllu því, sem oss er til einhverrar hindrunar í voru betrunarverki. Þess vegna er það boðorð: að hjálpa bræðrum vorum, klæða þá, vitja þeirra, hugga þá og þjóna þeim, ekki annað en líkami guðhræðslunnar, eða hennar sýnilegi búníngur. Það eru skylduverk hins trúaða; en það er ekki sagt, að hann sè þar sjálfur. Dyggðin á að vaxa og hreinsast í þessum mannelskuverkum, og þau eiga að miða til að gróðursetja oss því betur í kærleikanum og hjálpa oss til að leggja af vora bresti; það er að skilja: til þess að geta náð hinum rètta trúar og guðræknis anda í þessum mannelskuverkum, þá verðum vèr að prófa hjörtu vor við fætur Jesú Krists og í hans náðar ljósi, og í hans

augsýn rannsaka, hverjar syndsamlegar tilhneigíngar ennþá búi hjá oss, og síðan taka fyrir oss þau mannelskuverk, sem girndum vorum eru gagnstæðust og sem sýnast vera bezt löguð til að uppræta þær úr hjörtum vorum. Sèum vèr drambsamir, þá gjörum það sem mest auðmýkir oss; sèum vèr værukærir, þá gjörum það sem kostar mesta áreynslu; sèum vèr hègómagjarnir, þá gjörum það sem minnst ber á í heimsins augum, og yfir höfuð að tala: það sem oss kostar mesta sjálfsafneitun. Hin ytri guðræknisverk verða Guði því að eins velþóknanleg, að þau geti helgað sjálfa oss; en það geta þau því að eins, að þau hjálpi til að laga bresti vora. Með því Jesús Kristur er endir og augnamið lögmálsins, þá miða öll hans boðorð einúngis til þess, að hann geti tekið sèr bústað í hjörtum vorum; hann er sá nýi maður, sem á að myndast innra hjá oss, og öll vor verk miða einúngis til þess, að þessu guðlega verki geti orðið ágengt. Verði því ekki ágengt, þá er allt vort erfiði árangurslaust og einskis virði í Guðs augum, því að Jesús Kristur er sá eini, sem hefir gildi í hans heilögu augum, og allt, sem ekki miðar til að fullkomna hans mynd og líkíngu í sálum vorum, vantar trúarinnar rót; það er sprottið af einhverri eigingirni eða til að sýnast fyrir mönnum; það hefir sín laun út tekið í þessu lífi, en ber ekki ávöxt til eilífs lífs. Hinn gamli maður í oss verður að deyðast, til þess að hinn nýi maður geti lifnað. Allt

sem miðar til að deyða holdsins girndir, en glæða vort trúarlíf, gróðursetur oss æ betur og betur í guðlegri náð. þess vegna verðum vèr að varast það, sem mörgum af oss hættir við, að velja helzt þau mannelskuverk, sem oss falla bezt í geð og sem bezt eiga við lunderni vort og tilhneigíngar vorar. þó er þetta ekki svo að skilja, að hið góða lunderni sè gagnstætt guðlegri náð, því það er einmitt ein af náðargjöfum Guðs, heldur er hitt meiníngin, að vèr bæði eigum að stjórna náttúrufari voru eptir Guðs og skynseminnar boðum, svo það verði ekki að veikleika og villist af rèttri leið, og eigi síður stunda þau góðverk, sem kosta oss einhverja sjálfsafneitun. En því fremur verðum vèr að varast að gjöra góðverk af eigingjörnum hvötum, í launa skyni, eða til þess að fá hrós hjá mönnum. þeir eru, því miður, allt of margir, sem halda, að það bæti úr öllum brestum og yfirsjónum þeirra, ef þeir rètta einhverjum nauðstöddum hjálparhönd, og þeir þannig, ef svo mætti að orði kveða, geti keypt bænrækni, hatur til syndarinnar, sjálfsafneitun og allar kristilegar dyggðir. þá væri Krists ok lètt að bera fyrir holdlega sinnaðan mann; þá væri ekki vegurinn til eilífs lífs vandrataður, nè kóróna rèttlætisins dýrkeypt, ef syndarinn þyrfti ekki neitt annað að gjöra, en láta lítilfjörlegar gjafir í tè. Af elsku til Guðs og manna verður velgjörðasemi vor að spretta, og þegar hún hefir þessa rót, þá er hún sú fórn, sem er

Guði velþóknanleg, því þá er það hjarta vort, sem vèr þannig færum Guði, og þá getum vèr heimfært til vor það hið huggunarríka fyrirheit, að Guð láti ekki einn vatnsdrykk ólaunaðan, og munum á efsta degi með himneskum fögnuði fá að heyra þessi orð af frelsarans munni: „Komið blessuð, börn míns föður! og eignizt það ríki, sem yður var fyrirbúið frá upphafi veraldar ... hvað þèr gjörðuð við einn af þessum mínum minnstu bræðrum, það hafið þèr mèr gjört" (Matth. 25., 34., 40.). Amen.

---

# 78. hugvekja.

1. Jóh. 5., 4. „Allt, sem af Guði er fætt, yfirvinnur heiminn, og vor trú er sigurinn, sem hefir yfirunnið heiminn."

Postulinn talar hèr ekki um heiminn að því leyti, sem hann er handaverk Drottins og vottur um hans almætti, speki og gæzku, heldur að því leyti, sem heimurinn er syndum spilltur og Guði fráhverfur; hann talar um hið illa í heiminum og segir, að allt, sem af Guði sè fætt og þá líka trú vor á Jesúm Krist, hljóti eptir eðli sínu að sigrast á því. En hið illa býr ekki einúngis fyrir utan oss í heiminum, það kemur ekki einúngis utan að oss úr hinum ytra sýnilega heimi, heldur býr það einnig í hjörtum sjálfra vor og kemur innan að úr hugskoti voru. Heimurinn leitast

við að fá inngöngu í hjörtu vor, fá yfirráð yfir hugsunum vorum og tilhneigíngum og draga oss til sín. Þannig kviknar heimselskan í hjarta syndugs manns, svo það að lokunum verður eptirmynd og bergmál hins ytra syndum spillta heims. Allir menn eru eptir eðlisfari sínu holdlega og heimslega sinnaðir, af því þeir eru allir syndugir; en í stað þess, að heimurinn ríkir og ræður í hjarta hins andvaralausa og lastafulla, þá fer hann alltaf mínkandi og rènandi í hjarta hins trúaða, því að í því lýsir sèr sigur trúarinnar, að hún yfirvinnur heiminn í hjarta hins trúaða. Þó trúin sè ein af Guðs náðargjöfum, getur hún þó í fyrstunni verið veik og ófullkomin og blönduð heimslegum og veraldlegum hugmyndum; en trúin þrýstir mönnum til að biðja Guð, og við bænaiðjuna hreinsast og styrkist trúin. Í hjarta hins trúaða geta kviknað ýmislegar efasemdir, sem vilja freista hans til að rengja Guðs opinberaða orð; en þá flýr hann til Drottins og biður hann að senda sèr anda ráðs og skilníngs, er leiði sig í allan sannleika, og þá er eins og nýtt ljós renni upp í sálu hans, svo hann reynir, að guðsorð er líf, andi og sannleikur, reynir, að það er „kraptur Guðs til sáluhjálpar hverjum þeim, sem trúir". Einnig í hjarta hins trúaða geta vaknað samvizkusturlanir, svo honum liggur við að örvænta sèr Guðs náðar, þegar hann hugsar til sinna mörgu synda og yfirsjóna; en þá flýr hann að Jesú krossi, og trúin á Jesúm Krist fullvissar hann

um, að þó syndir hans sèu miklar, þá sè þó Guðs miskunsemi enn meiri, og að það sè „engin fordæmíng framar yfir þeim, sem eru í Jesú Kristi, sem ekki ganga eptir holdinu, heldur eptir andanum". Einnig í hjarta hins trúaða getur vaknað óþreyja og möglun á móti Guði og hans handleiðslu, og óþolinmæði í krossburðinum; en þá finnur hann huggun í guðsorði og hans náðarfyrirheitum, og með frelsarans heilaga dæmi fyrir augum endurminnist hann þess, að allir hlutir verða að þèna þeim til góðs, sem Guð elska"; hann lyptir huganum út yfir eymd og andstreymi þessa lífs til friðarins og sælunnar himnesku bústaða, og sèr í anda þau eilífu verðlaun, sem Guð hefir sínum börnum fyrirhugað; og við þessar hugleiðíngar styrkist traust hans á guðlegri gæzku og speki og hans föðurlegu forsjón, svo hann af hjarta tekur undir með frelsaranum og segir: ekki minn, heldur verði þinn vili! Einnig í hjarta hins trúaða getur vaknað hroki og sjálfsþótti, svo hann þykist vera betri og dyggðugri en aðrir menn, svo hann gleymir því, að hann af Guðs náð er það sem hann er; en trúin sannfærir hann aptur um syndina og minnir hann á þá syndasekt, sem Guðs miskunsemi hefir upp gefið honum fyrir Jesú friðþægíngar sakir; trúin minnir hann á það, sem honum enn er áfátt, og vekur hjá honum sanna auðmýkt og hreinan iðrunaranda; hún segir honum, að hann sè ónýtur þjónn, og að það sem hann hefir, hafi

hann allt þegið af Guðs náð, og eilíft líf sè ekki verðskuldað af hans hálfu, heldur sè það „náðargjöf Guðs í Drottni vorum, Jesú Kristi". Alltaf er svo mikið af heiminum og heimsins ginníngum eptir í hjarta hins trúaða, að hann er undirorpinn ýmislegum freistíngum, sem vilja koma honum til að syndga og draga hann frá Guði. Enn þá minnir trúin hann á bæn og árvekni, minnir hann á að berjast góðri baráttu og standa stöðugur allt til enda. En eins og trúin þannig vinnur sigur yfir heiminum og heimselskunni í hjarta hins trúaða, þannig sigrar hún og fyrir aðstoð Guðs anda hinn ytra syndum spillta heim. Af andans innra vitnisburði um Krist í hjarta hins trúaða sprettur hinn ytri vitnisburður, sem trúaðir bera um frelsara sinn fyrir heiminum. Þegar trúin er sönn og lifandi, getur hún ekki verið aðgjörðalaus, heldur hlýtur hún að lýsa sèr í allri útvortis hegðun mannsins. Trú hjartans og játníng varanna eru eins náskyldar og lífið og hreifíngar þess. Það er eðli lífsins yfir höfuð, að leitast við að koma í ljós og birtast, og eins er lífi trúarinnar varið; hún er ávaxtarsöm í kærleikanum, í elsku til Guðs og manna og hún yfirvinnur hið illa með góðu. Hvernig er nú trú vorri varið, kristnir bræður! Er hún sönn og lifandi? Yfirvinnur hún hið illa í hjörtum vorum og hið illa fyrir utan oss? Æ! megum vèr ekki játa, að hún einatt er köld og dauð, í stað þess að vera heit og lifandi, að heimurinn einatt yfirvinnur hana, í stað þess

að hún ætti að yfirvinna heiminn? Vissulega megum vèr hver og einn viðurkenna þetta, viðurkenna það, að heimselskan einatt kæfir trúna í vorum hjörtum, svo vèr missum sjónar á hinu andlega og eilífa, á Guði og frelsara vorum. Æ, Drottinn! hjálpa þú vantrú vorri, lífgaðu vora dauðu trú, styrktu vora veiku trú, svo vèr ekki fyrirförumst með heiminum, heldur getum unnið sigur trúarinnar og „slökkt öll eldleg skeyti hins vonda", getum varðveitt trúna og góða samvizku allt til enda. Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

---

# 79. hugvekja.

Lúk. 5., 1. Jesús sagði við Símon Pètur: „Legg þú út á djúpið!"

Það er vor mesta huggun í þessu lífi, að vèr vitum, að Jesús Kristur er með sínum trúuðu alla daga allt til veraldarinnar enda; að hann er alstaðar nálægur þar sem tveir eða þrír eru samankomnir í hans nafni; að hann á þessari stundu er mitt á meðal vor og blæs blessun og friði í vor hjörtu, svo vèr getum hlýtt hans orði með andakt og eptirtekt og heimfært það til sjálfra vor. Hann ávarpar sèrhvern af oss með þeim sömu orðum, sem hann forðum ávarpaði Pètur: „Legg þú út á djúpið"! Og hann meinar ekki einúngis með því, að vèr á þessari guðræknisstundu eigum að

snúa hjörtum vorum frá öllum veraldlegum hugsunum, frá daglegum áhyggjum og sorgum, svo vèr getum tekið hans orð inn í djúp sálna vorra og heimfært það til vor í lifandi trú, heldur bendir hann oss einnig með þessum orðum á „dýpt ríkdóms, speki og þekkíngar Guðs", á djúp Guðs miskunar og kærleika, sem er opinberað í Jesú Krists náðarlærdómi, sem streymir gegnum hjörtu allra trúaðra og flytur þá loksins í frelsarans faðmi í friðarins og sælunnar eilífu bústaði. Út á þetta náðarinnar djúp býður frelsarinn öllum þeim að leggja, sem vilja vera hans sannir lærisveinar, til að afla sèr þar hvíldar, friðar og eilífrar sáluhjálpar. Þessu boði hlýðir ekki hin vantrúaða og spillta veröld; hún álítur það allt heimsku, sem Kristur kennir um hið eina nauðsynlega og um þá þörf, sem sè á að afla sèr þeirra himnesku fjársjóða, sem hvorki mölur nè ryð geta grandað; og sjái veröldin einhvern, sem að frelsarans boði ætlar að leggja út á djúpið, þá gjörir hún gys að honum og kallar hann heimskíngja eða trúarvíngul; og verði hún vör við, að sá sem að Drottins boði, í trúnni á Jesúm og í Jesú nafni, leggur út á Guðs náðardjúp, aflar sèr þar syndafyrirgefníngar, rèttlætingar og helgunar, og ávinnur sèr þar nýtt trúarlíf, frið og fögnuð í heilögum anda, þá heldur hún, að þetta sè ekki annað en ímyndun, eða jafnvel lygi og hræsni. Hin vantrúaða veröld er eins nú og hún var á Krists dögum; hún er alltaf

sjálfri sèr lík. En þú, kristinn maður! sem segist trúa á frelsara þinn, ertu líkur lærisveini hans Símoni Pètri í auðsveipni og hlýðni; ertu að hans boði búinn til að leggja út á djúpið, og gjöra það mótmælalaust, sem hann býður þèr? Æ! vèr erum allir trúarveikir og tregir til að afneita sjálfum oss, tregir til að fela oss á hendur Guðs föðurlegu handleiðslu og treysta þeim fyrirheitum, sem hann hefir gefið oss í sínu orði. Sælir værum vèr, ef vèr slepptum öllu hègómlegu trausti á sjálfum oss og vörpuðum allri vorri áhyggju upp á Drottinn, og gæfum oss af öllu hjarta á vald hans mildiríku náðar: þá mundum vèr fljótt taka sinnaskipti og verða að öðrum og betri mönnum. Margir eru þeir til í veröldinni, sem finna til synda sinna og angrast af þeim; þeir hafa engan frið í hjarta sínu og spyrja hryggvir og harmþrúngnir: hver mun lètta þessari byrði af mèr, og hvar mun eg fá krapta til að gjöra það sem gott er? Þeir neyta allra krapta sinna og reyna til þess með góðum áformum og ýmislegum huggunar og hjálpar meðulum, að afla sèr þess friðar, sem þeir þrá og þarfnast; en þeir erfiða dag og nótt og fá ekkert, af því þeir erfiða í sínu eigin nafni. Þeir heyra að sönnu frelsarans getið, sem er kominn til að leita að hinu týnda og glataða og frelsa það, og sem hefir sagt: „Komið til mín allir þèr, sem erfiðið og þúnga eruð hlaðnir, eg skal endurnæra yður"! En þeir þora ekki að leggja út á þetta djúp; þeir

þora ekki að varpa sèr í hans náðarfaðm, eins breyskir og brotlegir og þeir eru. Og þetta er þó eina ráðið til að fá þá synda fyrirgefníngu, sem fyllir sálina með djörfúng, fjöri og þreki til að berjast hinni góðu baráttu trúarinnar. Látum oss því, kærir bræður! leggja út á djúpið, út á friðþægíngardjúpið í Jesú Krists blóði! Fyrst „hann hefir látið semja frið með sínu blóði á krossinum" (Kól 1., 20.), þá látum oss segja: „að þínu boði, Drottinn"! að sönnu er eg stórsyndugur, en þú tekur syndarana að þèr; æ, taktu mig því að þèr! eg þekki ekkert annað til sáluhjálpar en Jesúm Krist og hann krossfestan; fyrirgef þú mèr í hans nafni allar mínar syndir og yfirsjónir: gef þú mèr í hans nafni náð og krapta til lífernisbetrunar! Og þú, sem átt við líkamlega neyð að stríða, við skort á viðurværi fyrir þig og þína; vantreystu ekki guðlegri forsjón; vertu ekki hugsjúkur útaf því, hvað þú eigir að eta og drekka, eða hverju þú eigir að klæðast. Vogaðu þèr í bæninni út á Guðs miskunardjúp, erfiða þú í Jesú nafni og fulltreystu því, að hann muni ekki láta þig nè þína vanmegnast á veginum, heldur senda þèr björg og blessun. Og þú, sem þjáist af sjúkleika líkamans, og þú, sem ert einmana og munaðarlaus í veröldinni, og þú, sem andvarpar yfir þinni veiku trú og þráir ljós og styrk af hæðum, legg þú út á djúpið! Láttu ekki hugfallast þó þú hafir erfiðað um stund og ekkert fengið, þó þú ekki hafir enn fengið bænheyrslu.

Drottins vegir eru opt öðru vísi en vorir vegir; hann einn veit, hvað oss er fyrir beztu, og hann sendir ætíð sína hjálp á hentugasta tíma, og mun vissulega bæta úr böli voru og veita oss huggun og harmalètti, ef vèr ekki þreytumst að biðja. Vèr megum ekki standa hikandi og huglausir með leynilegri vantrú í hjörtum vorum, heldur eigum vèr óhræddir að leggja út á djúp Guðs almættis, miskunar og náðar, og hughraustir segja: „að þínu boði, Drottinn"! og biðja Guð heitt og innilega, í auðmýkt og trúartrausti, og fyrir bænina munum vèr fá hugsvölun og hugarrósemi. Hvað vantar oss þá, kristnir menn! þegar vèr svo opt erum áhyggjufullir og sorgbitnir, svo opt erfiðum, en fáum ekkert. Æ! það er ekki guðleg náð, sem oss vantar, heldur vantar oss trúna og traustið á Guðs náðarfyrirheitum, oss vantar auðmýkt og þá undirgefni undir Guðs vilja, sem útheimtist til þess að sleppa vorum eigingjarna vilja, en varpa oss með lífi og sálu út á Guðs náðardjúp. Það liggur fyrir oss öllum, kærir bræður! fyrr eða síðar að leggja út á djúpið — út á dauðans djúp; og margur leggur þá nauðugur frá landi og illa undir það búinn, af því hann hefir ekki í tíma látið sig bera í hinn guðlega náðarstraum, heldur hafði lagt út á syndarinnar djúp og látið berast fyrir spillíngarinnar straumi. En sá sem með heitum iðrunartárum, með bæn og árvekni leitar Guðs náðar í frelsarans nafni, hann mun aldrei líða skipbrot á trú sinni,

hann þarf ekki að hræðast hinn mikla dauðasæ; hann þarf ekki að hræðast hið mikla eymdadjúp, sem bíður allra þeirra, sem hèr í lífi fyrirlíta ríkdóm Guðs náðar, því framundan sèr lítur hann friðarins hafnir á hinu fagra eilífðarlandi, og þangað verður sál hans flutt í frelsarans faðmi, og þar sýngur hann Guði lof og dýrð um aldir alda. Amen.

---

# 80. hugvekja.

Jóh. 12., 36. Jesús sagði: „Trúið á ljósið meðan þèr hafið ljósið, svo að þèr verðið ljóssins synir."

Jesús kallar sjálfan sig ljós heimsins og heimtar trúna á sig og á Guð (Jóh. 14., 1.), sem skilyrði fyrir því, að geta gengið í ljósinu og orðið ljóssins barn. Þó tímarnir hafi breytzt á margan hátt síðan á Jesú hèrvistardögum, og þó mannlegar kröfur kunni að hafa tekið miklum breytíngum, þá verður þó þessi Krists krafa óumbreytt og æ hin sama til allra manna, á öllum öldum allt til veraldarinnar enda. Alltaf talar hann til vor í sínu heilaga orði, til þess vèr skulum trúa á hann og á vorn himneska föður, og í þessari trú leita sálum vorum hvíldar, friðar og sáluhjálpar; alltaf leitast hann við að vekja iðrun og trú í hjörtum vorum, og viðhalda iðrun og trú hjá þeim, sem hafa snúið sèr til hans og helgað honum hjörtu sín, „svo að þeir verði rótfestir og grundvall-

aðir í kærleikanum, og ásamt öllum heilögum geti skilið, hvílík að sè breidd, lengd, dýpt og hæð Krists elsku, og þekkt, hversu hún yfirgengur allan skilníng, og fullkomnist í allri fullkomnun Guðs" (Efes. 3., 17.—19.). Það er því Krists krafa til vor allra, kærir bræður! að vèr trúum á hann og þann, sem út sendi hann, eða með öðrum orðum: að vèr sèum sannkristnir. Þetta er ekki heimsins krafa til vor, því honum stendur á sama, hvort vèr erum sannkristnir eða ekki; já, að svo miklu leyti, sem „hann liggur í því vonda", þá er honum það heimska og hneyxli, að vèr sèum sannkristnir, því hann gjörir gys að þeim, sem efla sína sáluhjálp með ótta og andvara. Þess vegna getur þú vel komizt áfram í veröldinni, aflað þèr fjár og frama, þó þú sèrt vantrúaður og iðrunarlaus. En með vantrúuðu og iðrunarlausu hjarta getur þú ekki komizt út úr grafarinnar myrkrum. Þegar þú ert staddur á takmörkum tímans og eilífðarinnar, þá er ekki lengur að því spurt, hvort þú hafir verið ríkur eða fátækur, voldugur eða vesall í þessum heimi. Þá verður ekki heldur spurt að þinni veraldlegu vizku, því þó þú „vissir alla leyndardóma og hefðir alla mannlega kunnáttu", þá stoðar það þig ekki þar; því þar er ekki spurt að öðru en því, hvort þú sèrt sannkristinn, hvort þú sèrt sameinaður Guði og frelsara þínum í trú og elsku. Af þessu sjáið þèr, kærir bræður! hversu áríðanda það er, að leggja fyrir sjálfan sig þessa spurníngu: er

eg sannkristinn? og vera búinn að leysa úr þessari spurníngu til hlítar, áður en dauði og eilífð kalla oss til reikníngskapar. Eða er það má ske óþarfi fyrir oss, fyrst vèr berum kristið nafn, að spyrja sjálfa oss, hvort vèr sèum sannkristnir? Æ, nei! bræður góðir! það er sú hættulegasta villa, að þykjast vera sannkristinn, en vera það þó ekki, og deyja með þeirri fölsku huggun, að sálunni sè sáluhjálpin vís. Það er mikið af heiðínglegu hugarfari í sjálfri kristninni, sem telur mönnum trú um, að þá vanti ekkert og að það þurfi ekki annað til að vera kristinn, en að vera skírður og fermdur, fara stundum til kirkju og vera til altaris. Já, í sjálfri kristninni eru margir kristnir einúngis að nafninu til, ekki einúngis þeir, sem lifa í opinberum löstum, heldur og hinir, sem eru trúar- og kærleikslausir, þó þeim verði ekki bornir glæpir á brýn; þeir elska þenna heim af öllu hjarta, en hirða ekki um þá hluti, sem heyra guðsríki til. Sálir þeirra eru gagnteknar af sjálfsþótta, hègómadýrð, heipt, reiði og óþolinmæði; þeir hugsa sjaldan eða aldrei um Guð og frelsarann, sjaldan eða aldrei um dauða, eilífð og dóm, og halda þó að þeir sèu kristnir. Heldur þú, að þetta sè að vera kristinn? Heldur þú, að það sè nóg að taka þá kristilegu trúarlærdóma fram við einstöku hátíðleg tækifæri? Eiga þeir ekki að lifa með oss á heimilum vorum og í voru daglega lífi, og bera ávöxt hjá oss i kristilegri breytni? Vissulega eiga þeir það að

gjöra, og því er það ekki óþarfi, að vèr spyrjum sjálfa oss, hvort vèr sèum sannkristnir, og gjörum það nú þegar meðan náðartíminn yfir stendur, svo vèr vitum vissu vora um það, áður en það er orðið of seint, áður en vèr mætum frammi fyrir Drottins dómstóli. Vèr höfum ekkert í veröldinni að óttast nema það eina, að vèr sèum ekki sankristnir, og þurfum ekki að vera áhyggjufullir um neitt nema það. Ert þú sannkristinn, eða ekki? En er það þá öldúngis nauðsynlegt, að vera annaðhvort? Geta menn ekki verið að nokkru leyti kristnir og að nokkru leyti ekki? Þurfa menn að vera annaðhvort heitir eða kaldir? Menn geta verið hálfvolgir; en um þá segir Kristur: „betra væri, að þú værir annaðhvort kaldur eða heitur; en eins og þú ert nú hálfvolgur, hvorki heitur nè kaldur, mun eg skirpa þèr út af mínum munni" (Opinb. b. 3., 15.—16.). Þessi viðvörunar orð ættu þeir að hugfesta, sem halda, að þeim sè óhætt að vera hálfvolgir í sínum sáluhjálparefnum. Vakna þú því, syndugur maður! sem híngað til hefir sofið, og spyr þú sjálfan þig, hvort þú sèrt sannkristinn? Láttu ekki heiminn tæla þig lengur, því hann er hálfvolgur í sínum kristindómi, þó hann beri kristið nafn; trúðu á ljósið meðan þú hefir ljósið, svo þú ekki standir á síðan ber og aumur og nakinn, þegar sannleikans eilífa ljós umkríngir þig til að prófa og dæma þig. En á hverju þekkist það, að vèr sèum sannkristnir? Það getum vèr þekkt með því að bera vort sálarástand

saman við guðsorð, og sèr í lagi saman við Jesú Krists heilaga eptirdæmi. Fyrir manna sjónum er mismunurinn á sannkristnum og iðrunarlausum opt ómerkjanlegur, og þegar talað er um aðra, eigum vèr að yfirláta Guði dóminn, því hann einn getur dæmt ráð hjartnanna; já, vèr eigum í kærleika að trúa öllu og vona alls hins bezta. Sannur kristindómur er hvorki innifalinn í eintómu útvortis látbragði, nè í döpru og sorgbitnu sinni, heldur í trúuðu og guðelskandi hugarfari, sem vekur djörfúng, frið og fögnuð í hjarta hins trúaða. Kristindómurinn er ekki innifalinn í skyndilegum hugarhræríngum, sem þjóta upp allt í einu og hverfa eins fljótt aptur, heldur í stöðugri hlýðni við Guð og undirgefni undir hans vilja. Margir vikna undir heyrn eða lestri guðsorða, en þessar guðrækilegu tilfinníngar eiga sèr ekki langan aldur hjá þeim, og hafa ekki krapt í sèr til að betra hjörtu þeirra. Það er ekki nóg að vera orðsins heyrari, en ekki þess gjörari, því það er eins og að „skoða andlit sitt í spegli, fara síðan burt og gleyma því" (Jak. 1., 23.). Æ! það er ekki nóg að vera nærri guðsríki, en falla síðan frá, því þess manns hið síðara verður verra hinu fyrra (Matth. 12., 45.). Að þú sèrt sannkristinn, á að þekkjast á því, að þú hafir tekið fyrir þig nýja lífsstefnu, hafir stöðugt samfèlag við Guð og frelsara þinn, og látir þèr í öllu þínu dagfari stjórna af hans orði og anda, en gætir þess þó jafnan í auðmýkt, að þú ert syndugur maður og ónýtur

þjónn, sem átt allt guðlegri náð að þakka. „Trúðu því á ljósið meðan þú hefir ljósið", svo það fylgi þèr inn í dauðans myrkur og þú verðir ljóssins barn; bið þú jafnaðarlega eins og Davíð: „Skapa í mèr hreint hjarta, ó, Guð! og endurnýja í mèr stöðugan anda; kasta mèr ekki burt frá þínu augliti og tak ekki þinn heilaga anda frá mèr" (Sálm. 51., 12.). Biðjum þess allir í Jesú nafni! Amen.

---

# 81. hugvekja.

1. Kor. 10., 13. „Guð er trúr, er ekki mun láta yður rata í freistni fram yfir megn, heldur gjöra þann endi þar á, að þèr getið staðizt hana."

Það lýsir bæði blindni og spillíngu mannanna, að þeir eru svo gjarnir á að fegra og afsaka yfirsjónir sínar. Þeir vilja gjöra sem minnst úr öllum ávirðíngum sínum, annaðhvort með því að telja sèr trú um, að lítið sè í þær varið og að þær sèu ekki annað en það, sem þeir kalla mannlegan breyskleika, eða með því að kenna þær Djöflinum og öðrum mönnum, sem hafi freistað sín og komið sèr til að syndga. Já, sumir eru svo ósvífnir, að þeir kenna Guði um syndina; þeir segjast nú vera svona gjörðir, þeir geti ekki verið öðru vísi, og það verði hver að lifa eptir lund sinni. Það er í sannleika hryggilegt til þess að vita, að öll uppfræðíng í guðsorði, allar þess áminníngar og

Guðs náðarmeðul skuli verða til ónýtis á þessum mönnum. Væri ekki hið illa sjálfum oss að kenna, þá yrði það oss ekki tilreiknað; ef vèr ekki gætum sigrazt á því, þá væri til einskis að bjóða oss að veita því mótstöðu, og náðarmeðulin kæmu oss þá að engu haldi. Að vísu koma freistíngarnar einatt utan að oss, en þær væru aflvana, ef vèr ekki lètum þær æsa þær hinar syndsamlegu girndir, sem búa inni fyrir hjá oss, og beittum Guðs alvæpni gegn þeim. Afl og áhrif freistínganna vex og verður því meira, sem vèr optar látum þær leiða oss afvega. Hafir þú, syndugur maður! látið freistíngarnar tæla þig og leiða þig hvað eptir annað til syndar, þá getur það verið, að þú sèrt búinn að missa þrótt og þrek til hins góða, „því hver sem syndina drýgir, verður syndarinnar þræll"; en varastu að kenna Guði um spillíngu þína, því hann gaf þèr nóga krapta og nóg hjálparmeðul til að sigra freistíngarnar, hefðir þú hagnýtt þèr þetta rèttilega, hefðir þú vakað og beðið. Þegar sagt er í heilagri ritníngu, að Guð freisti mannsins, þá er það meiníngin, að hann gefur manninum tækifæri til að sýna sína trúmennsku og guðrækni; en að öðru leyti freistar hann einskis, heldur þvert á mót frelsar oss frá hinu illa, og „gjörir þann endi á freistíngunni, að vèr fáum staðizt", ef vèr ekki gleymum að vaka og biðja. Meðan maðurinn lifir hèr á jörðinni, er hann sífeldum freistíngum undirorpinn; vèr berum freistínganna visi í sjálfum oss, af því vèr

erum holdlegar verur og eðli vort er spillt. Allir hlutir geta orðið til að freista vor; krossburður og mótlæti freistar vor til óþolinmæði og möglunar yfir Guðs stjórn; velgengni og meðlæti freistar vor til drambsemi og ofmetnaðar. Þetta vort líf er einlægt stríð og barátta; en vèr stríðum ekki einir saman, heldur stríðir Guð með oss, ef vèr vökum og biðjum. Freistíngarnar sitja jafnan á svikráðum við oss, og birtast í ýmislegum búníngi; sèrhver löstur hefir einhverja hlið, sem smjaðrar fyrir eigingirni og breyskleika vorum, og sèrhver synd getur tekið á sig yfirskyn guðhræðslunnar og birzt vorum blinduðu augum í ljóssins engils líki. Og þó leika margir menn sèr að freistíngunum og spaugast að þeim, eins og það væri friður og öllu óhætt og þeim væri engin hætta búin. Óvinurinn vakir, án þess að sofa, en mennirnir sofa, án þess að vaka og biðja. Ef vèr þar á mót gætum þeirrar áminníngar frelsara vors, að vaka og biðja, að vaka yfir sjálfum oss og öllu voru hugarfari, og iðulega biðja Guð af hjarta um hans mildiríku hjálp og aðstoð; ef vèr jafnan gætum þess, að holdið er veikt, þó andinn sè reiðubúinn, svo vèr aldrei freistum Guðs með því að hlaupa í veg fyrir freistíngarnar, eða steypum oss í þær af oftrausti á sjálfum oss, þá geta þær orðið oss til góðs, til framfara og fullkomnunar í dyggð og guðsótta; því eins og gullið reynist í eldinum, eins reynist dyggðin í eldi freistínganna. Þess vegna segir post-

ulinn Jakob: „álítið það mesta fagnaðar efni, bræður mínir! þegar þèr ratið í ýmislegar raunir, því reynsla yðar trúar verkar stöðuglyndi, en stöðuglyndið á að fullkomna verkið, svo að þèr sèuð fullkomnir og algjörðir og í engu brest hafið" (1., 2.—4.); og postulinn Pètur kemst þannig að orði: „látið yður ekki undra, mínir ástkæru! þá eldraun, með hverri þèr reyndir verðið, eins og yður hendi eitthvað óvænt, heldur gleðið yður þar af, að eins og þèr eruð hluttakandi í Krists píslum, eins muni og yðar fögnuður mikill verða, þegar hans dýrð verður opinber" (4., 12.—13.). Og vissulega getur sannkristinn maður glaðzt af þeim freistíngum, sem hann ekki stofnar sèr sjálfur í, því hann veit, að þær koma ekki án tilhlutunar hans himneska föður; hann veit, að allir hlutir og eins freistíngarnar þèna þeim til góðs, sem Guð elska, og að hann lætur engann freistast yfir megn fram; því hann er máttugur í vanmættinum og gefur krapta til að stríða og vinna sigur. Í freistíngunum lærum vèr bezt að þekkja sjálfa oss og vort breyska eðli, hversu trúarveikir vèr erum og óstöðugir í hinu góða, hversu hætt oss er við að mögla yfir Guðs handleiðslu og vantreysta hans fyrirheitum. En þá lærum vèr líka bezt að þekkja Guð, hans heilagleika, almætti og gæzku; þá sjáum vèr bezt, hversu andstyggileg syndin er í Guðs augum, og fellum beisk angurs og iðrunar tár yfir vorum brestum og breyskleika; þá sjáum vèr, að vèr höfum ekkert

af sjálfum oss, heldur eigum Guðs náð alla hluti að þakka; þá finnum vèr, að sèrhvert andartak og sèrhver guðrækileg tilfinning í sálu vorri er náðargjöf Drottins, og þá treystum vèr ekki lengur sjálfum oss, heldur setjum vèr allt vort traust til almáttugs Guðs. Lærum af frelsara vorum, hvernig vèr eigum að ganga sigri hrósandi út úr freistínganna stríði; hann var freistaður á allan hátt eins og vèr, en þó án syndar; hann rak freistarann frá sèr með sínu guðlega orði. Förum eins að; þegar vèr rötum í einhverja freistíngu, þá höfum guðsorð á reiðum höndum og beitum því gegn freistíngunni, því það er beittara hverju tvíeggjuðu sverði. Æ! ef vèr jafnan hugsuðum til þess, að Guð er alstaðar nálægur, að hann sèr allar vorar leynilegustu hugsanir; ef vèr bærum meiri lotníngu fyrir hans eilífu hátign, hans heilagleika og rèttlæti; ef vèr værum þakklátari fyrir hans velgjörðir, og elskuðum hann af hjarta; ef vèr hugsuðum meir um vora eilífu sáluhjálp, og hefðum það jafnan hugfast, hvílíka eymd og ófarsæld vèr bökum oss með syndinni: þá mundum vèr verða varkárari og fastari fyrir í freistíngunum en vèr erum. Úr þessu getur ekkert bætt, nema árvekni og bæn. Vak þú yfir oss, Drottinn! og gef þú oss náð til að geta vakað og beðið, svo vèr sèum hertygjaðir þínu alvæpni, og fáum staðizt allar freistíngar og reynzt þèr trúir allt til dauðans. Bænheyr oss í Jesú nafni! Amen.

---

# 82. hugvekja.

Matth. 7., 24.—25. „Sá sem heyrir þessa mína kenníngu og breytir eptir henni, honum vil eg líkja við forsjálan mann, er byggði hús sitt á bjargi. Nú kom steypiregn og vatnsflóð, stormar risu og buldu á því húsi, en það fèll samt ekki, því það var grundvallað á bjargi."

Eins og Jesús byggði sína kirkju á trúarinnar, kærleikans og vonarinnar fasta grundvelli, eins vildi hann líka byggja hana í hjarta sèrhvers manns á hinu sama óbifanlega hellubjargi; í mannlegum anda vildi hann byggja Guðs musteri: ljóssins og huggunarinnar, náðarinnar og friðarins musteri; því eigi andi vor ekki að vanmegnast, verður hann að búa í ljósi guðlegs sannleika; guðsorð verður að vera lampi vorra fóta og ljós á þessa lífs dimmu og villugjörnu vegum; huggunar þarf líka sálin við í þessum stundlegu þjáníngum, svo hún örmagnist ekki undir krossins byrði; og náðar þarf hún við, svo hún geti fundið hvíld og frið, þegar samvizkan ásakar. Ef þèr því, kærir bræður! leitið sannleika og huggunar af Guði, syndanna fyrirgefníngar og sáluhjálplegrar vonar, þá byggið frið og farsæld yðar á því hellubjargi, sem hvorki haggast í steypiregni, vatnsflóði nè stormum; byggið guðrækni yðar á Jesú Kristi. Skilníngur og tilfinníngar eru lífsöfl vors innra manns. Meðan þau eru sátt og sammála, viðhalda þau friði og rósemi sálarinnar; en verði þau sundurþykk, raskast jafnvægi hennar og

hið innra stríð byrjar. Sönn guðrækni lætur sèr hvorki stjórna af köldum og tilfinníngarlausum skilníngi nè af blindum og hugsunarlausum tilfinníngum; heldur sameinar hún þessa sálarkrapta í kærleika, bæn og andakt. Hún er gagntekin af kristilegri trú, sem upplýsir skilnínginn og vermir hjartað; hún trúir á einn sannan Guð og sèr hann í öllum hlutum, elskar hann í öllum mönnum, óttast hann við sèrhvert fótmál, treystir honum í sèrhverri neyð; hún trúir á Jesúm Krist, Guðs eingetinn son, vorn heilaga og mildiríka frelsara, sem dó fyrir oss og eptirlèt oss heilagt dæmi, er vèr fylgja skyldum, sem er leiðtogi vor til himins og árnaðarmaður vor hjá föðurnum; hún trúir á heilagan anda og gætir þeirra áminnínga, sem hann gefur í guðsorði og vekur í samvizkunni; hún trúir á eilíft líf, og að þá muni allt verða leitt í ljós, sem nú er í myrkrunum hulið, og sèrhverjum goldið eptir hans verkum. Sönn guðrækni stendur stöðug, ekki einúngis í því stríði, sem vaknað getur í sálu mannsins, heldur og í öllum byltíngum og breytíngum hins ytra lífs. Sá mismunur, sem er á útvortis lukkukjörum mannanna, hefir verið mörgum til ásteytíngar. En sá guðhræddi sèr röð og reglu í öllum hlutum; hann sèr Guðs stjórn í því, sem heimurinn kallar hendíng og tilviljun. Enginn hlutur hefir meiri og fljótari áhrif á hugarfar og breytni manna, en meðlæti og mótlæti; en guðræknin stendur stöðug, hvernig sem þetta breytist; hún býr í trúarinnar helgi-

dómi á því guðlega hellubjargi, sem ekki bifast þó vatnsflóð og stormar geysi. Allir menn hafa einhverja byrði að bera, og hinn guðhræddi fer ekki heldur varhluta af örbyrgð, sjúkdómum eða áreitíngum annara manna; en góð samvizka blessar hans litlu efni, lèttir hans mæðubyrði og gefur honum krapta til að yfirvinna hið illa með góðu; hann örvæntir ekki í mótlætinu, því hann veit, að allt kemur frá Guði: meðlæti og mótlæti, líf og dauði; hann veit, að allir hlutir þèna þeim til góðs, sem Guð elska, og að mótlætið miðar til að snúa huga vorum frá heiminum til Guðs, og innræta oss auðmjúkt og kærleiksfullt hugarfar; hann möglar ekki, því hann þekkir í mótlætinu Guðs vísdómsfullu og föðurlegu handleiðslu. En meiri áhrif hefir meðlætið á mannlegt hjarta. Guð hefir að nokkru leyti sett meðlætið í samband við breytni mannsins, og látið hann vera sinnar lukku smið; en sumt lán og meðlæti sendir hann, án þess maðurinn eigi nokkurn þátt í því. En hið drambsama hjarta mannsins vill alla hluti þakka sèr og fyrirhyggju sinni, og gætir þess ekki, hvernig Guð undirbýr og gefur tíma og tækifæri, gjörir veginn greiðari, lætur meðulin í tè og afstýrir hættunum. Þetta hugleiðir sá guðhræddi, því hann skoðar hlutina við ljós trúarinnar; hann minnist þess ekki, að nokkur breytíng hafi svo komið á kjör hans eða hugarfar hans, að hann hafi ekki þegið af Guði ráð, krapta og huggun; hann lofar og vegsamar Guðs gæzku á hverjum morgni og hans vernd

og varðveizlu á hverju kvöldi; hann segir eins og Davíð: „með fögnuði lofa eg þig, Drottinn! þegar eg minnist þín í hvílurúmi mínu og hugsa til þín í þeirri löngu næturvöku, því þú ert mín hjálp, og undir skugga þinna vængja fagna eg" (Sálm. 63., 6.—8.) Hvernig sem lífskjörin breytast, er því guðræknin sjálfri sèr lík, af því hún er ekki byggð á sandi, heldur á fyrirheitum guðsorðs, sem aldrei bregðast þó himin og jörð forgangi. Guðhræðslan stendur stöðug, ekki einúngis í hinu innra stríði hjá manninum sjálfum og í byltíngum mannlegs lífs, heldur og í þeim stormi, sem vèr köllum tímans eða aldarinnar anda, og sem einatt vill feykja og kollvarpa öllum hlutum. Gætum vor fyrir tímans anda; hann kallar sig opt Guðs anda, en er þó ekki annað en heimsins og spillíngarinnar andi. Menn hæla vorum tímum fyrir framför í menntun og upplýsíngu. Guð gæfi, að þetta væri sönn menntun og upplýsing; það er hans eins að dæma tímann. En þó getum vèr þekkt teikn tímanna af þeim ávöxtum, sem þeir bera. Og hverir eru þeir helztu ávextir vorra tíma? þeir eru einkum tveir í andlegum efnum: sjálfræði og hálfvelgja. Menn vilja slíta sig lausa frá allri trú í kristilegum skilníngi og hafa sitt eigið hyggjuvit fyrir æðsta dómara í andlegum efnum, og í fèlagslífinu og heimilislífinu brýst þetta sjálfræði einatt út eins og óhlýðni, þrjózka og þvermóðska hjartans. Yfir hálfvelgjunni er í guðsorði beinlínis felldur hegníngardómur. „Vei þeim, sem kalla hið illa

gott"! Því verður ekki neitað, að menn umbera, fegra og afsaka marga lesti, sem áður þóttu vanvirðufullir og hegníngarverðir. Þessir lestir, sem ætíð verða andstyggilegir í Guðs og allra góðra manna augum, eru sèr í lagi: saurlifnaður, drykkjuskapur og óráðvendni, það er að skilja: svik og prettir í viðskiptum. Sá guðhræddi lætur ekki spillíngaranda tímans hafa áhrif á sig; hann trúir því og treystir, að Guðs andi muni jafnan verða honum yfirsterkari, og að Guð á hverri öld muni geyma heilagt útsæði fyrir ókomna tímann, og hann biður því alltaf hughraustur: „tilkomi þitt ríki, verði þinn vili svo á jörðu sem á himni."

Biðjum Guð þess af hjarta, kærir bræður! að hann láti sitt ríki útbreiðast meðal vor; biðjum hann að gróðursetja oss í sínum kærleika, svo ekkert geti skilið oss við hann; biðjum hann að innræta hjá oss viðbjóð við syndum og löstum, svo vèr í öllu voru dagfari lýsum því, að vèr ástundum að vera hans börn, og höfum byggt vora sáluhjálpar von á því hellubjargi, sem „makt helvítis" ekki getur bifað. Vertu, ó, Guð! vort athvarf og hjartans hlutskipti í Jesú nafni! Amen.

---

# 83. hugvekja.

Hebr. 12., 6. „Hvern þann Drottinn elskar, hinn sama agar hann og typtar.

Flestir viðurkenna það, að meðlæti og velgengni sè Drottins velgjörð, en við hitt vilja færri kannast, að mótlæti og krossburður sè meðal í Guðs agandi föðurhendi oss mönnunum til góðs, og þó segir guðsorð oss þetta með berum orðum, því „hvern þann Drottinn elskar, hinn sama agar hann og typtar." Guð er ætíð náðugur og miskunsamur, og hann vill gjöra oss alla farsæla; en þeir einir, sem elska hann, eru hæfilegir fyrir hans náðarvelgjörðir. Hvorki meðlæti nè mótlæti getur orðið þeim til sannarlegrar blessunar, sem hvorki skipast við hans föðurlegu mildi nè hans agandi föðurhönd, sem hvorki láta meðlæti nè mótlæti vekja hjá sèr elsku til hans, eða þakklæti og hlýðni við hann. Þenna tilgang hefir hann þó með sèrhverju því, sem hann lætur oss að höndum bera; hann vill draga oss til sín, og fá oss til að elska sig og treysta sèr, og þegar hann nær þessum tilgangi hjá oss, þá verður allt, sem oss mætir, oss til blessunar og heilla. Sjúkdómar og vanheilsa líkamans er vissulega þúngur krossburður; en þó er það ein af Guðs náðarvelgjörðum við oss og miðar til vorrar sönnu farsældar, ef vèr berum það með kristilegri þolinmæði og undirgefni undir hans vilja. Um þetta sannfærumst vèr, þegar vèr stöndum hjá sóttarsæng

hins sannkristna og virðum fyrir oss breytni hans í veikindunum; þá sjáum vèr svo berlega, hvernig veikindin verða meðal í Drottins hendi til að efla framför hans og fullkomnun í hinu góða. Hjá honum lýsir Guðs kraptur sèr í kristilegri þolinmæði, sem hvorki sprettur af deyfð og drúnga, nè heiðínglegri uppherðíngu, heldur af kristilegri trúarrót, sem gefur honum þrek til að umbera veikindin með stillíngu, og skoða þau sem nauðsynlega og heilsusamlega reynslu. Að svo miklu leyti, sem hann hefir viðþol fyrir veiki líkamans, leitast hann við að halda sálu sinni vakandi, og með bæn og guðrækilegum hugleiðíngum að grennslast eptir því, hvern tilgang Guðs gæzka og speki hefir með því að leggja honum þenna kross á herðar, því þenna tilgang vill hann uppfylla og bera krossinn með stöðuglyndi. En þó hann ekki geti sèð, hvers vegna Drottinn lætur hann þjást svo lengi og vera svo þúngt haldinn, er hann þó fús til að taka eins við hinu stríða sem hinu blíða úr Guðs hendi, og efast ekki um, að „hvern þann Drottinn elskar, hinn sama agar hann og typtar". Það er eins og hann heyri Jesú raust, er segir við hann, eins og hann sagði við Pètur forðum: „Þú skilur ekki nú það sem eg gjöri, en þú munt seinna skilja það" (Jóh. 13., 7.). Í trausti til Guðs leitar hann sèr þeirra lækninga, sem hann á kost á, en sjái hann, að það sè ekki Guðs vili, að þessi kaleikur verði frá honum tekinn, þá lætur hann þó engan taka

frá sèr trúna, og hún býður honum, að láta sèr nægja Guðs náð. Með trúarinnar augum sèr hann í anda Jesú blóðugu píslarmynd hangandi á krossinum, og segir við sjálfan sig: sjá hið þolinmóða Guðs lamb, sem ber hina þúngu byrði synda minna; vilir þú, sál mín! tileinka þèr krapt hans líðana, þá ber þú þinn kross með hans hugarfari. Endurnýja þú samfèlag við hans líkama, sem fyrir þig var gefinn, og við hans blóð, sem fyrir þig var út hellt til fyrirgefningar syndanna. Hann lyptir trúarinnar augum upp til lausnara síns og sèr í anda, hvernig hann enn eins og forðum býður öllum þjáðum krossberendum að koma til sín til að fá hvíld fyrir sálu sína. Trúin vekur hjá honum innilega löngun eptir að leysast hèðan og vera með Kristi; en gjörir hann þó fúsan á, sè það Drottins vili, að dvelja lengur í líkamanum og fullnægja sinni jarðnesku köllun. En vanmáttur og veikindi líkamans eru stundum svo mikil, að trúin þess á milli eins og dofnar og sálin eins og sofnar; á eptir bænarinnar og andaktarinnar tímum geta komið freistínganna stundir; en einnig í þessari angist og þrengíngum leitast hinn sannkristni við „að tjá sig sem Guðs þjónustumann með mikilli þolinmæði" (2. Kor. 6., 4.). Hann sèr, að þetta miðar til að viðhalda hans kristilegu auðmýkt, og í auðmýkt andvarpar hann og segir: Eg hefi unnið til þinnar hirtíngar, Drottinn minn! eg hefi ekki verið þèr nógu trúr eða hlýðinn; eg hefi ekki verið nógu þakklátur fyrir

allar þínar velgjörðir við mig; eg hefi ekki verið nógu sterkur í trúnni, ekki nógu brennandi í kærleikanum; þó andi minn væri reiðubúinn, var þó holdið jafnan veikt. Æ! þín hönd leggst þúngt á mig, Drottinn! en eg veit þó, að þín hönd er blessuð föðurhönd, og því vil eg kyssa hana og væta hana með heitum iðrunartárum. Í þessu trúarinnar og iðrunarinnar stríði endurnýjast og þroskast hinn innri maður, hvort sem hinn ytri maður aptur rèttist við, eða hrörnar og hrynur. Hryni hann og verði tjaldbúð líkamans að moldu, flyti sál hins sannkristna hèðan, þá fær hún með himneskum fögnuði að reyna, „að þessi jarðneska þrengíng, sem er skammvinn og lèttbær, aflar hinum sannkristna yfirgnæfanlegrar og eilífrar dýrðar" (2. Kor. 4., 17.). En þóknist Drottni, að kalla hann aptur til þessa lífs, skoðar hann þenna reynslutíma með gleði, því hann hefir þá enn betur reynt, að „hörmúngin verkar þolinmæði, en þolinmæðin reynslu, en reynslan von", sem er byggð á Guðs elsku og vitnisburði heilags anda (Rómv. 5., 1.). Þannig styrkir og fullkomnar veikleiki líkamans dyggð og guðrækni hins sannkristna manns. En hvernig er þessu varið fyrir hinum iðrunarlausa? Getur sjúkdómurinn verið annað en hegníng fyrir hann? Getur hann orðið honum til blessunar? Já, hann getur orðið það, því „Guð vill ekki dauða syndarans, heldur að hann snúi sèr og lifi". Langvinnur sjúkdómur, sem lætur sjúklínginn halda óbrjálaðri skynsemi og fullu ráði,

er einatt sú seinasta alvarlega viðvörun, sem himnafaðirinn sendir syndaranum á leiðinni til dómsins og eilífðarinnar. Ó, gættu þessa, syndugur maður! Gættu þess, að sjúkdómurinn er sendur þèr af Drottni, sem læknismeðal, því sál þín er sjúk þegar hún er skilin við Guð, sem er uppspretta lífsins. Þegar þú liggur veikur, þá getur þú ekki lengur barið því við, að þú hafir ekki tíma til að hugsa um þín sáluhjálparefni fyrir þínum daglegu störfum. Hvað aptrar þèr þá frá að hafa allan hugann á því, að búa þig undir eilífðina? Æ! lærðu að finna til þess, að veikindi líkamans eru lèttvæg í samanburði við sjúkleika sálarinnar, að syndin sjálf er sá þýngsti og skæðasti sjúkdómur. Þú sèr, að líf þitt leikur á veikum þræði, og ef hann slitnar, þá verður líkami þinn að moldu og hverfur aptur til jarðarinnar ásamt öllum þínum jarðnesku áhyggjum og sorgum, en sál þín mætir frammi fyrir dómstóli hins heilaga og rèttláta Guðs. Látum oss allir, kærir bræður! hugfesta þann sannleika: að „hvern þann Drottinn elskar, hinn sama agar hann og typtar"; tökum hverju því, sem hann lætur oss að höndum bera, með auðmýkt og þakklæti, og segjum af hjarta: „Lofa þú Drottinn, sála mín! og gleym aldrei hans velgjörðum: hans, sem fyrirgefur þèr þínar syndir og læknar þína veiki, sem leysir líf þitt frá gröfinni og krýnir þig með náð og miskun" (Sálm. 103., 1.—3.). Amen.

---

# 84. hugvekja.

Matth. 5., 4. „Sælir eru sorgbitnir, því þeir munu huggun hljóta."

Margs konar sorgir fáum vèr að reyna í þessu lífi, því mörgum reynist það táradalur. Margur tárast yfir missi ástvina og vandamanna, sem voru þeirra unaður og gleði, þeirra stoð og stytta; margur er hryggur af örbyrgð og atvinnuskorti, margur af því, að hann verður fyrir öfund og álasi, rangsleitni og vanþakklæti annara manna; margur af sjúkleika og veikindum líkamans. Vissulega veitir Jesú lærdómur oss huggun einnig í þessum sorgum, þó þær meir eða minna snerti þetta líf, með því hann kennir oss, að Guðs alvitra og gæzkuríka forsjón vaki yfir oss og stýri öllum hlutum til hins bezta, og að vèr hughraustir getum lypt hjörtum vorum upp til Guðs með bæn og trúnaðartrausti, þegar vèr ástundum að hlýða hans boðum og hafa óflekkaða samvizku fyrir honum. En sú andlega hryggð er þýngri og sárari en allar tímanlegar sorgir, og Jesús er einkanlega sendur til að hugga öll andlega hrygg og harmþrúngin hjörtu. Þegar samvizka syndarans vaknar og hann með angist og ótta rennir augunum til síns undanfarna lífs, þegar hann vantar krapta til að standast áhlaup freistínganna og hann titrandi af kvíða hugsar til ókomna tímans, þá verða hryggðartárin svo beisk, að engin mannleg speki, engin jarðnesk huggun getur þerrað þau, heldur þarf til þess

himneska hugsvölun og þann guðlega náðarlærdóm, að Jesús sè í heiminn kominn til að frelsa syndarana, að Guð vili ekki dauða syndugs manns, heldur að hann snúi sèr og lifi, að sèrhvert harmþrúngið, iðrandi og sundurkramið hjarta geti tileinkað sèr friðþægíngarinnar hugsvalandi náð. Jesú lærdómur veitir huggun í sèrhverri hryggð, nema þeirri, sem er veraldlegs eðlis og kemur til af því, að einhver veraldleg eða syndsamleg áform hafa mistekizt; þessi hryggð leiðir af sèr dauðann, en sú hryggð, sem er eptir Guði, verkar apturhvarf til sáluhjálpar. „Sælir eru sorgbitnir, því þeir munu huggun hljóta". Sælir eru þeir, sem eru sorgbitnir af því, að þeir finna til óverðugleika síns og sinnar syndasektar, því þeir verða huggaðir af frelsaranum. Þegar samvizkan er vöknuð og syndarinn horfir yfir sitt undanfarna líf, þá sèr hann, að hann hefir margt gott vanrækt, margt illt aðhafzt í hugrenníngum, orðum og verkum, mörgum Guðs velgjörðum illa varið, fyrirlitið „ríkdóm hans gæzku, þolinmæði og langlundargeðs", og mörgum náðarstundum syndsamlega burt sóað. Þetta er beisk hugleiðíng fyrir syndugan mann, og hryggur og harmþrúnginn andvarpar hann þá og segir: æ, Guð minn góður! eg er þinnar náðar ómaklegur; „faðir! eg hefi misbrotið við þig og er ekki lengur verður að heita sonur þinn". Á lífsins morgni tókst þú mig þèr í faug og blessaðir mig með von um alls konar andlega blessun í himneskum efnum fyrir Jesúm

Krist; á æskuárunum varst þú mitt skjól og skjöldur, leiðtogi og verndari minn; alltaf var þín náð og gæzka við mig óumbreytt. En eins og Pètur afneitaði eg þèr hvað eptir annað í orði og verki; en þó leiddi þitt blíða og ástríka augnatillit mig aptur á iðrunarinnar veg; eins og Tómas efaðist eg enn um náð og speki þinnar stjórnar og handleiðslu; en þó lèzt þú þitt ljós lýsa mèr á öllum mínum vegum, þín almættishönd leiddi mig, þitt auga fylgdi mèr, þinn kraptur styrkti mig, þinn kærleiki blessaði mig, þín föðurhönd og þitt föðurauga voru ætíð og alstaðar yfir mèr og hjá mèr. Sèrhver sá, sem gaumgæfilega hugleiðir sitt undanfarna líf, hlýtur að hugsa og tala þannig, þegar samvizka hans er vöknuð. En það er sár og svíðandi endurminníng, að hugsa til þess, að hafa móðgað hið mildiríka föðurhjarta, að hafa launað kærleika með kaldsinni, velgjörðir með vanþakklæti, vernd og umhyggju með tilfinníngarleysi. Og þegar þessi endurminníng særir og sundurkremur hjörtu vor, æ! hvort getum vèr þá flúið nema til þín, frelsari vor og Drottinn! þú einn hefir orð hins eilífa lífsins, orð náðarinnar og huggunarinnar fyrir hin hryggvu og iðrandi hjörtun; þú ert vor árnaðarmaður hjá föðurnum, og í þínu blessaða nafni megum vèr hjá honum leita líknar og miskunar, huggunar og friðar. Sælir eru þeir, sem eru sorgbitnir af vanmætti sínum til hins góða, því þeir munu fá styrk og huggun af frelsaranum. Þegar samvizkan er vöknuð,

finnur syndarinn með sárum trega til þess, að holdið er veikt, þó andinn sè reiðubúinn; að hann hefir að sönnu vilja til hins góða, en vantar krapt til framkvæmdarinnar, og að hans sálar óvinir eru margir og freistíngarnar hættulegar. En þessi vanmáttar tilfinníng er vottur um það, að syndarinn er orðinn hæfilegur fyrir Drottins hjálp, sem ekki vill brjóta hinn brákaða reyr, nè slökkva hinn líttloganda hörkveik, heldur er máttugur í veikleikanum og vekur bæði viljann og máttinn eptir sinni velþóknun. „Guði sè lof, sem oss hefir sigurinn gefið fyrir Drottinn vorn, Jesúm Krist". Þegar syndarinn flýr til Jesú og leitar hjá honum liðs og krapta, þá verður hann leiddur og studdur af Jesú anda, svo hann getur hughraustur gengið helgunarinnar veg og megnar alla hluti fyrir hann, sem oss máttuga gjörir. Hann þarf ekki að kvíða því, að falla aptur til sinna fyrri synda, ef hann heldur sèr stöðuglega við frelsara sinn, ef hann treystir því, að „Guð er trúr, sem ekki lætur oss freistast yfir megn fram, heldur gjörir á freistíngunni þá endalykt, að vèr fáum staðizt", og hlýðir þessari Jesú áminníngu: vakið og biðið, svo þèr fallið ekki í freistni.

Verum þá sorgbitnir, ekki af mótlætíngum þessara tíma og mæðu þessa lífs, heldur af syndum vorum og yfirsjónum, og þá munu vèr huggun hljóta. Látum það ganga oss til hjarta, að vèr höfum brotið svo margt og mikið móti góðum Guði í hugrenníngum, orðum og verkum; og þegar vèr iðrumst þessa af öllu hjarta:

þá mun vor hryggð snúast í fögnuð, þá munum vèr finna sálum vorum frið og hvíld í Guðs miskunarfaðmi. Ó! syndirnar urðu mèr óbærileg byrði, og sál mín örmagnaðist undir þeirra þúnga oki; en þá snèri eg mèr til þín, eilífi miskunsemdanna faðir! og sendi bænar og angistar andvörp upp að þínu hásæti. Þegar eg var búinn að reyna, hve lítið öll jarðnesk huggun megnaði að friða mitt hrellda hjarta, þá sá eg, að eg hvergi gat fengið huggun og hvíld nema í frelsara mínum. Og von mín brást ekki; þú hefir heyrt mín hjartans andvörp; þú hefir heyrt það angistar óp, sem eg sendi upp til þín úr hörmúnganna djúpi, og huggað mig með þínum blessuðu fyrirheitum. Æ, þökk sè þèr fyrir þessa hugsvölun, himneski faðir! Huggaður og glaður i þínum ótta leggst eg nú til hvíldar í Jesú nafni, og í hans nafni fel eg þinni föðurgæzku mig og mína í lífi og dauða. Amen.

---

# 85. hugvekja.

Jóh. 1., 16. „Af hans fyllíngu höfum vèr allir meðtekið náð á náð ofan.

Sèrhver sá, sem með athygli rennir augunum yfir mannlegt líf, hlýtur að gjöra þessa játníngu: „af hans fyllíngu höfum vèr allir meðtekið náð á náð ofan". Það er náð, að Guð hefir skapað oss í sinni mynd, með skynsemi og frjálsum vilja,

með heilbrigðum líkama og heilbrigðri sálu. það er náð, að hann með heilagri skírn tók oss í tölu sinna barna og gjörði oss að erfíngjum síns ríkis. Æ, vèr leituðum ekki hans, heldur leitaði hann vor; já, vèr hefðum aldrei leitað hans, hefði hann ekki tekið oss að sèr og opnað oss aðgang til sín. það er náð, að vèr erum fæddir af kristnum foreldrum og að guðsorði var sáð í hjörtu vor, meðan vèr vorum á æskuskeiði; að vèr fengum guðhrædda ástvini og fengum að reyna þeirra nákvæma kærleika. það er náð, að Guð hefir svo opt frelsað oss úr hættum og sjúkdómum. Náð var sèrhver dagur, sèrhver stund og sèrhvert augnablik, sem vèr höfum lifað, sèrhver rólegur svefn, sem styrkti oss, sèrhver fæða, sem saddi oss, sèrhver drykkur, sem svalaði oss, sèrhvert skýli, er verndaði oss fyrir frosti og kulda. Náð var guðshús, sem vèr gengum í; guðsorð, sem vèr lásum eða heyrðum; sunnudagurinn, sem snèri hjörtum vorum til himins; bænin, sem sameinaði oss vorum himneska föður; uppfræðíng í Jesú Krists sáluhjálplega lærdómi; konfirmatiónin, sem endurnýjaði sáttmála vorn við Guð, og sèrhver gangur vor síðan inn að Jesú náðarborði. Náð var sèrhver gleði og sèrhver sorg, er vèr reyndum, sèrhvert framfarastig í sönnum kristindómi, sèrhver nýr vottur um Guðs elsku og trúfesti, sèrhver góð hugsun í sálu vorri, sèrhver guðrækileg tilfinning í brjósti voru; sèrhver sigur, sem vèr höfum unnið yfir freist-

íngunum; sèrhvert hapt, er vèr höfum lagt á vorar holdlegu og syndsamlegu tilhneigíngar; sèrhvert tækifæri, sem oss hefir boðizt til að gjöra öðrum gott, og í stuttu máli: af náð erum vèr það, sem vèr erum; af náð höfum vèr þegið allt, sem vèr höfum, og allt, sem vèr megnum. Allt vort líf frá vöggunni til grafarinnar er einlægt náðardjúp; sèrhvert augnablik, sèrhvert andartak er náðardropi, sèrhver dagur er náðarstraumur. Æ, hver fær upptalið öll merki þinnar náðar, eilífi miskunsemdanna faðir! þín náð við oss er óendanleg eins og þú sjálfur ert óendanlegur. Af náð hefir þú frelsað oss frá eilífum dauða og eilífri glötun, og hvern morgun og hvert kvöld er þín náð ný og fersk yfir oss. Þess vegna er þetta líf sannkallaður náðartími. En hvernig verjum vèr þessum náðartíma? Með hvaða hugarfari tökum vèr á móti öllum þessum náðarvelgjörðum Drottins? Megum vèr ekki með angri og blygðun játa, að vèr erum vanþakklát börn; að vèr þiggjum flestar Guðs velgjörðir í hugsunarleysi, án þess að íhuga hvaðan þær koma eða til hvers þær miða? Æ, hversu hryggilegt er það ekki, að vanþakklæti og þverúð mannanna skuli vera svo mikil, að ekkert skuli geta hrært þá, ekkert vakið þá, nè komið þeim til að hagnýta sèr Guðs náð rèttilega! En af hverju kemur þetta einstaklega vanþakklæti þeirra? Opt kemur það til af lèttúð og hugsunarleysi; þeir hugsa hvorki kvöld nè morgna um þær velgjörðir, sem Drott-

inn veitir þeim; þeir neyta þeirra á hverjum degi, án þess nokkur þakklætis tilfinníng hreifi sèr í brjósti þeirra, eða þeir sendi nokkurt þakklætis andvarp upp til gjafarans allra góðra hluta. Margir tileinka bæði hið blíða og hið stríða, sem fram við oss kemur, náttúrunnar verkunum, eða mannlegum kröptum, án þess að hugsa til Skapara síns, sem tengdi hið óslítanda band milli orsaka og afleiðínga; án þess að hugsa til hans, sem svo dásamlega viðheldur öllum hlutum og lætur bæði gott og illt, blítt og strítt, miða til að ná sínum vísdómsfulla tilgangi. En einhver sú helzta orsök til vanþakklætis við Drottinn er það, að menn finna svo lítið til óverðugleika síns og til þess, hversu óverðskulduð Guðs náð og hans velgjörðir eru. Þeir eru orðnir svo vanir við að þiggja þessa náð og þessar velgjörðir, að þeim finnst, að þeir eigi heimtíng á því. Ef þeir þar á mót hugsuðu til þess, að þeir sem brotlegir syndarar hafa verðskuldað Guðs ónáð og misþóknun, og að þeirra beztu verk eru ófullkomin og hafa til engra launa unnið, þá mundu þeir verða þakklátari við Guð og fúsari á að játa, að þeir eru minni allri hans miskunsemi og trúfesti. En sèu menn nú svo vanþakklátir við Guð á meðlætisdögunum, þá er naumast að búast við þakklæti af þeim fyrir þær náðarvelgjörðir, sem Guð veitir þeim með krossburði og mótlæti. Reynslan sýnir líka, að vanþakklæti í meðlætinu og óánægja og möglun í mótlætinu er vant að fylgjast að, en hvorttveggja sprettur af eigingirni og drambsemi

hjartans. Menn eru svo tregir til að íhuga hina sönnu orsök til þjáninga sinna, eða kannast við, að þær einkanlega eru þeim sjálfum að kenna; optast nær nemur hugurinn staðar við hið ógeðfelda í mótlætinu, en gleymir tilgangi þess, sem er, að það leiði oss til betrunar og, eins og postulinn segir, „færi oss heilsusamlegan ávöxt ráðvendninnar" (Hebr. 12., 11.). Vanþakklæti mannanna við Guð kemur líka til af því, að þeir setja sèr ekki nógu lifandi fyrir sjónir, hve ófarsælar afleiðingar vanþakklæti þeirra hefir, með því það gjörir þá óhæfilega til að færa sèr Guðs náð rèttilega í nyt, og bakar þeim harða hegníngu á dómsins og reikníngskaparins degi.

Æ, það er líka þinni náð að þakka, Drottinn! að vèr getum þakkað þèr af hjarta; veittu oss einnig náð til þess, að geta með þakklátu hjarta fært oss þínar velgjörðir rèttilega í nyt, því þá fyrst verða þær oss sannarlegar náðargjafir, og vèr verðum þá hæfilegir til að meðtaka náð á náð ofan af þinni mildiríku föðurhendi, hæfilegir fyrir eilíft líf, sem er þín náðargjöf í Drottni vorum Jesú Kristi! Amen.

---

# 86. hugvekja.

Síraks b. 2., 4. „Þigg þú hvað sem þèr er úthlutað og vertu þolinmóður í tilbreytni mótgangsins."

Sorg og gleði, skortur og allsnægtir, mótlæti og meðlæti eru þær tilbreytíngar, sem eru

óaðskiljanlegar frá þessu voru jarðneska lífi. Hinn alvitri og gæzkuríki stjórnari heimsins hagar því opt svo, að verkanirnar líkjast orsökunum og lífskjör vor verða eðlilegar afleiðíngar af breytni vorri. Þannig er ómennska og iðjuleysi, svall og óhóf vegurinn til örbyrgðar og volæðis; en iðjusemi og atorka, skynsamleg sparsemi og kærleiksfull eindrægni vegur til velgengni og gæfu. En stundum leitast Drottinn við að fá oss til að taka sinnaskipti með því að breyta vorum högum; þannig sendir hann stundum mótlæti, þegar hann sèr, að maðurinn getur ekki þolað meðlæti. Hann lítillækkar hinn volduga, sem gleymdi að gefa Guði dýrðina, til að kenna honum auðmýkt og hógværð; með skortinum minnir hann hinn eyðslusama á, að fara betur með Guðs gáfur, hinn ágjarna og nízka, að treysta ekki fallvöltum auði, og með öllu móti reynir hann til að sefa elsku vora til hins jarðneska og hverfula, en fá oss til að sækjast eptir hinum andlegu og eilífu gæðum. Stundum hefir Guð þann tilgang með því að breyta högum vorum, að hugga og hughreysta sín börn, svo þau ekki láti hugfallast í þjáníngunum, heldur treysti honum og seti sína von til hans. Allir höfum vèr, ef til vill, reynt þessar breytíngar, kærir bræður! og vitum ekki, nema vèr eptirleiðis fáum þær að reyna. Sá, sem vel gengur, kvíðir fyrir þeim, en hinn mótlætti óskar sèr þeirra; en, því miður, hugsa fæstir um, hvernig þeir eigi að færa sèr þessar bendíngar rètti-

lega í nyt. Þær breytíngar á lífskjörum vorum, sem eiga að miða oss til lærdóms og leiðrèttíngar, eru í því innifaldar, að þau ýmist batna eða vesna. Meðlæti breytist einatt í mótlæti, gleði í sorg. Vèr sjáum einatt auðinn hverfa og hinum heilsuhrausta allt í einu varpað á sóttarsængina; opt verða hjón, sem unnast hugástum, að sjá hvort á bak öðru, og foreldrar, börn og ástvinir standa sorgbitnir og grátandi hjá gröfum þeirra, sem voru þeim til yndis og gleði. Þar á mót sjáum vèr líka, að hagur margra batnar, að Guð sendir mörgum bágstöddum óvænta björg og blessun, mörgum syrgjandi huggun og harmalètti og hrífur margan úr dauðans kverkum, svo þeir hafa orsök til að taka undir með Davíð og segja: „vèr komum í eld og vatn; en þú út leiddir oss, svo vèr skyldum hressast" (Sálm. 66., 12.). Breytast ekki kjör mannsins einatt til hins betra, þegar hann verður var við, hvernig Guð blessar hans litlu efni? og fyrir þessa blessun mundu menn þó optar þakka Guði, ef þeir legðu meiri stund á kristilega nægjusemi. Þegar Guð sendir oss mótlæti, kærir bræður! þá er það einkum þrennt, sem vèr eigum að gæta, sem sè: að snúa oss til hans, sem einn getur bætt úr böli voru; bíða með þolinmæði eptir hans hjálp og liðveizlu og trúlega fylgja þeim bendíngum, sem hann gefur oss til að ráða bót á mótlæti voru. Hvert ættum vèr að flýja í mótlætinu nema til Drottins, sem er almáttugur og getur hjálpað oss, gæzkuríkur og vill

hjálpa oss, og sem af alvizku sinni bezt sèr, hvernig mótlætið miðar til að efla vora farsæld? Því betur sem vèr lærum að sjá þenna gæzkuríka tilgang, því meir sem vèr nálgumst Guð með auðmjúkri og trúaröruggri bæn, og því grandvarari sem vèr verðum í breytni vorri, því fremur megum vèr treysta því, að Guð muni lètta af oss mótlætínganna byrði. Æ! að vèr í skorti, sorg og sjúkdómum hefðum það jafnan hugfast, að flýja til hins eilífa miskunsemdanna föður og fela oss hans mildiríku forsjón á hendur: þá mundum vèr líka læra, að bíða með þolinmæði þess tíma, sem hann eptir alvizku sinni sèr hentugastan til að lètta af oss krossins byrði. Það er ekki ætíð, sem hann álítur oss gagnlegt, að bænheyra oss undir eins og vèr biðjum; en vèr megum ekki þreytast að biðja, heldur eigum vèr að bíða eptir hans hjálp. Hjálparstundin mun þó koma þegar hans speki þóknast, því þegar neyðin er stærst, þá er hans hjálp nálægust; hjálparstundin mun þó koma, þó hún ekki ætíð komi á þann hátt, sem vèr óskum, „því Drottinn er nálægur öllum þeim, sem hann ákalla einlæglega" (Sálm. 145., 18.), og hann dregur stundum hjálpina einmitt til þess, að styrkja þolinmæði vora og undirgefni undir hans vilja. En þetta er ekki innifalið í aðgjörðaleysi, því Drottinn vill, að vèr sem skynsemigæddar verur skulum neyta krapta vorra til þess á leyfilegan hátt að bæta vor lífskjör, og þegar vèr í þessu efni fylgjum þeim bendíngum, sem hann gefur

oss, þá blessar hann viðburði vora. Hinn fátæki á að leita sèr atvinnu, hinn veiki lækníngar, hinn sorgbitni huggunar í guðsorði, og í sèrhverri neyð, sem oss ber að höndum, eigum vèr að verja kröptum vorum samkvæmt Guðs vilja og í hans ótta. Gleym þú því aldrei, kristinn maður! að snúa þèr til Guðs í mótlætinu og auðmýkja þig undir hans voldugu hönd. Leita þú einkanlega í guðsorði huggunar í þrautum og þjáníngum; þó þèr þyki Drottins hjálp dragast, þá forðastu að hafa óleyfileg meðul til að bæta úr neyð þinni; en bíð þú með þolinmæði þeirrar hjálpar, sem kemur frá Guði; fylg þú hans boðum og bendingum og neyttu krapta þinna í hans ótta til að bæta þín lífskjör, og treystu því, að hann muni hjálpa þeim, sem varpa allri áhyggju sinni upp á hann. En sèrt þú, kristni bróðir! frelsaður úr neyðinni, hafir þú fengið hjálp og huggun í raunum þínum: æ, gleymdu þá ekki, að lofa Guð og þakka honum; láttu ekki meðlætið draga hjarta þitt frá honum, eða koma þèr til að ofmetnast og treysta hinum stundlegu og hverfulu gæðum; láttu ekki elsku til heimsins fá yfirhönd í sálu þinni; en láttu Guðs velgjörðir og gæzku vekja hjá þèr óbifanlegt traust til hans, því það gætir þín fyrir áhyggju og sorgum og gjörir þig farsælan bæði hèr og síðarmeir! Já, látum oss í öllum byltíngum og breytíngum þessa lífs halda oss stöðuglega til Guðs: þá getum vèr með sannri hugarrósemi tekið hinni seinustu og

mikilvægustu breytíngu, sem verður á kjörum vorum, og hughraustir sèð dauða vorn nálgast, fullvissir um, að Drottinn, sem leiddi og stjórnaði oss í lífinu, muni ekki slá sinni hendi af oss þegar oss mest á liggur, heldur meðtaka oss með sinni eilífu trúfesti í sinn blessaða náðarfaðm og flytja oss til síns himneska dýrðarríkis, þar sem engin breytíng, þraut eða þjáníng er framar til, heldur eilífur friður og fullsæla.

Gættu vor, góði Guð! í meðlæti og mótlæti, í vöku og svefni, í lífi og dauða, í Jesú nafni! Amen.

---

# 87. hugvekja.

2. Tím. 1., 12. „Fyrir þá skuld líð eg þetta, en mèr þykir það engin vanvirða, því eg veit á hvern eg trúi."

Sæll er sá, sem með greinilegri sannfæríngu og guðrækilegum tilfinníngum getur gjört þessa trúarjátníngu, getur af hjarta tekið undir með postulanum og sagt: „eg veit á hvern eg trúi". Af hverju kemur spillíng mannanna, nema af þeirra trúarleysi og þar af leiðandi hviklyndi og hálfvelgju i þeirra sáluhjálparefnum? Hjá mörgum mönnum eru guðrækilegar tilfinníngar og góð áform; en flesta þeirra vantar staðfestu i tilfinníngunum og framkvæmdarsemi í viljanum. Flestir vilja vera góðir, en þeir vilja vera það

án fyrirhafnar og án þess að láta nokkuð á móti sèr. Sè það heimtað af þeim, að þeir skuli stríða við sínar holdlegu girndir og setja sig á móti spillíngarinnar straumi, þá kasta þeir vopnunum og flýja undan Jesú merkjum. Þenna sannleika staðfestir sorgleg reynsla. Þegar trúin yfirgefur hjarta mannsins, þá er það varnarlaust fyrir árásum freistínganna, og þá veit hann ekki, hvort hann á heldur að treysta Guði, heiminum eða sjálfum sèr; hann verður þá eins og „reyr af vindi skekinn", hrífst ýmist af ótta fyrir Guði eða mönnum og hlýðir ýmist röddu samvizkunnar eða syndsamlegra tilhneigínga. Sæll er því sá, sem í öllum byltíngum og breytíngum þessa lífs geymir sanna og lifandi trú í hjarta sínu, því trúin er sú æðsta hugsun, sú sælufyllsta tilfinníng og hið eilífa og óumbreytanlega í þessari byltínganna veröld. Trúin er innifalin í þeirri óbifanlegu sannfæríngu, að Guð sè allt í öllu, að oss sè ekkert annað nafn gefið en Jesú Krists nafn, sem oss byrjar sáluhólpnum í að verða, og að eilífðin taki við af þessu lífi sem uppskeru og endurgjalds tími; en þessi óbifanlega sannfæríng verður að hafa stöðug áhrif á hugarfar og líferni mannsins; hún verður að lifa í öllum hans athöfnum, í öllum lífsins byltíngum og fylgja honum fram í dauðann. Þessi trú er undirstaða allrar sannrar farsældar, vörn og verndarengill í freistíngunum, áreiðanlegur leiðtogi í meðlæti og mótlæti; hún er sá andi, sem á að lífga og helga vort líf; hún

linar sorgina og helgar gleðina, sigrar syndina og yfirvinnur dauðann. Djúp eru þau sár, sem syndin veitir mannlegu hjarta; beisk er endurminníng syndanna og meðvitund um eigin vanmátt og breyskleika fyrir hina iðrandi sál, og af engu getur hún fengið huggun nema því eina, ef hún veit á hvern hún trúir. Skjöldur trúarinnar er það guðlega vopn, sem sannkristinn maður ávalt ber fyrir sig í stríði og baráttu þessa lífs. Stöðug og lifandi er trú hans á allsvitanda Guð, sem rannsakar hjörtun og sèr allt, sem í myrkrunum er hulið; á heilagan Guð, sem hatar synd og ranglæti; á rèttlátan Guð, sem ekki getur látið óhegnt brotum sinna heilögu boðorða; á allsherjardómara, sem allir á síðan eiga að lúka reikníngskap. En stöðug og lifandi er líka trú hans á miskunsemdanna himneska föður, sem einlægt út rèttir sína mildu hönd og opnar sinn náðarfaðm móti sínum villiráfandi börnum, þegar þau með iðrandi hjörtum snúa aptur frá villu síns vegar; á himneskan frelsara, sem af elsku til mannanna lèt lífið fyrir þá, og sem með sínum heilaga anda vekur, fræðir, styrkir og huggar. Þegar þessi trú er stöðug og lifandi í hjarta mannsins, þá reikar ekki líf hans milli syndar og iðrunar, milli hrösunar og máttvana betrunar, milli góðra áforma og þróttlausrar framkvæmdar; því hann heldur sèr stöðuglega til Guðs með bæn og iðrun; með bæn, af því að hann veit, að friðþægíng fyrir syndina er Guðs verk; með iðrun, af því að

hann veit, að án iðrunar fæst ekki synda fyrirgefníng og að iðranin er samfara stríði við girndir og tilhneigíngar, samfara sjálfsafneitun og áreynslu viljans; hann þekkir hið óslítanda samband milli bænar og iðrunar og veit, að fyrir þeim einum verður himnaríki upp lokið, sem í auðmýkt biður, sem með trúartrausti knýr á og sem með guðrækilegum betrunar áformum leitar að þeim vegi, sem til himins liggur. Veraldlegt lán og lukkugæði eru sá ásteytíngarsteinn, sem trú og guðrækni margra hefir steytt og strandað á; því að í meðlætinu er mönnunum svo hætt við að gleyma Guði, sem öll góð og fullkomin gjöf kemur frá; þeim er svo hætt við að trúa á ríkidæmi, metorð og munað og önnur jarðnesk gæði. En sá sannkristni þar á mót brúkar heiminn eins og þeir, sem ekki hafa heimsins gæðum að fagna, því hann veit, að þessi jarðnesku gæði eru stopul og fallvölt, og hann gleymir ekki þeirri Jesú áminníngu, að safna sèr fjársjóðum á himnum, fjársjóðum guðhræðslunnar og góðrar samvizku; hann veit á hvern hann trúir, og að frelsari hans leið pínu og krossins dauða, þó hann gæti lifað í dýrðlegum fögnuði, af því krossins vegur var vegur Guðs vilja. Að vísu er sorg og neyð mikil trúarraun, en þó einkanlega fyrir holdlega sinnaðan mann, sem festir hjarta sitt við jarðneska hluti; hann trúir á heimsins loforð, og þegar þau bregðast, þá getur hann hvergi leitað sèr huggunar. „Eg veit á hvern eg trúi" segir hinn guðhræddi maður í sorg

og mæðu þessa lífs; eg veit, að miskunsemdanna faðir stjórnar með speki og gæzku mínum högum, að sèrhver sorg og neyð, sem eg ekki baka mèr sjálfur með syndum mínum, er mèr lögð á herðar af Drottni til að reyna og betra mig; en hann mun hjálpa mèr til að bera þessa byrði; eg trúi því og treysti, að þó mótlætínganna kross beygi hinn ytri mann til jarðarinnar, muni hann þó lypta hinum innra manni upp yfir jörðina í kærleika og von; eg trúi því og treysti, að „allt þènar þeim til góðs, sem Guð elska", og að krossins vegur liggur til himins, þegar hann er farinn með kristilegri þolinmæði. Á dauðastundinni, þegar þú, kristinn maður! ert staddur á takmörkum tímans og eilífðarinnar, þegar eilífðarinnar ljós fer að falla á hið útrunna æfiskeið, þá fær mannlegt líf annað útlit og aðra þýðíngu, þá hverfur glis heimsins og allar missýníngar· Hafi þá líf þitt ekki verið annað en blaktandi reyr, án þess að vera byggt á föstum lífernisreglum, eða tómt yfirskyn guðhræðslunnar til að tæla sjálfan þig og aðra, eða holdlegt munaðarlífi: hve óttalegur og friði firrtur hlýtur þá dauði þinn að verða! En í friði fer hinn trúaði hèðan; hann sofnar í Jesú trú, því að í henni lifði hann; „hann veit á hvern hann trúir"; hann trúir á Jesúm, sem hefir lífið og ódauðleikann í ljós leitt, sem sjálfur í dauðans dýpstu neyð hneigði sitt þyrnum stúngna höfuð og fól sinn anda í föðursins hendur. Hinn guðhræddi deyr í friði, því að hann trúir því og treystir, að

hinn eilífi dómari sè líka náðugur og miskunsamur Guð, sem með nærgætnu föðurauga lítur á vorn góða en veika vilja, og fyrirgefur í Jesú nafni allar vorar yfirsjónir, þegar vèr iðrumst þeirra af hjarta. Þín trú, himneski frelsari! sè vor vörn í freistíngunum, vor styrkleiki í þjáníngunum og vor huggun í dauðanum. Amen.

---

# 88. hugvekja.

2. Pèt. 1., 10. „Kappkostið, bræður mínir! að staðfesta yðar köllun og útvalníngu."

Hið einasta ráð til að staðfesta vora köllun og útvalníngu er það, að vèr af fremsta megni kappkostum, að breyta eptir Jesú Krists sáluhjálplega lærdómi og færa oss rèttilega í nyt þau náðarmeðul, sem Guð hefir gefið oss. Ekkert er því eins skaðlegt fyrir vora eilífu farsæld, eins og hálfvelgja í vorum kristindómi og hirðuleysi í að afla oss greinilegrar þekkíngar á Guðs ráði og vilja til vorrar sáluhjálpar, því þessi þekkíng á að vera undirstaða vorrar breytni og ljós á vorum vegum. Hirðuleysi í að vaxa í þekkíngu Drottins vors Jesú Krists leiðir af sèr hirðuleysi í að vaxa í hans náð, hirðuleysi í að staðfesta vora köllun og útvalníngu. Hálfvelgja vor og hirðuleysi vort í trúarbragðaefnum hindrar útbreiðslu guðsríkis. Frelsarinn sjálfur kvartar víða yfir

þessari hindrun, með því hann lýsir Gyðíngunum þannig, að „sjáandi sjái þeir ekki og heyrandi heyri þeir ekki"; og mundi ekki guðsríki bæði fyrr og síðar hafa eflzt og útbreiðzt meir og fengið minni mótspyrnu bæði hjá heiðíngjum og í hjörtum kristinna manna, hefði ekki vanþekkíng og lastafullt líferni þeirra, sem kölluðu sig kristna, gefið af sèr hneyxli og kastað skugga á sjálf trúarbrögðin? Vond og góð eptirdæmi hafa mikil áhrif á útbreiðslu guðsríkis, mikil áhrif á trú og breytni vora. Eins og vond eptirdæmi spilla góðum siðum, þannig verður og dyggðugt og guðrækilegt líferni annara meðal til að styrkja oss í trú og guðsótta, meðal til að staðfesta vora köllun og útvalníngu. Þess vegna gefur postulinn kristnum mönnum þessa áminníngu: „gefum gætur hverir að öðrum, til þess að uppörfa oss til kærleika og góðra verka" (Hebr. 10., 24.). Látum oss, kærir bræður! hlýða þessu boði postulans; látum ekki einúngis góð eptirdæmi annara uppörfa oss til þess, sem gott er, heldur einnig kappkosta, að vera öðrum til fyrirmyndar í góðum verkum, og þannig staðfesta þá í þeirra köllun og útvalníngu. Það ætti ekki að þurfa að brýna þann sannleika fyrir kristnum mönnum, að hirðuleysi í trúarbragðaefnum gjörir oss ófarsæla bæði hèr og síðarmeir. Því meir sem þetta hirðuleysi vex, því óhæfilegri verður syndugur maður til að færa sèr Guðs náð rèttilega í nyt og verða sannkristinn, þangað til hann að lokunum gjörsamlega missir sjónar á

sannleikans vegi og sinni eilífu ákvörðun. Með því að vanrækja bæn til Guðs, heyrn og lestur guðsorðs og umhugsun um sín sáluhjálparefni, með því annaðhvort alls ekki eða þá ranglega að hagnýta sèr Guðs náðarmeðul, sviptir hann sig því, sem átti að verma hans kalda hjarta og vekja hann til iðrunar, og eykur þannig sjálfur óbeit sína á guðsorði, svo það að lokunum verður honum þúngt ok og óbærileg byrði. Já, hverrar sannrar farsældar getur sá vænt sèr, sem ekki leitar hennar á þeim vegi, sem guðsorð vísar oss á? En hvernig á sá að leita hennar þar, sem ekki skeytir um guðsorð, ekki skeytir um, að láta það vera ljós á sínum vegum og lampa sinna fóta? Eða fæst nokkur sannarleg farsæld án hugarrósemi og góðrar samvizku? En getur sönn hugarrósemi og góð samvizka fengizt án guðsótta, án þess að verða handgenginn hans heilaga vilja, sem oss er opinberaður í hans orði? En sú ógæfa, sem skeytíngarleysi um trúarbrögðin leiðir af sèr, sèst bezt af því, að syndugur maður fer þá á mis við þeirra sáluhjálplegu áhrif á sálu sína, og missir um leið af öllu því, sem getur veitt honum huggun í mótlætinu og djörfúng í dauðanum og greitt honum veg til eilífrar sáluhjálpar. „Kappkostum því, bræður mínir! að staðfesta vora köllun og útvalníngu". Kappkostum að ná staðföstum grundvelli í vorum sáluhjálparefnum, þeim grundvelli, sem hvorki líf nè dauði geti haggað. En þessi staðfasti og óbifanlegi grundvöllur er frelsari vor Jesús

Kristur, „því enginn getur annan grundvöll lagt"; hann einn er lífakkeri vorrar vonar; hann einn er, eins og hann sjálfur segir, vegurinn, sannleikurinn og lífið". Með þessum þremur orðum hefir hann táknað sitt þrefalda embætti, sem sè: hið spámannlega, að því leyti sem hann hefir flutt oss sannleikans himneska lærdóm; sitt kennimannlega, eða æðsta prests embætti, að því leyti sem hann hefir opnað oss aðgang til Guðs, og sitt konúnglega embætti, að því leyti sem hann hefir afrekað oss eilíft líf. Með þessu hefir hann lagt hina algildu undirstöðu vorrar köllunar og sáluhjálpar og fullnægt öllum þörfum sálar vorrar; hann hefir fullnægt þeirri þörf skynseminnar að komast til þekkíngar á sannleikanum, með því hann hefir frætt oss um Guðs ráð og hans vilja; þeirri þörf hjartans, að fá frið og huggun í þjáníngunum og við íhugun vorra synda, því hann hefir með sínum dauða útvegað oss fyrirgefníngu syndanna og gjört oss að guðsbörnum, sem getum beðið: abba, elskulegi faðir! „Hver vill nú ásaka Guðs útvalda? Guð er sá, sem rèttlætir. Hver er sá, sem fordæmir? Kristur er sá, sem dáinn er, já, miklu meira, sem líka er upprisinn, sem er við Guðs hægri hönd og biður fyrir oss" (Rómv. 8., 34.). Hann hefir bætt úr vorum veikleika og vanmætti og gefið oss krapta til iðrunar og helgunar, svo vèr megnum alla hluti fyrir hann, sem oss máttuga gjörir. Þess vegna kemur enginn til föðursins nema fyrir soninn. Hann er sann-

leikurinn, sem kennir oss að þekkja föðurinn; hann er vegurinn, sem leiðir oss til föðursins; hann er lífið, sem sameinar oss föðurnum. Í trúnni á hann öðlumst vèr hið sælufulla líf í Guði og um leið þann frið og krapt, sem heimurinn ekki getur gefið. Í trúnni á þig og í elskunni til þín, vor himneski lausnari! viljum vèr kappkosta að staðfesta vora köllun og útvalníngu; vertu máttugur í vorum vanmætti, svo vèr getum unnið sigur trúarinnar og náð því eilífa hnossi, sem þínum trúlyndu þjónum er heitið! Amen.

---

# 89. hugvekja.

Postul. gb. 7., 56. „Sjá! eg sè himnana opna og mannsins son standa til hægri handar Guði."

Þannig mælti Steffanus píslarvottur forðum, þegar hann fullur af heilögum anda leit Guðs dýrð og himininn eins og opnaðist til að veita sál hans móttöku. Sèrhver sannkristinn maður getur tekið sèr þessi orð Steffani í munn, því frelsari vor Jesús Kristur hefir opnað himininn fyrir oss alla, og með sinni friðþægíngu gefið oss kost á að fá inntöku i Guðs himneska ríki við enda þessa vors jarðneska lífs, ef vèr í sannri iðrun og trú búum oss undir hið eilífa lífið og höfum nú þegar umgengni vora á himnum. Sem syndarar höfðum vèr bakað oss Guðs ónáð og unnið til hegníngar og eilífrar glöt-

unar og áttum enga heimtíng á eilífri sælu, og í þessu ástandi voru mátti svo að orði kveða, að himininn væri lokaður fyrir oss. En til að frelsa oss frá hegníngunni og opna oss aðgang til Guðs náðar og eilífrar sáluhjálpar, kom Jesús í heiminn, íklæddist voru holdi og dó til friðþægíngar fyrir vorar og allra manna syndir; og til fullvissu um þetta reis hann upp frá dauðum og sýndi með sinni himnaför, að hann var sá, sem átti að ráða yfir lifendum og dauðum, og getur gjört þá alla sæla, sem koma til Guðs fyrir hann. Þess vegna segir postulinn Páll: „Guð kallaði oss til lífsins með Kristi þá vèr vorum dauðir í misgjörðum vorum, og hefir uppvakið oss og sett oss á himni með Jesú Kristi" (Efes. 2., 5.—6.). Jesús hefir enn fremur opnað himininn fyrir oss með sínum sáluhjálplega lærdómi og sínu heilaga eptirdæmi. Hann hefir kennt oss að þekkja Guðs ráð og vilja til vorrar sáluhjálpar og hvernig vèr fyrir lifandi trú á hann verðum guðsbörn og erfíngjar eilífs lífs, erfíngjar þeirrar eilífu dýrðar, sem oss er fyrirhuguð á himnum; allur hans lærdómur miðar til þess, að minna oss á að búa oss undir eilífðina og brýna fyrir oss þann sannleika, að vèr ekki höfum hèr varanlegan samastað, en að borgarrèttur vor er á himnum; og allt hans heilaga líf miðaði til þess, að sýna oss hvernig vèr gætum náð þessari vorri himnesku ákvörðun; það var hans matur og drykkur, að gjöra vilja síns himneska föðurs; aldrei þreyttist hann af að gjöra gott,

og með óviðjafnanlegri þolinmæði bar hann krossins þúngu byrði og tæmdi kvalanna beiska bikar. Ó, hversu sælir erum vèr, ef vèr fetum í hans fótspor og lærum af honum trúmennsku í vorri köllun, undirgefni undir Guðs vilja og þolinmæði í þjáningum og mótlæti! því þá nálgumst vèr himininn með sèrhverju fótmáli, sem flytur oss nær gröfinni. Jesús hefir opnað himininn fyrir oss, með því hann hefir gefið oss krapta til að feta þann veg, sem þangað liggur. Af sjálfum oss til erum vèr svo veikir og breyskir, að oss mundi lítið verða ágengt á þessum himneska helgunarvegi, ef vèr værum látnir sjálfráðir og hefðum enga æðri hjálp við að styðjast. En lofaður sè góður Guð, sem ásamt sínum eingetna syni hefir gefið oss alla góða hluti. Hann hefir gefið oss sín náðarmeðul, sitt orð og sakramentin, sem eru sýnilegur pantur fyrir hans ósýnilegu náð, og með náðarverkunum síns anda styrkir hann oss í öllu góðu og veitir fyrir árnaðarorð síns eingetna sonar syndanna fyrirgefníngu og krapt til helgunar. Ef vèr nú, kærir bræður! óskum þess, að geta fengið inntöku í himininn og búið oss rèttilega undir eilífðina, þá verðum vèr að gjöra oss rètta hugmynd um, í hverju þetta sè innifalið. Vèr megum ekki ætla, að það sè innifalið í því, endrum og eins, þegar oss gengur eitthvað á móti, að snúa huganum sem snöggvast til Guðs og eilífðarinnar. Nei, þetta er óánægja með veröldina, en ekki gleði af því að hugsa um himininn. Vèr megum ekki heldur ætla, að

það sè innifalið í því, að forðast sèrhverja saklausa gleði, eða vera ætíð með döpru og sorgbitnu sinni og vanrækja vora jarðnesku köllun. Til þess að geta fengið inntöku í himininn, verðum vèr með dyggðugu líferni að sýna, að vèr höfum umgengni vora á himnum, og því verðum vèr að forðast allt, sem Guði er á móti. Með Guðs náð verðum vèr ekki einúngis að forðast sèrhverja synd í orði og verki, heldur einnig leitast við að kæfa allar saurugar girndir og tilhneigíngar. Sá, sem lætur sèr stjórna af syndinni og brýtur Guðs boðorð með geðþekkni, getur ekki haft gleði af því að hugsa til Guðs, eða gjört himininn og eilífa sáluhjálp að aðalmarki og miði óska og eptirlangana sinna. Sú himneska gleði er hrein og heilög gleði í Guði, og við hana getur engin saurug nè holdleg gleði sameinast, og því getum vèr ekki búizt við að fá hlutdeild í henni, nema vèr tökum sinnaskipti og losum oss undan valdi syndarinnar; nema vèr, að postulans boði „keppumst eptir því, sem þar efra er, hvar Kristur situr til hægri handar Guði, og að vèr því deyðum vora jarðnesku limi: frillulífi, saurlifnað, losta, vonda tilteygíngu og ágirnd; afleggjum reiði, stórlyndi, vonzku, lastmælgi, svívirðilegt tal; afklæðumst hinum gamla manni og hans háttalagi, en íklæðumst nýjum, sem endurnýjaður er eptir þess mynd, sem hann hefir skapað" (Kól. 3., 1., 5., 8. og 10.). Til þess að geta fengið inntöku í himininn, verðum vèr að keppa þangað með stöðugri alúð og árvekni, og því

verðum vèr að takmarka óskir vorar og eptirsókn eptir jarðneskum gæðum, og aldrei þannig sækjast eptir þeim, að þau láti oss missa sjónar á vorri eilífu ákvörðun; þvert á mót eigum vèr að geta tekið undir með postulanum og sagt: „eg gleymi því, sem bak við mig er, en seilist eptir því, sem fyrir framan er, og skunda til takmarksins, til þess himneska hnossins, sem Guð fram býður mèr fyrir Jesum Krist" (Filipp. 3., 14.). Þessi orð postulans minna oss á það, að vèr eigum að verja til þess öllum vorum sálar og líkams kröptum, eigum að sýna það í öllu voru lífi, í gleði og sorg, hvort heldur vèr erum í einrúmi eða hjá öðrum, að vor æðsta eptirlangan sè að þóknast Guði og búa oss undir eilífðina. Æ, spyrjum því sjálfa oss, hvað það sè, sem vèr mest sækjumst eptir, hvort það er Guð, hans náð og velþóknun og hans himneska sæla, eða hvort það er auður og önnur fallvölt og hverful gæði þessa lífs? Og ásaki nú samvizkan oss fyrir holdlegt og veraldlegt hugarfar: æ, tökum þá fyrir oss þann alvarlega ásetníng, hèreptir að leita himinsins og búa oss rèttilega undir eilífðina; tökum þenna ásetníng fyrir oss nú þegar, því vèr eigum ekki ráð á morgundeginum, og biðjum Guð af hjarta að vera oss nálægur með sinni mildiríku hjálp og aðstoð. Ástundum að búa oss þannig undir eilífðina, að vèr á dauðastundu vorri sjáum himininn opinn og getum hughraustir falið vorn anda í Drottins hendur. Guð gefi oss náð til þess í Jesú nafni! Amen.

---

# 90. hugvekja.

Jóh. 5., 28.–29. Jesús sagði: „Sá tími mun koma, á hverjum allir þeir, sem í gröfunum eru, munu heyra Guðssonar raust, og þá munu þeir, sem gott hafa gjört, upprísa til sælu, en hinir til fyrirdæmíngar, sem illt hafa að hafzt."

Ritníngin er samtaka daglegri reynslu í að minna oss á, að „vor lífstíð er á fleygiferð, vèr flýtum oss til grafar"; en hún minnir oss líka á, að vèr eigum að fara lengra en til grafarinnar, að á eptir dauðanum kemur dómurinn og reikníngskapurinn. En merkilegt er það, hve lítinn gaum mennirnir gefa þessum aðvarandi röddum, og hversu veikar og lágrómaðar þær eru í samanburði við heimsins háværa glaum og við sorgir og áhyggjur þessa lífs. Nýlega sástu, dauðlegur maður! einn meðbræðra þinna heilan heilsu, en í dag sèr þú hann framliðinn fluttan til grafarinnar, þessa sameiginlega hvílurúms vorra allra. Hvaða tilfinníng hreifir sèr hja þèr við þessa sjón? Er það einúngis jarðarförin og greftranin, sem vekur athygli þitt litla stund? Heyrir þú ekki þá hina alvarlegu rödd, sem segir: „í dag mèr, á morgun þèr"? Hvers vegna eiga menn þá svo sjaldan von á dauðanum og hafa óbeit á komu hans? Látum oss ekki dylja það fyrir sjálfum oss, að þetta kemur til af því, að svo fáir eru undir það búnir að veita honum móttöku og af því að hann truflar veraldlegar sýslanir og alla veraldlega gleði. Getum vèr þá ekki lengur haft þá sömu skoðun á

dauðanum, sem vorir guðræknu feður höfðu, að hann sè friðarins engill, sendur af Drottni til að leiða alla þjáða krossberendur til hvíldar, til að lækna hina sjúku og losa anda vorn úr þessum jarðnesku fjötrum? Vissulega er dauðinn enn sem fyrri Guðs erindreki og leiðsögumaður hans barna til þeirra himnesku föðurhúsa, ef mennirnir vildu gefa gaum að hans erindagjörðum og festu ekki allan huga sinn við jörðina og jarðneska hluti, ef þeir ávalt myndu eptir því, að á eptir dauðanum kemur dómur og reikníngskapur. Já, þessi dómur og reikníngskapur bíður vor allra, svo sannarlega sem Guð er til og heilög veraldarstjórn, svo sannarlega sem Guð er allsvitandi og rannsakar djúp mannlegs hjarta, og sèr allt, sem í myrkrunum er hulið; svo sannarlega sem Guð er almáttugur og hefir í hendi sinni bæði öfl hinnar sýnilegu náttúru og krapta hins ósýnilega heims; svo sannarlega sem hann er heilagur og rèttlátur og hefir ætlað trú, kærleika og dyggðum að vinna sigur yfir vantrú, kærleiksleysi og löstum. Þessi Guðs dómur er þegar byrjaður í samvizku vorri hèr í lífi; en hann fullkomnast í öðru lífi og verður með dýrðlegum hætti auglýstur á þeim hinum mikla degi, sem Guð hefir til sett, þegar hann lætur sinn eingetinn son dæma lifendur og dauða. Þá rætist það í æðsta og fyllsta skilníngi, að „það sem sèrhver sáir, það mun hann og uppskera". Svo framarlega sem vèr erum kristnir, trúum vèr því, að á eptir dauðanum komi dómurinn, og að verk vor muni fylgja

oss, ekki í þeim skilníngi, að vorar jarðnesku áhyggjur og sýslanir muni fylgja oss inn í eilíft líf, því þær heyra til jarðarinnar og hverfa aptur til hennar, þær heyra til hinnar ytri veraldar, sem hverfur sjónum vorum í dauðanum; en í sama augnabliki upp rennur ný veröld, og þar verða kjör vor ákveðin einúngis eptir sannleika og dyggð, og sett í nákvæmasta samband við vort umliðna líf. Sálin í athöfnum vorum og andinn í lífi voru lifir þar í endurminningu og afleiðíngum; en þessi sál og andi, þessi rót og kjarni vors jarðneska lífs er kærleikurinn; hann er það lögmál, sem Jesús mun dæma oss eptir, því þá mun hann segja við oss: „það sem þèr gjörðuð við einn af þessum mínum minnstu bræðrum, það hafið þèr mèr gjört". þessi kærleiki er band fullkomlegleikans og uppfyllíng lögmálsins; hann sameinar mennina Guði og hvern öðrum innbyrðis; hann er það helga hugarfar, sem hefir umgengni sína á himnum, það helga líferni og sú helga trúmennska, sem enginn hlutur getur skilið við Krist, við þann sannleika, sem hann hefir kennt oss, nè þá náð, sem hann hefir afrekað oss; hann er innileg hluttekníng í annara kjörum og einlæg ástundun eptir að efla þeirra heillir. En þessi kærleiki til Guðs og manna er sjaldan eins hreinn og algjör, eins og hann á að vera, í þessum synduga heimi, og þess vegna er sáluhjálpin eitt af kraptaverkum guðlegrar miskunar og hana öðlast þeir, sem í trúnni umfaðma Jesúm: þessa fullkomnu ímynd og opinberun Guðs kærleika á

jörðinni; því ef vèr með trúnaðartrausti tileinkum oss hans friðþægíngu, þá gefur það oss krapta til sjálfsafneitunar, krapta til að leitast við að útbreiða guðsríki í vorum og annara hjörtum og efla heillir meðbræðra vorra. Ó, Jesú! elska og kærleiki var andinn í þínu lífi og dauða, í þínu dæmi, þínum lærdómi og þinni friðþægíngu. Kveiktu hjá oss kærleika og mannelskufullt hugarfar, og þegar vèr með angri finnum til vanmáttar vors í að gjöra hið góða, þegar vèr eigum í stríði við eigingirni og elsku til heimsins: æ, líttu þá, góði Jesú! á vorn reiðubúna anda, afplánaðu vora syndasekt og styrktu oss í veikleika vorum. „Ef þú, Drottinn! vildir tilreikna syndirnar, hver gæti þá staðizt? Ó, ef vèr einúngis með sanni gætum sagt: „viljann til þess góða hefi eg"; ef vèr einúngis gætum fært þèr kærleiksfull hjörtu, þó þau væru veik og breysk; sundurkramin hjörtu, sem hefðu viðbjóð við syndinni, svo vèr með beiskum iðrunartárum gætum sagt: „Drottinn! þú veizt alla hluti, þú veizt, að eg elska þig": æ, þá gætum vèr þó enn, í trausti til dómarans miskunsemi, án skelfíngar hugsað til þess, að gjörðir vorar fylgja oss inn í endalausa eilífð. En hin syndsamlega eigingirni, sem ætíð felur líka í sèr elsku til heimsins og hans lystisemda, er rótin til alls ills; hún vekur stríð og styrjöld milli manna, þrætur og flokkadrætti, hatur og öfund. Eigingirnin hefir á engu mætur nema sjálfri sèr; hún þekkir ekki aðra guðrækni en yfirskynið, ekki aðra mannelsku en þá, sem

fyrst lítur á sinn eigin hag; hún telur til skuldar hjá Guði og mönnum fyrir sín svo kölluðu góðverk, en hefir hèr sín laun út tekið; og á efsta degi mun frelsarinn ávarpa þá, sem hafa þvílíkt hugarfar, með þessum orðum: „ekki þekki eg yður" . . . farið frá mèr, þèr bölvaðir, í þann eilífa eld, sem búinn er Djöflinum og hans árum"! Svo sè þá dauði, eilífð og dómur oss sífelt í vakanda minni, svo vèr í sönnum guðsótta búum oss undir burtför vora hèðan, og gjörum vora útvalníngu vissa: þá getum vèr glaðir rennt huganum fram á leið til eilífðarinnar og dómsins, og treyst því, að vèr verðum á efsta degi taldir meðal Guðs trúlyndu þjóna og fáum æfinlega að vera hjá Kristi. Guð gefi oss til þessa sína náð í Jesú nafni! Amen.

---

# 91. hugvekja.

## Á Aðfangadagskvöld jóla.

Jóh. 1., 52. Jesús sagði: „Hèr eptir munuð þèr sjá himininn opinn og engla Guðs upp fara og niður stíga til mannsins sonar.

„Dýrð sè Guði í upphæðum", sem á þessari helgu nótt opnaði himin sinnar eilífu náðar, og við fæðíngu síns eingetna sonar lèt sína birtu ljóma á jarðríki og sínar himnesku hersveitir boða frið á jörðu og sína velþóknun yfir mönnunum. „Dýrð sè Guði í upphæðum", sem á þessari helgu nóttu lèt sína náðarsól upp renna yfir þeim, sem í myrkrunum sátu, og sendi oss

sinn eingetinn son, sem er ljómi hans dýrðar og ímynd hans veru, og opnaði oss fyrir hann aðgang til sín og sinnar dýrðar á himnum. Við Jesú fæðíngu opnaðist himininn, og þaðan streymdi ljós og líf út yfir hina dimmu og dauðu veröld. Það er næsta eptirtektavert og lærdómsríkt fyrir oss, kærir bræður! að frelsari heimsins fæddist á næturþeli; því eins og hin langa og kalda vetrarnótt vekur löngun eptir lengri dögum, löngun og von um þá hina blíðu daga, sem hèr að ofan flytja með sèr ljós og hita og endurlífgun náttúrunnar: eins þráir og andinn, sem í myrkrunum situr, hina „skæru morgunstjörnu", ylgeisla og lífsfyllíngu frá ljósanna heimkynnum. Í hinum andlegu næturmyrkrum heimsins upp rann „sól rèttlætisins", og hún hefir nú í margar aldir skinið og sent geisla sína út yfir öll lönd allt til heimsins yztu takmarka. Yfir oss skín hún skært og fagurt og stráir himnesku ljósi á þessa vora jarðnesku vegferð, á líf og dauða, á tíma og eilífð. Ó, hversu aumlega værum vèr staddir, hefði Jesús ekki opnað himininn fyrir oss! þá sætum vèr enn í myrkrum villunnar, syndarinnar og dauðans. Einn heiðinn heimspekíngur hefir sagt, „að dagsbirtan eða ljósið væri sú mesta velgjörð, er Guð hefði veitt mönnunum, því án þessa værum vèr blindir, þó vèr hefðum augun opin"; en á þessari helgu nótt upp rann hið mikla ljós heimsins, sem er þeim mun dýrmætara, bjartara og fegra en sólarljósið, sem hið andlega og eilífa er æðra og dýrðlegra en allir sýnilegir hlutir; hið eilífa

orð föðursins birtist oss sem sannleikans, náðarinnar og lífsins orð, og hans orð er kraptur Guðs til sáluhjálpar sèrhverjum, sem trúir. „Enginn hefir nokkurn tíma Guð sèð, því hann býr í því ljósi, sem enginn fær til komizt;" en „sonurinn, sem er í föðursins skauti, hefir sagt oss af honum", og „sá, sem sèr hann, hefir og sèð föðurinn", því hans „dýrð er dýrð hins eingetna sonar föðursins, sem ber alla hluti með orði síns máttar". Í kristindómsins himneska máli, sem er móðurmál allra guðhræddra sálna, kallast hin eilífa, almáttuga, alvitra, heilaga og gæzkuríka vera faðir, Jesú Krists og allra manna faðir, og þetta heilaga föðurnafn, sem minnir oss á kærleika, trúnaðartraust og hlýðni og að vèr erum allir bræður og systur í Jesú Kristi, stráir dýrðlegu ljósi á samband vort við Guð og breytir guðsþekkingu vorri í innilegt trúnaðartraust, í elsku til Guðs og manna af hreinu hjarta og fölskvalausri trú; það stráir himnesku ljósi á allt vort líf bæði hèrna megin og hinu megin grafarinnar; því nú sjáum vèr himininn opinn og hinn eilífa föðurinn breiða náðarfaðminn út á móti sínum villiráfandi börnum; nú sjáum vèr, hvernig hann heldur sinni almáttugu verndarhendi yfir þeim og leiðir þau eptir sínu vísdómsráði; þangað til hann á sáluhjálplegri stund kallar þau hèðan heim til föðurhúsanna, til sinnar himnesku dýrðar, þegar þau í trú og elsku hafa leitazt við að feta í fótspor frelsara síns og trúlega barizt undir hans merkjum. Frelsarinn hefir fengið oss „ljóssins vopn",

sem hjálpa oss til að sigra synd og dauða; hann er höfundur og fullkomnari trúarinnar, sem yfirvinnur heiminn; hann er ímynd Guðs kærleika og fyrirmynd þeirrar elsku, sem fúslega hlýðir Drottins vilja og umber án möglunar allt, sem hann lætur að höndum bera; hann er mark og mið og akkeri þeirrar vonar, sem á iðrunarinnar og sorgarinnar stundum flýr til hans friðþægjandi náðar og lyptir grátandi augum til himins. Þessi himneska birta, sem leggur á vort jarðneska líf, „ljómar kríng um" oss við Jesú fæðíngu, og er geislaskin af hans lífi og lærdómi, af dauða hans á krossinum og hans upprisudýrð Þessi himneska birta, sem forðum ljómaði kríng um Betlehems fjárhirðara, var fagur morgunroði Jesú sáluhjálplega lærdóms, sem fullnægir hinum æðstu þörfum mannlegs anda og veitir öllum allt, sem þeir við þurfa til upplýsíngar og endurnæríngar, til lífs og gleði. til huggunar og blessunar. Jesús hefir með holdtekju sinni opnað oss himininn, með því hann hefir ummyndað eðli vort og gjört það vegsamlegt. „Engill Drottins stóð hjá hirðurunum", sem fengu vitrunina um Jesú fæðíngu. Í því er þessi vegsemd náttúru vorrar innifalin, að fyrir Jesú komu í þenna heim stendur nú hinn æðri andlegi heimur hjá oss eins og verndarengill með sinni helgandi birtu. Þegar maðurinn missti elskuna til sakleysisins og heilagleikans, þá missti hann sjónar á Guði og syndin huldi himininn og sleit sundur það band, sem sameinaði hann við hina æðri ósýnilegu veröld. Í sam-

vizku sinni heyrði maðurinn rödd ens hegnanda rèttlætis; en hið jarðneska dró hann til sín og fjötraði hann í hlekkjum syndsamlegra girnda og tilhneigínga. Þá vitjaði miskunsemdanna eilífi faðir sinna brotlegu barna og sendi oss sinn eingetinn son, sem aptur opnaði oss aðgang til föðursins, gaf oss kost á að verða hans börn og gjörði oss hluttakandi í hans náðareðli. Jesús gjörði eðli vort vegsamlegt, með því að taka á sig náttúru vora og verða oss mönnunum í öllu líkur, að syndinni fráskilinni. Hjá honum var guðleg og mannleg náttúra dásemlega sameinuð. Hann fæddist í fátækt og á þó öll himnesk auðæfi; hann lifði í niðurlægíngu, en var þó himninum æðri; hann gaf sig á vald veikleika mannlegs eðlis, en þó var honum allt vald gefið á himni og jörðu; hann leið pínu og dauða, en er þó sjálfur hið eilífa lífið; hann tók á sig hegníngu syndarinnar, en er þó heilagur; já, hann er Guðs lamb, sem burt ber heimsins syndir. Hver fær útmálað stærð þessarar óendanlegu elsku, þessa eilífa kærleika, sem hefir opnað oss syndugum mönnum himin Guðs náðar, gjört oss hluttakandi í hans dýrðareðli og afrekað oss eilíft líf? Ættum vèr þá ekki meir og meir að forðast myrkrið, sem byrgir fyrir oss himininn, og syndina, sem var orsök í Jesú dauða og sem bakar oss eilífan dauða? Ættum vèr ekki meir og meir að aðhyllast ljósið og fram ganga sem ljóssins börn? Jesús hefir gjört oss hluttakandi í Guðs kærleikseðli;

ættum vèr þá ekki meir og meir að elska Guð, sem elskaði oss að fyrra bragði og fram seldi sinn son fyrir afbrot vor; meir og meir að elska hver annan, fyrst vèr allir erum Guðs börn og Jesú bræður? Hann hefir gjört oss hluttakandi í Guðs eilífu sælu og heitið að vera með oss alla daga; ættum vèr þá ekki að efla vora sáluhjálp með ótta og andvara og fylgja trúlega vorum himneska leiðtoga á lífsins vegi? — „Dýrð sè Guði í upphæðum, friður á jörðu og Guðs velþóknun yfir mönnunum"! þannig hljóðaði lofsöngur hinna himnesku hersveita á hinni helgu fæðíngarnóttu frelsara vors; það var kristindómsins hátignarfulli morgunsálmur, sem vakti mannkynið af hinum langa og fasta svefni villunnar, vantrúarinnar og örvæntíngarinnar; það var kristindómsins himneski morgunsálmur, sem boðaði hinn fagra og dýrðlega náðardag, og þessi lofsöngur mun aldrei taka enda. Ættum vèr þá að byrgja eyru vor fyrir þessum himnesku röddum? Ættum vèr að láta náðardaginn líða og dauðans nótt upp renna yfir oss sofandi í syndum og andvaraleysi? Nei, kærir bræður! Nú er mál komið að vakna og láta Krist lýsa oss; nú er tími til að lofa Guð með vorri öndu og líkama og öllu voru lífi; því nú er sú lífsins hátíð upp runnin, sem sameinar himin og jörð, sem stráir himnesku ljósi á vora jarðnesku vegferð og veitir voru spillta manneðli aptur himneska tign og vegsemd. Æ! höldum þá þessa hátíð og sèrhverja jóla-

hátíð, sem Drottins náð þóknast að láta oss lifa, með guðrækilegu hugarfari og í endurnýjúngu lífdaganna, svo vèr á síðan fáum að hittast á himnum á hinni miklu fagnaðarhátíð eilífðarinnar, hvar englar og útvaldir um aldir alda lofa og vegsama Guð á hæðum. Æ, himneski, mildiríki frelsari! þú hefir af óendanlegri elsku opnað oss himininn og gjört oss að erfingjum eilífs lífs; þú ert ljós heimsins, þú ert sannleikans ljós; dreifðu þeim vantrúar og villu myrkrum, sem enn blinda augu margra í þinni kristni; þú ert hið heilaga kærleikans ljós: æ, lífga þú hin dauðu og kærleikslausu hjörtun, svo þau beri ávöxt til eilífs lífs; vertu oss öllum nú og ætíð nálægur með þinni náð og blessun, og þegar dauðans nótt upp rennur og þetta vort jarðneska líf er á enda: æ, opna þú oss þá himin þinnar dýrðar og meðtaktu vorn anda! Amen.

---

# 92. hugvekja.

## Á gamlaárskvöld.

Kól. 3., 17. „Hvað helzt þèr að hafizt í orði eða verki, það gjörið í nafni Drottins Jesú, þakkandi Guði og föður fyrir hann".

Í Jesú nafni höfum vèr vissulega byrjað þetta útlíðanda ár, því vèr erum kristnir og vitum, að oss er ekkert annað nafn gefið, sem oss byrjar sáluhólpnum í að verða. Í Jesú nafni viljum vèr þá líka enda þetta ár. Guð gæfi, að vèr hefðum lifað það í Jesú nafni; Guð gæfi,

að breytni vor á því hefði verið í Jesú anda og líferni vort sannkristilegt: þá gætum vèr með því meiri hugarrósemi og trúnaðartrausti ákallað hans blessaða nafn á þessum seinasta degi ársins. Vèr stöndum nú á takmörkum hins gamla og hins nýja árs, og sè sèrhvert augnablik vors lífs mikilvægt og áríðanda, þá er það ekki sízt það augnablik, sem skiptir vorum fáu og hverfulu æfiárum. Þetta ár er nú þegar liðið og hvorfið sjónum vorum; það er borið af straumi tímans fram í eilífðarinnar endalausa djúp og kemur aldrei aptur. En þó árið sè liðið, skilur það þó eptir hjá oss ýmislega reynslu, ýmislega endurminníngu þess, er fram við oss hefir komið, og ýmislegt hugarfar, sem vèr flytjum með oss inn í hið nýja ár, sem upp rennur á morgun. Guð gæfi, að það einnig skildi Jesú nafn eptir hjá oss djúpt gróðursett í hjörtum vorum; því áraskiptin eru ekki einúngis mikilvæg vegna þeirrar breytíngar, sem þeim er samfara í hinni sýnilegu náttúru, og af því, að þá byrjar aptur ný tímaröð, heldur og sèr í lagi af því, að þau minna oss á það, að með Jesú komu í heiminn byrjaði hið nýja tímatal guðlegrar náðar og að með honum upp rann ný huggun og blessun í mannlegum hjörtum. Sèrhver áraskipti hafa sína veraldlegu og sína andlegu hlið, af því vèr erum ekki einúngis tímans börn, heldur eigum að vera Guðs börn og erfíngjar eilífs lífs; og getur nú nokkur af oss, sem stöndum á þessum tímans vegamótum, litið með hugarrósemi yfir hinn farna

veg, eða hughraustur litið til hins ókomna vegar, nema hann festi frið og von hjarta síns við Jesú blessaða nafn, sem varir að eilífu, og sem veitir oss huggun í sorginni, hreysti í vanmætti vorum og sigur í voru dauðastríði? Margir flytja einhverja sorg með sèr frá þessu ári inn í hið komanda ár; en sorgin er ýmisleg; sum er lèttbær og gleymist með tímanum, sum er syndsamleg og sprottin af áhyggjum þessa lífs, eða af því að einhverjar veraldlegar vonir hafa brugðizt, einhver syndsamleg fyrirtæki mistekizt; þeim, sem þannig syrgja, hefir Jesú nafn enga huggun að bjóða, heldur einúngis þessi viðvörunarorð: „veraldleg hryggð ollir dauða". En það er til önnur sár og innileg sorg og órósemi hjartans, sem snertir vora eilífu sáluhjálp, og úr henni getur ekki veröldin bætt. Æ! þegar vèr nú á þessum áramótum rennum huganum yfir hið útlíðanda ár, og hugleiðum allar Guðs velgjörðir við oss, allar þær áminníngar, aðvaranir og bendíngar, sem hann hefir sent oss, og jafnframt íhugum, hve vanþakklátir vèr höfum verið, hvernig vèr einatt höfum varið kröptum vorum til hègómlegra sýslana eða jafnvel í syndarinnar þjónustu, hvernig vèr höfum fest hjörtu vor við heiminn og þá hluti, sem í heiminum eru, og hvernig vèr enn höfum látið heilt ár æfi vorrar líða, án þess að hafa borið ávexti betrunarinnar, hlýtur þá ekki þessi hugleiðing að vekja sára og djúpa hryggð í hjörtum vorum yfir vanþakklæti voru við Guð, sem alltaf leit-

ast við að reisa hinn fallna á fætur aptur og leiða hinn villiráfanda á rèttan veg; djúpa hryggð og sáran kvíða í hjörtum vorum, þegar vèr rennum augunum til hins ófarna vegar, sem fram undan oss liggur, til hins nýja ársins, sem nú fer í hönd. Æ! reynum ekki til að hrinda frá oss þessari „hryggð eptir Guði, sem aflar betrunar til sáluhjálpar"; en leitum hinnar sönnu og rèttu huggunar; leitum hennar í Jesú náðar nafni, sem hugsvalar og endurnærir, „þó líf og sál vanmegnist"; leitum hennar með iðrandi og trúuðum hjörtum hjá honum, sem er „vegurinn, sannleikurinn og lífið".

Jesú blessaða nafn veitir oss huggun í hryggðinni og hreysti í vanmætti vorum. Þegar vèr nú í spegli þessa útlíðanda árs virðum fyrir oss hugarfar og líferni vort, þá verum ekki líkir „þeim manni, sem skoðar sinn meðfædda andlitsskapnað í spegli, en gleymir hvílíkur hann er, undir eins og hann er burtgenginn" (Jak. 1., 23.—24.); heldur skoðum það með alvarlegri eptirtekt, þó það kunni að gefa oss tilefni til margvíslegs angurs og órósemi, því ef vèr ekki lærum að þekkja vanmátt og breyskleika vorn, getum vèr ekki leitað oss þeirra krapta, sem vèr við þurfum. Og þegar vèr nú með samvizkusemi rannsökum vort sálarástand, þá verðum vèr þess varir, að oss vantar þrek og stöðuglyndi til að stríða við freistíngarnar og við sorgir og áhyggjur þessa lífs. Jafnvel á þessu útlíðanda ári hefir Jesús lýst oss með ljósi sinnar náðar og sannleika,

en vèr höfum ekki fylgt þess leiðsögn; hann hefir leitazt við að vekja oss með áminníngum samvizkunnar, með sínu orði og með handleiðslu sinni á oss, en vèr höfum ekki viljað vaka nè biðja; hann hefir aðvarað oss með sínu lögmáli, uppörfað oss með sínum náðarfyrirheitum, og talað til vor í kirkjunni og heimahúsum, og þó höfum vèr ekki heyrt hans rödd nè hlýtt henni, og þetta hefir, ef til vill, ekki eins mikið komið til af þverúð og þrjózku hjartans, eins og af lèttúð, hviklyndi og þrekleysi voru. Æ! leitum oss þá liðs og krapta í þessum veikleika vorum, sem beygir oss undir girndanna ok og gjörir oss óþolinmóða, þegar oss ber eitthvað mótdrægt að höndum; leitum oss liðs og krapta hjá frelsara vorum, sem einn hefir orð hins eilífa lífsins og er máttugur í veikleikanum. Þegar vèr af hjarta snúum oss til hans og í hans nafni berjumst við árásir freistínganna og vort holdlega hugarfar; þegar vèr í hans nafni tökum hverju því, sem oss mætir: þá munum vèr vinna sigur; þá munum vèr fá krapta þolinmæðinnar og fela oss á vald Guðs vísdómsfullu og mildiríku handleiðslu, krapta sjálfsafneitunarinnar og undirgefninnar, sem heldur sèr stöðuglega til Drottins og setur alla sína von til hans, og krapta kærleikans, sem umber allt og sem mitt í tárum og trega þessa lífs sèr himneskan fögnuð brosa móti sèr í eilífðarinnar og sælunnar bústöðum. Jesú blessaða nafn veitir oss huggun í hryggðinni, krapta í vanmætti vorum og sigur

í dauðastríði voru. Á hverju ári gengur dauðinn í kring og flytur sorg og söknuð inn í hús og hjörtu dauðlegra manna; á þessu útlíðanda ári hefir hann einnig vitjað margra, kippt mörgum burt í blóma lífsins, víða slitið ástarinnar viðkvæmu bönd og skilið marga eptir munaðarlausa; en hann hefir líka komið til margra eins og friðarins engill, veitt hinum þreyttu hvíld og leyst hina þjáðu undan krossins byrði; og þegar Drottinn lèt þjóna sína fara hèðan í fríði, þá lèt hann þá sofna í Jesú nafni og lagði á varir þeirra þessi blessuðu bænarorð: „Drottinn Jesú, meðtaktu minn anda!" Já, þeir eru farnir í friði og komnir heim til föðurhúsanna; en eptir Guðs alvísa ráði stöndum vèr enn óupprættir í hans náðarakri. Enginn af oss veit, hve lengi honum er ætlað að dvelja hèr; enginn af oss veit, nema hið nýja ár, sem upp rennur á morgun, flyti oss þenna boðskap: „eg tek þig burt af jörðinni; á þessu ári muntu deyja" (Jerem. 28., 16.). Æ! hugfestum þessi orð og látum þau minna oss á að vaka og biðja: vaka til þess með enn meiri árvekni að gegna vorum skyldum, útbreiða frið og blessun í vorum verkahríng, bera meðlætið með auðmjúku og þakklátu hugarfari, mótlætið með stöðuglyndi og undirgefni undir Guðs vilja, sorgina með kristilegri stillíngu og jafnaðargeði; látum þau minna oss á að biðja: biðja þess, að mega deyja með Jesú nafn í hjartanu og í krapti þessa heilaga nafns geta sigrað dauðans beiskju; biðja þess, að

vort seinasta andvarp verði eins og hans: „faðir, í þínar hendur fel eg minn anda!" og að vèr svo deyjandi megum hníga í faðm vors himneska föðurs. Þetta er að vinna sigur í dauðastríðinu; það er að deyja í þínu nafni, Jesú minn! Æ! svo endi þá þetta og sèrhvert ár í Jesú nafni; í hans nafni kveðjum vèr þetta ár og heilsum hinu komanda ári. Þetta ár er þegar liðið; dagar þess eru skrifaðir á lífsins bók, en þau verk, sem vèr vinnum á því, mæta oss aptur frammi fyrir Drottins dómstóli. Blessuð sè endurminníng þessa árs fyrir öll þau andlegu og tímanlegu gæði, sem það færði oss af hæðum og sem miðuðu til vorra sálarheilla, hefðum vèr matið þau og varið þeim rèttilega; en vissulega stendur líka endurminníng þess skrifuð með tárum í margra hjörtum, bæði með syndarinnar og saknaðarins tárum; Guð gæfi, að hún einnig væri skrifuð þar með iðrunarinnar tárum og með þessu andvarpi hjartans: „Guð, vertu mèr syndugum líknsamur!" Guð gæfi, að hún líka væri skrifuð þar með undirgefninnar tárum og þessu þakklætisandvarpi: „Drottinn gaf, Drottinn burt tók; sè nafnið Drottins vegsamað!" Í Drottins nafni upp renni þá einnig hið nýja náðarár; hvort heldur það flytur oss sorg eða gleði, líf eða dauða, þá flytur það oss Drottins vilja; komi það einúngis í Jesú nafni og gefi oss huggun og krapta, sigur og frið. Ó, Guð! gef þú oss öllum þinn frið og þína blessun í lífi og dauða; gef þú oss að geta lifað og dáið í Jesú nafni! Bænheyr oss í hans nafni! Amen.



